# Kongs
# CHRISTIANS
## Þess
# Fim̄ta
# Norsku Log
á Islendsku Utlogd.



Þrykt í Hrappsey af Gudmunde Olafssyne 1779.



er Christian sa Fimte af Guds Naud, Kongur til Danmerkur og Noregs, Vinda og Gavta, Hertoge i Slesviik, Holstein, Stormarn og Dytmersken, Greife i Oldenborg og Delmenhorst;

Giørum her med fyrer øllum vitanlegt, ad eins og GUDS OTTE og RETTVISIN eru þær tvær helstu Styttur og Høfudstoder, fyrer hvoriar ad Lønd og Rike stadfestaz og vidhaldaz i stadfastre Blómstrun og Velstande, og so sem Gud sá Almáttugaste hefur til þeß fyrsta gefed oß Orsøk i þessum nordustu Løndum, hvar hann so Nádarsamlega hefur láted qveikia síns Ords og Evangelii skiæra Liós, sem medal vor openberlega og yfer allt skín og lýser til Stirkíngar þeim rettu og sønnu Trúarbrøgdum, sem eru innefalen i skinsamlegum og rettsinnudum GUDS OTTA og DYRKUN. So er og til þeß annars, sem er RETTUR og RETTVISE i Løndum og Ríkium ad Stadfesta, miøg navdsynlegt ad tilsetia og skicka soddan Løg, hvar med RETTVISIN verde vardveitt



fyr-

fyrer ollu Ofbellde og Algánge; þvi ef ad hvor einn Madur være rettsinnadur og vilde nægiaz med þad, sem honum med Rettu ber og sækte ecke síns Náúnga Skada, heldur giørde honum eins Rett og hann vilde láta siálfum ser giøra, þá þyrfte aungra Laga vid; enn þar fyrer eru Login sett, ad þeir Rettvísu og Fridsomu mege nióta síns Rettar, og ad þeir Orettvísu og Ránglátu, sem ei villia giøra Rett epter þvi, sem í Logunum skrifad er, kunne fyrer þad Straff, sem í Logunum sett er, verda hindrader frá ad giøra Orett. Þetta hafa Vorer Elskulegu Forfedur, Hálofleger Konúngar í Danmørk og Norege miked vel grundad, yfervegad og umþenkt, sem hafa þarfyrer, einn epter annann, sett Undersátunum til Þarfa og Nytsemdar Log og Rett í Ríkiunum. Enn fyrer þvi ad Login í gamla Daga lódu meir í Undersátanna Minne, enn nockurre skrifadre Logbók, þá hafa Fordum þeir Háloflegu Konúngar í Norvege fyrer nockrum hundrud Arum láted giøra adskilianlegar skrifadar Logbækur, hvar epter Dómararner skyldu dæma og Undersátarner rettaz. Enn ser í lage let Magnús Kóngur Hákonarson, sem Vegna þess, ad Hann framyfer sína Forfedur Logen umbætte, var kalladur LAGABETER, med Kostgiæfne, safna ollum þeim Logum, sem á þeim Døgum brúkanleg voru, hvor á sínu serlegu Rettarþínge í Norvege, og þó í ymsu sundurleit; og so ad Undersátarner, sem hofdu einn Gud, eina Trú og einn Konúng í sama Rike, ecke skyldu vera adskilder, vid ser í lage adgreindar Logbækur og Rettargáng, þá tók hann af þeim so miked, sem til Landsins og Innbyggiaranna Navdþurftar var þienanlegt, og let þad setia í eina serdeiles Logbók, hvorre og so aller Norvegs Innbyggiarar hafa sídan epterfylgt, so ad allt þad Ríke hefur þar epter rettad og dæmt vered. Loksens, þá med Tíma lengdinne og Túngumálsins merkelegre, umbreiting Tíd epter Tíd, margt

fann=

sannz Part, sem þurfte betre Upplysing, hafa þeir epterfylgiande Koniúngar orded med morgum og nyiusum Rettarbótum og opnum Brefum ad umbreita sonni Logum edur þavg ad útskíra, þar til ad Vor Elskulege, kiære Hr. Fodurfader, Háloflegrar Minningar CHRISTIAN KONGUR sa FIORDE, epter Norvegs Rikes Innbyggiara allraunderdánugustu Bón og Beidne, fyrertók ser allranádugast, þad Norsku Log, sem fyrer Hans Regeringar Tíd hofdu vered so Efasom og Myrk, soleides ad Utskíra, Umbæta og í góda Ordu setia, ad bæde Dómarar og Málspartar giætu þad hæglega skiled og þeim epterfylgt, hvad og i þann Máta er fullkomnad, ad Norvegs Log, med ollum gomlum og nyium Rettarbótum, þeim ollum sem epter Tímanna Asigkomulage þenanlegar voru, hvorre á sínum Stad, eru innfærd, og í einne Bók, Ar 1604, á Prent útgefen. Enn fyrer þvi ad Ver allranádugast vorum komner ad Raun um þad, ad adskilianlegt enn nú framar kynne þiena og mikelega þyrfte til somu Logbókar frekare Umbótar, Ver og so allareidu hofum allranádugast gefed Vor Donsku Log ollum Undersátum í Voru Rike Danmork til Gagns og Besta; þá, uppá þad ad einn og serhver skule vita og formerkia ad Ver somu Kóngslegu Umsorgun berum fyrer Vorum kiærum og trúum Undersátum í ollum Vorum Ríkium og Londum og serdeiles þarfyrer, ad Rettur og Rettvise kunne yfer allt ad hafa sama Genge, og þad almenniselega Besta stirkiaz sem mest mogulegt er, hofum Ver fyrer Gott funded og Naudsynlegt þótt, ad su híngad til brúkanlega Norska Logbók, med þeim fyrre Recessum, so vel sem odrum Kónglegum Ordinantzum og Forordningum Norvege vidkomande, sem i Hædstnefnds Vors Sál. Hr. Fodurfodur og í Vors Elskulega, Kiæra Hr. Fodur Sál. og Háverdugustu Minningar FRIDERIKS

KONGS þeß ÞRIDJA, so vel sem Vorre egen Konúnglegu Regeríngar Tíd eru útgeugnar, være á ny eptersed, uppá þad ad allt þad sem þar i enn nú fyndez þúngskiled, med skilianlegre Ordum yrde útskírt, hvort Efne ordulega sett á hentugann Stad, og í vissar Bækur og Capitula soleides skipt, ad þesse Norska, med Vorre til forna gefenne DÖNSKU LÖGBOK í Nidurradan, Meining og Ordum, sem mest mögulegt var, og hvar Norvegs Asigkomulag þad ei odruvís naudsynlega útkrafde, kynne ad samstemma. Þvi hofum Ver allranádugast befalad nockrum af Vorum trúu Undersátum og Embættesmonnum, sem í Norvegs Logum og um̃ Landsins Tilstand kunnugt var, þetta Verk strax ad biria og fullgiora; og þegar þad soleides var búed ad samsetia, hofum Ver láted þad kostgiæfelega Yferskoda og gaumgiæfelega Yfervega enn nú framar af ödrum af Voru Ráde og Embættesmonnum í bádum Vorum Ríkium Danmörk og Norveg, so og endelega siálfer gefed Vora allranáduguſtu Alyktun um̃ allt þad, sem Billegt edur Naudsynlegt kann hafa vered álited þar í, annadhvort ad Tilleggia, Um̃breita edur Frátaka. Og er serdeileslega útelátted: Fyrst allt þad sem ecke gat samqvæmt vered med Vorum Konúnglega Einvalds Arfa Regeríngar Rette: Þar næst er útelátted þad sem híngad til er funded ad hafa orsakad, vegna Meinsæres, Guds Reide, sem og vegna vidtløftugra og lángsamra Processa, stóran Kostnad og Fátækt hiá Undersátunum, og þó hvörke Sannleikurinn vid þesse Medøl, edur slíkan Laganna Máta ad vera í Liós komenn, miklu sídur sá Naudlídande ad hafa nád sínum Rette. J þridia Máta er af þessare Løgbók útelátted allt hvad Politien egenlega vidkemur, hvar um̃ eingen so stadføst Løg edur Anordníngar kunna ad gioraz, sem ei epter Tímanna Hentugleikum kunne ad þurfa eina edur adra Um̃breitíng. Hvar fyrer Ver slík um̃breitanleg Løg og An=

Anordningar, sem þó óbriótanlega samt skulu haldaz, þar til odruvís allranádugast verdur tilskipad, í einne serlegre Bók kollud Politi-Ordning, vilium láta samsetia, og vilium ei hafa þær innfærdar og blandadar med þessum Logum, sem í Voru Ríke Norvege skulu her epter í æfarande Brúkun vera. Loksens, fyrer þvi ad Login ega logud ad vera epter hvors Manns Þorf, eins billeg og eins þolanleg fyrer alla, so ad eingen meir enn annar hafe af Logunum Gagn edur líde Skada, þá er og so utelated allt, sem í þann Máta einn framar odrum kunne ad reikna ser til Gagns edur Skada, hvort heldur þad kynne vera í einberum Ordum edur siálfum Giordningunum. Hvor onnur Privilegia og Fríheit, sem Login, Recessarner og nockrar Forordningar tillogdu til forna einasta þeim, hvorra Forfedur í Upphafe med þeirra Digd og Þienustu fyrer Ríkinu og Fodurlandinu þvilík Privilegia hafa odlaz, þar um hofum Ver, til ad upphvetia alla til Digdar á ímum Tímum og Stodum, giort þá allranádugustu Tilskipun, ad umgeten Privilegia og Fríheit, skulu almennelega ná til allra Vorra kiæru og trúu Undersáta soleides, ad aller þeir, sem fyrer þeirra Digd og Dugnad verda af Oss bestilter og antekner til nockurs Embættes edur Forrettningar, hvar af þeir siálfer kunna ad hafa nockra Æru og Heidur, þá nióta þeir allra umgetinna Privilegia, Fríheita, Æru og Virdinga. Og er so þetta vigtuga Verk, fyrer Guds nádugu Adstod og epter lánga Osk, nú fullgiordt og á Enda leidt, so ad þad epter Vorre allranádugustu Befaling eru þrikt, hvar med Ver oll fyrre Log, Ordinantziur, Recessa og Forordningar, ad so miklu leite sem þær her ei finnaz innfærdar, vilium med ollu hafa upphafed, og i engvann Máta tilláted, ad, so sem þad æfenlega hedan af ega ad vera Magtarlaus og í öngvu Brúke, þad þá epter þennann Dag hvorke af Málsportum í nockrum Rettargánge mege brúk-

az,

az, edur af Dómurum í fyrerkomande Sokum álitaz. Þvi bióðum Ver og alvarlega befolum einum og serhvorium, hvorir sem eru, sem byggia og búa í Voru Ríke Norvege, edur þar nockurt Gods ega, edur ser uppehalda, ad þeir rette sig epter ollu, sem her stendur skrifad í þessare Logbók, so framt þeir vilia fordaz þad Straff, sem í henne er sett, og ecke hafa forbroted alla Kongl. Hylle og Nád. Serdeiles strengelega befalaz Dómurum og ollum sem dæma ega, ad þeir í ollum Sokum, sem fyrer þá koma, þessum Logum, so sem einne Mælesnúru fylge og þar epter rettvíslega Urskurde og Dóma affege, án nockurs Tillits til Ofrikes, Magtar, Háheita, Frændsemes, Vinskapar, Haturs edur Ovildar, og hiálpe hvorium Mañe til Rettar, þeim Avdvirdelega og Fátæka eins og þeim Háa og Ríka, Innlendskum og Utlendskum, og med þeirra Dómum frelse alla þá, sem med Ofrike underþrickiaz, serdeiles fátækar Eckiur og foðurlaus Born, uppá þad Sannleike, Rettvíse og Fridur mege búa í Landinu, og þeß rettláta og hædsta Dómara Nád og Myskun mege styrkiaz og avkaz yfer Voru Konúngl. Arfa-Húse, Vorum Arfa-Ríkium og Undersátum til stadfastrar Velgengne med tímanlegre og eilífre Blessan.

Gefed at Voru Slote Kavpenhafn þann Fimtanda Aprílis, Ar epter Christi Fæding Eitt Þúsund, Sex Hundrud, Attatiger og Siø, Vorrar Regieringar Atianda.

Fyrsta

# Fyrsta Book
um
# Rettinn
og
# Rettarins Persoonur.
## I. Capitule
um
## Þad Hlydne sem menn eru Løggiafaranum og Løgunum skylduger um.
### I. Articule.

KONGURINN er epter Konúnga Løgunum, sosem Kóngdæmesins óumbreÿtanlegum Grundvallar Løgum, sinna Rikia og Landa, Danmerkur og Noregs Einvallds Arva Kongur og Herra, og alleina hefur ædstu Magt og Myndugleika til ad giora Løg og Forordníngar epter sínum gódum Vilia og Velþocknan, ad útleggia, umbreÿta, avka, mínka, já og olldúnges ad upphefia þavg fyrre Løg, sem af honum siálfum, edur hans Forfedrum eru útgefenn, so og ad taka þad og þann sem honum þocknaz undan Laganna almennelegre Skipan. Hann hefur og einn ædstu Magt og Myndugleika ad innsetia og affsetia alla Embættesmenn, Háa og Lága, hvada Nafn og Titel sem þeir hafa kunna, epter sínum egin Frívilia og Þótta, so ad oll Embætte og Bestillíngar, hvada Myndugleika sem þavg hafa, skulu af Kóngsens Einvallds Magt,

 so

so sem af einne Uppsprettu, hafa sinn fyrsta Uppruna. Kóngurinn hefur og einn ædstu Magt yfer ollu Clericienu, frá þeim Efsta til þeß Nedsta, ad skicka og tilsetia alla Kyrkiunnar- og Guds-Þiónustu-giord, Prestastefnur, Samfunde og Samkomur um Trúarbrogdin epter Guds Orde, og þeirre Augsburgisku Játníngu, nær honum rádlegt sýniz þad ad bióda og banna. Hann hefur og einn Vopna og Herbúnadar Magt, ad færa Stríd, binda og upphefia Sáttmála med hvorium, og nær honum þad gott þyker, Toll og adra Skatta uppá ad leggia. Í stuttu Mále ad segia: **Kongurinn** hefur einn Magt ad brúka oll Juræ Majestatis og Regalia, hvada Nafne sem heita kunna; Hvarfyrer og aller Kóngsins Þegnar, í hvada Stande og Virdíngum þeir og eru, sem búa edur Bústad hafa og eiga í hanns Arfa Ríkium og Londum, med ollum þeirra Varnade, Fólke og Þienurum skulu, sem ærleger Arfa Þegnar, hallda og agta Kónginn fyrer þad ypparsta og hædsta Hofud her á Jordu yfer ollum mannlegum Logum, og sem ei þecker nockurt annad Hofud edur Dómara yfer ser, hvorke í Andlegum ne Veraldlegum Sokum, utan Gud alleina, og þarfyrer vera Kónginum, sem þeim ollum Frid giorer, og med sínum Logum og Stiórnan stýrer og ver Ríki og Lond, hlýdner, avdsveipner, undergefner, holler, trúer, og stunda og frama Kóngsins Gagn, Skada og Tión af fremsta Mætte afvende, og þiena honum trúlega med Life og Gótse, og med Eid vera skuldbundner móte einum og serhvorium, hvor sem vera kann, Innlendskur edur Utlendur, sem í móte Kóngsins Einvalds Magt og Arfa Rette skylde vilia hondla edur tala, þetta ad forsvara, under Lífs, Blóds, Æru og Aleigu Misser, og ad eingenn Vináttu edur Fiandskapur, Otte edur Háske, Hatur, Ofund, edur nockur mannleg Slægd og Uppáfindne bæge þeim hid allra minnsta frá þessare þeirra Pligt og Skyldu.

## 2.

Þaug Log sem Kóngurinn setur, má eingenn Madur aftaka edur umbreyta.

## 3.

Eingenn skal taka ser siálfur Rett, helldur skal hvor einn uppá tala og sækia sinn Rett.

## 4.

Þingenn skal dæma i mót þeim Løgum sem Kóngur setur, helldur skal Landid dæmaz og rettaz epter þeim.

## 5.

Kóngsins Þegnar og aller þeir, sem ser uppehallda í Kóngsins Ríkinn og Londum edur hondla, skulu retta sig epter Kóngsins Løgum, Skipunum og Forordningum; Og skulu Kóngsins Befalningsmenn og aller sem nockurt Embætte af Kónginum er tiltrúad, epter þeirra Eide og Embættes Skylldu, alvarlega tilhlutun hafa, ad Kóngsins Løgum og hvoriu því af Kónginum boded er, med allraunderdánugustu Hlýdne se epterbreitt. Enn finniz nockur heri forsómunarsamur, so framt þad bevísaz ad hann hafe þar af vitad, og hefur ongva loglega Afsekun, þá er þad Kóngsins Fiscals Embætte epter Løgum ad sækia og tiltala, bæde þeim sem sig forgripid hefur, so og þeim sem forsómad hefur ad giora sína Embættes Skylldu, og taka Dóm yfer honum uppá hanns Embætte, og uppá hanns Góts og Peninga, epter hanns Efnum og Sakarinnar fyrerfundnu Asigkomulage.

## 6.

Giefe Kónguriun nockra Bífalning einhvorium, og hañ þá sonn ei med allraunderdánugustu Hlýdne framqvæmer, so framarlega sem þad er í hanns Vallde (hvarum honum byriar strax ad giora Kónginum sína allraunderdánugustu Underretting) þá skal honum þarfyrer af Kóngsins Fiscal Tiltalaz, og ef hann hefur nockurt Embætte Andlegt edur Verallslegt, þá á hann ad hafa þad epter Dóme forbroted, enn hafe hann eckert (Embætte), þá skal hann straffaz á sínum Egnum epter Sakarinnar Asigkomulage.

# II. Cap.

# Um Varnarþing.

## I. Art.

Prinzarner og Prinzessurnar af Blódinu skulu ecke svara fyrer nockrum Underdómara, enn Kónguriun skal vera þeirra fyrste og sídarste Dómare,

are, ellegar sá sem hann serdeilesslega þartil setur.

## 2.

Kóngsins náttúrleg Børn skulu ei sækiaz fyrer odrum Dómara enn þeim sem af Kónginum þartil settur verdur.

## 3.

Eingenn skal dragaz frá sínu Varnar-þínge, utan í þeim Tilfellum, hvarum herepter talad verdur. Ei helldur má nockur skióta ser frá sínu Varnar-þínge, ellegar frá þeim Yferrette sem Varnar-þíngid stendur under, fyrre enn Dómur á bádum Stodum er gengenn; því oll þavg Mál sem sækiaz ega á Varnar-þínge, skulu fyrst þángad stefnaz, og þar Dómurinn takaz skrifadur, og nær madur ei vill nægiaz med þann Dóm, þá skal hann stefna Dómaranum og þeim Vidkomande med sama Dóm fyrer þann tilsetta Yferdómara, og somuleides taka þar Dóminn skrifadann.

## 4.

Eirn og serhvor sem ecke hefur Embætte, sem tilheýra nockru serlegu Rettar-þínge, skal svara fyrer því Bygdar, Birkes, edur Bys Þínge hvar hann byr og helldur Dúk og Disk, edur uppehelldur ser.

## 5.

Oll þavg Mál sem vidvíkia Kóngsins Inntektum, skulu strax koma fyrer Rentu Cammer Collegium hvarfrá ser eingenn má undanskióta, ne til síns Varnar-þíngs skióta hvors Stands sem hann og er, hvort hann er Hofundur edur Forlofare, helldur skal hann epter Cammer Collegii Stefnu þar mæta og þola Dóm.

## 6.

Kóngsins Embættesmenn, hvort sem þeir nefnaz í Ránginum edur ecke, svara fyrer þess Stadar Dómara þar þeir búa, ad undanteknu ef Sokin áhrærer þeirra Embætte.

## 7.

Kóngsins Stríds Officerar og leigder Soldátar skulu sækiaz fyrer Stríds Rettenum í þeim Málum, sem vidvíkia þeirra Embættum, Æru, Lífe, Lavnum, Vopnum og Skulldaheimtum; enn oll

þeirra

þeirra onnur Mál skulu dæmaz af Domara þess Býs edur Stadar, hvar þeir búa edur ser uppehalda, so ad þeir í allann Máta skulu vera Landslogunum undergefner.

## 8.

Soldátar, sem á Landinu útskrifaz, skulu svara á Bygdar edur Birke Þínge, medan þeir uppehalde ser hiá Bændum; enn nær þeir koma under Strídsmerken, svara þeir sem um leigda Soldáta sagt er.

## 9.

Adallinn, sem eru alleina þeir, hverier fyrer sig, þeirra Egtaborn og Afqvæme hafa Rett til ad brúka adallegann Hiálm og Skiold, hvert helldur þeir eru Innlender edur Utlender, sem annadhvort af Kónginum eru naturaliserader edur þiena einhveriu Embætte í Ránginum; Item þeir sem hafa somu Fríheit og Adallinn, skulu sækiaz í Lífs og Æru Sokum fyrer Kóngsins Yfer Hofrette, utan þeir þiene vid Strídsfólkid til Lands edur Siáfar, þá skal þarum halldaz epter þeim 7. Art. ad undanteknum þeim háu Embættesmonnum, sem í Lífs og Æru Sokum sækiaz skulu fyrer Kóngsins Hædsta Rette.

## 10.

Greifar og Fríherrar, sem alleina eru þeir, er af Kónginum þartil eru Upphafder, ellegar Framande naturaliserader, skulu innstefnaz strax fyrer Kóngsins Hædsta Rett; þó í þeim Málum, sem fyrst vidþurfa annarar Upplýsíngar tilsetur Kóngurinn þeim Commissarios.

## 11.

Biskupunum talaz til fyrer Kóngsins Hædsta Rette, ef þeim yfersez nockud í þeirra Embætte, edur falla í openbera Leste edur Villudóm; J odrum Veralldlegum Málum svara þeir fyrer sama Rette, sem adrer Lærder Menn og Geistleger svara.

## 12.

Lectores og Professores hiá Dóm-Kyrkiunum og í Gymnasiis, Prestar, Diákuar, Substitutar og Skólanna Þienarar, sv og Lærder Menn sem ei hafa Embætte, skulu í Geistlegum Málum sækiaz fyrer Hierads Prófastinum, og sídan fyrer Stift-Befalings-

íngsmanninum og Biskupinum. Enn um Egendóm, Jord, Akur, Enge, Skóg, Skulder, og í odrum Veralldlegum Málum skulu þeir svara á Bygda- Birke- edur Byþinge, og á Logþinginu; þó þaug Mál, sem Prófasturinn strax med gódu kann forlíka, eiga ecke ad koma fyrer nockurn Veralldlegann Dómara, so framarlega sem Soken er ecke Criminel, ellegar vidvíkur Kóngsins Gagne; því nær þeir fyrer nockurn stórann Glæp eru dæmder frá þeirra Embætte, ellegar fundner í einhvorium hálslavsum Giorníng, þá hefur þad Veralldlega Yfervallo sinn Rett móte þeim, eins og á móte odrum sem slíkt adhafaz.

# 13.

Þaug Mál sem millum Prests edur Diákna og Soknarfólksins, sem hánga af Kirkiunnar Myndugleika, fyrerfalla, dæmaz af Herads Prófastinum, edur setiaz inn fyrer Stift Befalíngsmanninn og Biskupinn.

# 14.

Í Hiónabands Málum skulu Stift-Befalíngs-Mennerner, hvor í sínu Stifte dæma, med þeim Lærdum Monnum edur Sóknarprestum, sem næster þeim búa.

# 15.

Hvar Præsta innfellur um Jord, Hús, Egendom, og Landamerke, þá á þad ad halldaz fyrer Varnar-þíng í hvors Þíngsókn Eignin, sem Prætan afrís, liggur, jafnvel þó sá sem fyrer Sokinne er, búe annarstadar, ellegar ser uppehallde; enn stefnaz skal hann á sínu Heimile.

# 16.

Þar sem einhvor í Bý, Birke edur Þíngsókn, hefur ad tilstala þeim sem býr utan sama Býs, Birkes edur Þíngsóknar fyrer Ofríke, Hervirke, Rán, Skammaryrde, sem í sama Bý, Birke edur Þíngsókn framed er, hvort hann er þar til stadar edur ecke, so og fyrer vitanlegar Skullder, sem í Bynum, Birkenu edur Þíngsókninne epter eiginn skriflegu Loforde skulu betalaz, edur onnur þvílík Heimta, sem madur hefur lofad ad fullnægia á þeim Stad, so framarlega sem hann þar Personulega fyndz, þá má Saksóknarinn

narinn jafn frítt tiltala og sækia sínn Mótpart, epter ad hann hefur honum loglega stefnt, á þeß Bys, Birkes edur Herads þínge, hvar Sokin tilfalled hefur edur hann hefur sig skuldbunded so sem þad være Motpartsins eged Varnarþíng.

# 17.

Hafe nockur forpligtad sig med Hond og Signete, ellegar og fyrer Rette undergengiz ad svara fyrer nockrum Rette, sem ecke er hanns Varnarþíng, þá byriar honum fyrer sama Rette ad mæta, og þar Dóm þola.

# 18.

Hafe einhver haft ad forstanda nockud so sem Ommindugra Umbod, Kirkna, Skóla, edur Fátækra Forsión, Kiæmnerie, edur adrar þvílíkar Bestillíngar, þá skal hann edur hanns Erfíngar á þeim Stad svara og standa til Retta, þar hann soddann medteked hefur.

# 19.

Er einhverium dæmt med endelegum Dóme, Bætur, edur annad frá ser ad leggia, þá ber honum ad lída Tiltal þar Dómurinn er affsagdur, þar sem hann ecke rettar fyrer sig.

# 20.

Tiltalar Innlendur edur Utlendur manne til hanns Varnarþíngs, þá ber honum edur hanns Umbodsmanne, ad svara á sama Þínge og standa sínum Vidurparte til Retta, þar sem Vidurparturinn í somu Sok hefur hañ um nockud med Rettu ad kæra.

# 21.

Hvar sem einn ad ferskum Giorníngе verdur gripenn, ellegar sídann finnz annarstadar, vegna nockurs Misgiorníngs, þá gioriz þarum á þeim Stad hvar Giorníngurinn er skedur, og dæmez af þeim Rette, ad þvi leite Login tilsegia, jafnvel þott þad se ecke Varnar-þíng þeß sem gripenn er; þó þar sem nockurt Yfervalld edur Rettarinns Þienarar láta einhvorn grípa, sem annars stendur under odrum serdeiles Rette, í þeirre Sok sem hann er gripenn fyrer, þá skal þad strax kunngioraz Yf-

ervallde þeß Fángada, og so framt sama Yfervalld lætur hann af sínum egen Þienurum sækia, þá skal hann fylgia þeim og sendiz þarmed Vitnesburder ef nockrer eru tekner, um hanns Brot, so ad hinn Skyllduge tilbærelega verde straffadur. Enn ef Fánginn ecke er sóktur þad fyrsta mögulegt er, þá gioriz um hann epter Logum, þar hann var tekenn.

22.

Til Vitnesburdar Aheyrslu, ber honum sem þartil verdur stefnt ad koma á þad Þing, sem Vitnin skulu afleggiaz, jafnvel þótt þad ei sie hanns Varnar-þíng.

23.

Hafe einhvor adskilianleg Varnar-þíng, þá má Sakfóknarinn útvelia hvort af þeim Varnarþíngum sem hann vill ad sækia sinn Mótpart fyrer, og ber þeim sem fyrer Sokinne er, þar ad svara til Sakarinnar Utgángs, med því móte ad hann þar hallde Dúk og Disk, þá hann í fyrsta Sinne er stefndur.

24.

Sie einhvorium stefnt, hvors Varnar-þíng menn ei vita egenlega, til nockurs Rettar, sem hann vill skióta ser under, og hann hvorke Stefnuvitnunum strax ei helldur Dómarannum, á fyrsta Þínge avglýser og skilvíslega bevísar, hvort ad se hanns retta Varnar-þíng, þá blife Sóknarinn vid þann Rett, fyrer hvorn hann stefnt hefur, og ber þeim, sem fyrer Sokinne er, þar ad svara og þola Dóm, med því sem epter Logum þaraf fylger, ef hann Dómnum fullnæger.

# III. Cap.

## Hvar og nær Rettargangur skal halldaz, og hvad þar framm fara.

### I. Art.

Býþíng skal halldaz af Býfógetanum openberlega, og ecke í Rádhúsinu ad luktum Dýrum.

2.

Herads- og Birke-þíng skulu halldaz á hagqvæmum Stodum,

um, sem þartil eru, edur her ept-er setter verda.

3.

Hvor sem til Þíngs færer edur færa lætur Øl edur annarslags Dricke ad úttappa, misse þá Dryck-iar Voru, sem hann medferdes hefur, og þarfyrer utan betale 10 Lód Silfurs til Herraskapsins.

4.

Eingenn Rettargángur má halld-az á Helgumdøgum, edur í Dymbelviku, edur 3 Daga fyrer Hvítasunnu, edur frá St. Thomæ Dege fyrer Jól, inntil Dagenn epter 13. Dag Jóla; enn so framt Rettargángs vilse Þíngdagur, so sem siottu Viku, edur þeßháttar ber uppá Helganndag, edur þá Daga, sem her eru talder, þá skal nærste Viku Dagur halldaz fyrer þann retta Þíngdag og Tegtadag.

5.

Býþíng og onnur venjuleg Und-errettar-Þíng skulu setiaz á Sumrinn Kluckann átta og á Vet-ur Kluckann níu, og halldaz einu-sinne í Viku, á þeim Døgum sem sidvanalegt er.

6.

Herads- og Birkeþíng skulu set-iaz um Sumur Kluckan sio, og á Vetur Kluckan níu um Fyr-ermiddaginn; og skulu Herads-Þíngin halldaz í hvorre Þíngsókn, sem herepter í Logbókinne innfærd Tabla Tilvísar.

7.

Logþíngin skulu halldaz openber-lega þrísvar á Are í hvoriu Logdæme: Þad fyrsta skal halldaz þann þridia Rúmhelgann Dag, epter Þrettánda í Jólum; þad annad 17. Junii Bótólfsmessu; hid þridia 14. Septembr. sem er Haust Kroßmessa, ad undanteknu Stegens Logþínge í Nordlandinu, sem helldst á hvoriu Sumre Bót-ólfsmessu, þann 17. Junii, so og Finnmarkarinnar Logþíng, sem helldst hvert 3. Ar í hvoriu Fiske-vere. Þau skulu setiaz um Sum-ur Kluckan átta, og á Vetur Kluck-ann níu, epter ad med Kluckunne hefur hríngt, vered, sem sidvana-legt er.

## 8.

Almúginn skal ecke vera skylldugur ad sækia Saka Þíngin, utan alleina þeir sem Rettinum þiena, ellegar hafa Sok á Hondum, utan serdeiles se advarad, ad Kóngsins Bref skule þar ollum auglýsaz, edur og ef tilsegiz ad betala Skatta, edur adrar Skyldur.

## 9.

Þegar Almúginn skal koma saman á Landinu, til ad heyra Kóngsins Bref edur Forordníngar; edur og til annarar Almeñelegar Utrettíngar, þá skal þad ske med Þíngbodinu, hvarmed soleides skal halldaz: Bodid, nær þad af Kóngsinns Fóveta verdur uppskored, og útsendiz, sem sidvanalegt er, skal beraz millum Bæaña, sovel þeirra Heilu sem Hálfu, og Eýdebæa, hvar nockur byr og brúkar, samt nýlega inngyrdtra og uppbygdrá Bæa, og ef ágreiner, hvada Bær edur Hús næst liggur, þá skal mæla Vegiñ med Stávng, og þarepter jafnaz þeirra í millum. Ef Nybýle leggz aptur í Eýde, þá skal Bod beraz sem fyrr, ádur enn Nýbýlid býgdiz. Bodid skal beraz af þeim sem kunna ad standa fyrer Orde og Eide, sem þad skulu afhenda Bóndanum siálfum í Hendur, edur hanns Hustrú, ef hann siálfur er ei heima; Syne hanns edur Dóttur edur Þiónustufólke, sem er Vitnesbært. Finniz ecke soddan Fólk á Bænum, skal hann bera þad inn í Stofu, ef Bærinn er openn, og setia þad í Bóndanns Sæte, ad ei falle þad nidur. Komiz hann ei inn, skal hann binda Bodid midt yfer Dyrunum, so hvor siá kunne er inngengur; So skal Bónde gánga til þeß er Bod bar, og spyria hvad þad merke, og bera þad sidan til næsta Graña síns. Sá er fyrer situr og Bod skal bera, skal vita hvad snemma Dags Bod kom til Húsa hanns, og hafa þar Vitne til, ef þad kann ske: Hafe hann ei Vitne, giore sinn Eid, ef þeß verdur krafez, um hvada Tíd Dags hann feck Bodid, og nær hann bar þad til næsta Bæar, og hvorium hann þad afhendte. Hvor sem Skulld hefur í Bodsins Forsómun edur Nidurfalle, bæte Bodfall, nefnelega 1. Qvintin Silfurs, fyrer hvorn Mann sem býr á þeirre Bodleid, er ei kom til Þíngs, edur til þeß almennelega Erindes, fyrer þessa Forsómun; Ef Bod kemur offseint til eins Bæiar, og

Vegurs

Vegurinn er so lángur ad Bóndinn ei kann koma til Þíngsins fyrer Middag, þá má hann sitia Heima, og þad skal hann med tveim Vitnum bevísa, nær honum Tiltalad verdur, og skal sá, hvors Skulld þad er, bæta fyrer hann Þíngvíte, hvarum herepter talad verdur. Eingenn er skylldugur ad bera Bod, um Sumur epter Sólarlag, edur um Vetur, þá myrkt er Orded. Fóvetinn og Sorenskrifarinn med átta bestu Bændum skulu skicka Bodinu Náttstad, hvar sem hellst hann er ei tilskickadur, og þángad skal þad beraz hvoria Nátt, sem vidþarf, og skal þad alldrei seinna útsendaz, enn þad mege ná Náttstadnum. Hvorium sem vid Bodid tilsagt verdur, og kemur ei, bæte í Þíngvíte fyrer hvort Sinn eitt Lód Silfurs, utan þad se Eckia, edur vanfær Bónde, sem ei kann gánga til Þíngstadarinns, edur onnur Logmæt Forfoll hindra nockurn; Bodid skal á Endunum vera bridt med Járne, og þará Kóngsins Nafn, og má ei af nockrum ødrum útsendaz, enn af Kóngsins Foveta, edur þeim sem af Kónginum edur Stadthalldaranum er serdeiles þartil settur; Sá seinaste sem Bod kemur til, skal færa þad til Þíngs, og þad afhenda Fóvetanum edur þeim þad uppskar.

# 10.

A Þíngunum skulu fyrst uppleśaz, þær Kóngsins Ferordníngar edur Befalníngar, sem þar koma, og befalad er ad byrta; þar næst Kaupgiørníngar og Afhendíngar Bref, Makaskipta Gáfu og Panta Bref, Fiárhalds Qvitteríngar, og annad þeßháttar, og skulu þeir sem med hvílík Bref koma á Þíngid, þavg ad láta lesa og uppáskrifa, advara Rettarinns Þienara, ádur Retturinn er settur, edur hid fyrsta þá hann settur er, ad þeir med hvílík Bref kemner seu, uppá þad þavg á sama Dege og til somu Tídar, ef fleire eru, skírlega byrtaz kunne og uppáskrifaz; þarepter skulu Kongsins Mál fyrst takaz fyrer, og sídan annara án Uppehallds.

# 11.

Stiftbefalíngsmennerner og Biskuparner, skulu um somu Tíd Arsins, og Logþínginu halldaz, hallda Rettinn um Andleg Mál, Þrisvar um Arid; A somu Tídum skal og dæmaz um Hiónabands Mál.

# 12.

Kóngsins Yfer-Hofrettur skal halldaz í Norege, einu Siñe á Are, á Agershús Slote. Hañ skal byriaz Pauls Converſionis Dag, og halldaz ſo lenge, ſem Mál koma fyrer. Þaug Nordlendsku Mál, og frá Þrandheime og Biorgvin, ſem þángad er ſtefnt, ſkulu fyrſt takaz fyrer, þarnæſt þad eina epter hid annad, ſem ſidvanalegt er.

# 13.

Partarner, hvorra Mál uppſlegenn eru, ad heÿraz fyrer Yfer-Hofrettinum, ſkulu um Mánudaginn, Þridiudaginn, Midvikudaginn, Fimtudaginn og Laugardaginn Kluckann ſiø um Morguninn, og á Foſtudaginn Kluckañ tølf vera til Stadar, og þar ſem þeir edur einhvør þeirra Vegna ei framkoma, nær á þá er kallad, ſkulu þeir ſtrax, og ádur enn þeim leifiz í Rettargánginn ad færa þeirra Mál, útgefa fiórutíu Lód Silfurs, ſem í Protocollinn ſkal teiknaz; enn kome þeir ei fyrr eñ Saker eru til Enda; þá fare þarum ſem ſeger herepter, í þeim fiórda Capitula.

# 14.

Kóngsins Hædſte-Rettur, er veniulega haldinn einu Siñe uñ Arid, á þeim Stad og Tíma ſem Kóngurinn tilſkipar: Og ſkulu fyrſt oll Norſk Mál, ſem þángad eru ſtefnd, fyrertakaz.

# 15.

Partarner, hvorra Saker eru uppſlegnar til ad heyraz fyrer Kóngsins Hædſta-Rette, ſkulu uñ Mánudaginn, Þridiudaginn, Midkudaginn, Fimtudaginn og Laugardaginn Kluckann ſex uñ Morguninn, og uñ Foſtudaginn Kluckann tólf vera til Stadar. Og ef þeir edur nockur þeirra Vegna, ei frañkoma, þá þeir upphrópaz, ſkulu þeir ſtrax, og ádur enn þeim mege Rettargángur leyfaz med þeirra Saker, útgefa áttatíu Lód Silfurs, ſem í Protocollunum af Sekreteranum ſkal anteiknaz. Enn innfinne þeir ſig ecke, ádur enn þær Norſku Saker eru til Enda, þá fare þar uñ epter þvi, ſem herepter í fiórda Capitula þritugaſta og ſiotta Artikula ſeger.

# IV. Cap.
# Um Stefnumall, Fyrerkall, og Uppsetning.

## I. Art.

Eingeinn Rettargángur má halldaz í mót nockrum, edur Vitnesburdur færaz, edur Þíngsvitne útgefaz á Þínge, edur fyrer nockrum Rette, edur Manna Uppqvod, edur nockur Skodun, Syn edur Ransókn ad ske, utan ad sá, hvors annadhvort Góts, Æru edur Líf slíkt gillder, se loglega þartil kalladur, edur og se siálfur á Þínginu til Vidurmæles, og ecke afsake sig, ad hann ecke se loglega Fyrerkalladur.

### 2.

Saksóknarinn skal stefna þeim, sem er fyrer Sokinne og odrum Vidkomande, med 2 Monnum fyrer Sólarlag, á þeirra Heimile, til hvada Þíngs og Rettar þeir og stefnaz, annadhvort munnlega edur skriflega.

### 3.

Þeir sem munnlega stefnt hafa, skulu siálfer koma til Heradsþíngsins, og vitna med Eide og upprettum Fíngrum, ad þeir hafe loglega stefnt, þeim sem Tiltalad er, og annadhvort; siálfer munnlega talad vid hann, edur hanns Fólk, edur vid adra sem voru til Stadar, og skulu þeirra Nofn, sem stefnt hafa, hvorier þeir eru, og hvar þeir eru til Veru, í Þíngbókina innfæraz. Þegar Stefnan af Sækiandanum siálfum er skrifud, þá skal um Stefnuvættin halldaz hid sama.

### 4.

Þeir sem auglýsa skriflegt Fyrerkall edur Stefnu, sem med Rettarins Signete eru útgefnar, skulu þær auglýsa í Aheyrn þess, sem stefniz, edur hanns Fólks, edur annara sem nærverande kynne vera, og annadhvort afhenda þeim þaraf Utskrift, edur geta þeim so lánga Tíd, ad þeir kunne láta Stefnuna utskrifa, ef þeir þess óska; og ef þeir siálfer ei vilia edur kunna ad skrifa uppá Stefnuna, þá skulu þeir sem hana byrt hafa, þaruppá skrifa med þeirra Nofnum under, og hvorer þeir se, og hvar þeir ser uppehalde, ásamt med þeirra Nofnum, sem voru nærverande þegar Stefnan var auglýst: Hvor Stefna soleidis

es uppáskrifud skal fyrer Rettinn framleggiaz, lesaz og uppáskrifaz.

## 5.

Í Stefnunne skal nefnaz, hvort hún skedur munnlega edur skriflega, Sokin, so framt Processinn skal loglegur halldaz, hvarfyrer einn stefniz, so og einn viss Dagur og viss Þíng, hvartil stefnt er, og ecke til fleire í sama Sinn.

## 6.

Ef nockur verdur yferbevísadur ad hann ósannferduglega med skriflegrar edur munnlegrar Stefnu Byrtíngu hondlad hafe, þá straffaz sem falskt Vitne.

## 7.

Til Býþíngs gefz, munnlega edur skriflega, átta Daga Stefnufrestur, og til Herads og Birkeþíngs fiortán Daga Frestur, ef ad þeir sem stefnt er búa edur ser uppehallda i þeirre Þíngsokn, Birke edur By, sem Þíngid halldid er. Í Averka, Landsnytia og Landamerkia Þrætum brúkaz Fimmarstefna, edur fimm Nátta Frestur. Í ollum Agreiníngе, sem uppkemur einhvorra í millum, um allslags Averka og Skadagiorníng, á Jordu, Skóg, edur Mork, sem annadhvort í þessare Bók, edur annarstadar í Logunum umtalaz, kann ad brúkaz Fimtarstefna, epter ad Logfesta og Forbod sked er, sem Login umtala, og skal á medan gioraz slík Tilskipun, ad þad sem áverkad er og ei kann þola ad liggia á Stadnum, kome í góda Forvorun, heldst hiá þeim sem Logfeste, ef hann kann setia fulla Borgun þar fyrer.

## 8.

Fiórtán Daga Frestur gefz þeim, sem eru utan Býs, og fiogra Vikna ef hann er utan Birkes og Þíngsóknar; og þó í sama Logdæme.

## 9.

Tveggia Mánada Stefna gefz honum, ef hann er Innanlands, og utan Logdæmesins.

## 10.

Hafe hann hvorge Heimile í Ríkinu, og vilie ei láta sig finna, þá skal honum gefaz sex Vikna Stefnufrestur, þar sem hann

hann sídst hafde sitt Heimile og adsetur, og sex Vikna Frestur líka so til Logþínges; í hvorni Tilfelle, serdeiles Þíng af Logmonnunum skal halldaz.

# 11.

Fyrerkall til Atfarar í davds Manns Gótse, sem ei hefur Erfíngia, edur epter þann, sem ei er vidgenginn Arfur og Skylldur, skedur á sama hátt.

# 12.

Ef sá sem stefniz er utan Ríkis edur menn vita ei hvar hann er, þá skal hann fyrerkallaz á somu Stodum sem sagt er, innan Arsins Enda ad koma og svara, og þá ber hanns næstu Erfíngium edur Umbodsmanne, ad svara til hanns Sakar, og láta hann þad vita.

# 13.

Nú hefur madur eckert Heimile í Ríkinu, og þar kemur Þræta um Landamerke, þá skal Bóndinn sem býr á Býlinu edur Jordunne, þar sem Þrætan er fallenn, stefnaz med fióstán Daga Stefnufreste.

# 14.

Jóskiftra Egendóma Þrætum, millum Erfíngia og Skulldunavta, þá er madur ei skulldugur ad stefna odrum enn þeim, sem Egendóminn brúka, og hafa hañ í Hond og Hefd.

# 15.

Fyrer Afplæging og Afslátt stefniz sá, sem giort hefur Skadann, og ei hanns Húßbónde.

# 16.

Nú reiser madur burt epter ad hann loglega er fyrerkalladur, annadhvort utan Logdæmesins, edur utan Ríkis, þá skal fara med Málid sem hann er stefndur fyrer, eins og hann være þar til Stadar, ef ad Sækiande ecke tefur med Málid, enn Málinu án Uppehallds framfylger, frá einu Þínge til annars. Láte Sækiande þriú Þíng hiálída, ad hann ei framfylge Sokinne, sídan hann fyrerkallade sinn Mótpart til Þíngs, þá má Mótparturinn fara af Lande og Ríke, sem hann med ollu være ófyrerkalladur.

## 17.

Sege einhvor Vegna þeß sem stefndur er, ad hann var reistur af Logdæminu edur Rikinu, ádur enn honum stefnt var, þá skal sá sem þad seger þad loglega bevísa.

## 18.

Nú er madur sóktur fyrer Landskulld, Húsaleigu, edur þvílíkt Afgialld epter Jord og Hús, þá skal hallda sama Stad fyrer Heimile jafnvel þótt ad sá sem fyrer Sokinne er, búe þar ecke; þó skal hann kallaz og stefnaz til soddan Tídar, sem fyrr er sagt, ef hañ er utan Stadarinns, Logdæmesins edur Rikesins.

## 19.

Nú deyr madur sem ecke hefur giort Rigtugheit fyrer því hann hafde under Hondum medan hann lifde, sem Formindaraskap, Fátækra Umsión, Kirkiufe, Stadafe og þvílíkt, þá stefnaz hanns Erfingiar i Sterbúinu, þá þeim tiltalaz ad giora Rigtugheit.

## 20.

Gefe madur einum Procurator edur Manne Fullmagt ad sækia einhvoria Sok, þá er þad Fyrerkall gilldt sem Fullmegtugurinn fær af Vidurpartinum, eins og Málseigandinn siálfur þad fyrerkall fengid hefde.

## 21.

Til Herads, Birke- og Byþings, so og til Rádstofu, í þeim Kaupstodum sem svare under Logþinged, skal Fyrerkallid ske med tveim Monnum, annadhvort muñlega edur med skriflegre Stefnu, sem Sækiande siálfur må skrifa edur láta skrifa.

## 22.

Stefnur til Logþinges útgefaz under Logmannsins Hende og Signete, og byrtaz á sama Máta, sem sagt er, med tveim Moñum á fiórtánda Dege fyrer Logþingid, á þeß Heimile sem stefnt er, hvort hann er í Þingsókniñe og Stadnum edur utan, í edur utan Logdæmesins, í edur utan Rikes, so framt sem hann til Heima Þingsins loglegt Fyrerkall fengid hefur, og Heima Þings Domnum innañ sex Vikna stefnt er. Somuleides skal fara um Stefnur til þeirra Rádstofna, sem svara Rett under Yfer-Hofrettiñ,

þó,

þó, ad Stefnan birtiz ecke nema átta Dogum fyrer Rettargángs Daginn.

## 23.

Láte Sækiande lída sex Vikur, epter ad Heima Þíngs Dómurinn uppsagdur er, fyrr enn hann tekur Logþínges Stefnu, og sá sem fyrer Søkinne er, á medan reiser burtu, þá skal þad med Stefnunnar Birtíngu og Frestinn halldaz, sem ádur um Heima Þínga Fyrerkall sagt er.

## 24.

Uppsetníngar skulu ske med beggja Málspartanna Samþycke, edur og nær Dómarinn Vegna loglegra Forfalla ei kann vera til Stadar, þó gefz ei Uppsetníngin skrifud, utan þeß se óskad af Málspartum, enn í þeß Stad skal skrifaz uppá Stefnuna af Skrifaranum, til hvada Tídar Málid er Uppsett, sem og í Þíngbókina skal teiknaz ásamt þeß Nafne, sem med Stefnuna framkemur, og med þeirra Nofnum sem stefnt er, serhvorium til Epterrettíngar sem óska þad ad vita.

## 25.

Logþíngs Stefnan med sinni Uppáskrift, skal auglýsaz á Heimile þeirra, sem hún vidkemur, og meddeilaz þeim þaraf Gienpartur, ef þeß er óskad, hvor Auglýsíng ske skal med tveim loglegum Vitnum, sem þaruppá skulu skrifa Daginn og Tídina, nær þeir hana birt hafa.

## 26.

Nær sem ein Stefna á Logþínginu framlogd verdur, sem ádur lesenn og uppáskrifud vered hefur, og finnz sídan ad vera umbreytt, þá skulu Logmennerner strax þar yfer dæma, og tilsegia þeim Skylduga, hvada Straff hann, sem Rettarins Forvillare, ber ad lída.

## 27.

Stefnur til Yfer-Hofrettarinnar skulu birtaz, í Finnmorkinne sex Mánudum, í Nordlondunum þrem Mánudum, í Biorgvins og Þrándheims Stiftum og Stafangurs Amte átta Vikum, og í hinum Stiftunum sex Vikum, ádur enn Yfer-Hofretturinn byriaz.

## 28.

Stefnur til Yfer=Hofrettarins skulu takaz í Kóngsins Cancellie í Christiania, so tímanlega ad þær verde birtar, innan þeirrar Tídar, sem sagt er.

## 29.

Eingenn Stefna til Kóngsins almennelega Hærsta Rettar má útgefaz skemur, enn fiórda Parte af Are fyrrenn hann er uppábodenn, utan Skrifarinn edur Dómarenn af forsettu Ráde hafe innehalded þeim Dóme, sem stefnaz skal, lengur enn hann mátte, til ad spilla Rettinum þarmed. J hvílíku Tilfelle má Stefnan útgefaz epter Tímann. Ef Stefnu er óskad skommum Tíma ádur enn Hærste Rettur er uppábodenn, þá verdur hún útgefenn til þeß sem næst þar epter uppábydz.

## 30.

Kóngsins Stefna til Hædsta Rettar skal og birtaz í Finnmorkinne sex Mánudum, Nordlondunum þrem Mánudum, og annarstadar tveim Mánudum fyrer Tídina, sem Hædste Rettur er uppábodenn. Ef sá, sem stefnaz á, ecke vill láta sig finna, og er þó innan Ríkes, þá skulu Stefnumennerner lesa og birta Stefnuna á hanns Heimile, med Vitnum Þrísvarsinnum, og láta tvo Daga ímillum hvors Sinnes, og kunngiora þad fyrer hanns Fólke, so morgu sem þeir kunna ad fá í Tal, og þá stande Fyrerkallid í fullu Gilde.

## 31.

Vilie madur láta Stefnu á Bygda= Birke= edur Býþínge birta þeim, sem ei hefur viliad láta sig finna, þá skal Þrísvar á hann kalla, ádur Stefnann er lesenn, og þá er hún Nýt.

## 32.

Se einhvor munnlega edur skriflega stefndur loglega, og kemur hvorke hann siálfur edur hanns Fullmegtugur, fyrer sinn tilbærelegann Under= edur Yferdómara, utan hafe logleg Forfoll, og þad nógsamlega bevísaz, þá leggiz honum af Dómaranum Logdagur fyrer, þó ei lengur eñ til næsta Þíngs, hvort hónum byriar ad koma, og kome hann þá ecke, þá skal Dómarinn epter framlogdum Brefum

og

og Bevíslegheitum dæma í Sokinne; hvar epter og Exsecution skal ske, og hann fyrer mótviliuga Fráveru, skal hafa Skada fyrer Heimgialld.

## 33.

Enn se hann stefndur fyrer Kóngsins Yfer-Hofrett edur Hædsta Rett, og hvorke siálfur edur hanns Fullmegtugur kemur, þá skal dæmaz í Sokinne epter hennar Asigkomulage, og líde epter Dómsins Innehalde, utan loglega bevísiz ad hann hafe vered í soddan Forfollum, ad ei hafe hann siálfur getad komed, ne framsendt sinn Fullmegtugann.

## 34.

Enn hvor sem stefner odrum fyrer nockurn Yferdómara, og þó hvorke kemur siálfur edur hañs Fullmegtugur, edur hanns Forfoll, þá hefur hann tapad Málinu, til þeß hann stefner aptur loglega, og þar fyrer utan skal hann gefa sínum Vidurparte bevíslegan Kost og Tæring.

## 35.

Hafe nockur stefnt fyrer Yfer-Hofrettinn, og ei kemur fyrr enn Málin oll hafa Enda, þá hefur hann somuleides tapad Málinu, og betale Kost og Tæring; enn þar sem hann tilbaka afhender sína úttektu Stefnu í Kóngsins Cancellie i Christiania med síns Vidurparts skriflegu Samþycke, þá ber honum fyrer ofanskrifudu ad vera frí.

## 36.

Enn hafe hann stefnt fyrer Kóngsins Hædsta Rett, og ecke kemur ádur enn hinar Norsku Saker hafa Enda, þá ber honum ecke einasta ad betala sínum Mótparte, sem kemur og bvdur sig til Rettar, aptur allann þann Kostnad, sem hann hefur billega giort uppá Máled med Bevísingu, helldur og alldeiles ad hafa tapad Sokinne, og skal ei tillátaz framar þaruppá ad tala: Enn þar sem hann aptur afhender þá úttektu Stefnu, sem hann tók í rettann Tíma í Kóngsens Cancellie í Kaupenhafn fyrre enn hinar Norsku Saker hafa Enda, med hanns Vidurparts skriflegu Samþycke, og Vidurparturiñ vilie ei Sokina vídar útfæra, þá ber honum þar fyrer fríum ad vera.

37.

Fyrerkalls þarf ei vid, nær madur vill á Þíngum láta birta sín Afhendíngarbref, Kaup- Gáfu- edur Panta-bref, Fiárhalds Qvitteringar edur þeßháttar. Ei helldur fyrer uppbodum Góża, Arfs og Skullda Frágaungu, Kyrrsetníng á Góże edur Persónu, edur fyrer eins Kynníngu.

# V. Cap.

# Um Doomara.

## I. Art.

Dómarar skulu vera vidurheftuger og órygtader Dánumenn, sem hvorium Mañe skulu skicka Log og Rett, utan Villd, epter þeim Eide sem þeir Kónginum svared hafa, og her bak vid Logbókina fiñz iñfærdur.

2.

Eingenn Dómare sem til Þíngs sækez, og tiltalad er uppá sitt ærlega Nafn og Rygte má sitia Rettinn, fyrrenn hann er þarfyrer annadhvort loglega erklerادur, edur med Dóme frikendur.

3.

Utgefe nockur Dómare órettann Dóm, og þad skedur fyrer þad ad honum er Søkin ecke rett undervísud, edur og Málid er fyrer honum ránglega uppbored edur og hann hafe þad giort af Vanvitsku, þá skal hann apturgefa þeim sem hann Orett giorde med sínum Dóme, þann bevíslegann Skada, Kost og Tæríng sem hann lided og giort hefur þar uppá: Kunne þad og bevísaz ad Dómarinn hafe teked Gunst, Gáfu, Villd edur Frændseme fyrer Rettinn, edur Málid finniz so lióst, ad þad ei kann reiknaz fyrer Vanvitsku edur ránga Undervísun, þá skal hañ þarfyrer setiaz af, og ei sitia meir í Domara Sæte, og bæta þeim Orettinn leid, Skadann aptur, hvort helldur sem er Góts, Líf edur Æra, og Kónginum þad yfer er af hañs Búslód.

4.

Dæme eirn Dómare sem klagadur er fyrer órettferdugañ Dóm, fyrrenn Málid stefnez fyrer Yferdómarann, ellegar dæmt verdur epter Bevísíngum um hañs Avirding

íng, þá svare hanns Erfíngiar alleina Skadanum, og skal þad ei koma þeim burtsofnada til Ovirdíngar so sem þeim er ei kann koma fyrer Rettinn og svara fyrer sig.

## 5.

Þad sama er um tilsetta Menn í einnre edur annare Utrettíngu, uppá Rettarinns Vegna, sem reiniz ad órettferduglega þarmed hafe hondlad.

## 6.

Eingenn Dómare má dæma í þeim Málum sem honum vidkoma, enn þá skal í hanns Stad, ef hann einn þiónar Rettinum, einn annar búfastur og rádvandur Dánumadur af Stadarinns Yfervallde edur Herskap þartil setiaz.

## 7.

Dómararner skulu stytta Processana sem mest mogulegt er, og ecke tilláta ad nockur med Krókalogum og ónytsamlegum Vitnesburdum, eda med þvílíkum Rettarspiller, uppehallde Rettinum og hanns Framgánge, og þar einhvør meinar sig ad hafa Tiltal til hinns annars, fyrer Skullder, Bref, edur annad, og hinn af Saksóknaranum óskar, ad sýne ser hvada Bevísíngar hann hertil hefur, til ad fyrerkoma ollum Málasóknum, og hann vill þó ecke, enn vill endelega hafa Málid í Proceß, jafnvel þó sá Sækiande framlegge sínar Bevísíngar, þá skal Dómarinn þó dæma hann í Kostnad fyrer orsakadann Proceß og Vitloftughett.

## 8.

Dómarar skulu Málin ei med Uppsetníngum lengia, ei helldur hafa Magt til nockra Sok til Dóms lengur ad upptaka enn í sex Vikur, utan báder Partarner þeß annadhvort óske edur samþycke, edur nockur slík noiagtug og logleg Forfoll hafe ad hann ei til somu Tídar kann koma. Uppehallde Dómararner nockru Málelengur enn ádurskrifad stendur, utan Lagaforfalla, þá skulu þeir so oft þad sker, gefa 200 Lód Silfurs til næsta Hospitals.

## 9.

So framt nockur Dómare nockrum Manne med Uppehallde

og Undanbrøgdum Rettinum spill-er edur neitar, edur og veigrar ser vid Vitne ad taka, yferheyra edur yferheyra láta, edur hindrar ad gefa útskrifud, sovídt sem byriar ad ske med Rettu, og slík hanns Olempne af Yferdómaranum fundenn verdur, þá skal hañ ei alleinasta fornya Sokina uppá sinn egen Kostnad fyrer þañ sem Orettinn leid, og betala honum þann Skada sem hann lided hefur þaraf, helldur og ef hann ei fellur frá sínu Embætte, þá hafe hann þó forbroted, fyrer utan Kost og Tæring sextin Lód Silfurs, og so framt hann sømu Bætur ei betalar innan sex Vikna frá því Dómur Yferdómaranns er gengenn, þá skal hann ei uppfrá þeim Dege sitia þann Rett, þarfyrer utan stande þeim Orett leid, frítt fyrer, ad giora Atfør hiá honum fyrer Bæturnar, med loglegre Medferd.

# 10.

Þó má eingenn Dómare útgefa nockud Vitne epter Ordum sem falla í Rettargánginum, og ecke koma vid Hofudsokinne, dur áhræra nockurs Manns Æru og Virdíngu.

# 11.

Þar sem sá sem sóktur og tilfalad er, strax vill giorsamlega retta fyrer sig, þá ber Dómaranum móte honum aungva Málssókn ad tilláta (uppsegia.)

# 12.

Dómararner meiga aungva óendelega Dóma afsegia, med þessum Ordum: Utan þad ødruvíse kunne afbevísaz, hafaz í Muñe, aftalaz, skiliaz, bevísaz, og sunnur þvílík óendeleg Ord og Meiníngar.

# 13.

Þeir skulu, under túttugu Lóda Silfurs Straff, Dómana fyrer Rettenum med skírum Raustum afsegia, og med skilianlegum og klárum Ordum gefa þá útskrifada, so þarí kunne ecke gioraz nockud Tvíl, hvarmed einhvors Rettur kunne vera forhaladur og med beggia Partaña Gognum, uppá þad, ad þegar Máled kemur fyrer hærre Rett, meige þeß Asigkomulag af sama skriflegum Dóme umstendulega verda underrettad.

# 14.

Þeir skulu í öllum Penngasökum útþrickelega setia, hvorsu mikel Höfudsummann, Rentann og Umkostnadurinn betalaz skal, og uppá þad þeir ei med Utreikníngе sialfer þvingez, meiga þeir tilskicka forstándugа Dánumeñ til ad giora Utreikníng og Liqvidation í Partaña Nærveru, og skulu þesser Dánnmeñ hafa fyrer þeirra Omak slíkt sem Dómarenn þeim billega tilleggur.

# 15.

Nær þeir dæma nockurn til ad giora edur frañqvæma nockud, þá skulu þeir setia honum vissa Tíd fyrer, innann hvorrar hann skal fullnægia Dómnum, og setia eitt vist Straff vid, ef epter Dómnum ei giort verdur.

# 16.

Þeir skulu strax afhenda Dómaña Slútníngar, efter ad þær afsagdar eru, þeim eidsvarna Skrifara, þar sem hann er, ad þær í Þíngbókina, Rádstofubókina, eda Protocollenn strax innskrifaz kuñe, og Partarner sem Dómanna óska skrifadra, þær fá kunne án Uppehalds; Enn þar sem eingenn eidsvarenn Skrifare er, þar giorer Dómarenn þad siálfur.

# 17.

Sorenskrifararner skulu búa í þeirra Sorenskriferium, og sig ei nidursetia í nockrum Kaupstad.

# 18.

Sorenskrifarenn skal koma til Þíngs um Sumar Kluckann sió og um Vetur Kluckann níu um Morguninn hid seinasta, under þriggia Lóda Silfurs Straff, enn ef hann er burt allann Dagenn, sektez tíu Lódum Silfurs, og svare Portunum fyrer þeirra Kostnad á medann; ef hann er leingur og oldúngis í burtu, og Þíngid þeßvegna í þad Sinn forsómaz, þá sektez fióritiger Lódum Silfurs, og svare Málsportunum fyrer allar þeirra Reisur og Kostnad; þó forbeheldz Portunum þeirra Sok og Stefna til næsta Þíngs, so sem þad skylde hafa vered, ef Skrifarenn hid fyrsta Sinn komed hefde; Hafe hann, logleg Forfoll, þá skal hañ af Amtmanneñum óska, dugandes Persónu í sinn Stad, uppá þad Retturinn ei hindrist; Skedur

þetta

þetta ecke og Retturinn þar af hindrast, bæte sem fyrr seiger.

## 19.

Kóngsins Fóveta ber ad vera á Þínge og siá til ad Retturenn halldiz skickanlega, samt allt Adgæte, sem hlÿder Kóngsins Sokum og Rette, þó ecke skifte ser af Dóminum edur Dómaranns Embætte; Er hann burtu utan loglegra Forfalla, þá bæte fyrer hvort Þíng hann forsómar, tuttugu Lód Silfurs, og skal ei Þíngid þarfyrer uppehalldaz.

## 20.

Þegar einhvor Obótamadur skal dæmaz frá Life, edur nockur frá Æru sinne, annadhvort til Bygda edur Birkeþíngs edur Bÿþíngs í þeim Kavpstodunum, þar Borgmeistarar og Rád hafa Logþíngs Rett, þá skal Dómarinn taka til sín átta hina bestu Þíngmenn, og siálfur med þeim, under sextíú Lód Silfurs Sekter, dæma til edur frá, og ei adra Dómsmenn þartil nefna. Enn í þeim Kavpstodum sem svara under Logþíngid skulu Borgmeistarar og Rád, under sextíú Lóda Silfurs Sekter, sitia Dóm med Bÿfóvetanum, nær einhvor skal dæmaz frá Life edur Æru, og skal Dómurenn gefaz bádum Portunum skrifadur, ef þeir hanns óska, under Dómaranns og fyrrnefndra Meddómsmanna Innsiglum.

## 21.

Kóngsins Befalíngsmenn skulu siálfer í egenn Persóun koma á Logþíngin, so og á stundum á þavg onnur Þíng, og siá til ad Retturinn se halldinn med tilbærelegre Virdíngu.

## 22.

Logmenn og þeir sem nockrum Yferrette þiena, skulu án allra Undanbragda endelega dæma yfer ollum Underrettarins Dómum, sovel sem annara, er kallader verda fyrer þeirra Vitnesburd og Eid, þeirra Forrettníngum og Eidum, sem gyllda Góts, Æru edur Líf, sem til Stadfestíngar edur Underkenníngar fyrer þá stefnaz, og þá, hvort þeir verda beskuldader edur ei, reisa edur fella; og meiga þeir ei þeirra Dóma grunda á þeim Dómum sem inn eru stefnder, helldur taka Málin og þeirra Bevísíngar fyrer sig, þarepter kenna og dæma, sem þeir

vilia

vilia forsvara. Logmenn skulu og dæma yfer þeim Vitnum, sem á Greifanna og Fríherranna Birkium færd ern, ef þaug til Logþíngsins stefnaz, annadhvort til Stadfestu edur Hneckíngar.

## 23.

Imót Brefum Adalsinns og med Adlinum hafande josu Fríheit, meiga þeir Yferdomarar, sem standa under Yfer-Hofrettinum, og vel dæma, utan þeir í Dómunum so snertes, ad þad þeirra Æru og Virdíngu of miog hrære, sem þaug hafa útgefed.

## 24.

Þeir skulu siálfer, so framt þeir epter Sakarinnar Asigkomulage dæma einn til ad betala Kost og Tæring, setia og nafngefa í þeirra Dómum, hvad mikell hann skal vera, epter því sem Málid hefur vered klárt edur efasamt.

## 25.

Logmennirner skulu láta ser nægia med þann Logmanns Toll, sem af Alldodle í hvoriu Pláße hefur sidvanalegur vered, sem og oñur billeg Rettugheit, og þvílík Þýngsle ecke siálfer mót Sidvananum forhæcka, og þá Logmennerner andaz, þá skulu þeirra Húsfrúr eda Born eins og Andleger nióta Nádar Ars, þó einasta í þeirre vissu Inntekt, sem til Logstólsins Geldz, og uppborenn verdur og ei meira.

## 26.

Ef Logmadur med Kóngs Leyfe slendur af sinne Bestillíngu til einhvors annars, þá má hann ei uppbera Logmanns Toll fyrre eñ sá sem Bestillíngunne afsiadeb hefur, er andadur.

## 27.

Commissarii tilláttaz og tilsetiaz epter beggia Málspartanna Osk í þeim Málum sem ei er hægt á Þíngum ad útkliá. Enn þar sem sá eine Málsparturinn veigrar ser þarvid, og ei vill hafa góda Menn ad giora um þær Þrætur, sem ei odruvísse enn med Commissarier ega edur kunna ad úttalaz, jafnvel þótt, hann af þeim odrum Málsparte se þarum advaradur, þá skal hanns Mótparte standa frítt fyrer alleinasta ad óska Skickunarinnar, þó so ad hann skilvíslega bevíse

bevíse, þad hann sínum Mótparte hafe tilboded ádur ad taka hálfpartinn af Giørdarmonnum.

## 28.

Ef einn edur fleire af Commissarium edur ødrum gódum Moñum sem til slíkra starfa eru setter, vegna Lagaforfalla ei koma, þá hafa þeir sem koma Magt til adra valenkunna Menn í þeirra Stad taka.

## 29.

Commissarii og adrer þvílíker skulu ef møgulegt er innan sex Vikna, frá því Befalníngin til þeirra komenn er, giora þad sem þeim er befalad, og hid seinasta innan Mánadar þarepter gefa Dóminn frá ser skrifadann, og þá strax aptur ad afhenda serhvorium þavg Bref og Skilríke sem í Rettinn hafa løgd vered.

## 30.

Nær Commissarii og adrer Dómarar sem Rettinn sitia og þesshättar ei samankemur í þeirra Dómum og Erindagiørdum, þá skulu þær flestu Meiníngar giøra Dóminn, enn eru þær eins margar á bádar Sídur, þá gefur sá sem Forínge er, og þeir hanns Meiníngu fylgia, Dóminn skrifadann frá ser, og avngver adrer.

## 31.

Commissarii skulu og í þeirra Alyktunum dæma hvør af Málsportunum Commissionens Kostnad skal betala, hvort honum sem Commissionina útvegad hefur, ber hañ allann, edur ad nockrum Parte, og hvørsu miked þaraf ad betala, siáande epter hvør í Málinu best er grundvalladur, og þarfyrer þad í øllum Púncktum vinnur, so og hvort Málid er so ásigkomed, ad þad ei odruvíse hefde kunnad útfæraz hæglegar, edur sá sem Commissionina útvegade, Málid med Landsløgunum og venielegum Rettargánge med minna Kostnade hefde kunnad útfæra, því þá ber ad ei uppáleggiz þeim sem tapar stærre og ónavdsynlegre Kostnadur vid slíka Umbreýtíngu á Málssókniñe.

# VI. Cap. Uñ Iñstefning til ædre Rettar.

1. Art.

# I. Art.

Þar sem Partarner valldsgefa þeirra Mál og Deiling, Dánumönnum, hvort þad sker med Oddamanne edur utan, þá hvad þeir segia og dœma, so vídt sem þeirra Umbod leifer þeim ad giora, þad stendur stødugt, og kann ei innstefnaz fyrer nockurn Rett, þo skal Kóngs Sok ei nidurdrepaz.

## 2.

Granskníngar, Liqvidationer og þeßháttar Dómar instefnaz fyrer þann Rett, sem Befalníngu þartil gefed hefur.

## 3.

Yfer-Kaupmanns Urskurdur skal strax fyrer Býfóvetañ, Borgmeistara og Ráð, og adra venjulega Dómara innstefnaz til Underrettíngar og Uppákenníngar.

## 4.

Þó má ei Yfer-Kaupmönnum edur ødrum em ecke eru retter Dómarar, helldur meir Underhøndlarar, tiltalaz fyrer þeirra Urskurt, utan so se ad þarynder finniz vitanleg Svik.

## 5.

Skiftabref, Adfarer, Utlegg í arfalausu Búe og í Góðza uppbode, innstefnaz fyrer þann Yferrett, sem þær Persónur eru under, sem somu Forrettníng giørt hafa.

## 6.

Commissarii, sem tilsetiaz, innstefnaz fyrer Yfer-Hofrettenn fyrer þeirra Dóma edur Forrettníngar.

## 7.

Prófastanna Dómar innstefnaz fyrer Stiftbefalíngsmanninum og Biskupinn.

## 8.

Herads- og Birkeþíngs Dómar innstefnaz fyrer Logþíngid, Býþíngs Dómar fyrer Rádstofu-Rettenn, Rádstofu Dómar stefnaz fyrer Logþíngid, edur hvar sem serdeiles Fríheit þarum tilhallda, rett fyrer Yfer-Hofrettinn. Logmanna Dómar innstefnaz fyrer Yfer-Hofrettiñ; Somuleides Stiftamtmannsins og Biskupsins, sem og þeirra sem dœma í Hiúskaparmálum stefnaz fyrer Kóngsins Hœdsta Rett.

## 9.

Birke-Dómarar í Greifadæmunum og Fríherra Dæmunum innstefnaz med þeirra Dóma rett til Hædsta-Rettar og ecke til Logþings edur Yfer-Hofrettarinns.

## 10.

Wilie einhvor stefna nockurs Underdómara Dóme, sem á Herads, Birke, edur Býþínge edur í ødrum Rette, sem ei heyrer beint under Yfer-Hofrettinn, dæmdur er, þá skal hann taka Underdómarans Dóm skrifadann, og honum innan sex Mánada frá þvi hañ uppsagdur er, fyrer Logmennina edur Yferrettina innstefna, edur sídan ecke hafa Magt hann ad átelia. Enn þar sem einhvor er dæmdur í þvílíkar Sekter, er hañ verdur Fridlaus fyrer, ef hann ei rettar fyrer sig, og ecke innan sex Vikna stefner Dómnum, þá hefur hann ei sídan Magt uppá hann ad tala, utan hann kunne ad fá Uppreisning.

## 11.

Hvor sem stefner einum Underdómara Dóme fyrer Yferdómara til ad Underkennaz, og same Dómur dæmiz vid Magt í allann Máta af Yferdómaranum, þá ber honum ad gefa sínum Vidurparte billegann Kost og Tæríng, og til Underdómaranns þad billegt er, epter Málsins Asigkomulage.

## 12.

Logmanna og adrer Yferrettarins Dómar, sem standa næst under Yfer-Hofrettinum, og Commissaria Urskurder, skulu innan Ars og Dags, epter ad þeir afsagder eru, innstefnaz til Yfer-Hofrettarinns; Þær Saker sem meiga fyrer Kóngsins Hædsta Rett innstefnaz, skulu innan átián Mánada frá þvi Dómurinn er útgefen stefnaz. Skedur þad ei, þá stande Dómurinn vid Magt, so vidt sem Dómaranum vidvíkur, so ad Dómarinn verdur án Skada, þótt Kóngurinn odruvíse dispensere, sosem ef Sokin vidkemur Omyndugum, og þeirra Fiáhalldsmenn eru ordner óvederheftuger, sem þeim kuña ad hafa nockud til Skada forsómad, edur Kóngurinn í Drápssokum edur ødrum Málum gefur Uppreisn, hvar Tíminn og Stadurinn til Sannleikans Upplýsíngar þess vidþarf, edur onnur Bevísíng betre í Málinu færez og framvísaz.

## 13.

Deße Logmadur edur soddan Yfirrettar Dómarar edur Commissarii innann Ars og Dags, þá skulu þeir sem þeirra Dómum stefna vilia, innann sex Mánada frá Dómaranns Afgánge taka Stefnu; Þó so ad somu Stefnu, Datum og Termin ei útleggez, skilez edur forlengez yfer þeß ádurnefnda Ars og Dags Termin, epter Dómsins Utgefníngu.

## 14.

Þó skal aungvum vera meinad, eñ og epter ad fyrrskrifad Termin er til Enda, ad stefna einum Dóm edur Forrettníng til Stadfestíngar, þegar Dómarañs Dómar edur Forrettnínger ei stefnaz til ad dæmaz ónýter.

## 15.

Somuleides þar nockur sínum Vidurparte vill stefna, ei klagande Dóminn edur Processiñ; helldur ad hann hafe krafiz þeß sem sídan er funded einu Sinne borgad, edur í annann Máta hefur giort nockur Origtugheit í sama Mále, þá má hann sínum Motparte stefna til Yfer-Hofrettarinns edur Hædsta Rettar fyrer þvílíkann Skada, honum í þann Máta uppáfærdañ, edur fyrer fals, epter því sem Sokinn er til, og hann treyster ser til med rette Málid ad kunna útfæra og forsvara.

## 16.

Eingenn skal fá Stefnu til Yfer-Hofrettarinns, utan hann stefne Logmañaña edur odrum Yferrettar Dómum, og bevísar ad hañ hafe teked skrifada bæde þá og Underrettarins Dóma, utan þeim Málum sem beint meiga stefnaz fyrer Yfer-Hofrettinn. So má og eingenn fá Stefnu í Cancellie Kóngsins til Hædsta Rettar, útan hann stefne Yfer-Hofrettarinns Dómum og hafe fyrer ser skrifada bæde þá og adra í Málinu ádur gengna Dóma, utan í þeim Málum sem beint byriar ad stefna fyrer Kóngsins Hædsta Rett, og má eingenn Sok til Kóngsins Hædsta Rettar stefnaz fyrer minna enn ad Hofudstóllinn og þad sem Málid reyser sig af, er tvo hundrud Lód Silfurs edur þeß verdt, hvort þad er Skulld, Bætur edur annad, utan þad vidkome einhvors Persónu, gódu Nafne og Mannorde.

## 17.

Hvørg Mál, hvart einn fyrer Rettarneitun, og valldsama Þvíngun og Oforrettun er klagadur, meiga beinleides fyrer Yfer-Hofrettinn stefnaz.

## 18.

Kome einhvør fyrer Yfer-Hofrettinn edur Kóngsins Hædsta Rett med nockurt Mál sem átte ad hafa vered dæmt í Under- og Yferrettunum, og hefur þó ecke þeirra Dóma skrifada med ser, þá skal hann frávísaz, og gefa sínum Vidurparte Kost og Tæríng.

## 19.

Stefniz nockrum Dómara edur Domsmanne edur þeim sem nockud Rettarinns Erinde giort hafa, til ad ónýta þeirra Dóma edur Urskurda, og þeir verda dæmder nýter, þá skal sá sem stefnt hefur, betala þeim Kostnad fyrer þeirra Reisu fram̃ og tilbaka til þeirra Heimiles aptur.

## 20.

Þar sem einhvør í lióstum og vafalausum Málum, so og ødrum ónýtsamlegum Þrætum lætur ser stefna edur stefner til Kóngsins Yfer-Hofrettar edur Hædsta Rettar, til ad uppehallda Sokiñe þeß lengur, sínum Vidurparte til Kostnadar, þá skal sá Málinu tapar ei alleinasta betala Kostnadinn sem þarfyrer hafdur er, helldur og gefa sínum Mótparte Kost og Tæríng. Enn þar sem hann vill retta fyrer sig og fullnægia þeim Dóme sem yfer honum ádur fallenn er, og hanns Vidurpartur samt stefner honum fyrer Yfer-Hofrettinn edur Kóngsins Hædsta Rett; til ad færa hann í þeß stærre Umkostnad edur og alleina til ad hafa Stadfestu uppá þañ ádurgengna Dóm af Yfer-Hofrettinum edur Kóngsins Hædsta Rette, og hann ei tekur Contra-Stefnu, þá byriar honum aungvann Kostnad ad gefa sínum Vidurparte.

## 21.

Ef og nockur sem finnz ad vera Ovederheftugur, í lióstu Mále stefner fyrer Kóngsins Yfer-Hofrett edur Hædsta Rett nockurs Yferdómara Dóme, med hvorium hann epter rigtugre Handskrift edur Lofun er tildæmdur nockud ad betala

ala edur frá ser ad leggia, þá byriar honum ad setia vissu edur ánægelega Borgun fyrer þad Dómurinn áqvedur, so og fyrer hvada Kostnad hann med Uppehallde og vídara Proceß færer sinn Vidurpart í; og ef hann annadhvort ecke vill edur kann setia Borgun fyrer sig, þá skal Stefnan sem hann teked hefur, ecke hindra hanns Vidurpart, ad láta vid Rettarins Medal fullnægia þeim afsagda Dóme.

# VII. Cap.

# Um̃ Løgrettumen̄ edur Þíngmenn.

## I. Art.

Asamt med Sorenskrifaranum skal Retturinn sitiaz af átta Logrettumonnum, sem í Odals og Egendóms Þrætum, samt Lífs og Æru Sokum skulu ætíd med Sorenskrifaranum dæma. Enn í þeim odrum Málum skulu þeir sitia hiá sem Vitne og til Vitneskiu um þad allt sem í Rettinum framkemur, og skal þá Sorenskrifarinn alleina dæma, og Dóminn forsigla og forsvara, ad undanteknu í þeim Málum, hvar Login her edur annarstadar serdeileslega tilsegia Logrettumon̄unum ásamt med Sorenskrifaranum ad dæma, og skal med þá Dóma sem þeir til samanns dæma med honum, so fara, sem í þeim fimta Capitula þritugasta Articula umtalaz; Þá honum er stefnt fyrer þvílíkann Dóm, þá skal Sorenskrifarenn med tveimur af Monnunum sem med Sorenskrifaranum Dómin dæmt hafa, hvorium hiner adrer Fullmagt gefa, forsvara Dóminn.

## 2.

Amtmadurinn edur Fóvetinn og Sorenskrifarinn í hanns Forfollum og epter hanns Skickun skal árlega í Þíngstofunne, þá hid sídasta Þíng um Arid verdur halldid, nefna og tilskicka átta búfasta Men̄ í hvorre Þíngsókn til ad vera Logrettumenn, fyrer þad næsta Ar, hvorra Nofn í Þíngbókina skrífaz skulu, þeir skulu takaz í Eid af Logmañe, eñ Eidurin̄ skal ei takaz utan Einusinne þeirra Lífstíd. Þeita skal gánga rett um kríng og byria þar þad endaz epter Bygda Manntalinu, so ad þeir sem hafa þienad eitt Ar, skylu ecke þiena apt-

aptur, fyrrenn þad er komed um kríng til þeirra. Hvorier átta Menn skulu vera tilpligtuger utan Tilsogn ad koma á øll almenneleg Þíng, og annars þá þeir advarader verda af Sorenskrifaranum í þeim Málum sem Login serdeileslega uñtala, utan þeir seu interesserader edur í loglegum Forfollum, þá skulu adrer í þeirra stad nefnaz.

## 3.

Hvor sem utan logleg Forfoll ecke kemur, þá hann er nefndur og honum er tilsagt ad giora sinn Logrettn Eid, sekiz um þriú Lód Silfurs Kónge, og giore þó sinn Eid, og hvor Logrettumadur sem ei kemur til venjulegs Þíngs, edur til annara Erinda nær honum tilsegiz epter Logum ad koma, edur og í hanns Forfollum loglegum ei fær annann Logrettumann þartil, sekiz hvort Sinn tveim Lódum Silfurs, og skal þá Fóvetenn edur Sórenskrifarinn tilnefna þann edur þá í stadinn sem þorf gioriz, so ad talid ætíd kunne vera fullt. Hañ skal strax á sama Þínge betala þeim sem í hinns stad er tilsettur 16. Skilldínga um Daginn, og sídan sækia þad aptur hiá þeim seka.

## 4.

Í Kaupstodunum skulu átta Menn tilnefnaz af Býfóvetanum fyrer utan Mismun á Borgurum árlega, og giora þeirra Eid fyrer Logmanne edur fyrer Yfervalldinu í þeim Stodum sem ei standa under Logmannanna Dómum; Hvorier ed skulu skyllduger vera ad koma til Býþíngs edur Logþíngs í hvoriu Sinne þad verdur halldid, og annars nær þeir af Býfóvetanum advaraz í þeim Málum sem Login serdeiles umtala. Þetta skal gánga rett um kríng og byria þar þad endaz epter Manntalinu, so ad þeir sem hafa þient eitt Ar, skulu ei þiena aptur fyrrenn þad er komed um kríng til þeirra. Hvor sem ei siálfur Forfalla vegna kann koma, skal fá Mann fyrer sig, edur sekiaz, sem her ad ofan um Logrettumennina á Bygdinne sagt er, og á Býfóvetenn samt ad fylla Talid epter Manntals Rodinne.

5.

## 5.

Allra Logrettumanna Eidur skal vera, ad nær þeir verda kallader Rettinn ad sitia, skule vel gaumgæfa allt þad í Rettinum framm fer, uppá þad, nær þess oskad verdur, þeir kunne gefa rigtugt Þíngsvitne í Sannleika, og ad þeir í þeim Málum sem þeir eiga ad dæma edur skinia og úrskurda, skulu soleides úrskurda og dæma, sem þeir vita sannast og rettvísast epter Logum; Somuleidis ad þeir vilie trúlega og ærlega afreka allt þad þeim Rettarins Vegna befalaz. Eingenn af þeim skal sitt Signet frá ser afhenda, edur ødrum betrúa, enn setie þad siálfer under Doma og Rettarinns Giorninga, nær þeir af Þíngbokinne fyrer þeim lesaz og samanberaz. Hvor sem fundenn verdur ødruvís ad unnsigla, enn sem rett og sannferdugt er, sekiz um tuttugu Lod Silfurs, og stande þeim Sókta til retta epter Yferdómarans Urskurde, og ef nockur af Dómara, edur Yfervallds Stande, hann sig her til lockar, straffiz sem Falsare.

## 6.

Þegar Þíngid til rettrar Tídar sett er, og þeir Málspartar sem til stadar eru, yferheyrder, og epter ad Þrisvar er upphrópad, hvort nockur vídara vill gánga í Rett, og eingenn sig frammi er og Þíngmenne ner samt Dómarinn skiliaz ad, þá, nær Þíngid sceleides er slited, er þad ei sett samt Dag. Enn ef Dómarinn fyrer Bulldre, Hávada og Otrikker Saker, verdur ad standa upp frá Rettinnm, þá nær Hávadinn er stilltur, má Retturinn og Þíngid halldez sama Dag. Somuleides þar sem Þíngid, Sokum Rettarinns Neitunar af Domaranum verdur slited, þá má þad aptur setiaz sama Dag, þo ei af þeim Dómara sem fyrer Rettarinns Neitun er skulldadur; Enn þar skal strax af Yfervalldinu edur Herskapnum edur þeirra Fullmegtugum adrer þartil skickaz.

E

# VIII. Cap.
# Um Skrifara vid Rettinn.

## I. Art.

Aller sem beställter eru í Under- edur Yferrettunum ad skrifa, skulu uppriktuglega hond-

höndla í þeirra Bestillíngu, epter þeim Eide sem þeir svared hafa.

## 2.

Þeir skulu hvor fyrer sig hafa Þíngs- edur Rádstofubók edur Protocol, samt allar Bækur Rettinum tilheyrande, numereradar, igegnumdregnar og innsigladar, þær sem heyra til Underrettunum med Kóngsins Befalíngsmanns edur Yfervalldsins; enn þær sem Yferrettunum tilheyra med Stadthalldarans edur Stift-Amtmannanna Signete. Notarius Publicus Regius skal og hafa igegnumdregenn Protocol med Kóngsins Stadthalldara Signete.

## 3.

Þeir skulu í fyrrskrifadar Bækur edur Protocolla, med Ástundan og Trúskap án Betalíngs, innteikna allt hvad á Þíngunum fyrerfellur, og fyrer Rettinum, hvört þad eru Dómar, Urskurder, Þíngsvitne, Panta- Afhendíngar- Makaskipta- Gáfu- og Maningsbref, og adra Rettarinns Giorninga, epter þeirre Ordu sem þaug framlögd eru; og meiga þeir á Þíngum ei skrifa á annad, edur lausan Pappír, og sídan skrifa þad heima hreint; heldur skulu þeir þad strax á Þínge edur hvar Retturinn er halldinn í somu Bækur edur Protocolla innfæra. Blödin og Sídurnar skulu þeir og skrifa full, og ei láta nockud Rúm standa audt, hvar á nockud kunne tilsetiast.

## 4.

Enn skulu þeir þar fyrer utan hafa eina Bók, hvarí Gienpartar af ollum þeim Dómum skulu skrifast, sem útgefast. Item eina Bók, hvar í oll Panta- Makaskipta- Afhendíngar- Gáfu- og Maníngs-Bref og þeßháttar skrifast, epter ad þaug fyrer Rettinum lesenn eru, og bæde af Dómarannum og Skrifaranum uppáskrifud Ord fyrer Ord skulu innfærast, og serhvorium til Epterrettíngar skrifleg útgefast, þar af þeim sem vita þurfa, hvört þad Gotz sem boded er til Panta- Makaskipta- Solu edur Giafar er odrum ádur pantsett edur afhendt, og nær nockur sitt Panta-bref, edur onnur soddan Bref sem í fyrrnefnda Bók eru innfærd, innleiser edur umbreyter, þá skal hann vera skylldugur þaug uppáskrifud ad framskicka til næsta Bygda-

þíngs

þíngs edur Logþíngs, sem halldaz epter sex Vikna Frest epter ad Innlausnin edur Umbreýtíngin sked er, ef þad er í sama Stifte, og epter tólf Vikur, ef þad er útan Stiftes, samt og til Rádstofu epter fiórar Vikur í sama Bý, og átta Vikur i odrum Bý, so þad af Skrifaranum í Bókina teiknad verde, under hundrad Lóda Silfurs Bætur til Kóngs, og þar fyrer utan ef nockud Fals þar under finnz ad vera giort, ad lída sem ber.

## 5.

Skrifarar og adrer sem giora nockurn Dom, skulu í Dómana allt þad innfæra, sem Hofudsokinne vidvíkur, og ecke fyrer nockurn þeirra Ábata, Brefin lengia edur lengia, edur odruvís skrifa, enn sem forsvaranlegt kann ad vera. Brefin skulu þeir klárlega og vel fullt skrifa, og þeir sig her á móte forsiá, skulu epter loglegann Proceß straffaz, epter því sem Yfersionin er til; og þar sem einhvor af Dómurunum, sem her yfer ega ad hafa Umsion, advaradur, ecke betrar sig, edur vísvitande giorer á móte sínum Skrifara-Eid, þá skal hann strax setiaz af, og ecke meir Skrifara Embætte þiena.

## 6.

Þó skulu þeir ei vera skyllduger meir enn Meiníngunna í Dómana ad innfæra af þeim Skiolum sem fyrer Rettinum eru lesenn og uppáskrifaz, uppá þad ad sordan vidtloftug Skiol, Málid ei ofmiked skule forblóma, og Yfirdómarana sídan villa í Málsins retta Skilnínge.

## 7.

Nú veigrar einhvor Skrifare ser mótviliuglega í Þíng- og Rádstofubókina edur Protocollum ad innfæra þann Vitnesburd sem færdur er, edur annad sem med rettu innfæraz á, hvarmed nockurs Rettur mege spillaz, sekiz sextiu Lodum Silfurs, og þar fyrer utan stande þeim, sem misbroted er vid, til retta fyrer þann Skada sem hann þaraf lided hefur. Enn serhvor Dómare og Skrifare, sem trúad er til Protocolls og Skiala, skal vera skylldugur til án Uppehallds og Forsómunar, medan hann Skiolin í Hondum hefur, ad láta hvorn einn Vidkomande sem þeß óskar, fá rigtugar Utskrifter af allslags Documentum, Brefum og Innleggium sem af serhvorium Málspartanna eru logd í Rett, og þarf ser

ei ad veigra, hvad sem nockur af Partanum kynne meina sig ad hafa þar á móte ad segia.

## 8.

False einhvor Skrifare edur adrer Þíngbókina edur Protocollinn, edur útgefe folsk Þíngsvitne, þá straffiz hann þarfyrer sem Falsare, á hanns Æru, Hond og Búslód. Enn ef Lögrettumadur sem skal forvara sitt Signet, og brúka þad til Rettar og Sannleika, med Ásetnínge innsiglar eitthvad sem hann visse falskt ad vera, edur ef nockur dirfez til ad brúka Lögrettumanna Signet til Falß, vere sama Straffe underorpenn.

## 9.

Nú helldur Skrifarinn fyrer einhvorium annadhvort Þíngs edur Rádstofu Vitne, Dóme edur odrum Brefum, ad gefa þaug útskrifud í Býum̃ yfer fiórtan Daga hid lengsta, epter ad þaug eru teken, og á Landinu yfer fiórar Vikur ad endadre Þíngreisunne, med því móte ad þeß fyrer Rettinum se óskad, og Hálfparturinn Skrifara=Peníngaanna med stimpludum Pappír þar til honum sey afhendter, þá gefe hann fyrer hvorn Dag sem framyfer Tímann er uppehalldered tvo Lód Silfurs þeim sem þar epter bídur.

## 10.

Innehallde Lögmadur, edur Yfer=rettar Skrifare fyrer einhvorium Dóme framyfer fiórar Vikur, epter ad hanns er óskad, bæte fyrer hvorn Dag fiogur Lód Silfurs; Enn ef hann af Ásetnínge uppehelldur nockrum, og þarmed hindrar, ad hann ei kann fá Stefnu til Kóngsins Yfer-Hofrettar edur Hædsta-Rettar í þeim Málum sem eiga rett beinleides þángad ad koma, þá hefur hann forbroted sína Bestillíngu.

## 11.

Yfer=Hofrettarinns Dómar, skulu útgefaz epter því sem þeir verda afsagder, og má eingvum hañs Dómur afhendaz fyrr enn aller þeir, sem ádur enn hann hafa Dóm fengid og þeirra skriflegra óskad, sína Dóma medteked hafa, og má Yfer-Hofrettarins Skrifare ecke hallda Dóminum fyrer nockrum yfer sex Vikur; Ei helldur Greifanna edur Fríherranna Birkeskrifarar yfer fiórar Vikur, frá því hann er afsagdur, under þad Straff sem í

næst

næst fyrerfarande Articula umtalad er.

# IX. Cap.

## Hvør þar maa ganga i Rette fyrer sig sialfann edur adra.

### I. Art.

Løgfellder og Minne Menn meiga gánga í Rett og svara fyrer sig siálfer nær þeim tiltalad verdur.

### 2.

Enn ef þeir orsakaz ad tala uppá einhvøria Søk, þá meiga þeir ei siálfer á Þínge þeirra Mále tala, helldur skal Húßbóndinn edur Yfervalldid láta þeirra Vegna tala, edur forordna einhvørn sem skal sækia þeirra Mál.

### 3.

Ef einhvør bregdur nockrum um þad sem gengur í Rett fyrer soddan Menn, þá sekiz hann átta Lódum Silfurs, Hálfpartinn til Dómaranns, enn Hálfpartiñ þeim sem geck í Rettenn.

### 4.

Skulldaz einhvør fyrer þad í nockrum Rette ad yfer honum se gengenn Domur og hann løgfelldur í ærlegre Søk, og strax rettar fyrer sig, þá má honum leifaz þad, og Rettargángurinn ei þarfyrer spillaz.

### 5.

Enn skulldaz soddann løgfelldur Madur ei fyrer Rette, helldur lætur hanns Vidurpartur hann óuppátaladann gánga í Rett móte ser, þá kann Vidurparturinn ei, epter ad Dómur er í Søkiñe gengenn, fyrer þá Orsøk hrinda edur apturkalla Dóminn.

### 6.

Eingenn Kvennpersóna má fyrer Kongsinns Yfer-Hofrette edur Hædsta Rette gánga í Rett, utan Málid vidkome hennar, hennar Manns edur Barna Lífe og Æru.

## 7.

Borgmeistarar og Ráð í Kaupstodunum og Yfervalldið edur Húßbóndinn á Landsbygdinne skulu fá soddan, sem ecke meiga edur kunna gánga í Rett fyrer sig siálfa, þær Personur til að tala Mále þeirra, sem þá kunne forsvara.

## 8.

Procuratores sem sækia og veria eiga og mega Mál Manna, skulu vera góder, uppriguger og órygtader Menn.

## 9.

Í Kaupstodunum skulu þeir vera so marger sem Bysins Leilegheit útkrefur.

## 10.

Eingenn má sig þartil láta brúka útan þeir sem af Borgmeisturum og Ráde þartil skickaz og af þeim takaz í Eid, að þeir í aungvum Málum, sem þeir vita raung og órettferdug, vilie láta sig brúka, aungva Orettvíse í Rettargánginum, Vitnafærslu edur annarleides vísvítande dríla; Ecke með Logkrókum, Burtuverum, Uppehallde, ónauðsynlegum edur uppfundnum Undanbrogðum án billegra Orsaka Málinu uppehallda; aungvar lángar Stefnur edur Innlegg skrifa, og þarmeð Orsok gefa, að Dómarner lenge Málið framar Nauðsyn; Ecke setia Fólk saman edur hindra loglegar Forlíkaner; Ecke vilie þeir Fátæka edur adra með óbillegum Launum útsiúga; Endelega að þeir sínum Principaler með Asiundan, Trúskap og Upprigtugheitum þiena vilie; Um hvoriar Greiner, og um þeirra Eid þeir af Dómaranum skulu áminnaz í hvoriu Mále sem er efasamt, og ef Dómarinn helldur það nauðsynlegt, giora á ný Eid fyrer Rettinum, so og serdeiles advara, að þeir ráde Fólke frá Skiense, Glúffum og Glósum, og allra mest fra æruleyses Ordum, þá ecke er sókt epter Grunne.

## 11.

Hondle nockur Talsmadur her á móte þá skal hann strax af Borgmeisturum og Ráde affetiaz, og ei af Dómaranum leifaz að gánga í nockurn Rett, og þarfyrer utan strafsiz epter Sakarinnar Asigkomulage.

# 12.

Heim skal nockud tilleggiaz til Launa af Borgmeistara og Ráde fyrer ad setia Stefnur upp fyrer Under= edur Yferrettiñ, Supplicatiur og Innlegg ad skrifa, so og fyrer eitt heilt Mál ad drífa, epter þeß Stærd og Málseigand=anns Lelegheitum og Formegun, hvaryfer þeir avngvuñ med nockrum Tilslætte mega þyngia. Enn nær Yfervalldid befalar, skulu þeir þiena þeim Fátæku, hvort þad eru Eckiur, Vanvitrer, Fiárhallds=manns lauser, edur adrer, utan Betalings, og hafa þeirra Laun af þeim Kostnade sem þeim af Vidur=partinum tildæmiz.

# 13.

Gánge nockur Talsmadur fram=yfer þá Fullmagt edur Be=falningu sem honum gefenn er af hanns Principal honum til Skada, þá byriar honum ad standa honum til retta þarfyrer.

# 14.

Eingenn skal skylldugur vera ad brúka Talsmenn sem siálfur med sínum Forsiónarmanne, Frænda edur Þienara vill sækia edur veria Mál sitt.

# 15.

Á Landsbygdiñe má eingeñ Procurator brúkaz, helldur skal hvor þar sitt Mál sækia og veria, edur brúka þartil einhvørn sem er í Þíngsokninne edur Birkinu búsit=iande ærlegann Mann, edur óske af Yfervølldunum edur Húßbóndanum einrar Personu sem þarf kañ þiena, þó má þartil ei brúkaz í ødrum Stad assettur edur þarfrá burtdrifeñ Pro=curator.

# 16.

Procuratorer sem uppriktuglega drífa Saker, sem þeim til=trúadar eru, og finnaz rettsinnader, skulu ei þarfyrer af Yfervalldinu amaz, helldur líдaz og forframaz til Underyfervallda Embætta í Bøy=num.

# 17.

Þarsem Løgmenn edur adrer Yf=erdómarar í vigtugum og efa=somum Málum finna fyrer gott og navdsynlegt til Málsins Upplýsing=ar, ber Málseigandanum siálfum og þeim sem ad Málinu lúta, ad koma til Þíngs nær þeim þad tilsagt verdur under tuttugu Lóda Silfur

Sekter,

Sekter, Hálfpartinn til Dómaranns og Hálft til næsta Hospitals, utan þeir láte sveria þeirra logleg Forfoll.

## 18.

Spille einhvor aňars Mále med ólöglegre Sakargift, þá skal hann endurnýa Málspártinum Sokina aptur, og betala honum hans bevísanlegann Kostnad.

# X. Cap.

# Um̃ Forføll og Undanbrøgd.

## I. Art.

Logleg Forfoll í ollum Rettargánge eru þesse: Ef Madur liggur á sinne Sóttarsæng, so ad hann kann ei koma, edur ef madur er í Kóngs Erende hindradur; edur hann er kalladur fyrer Ædre-Rett; edur hann skal veria Jord sína, ef þad er hanns rette Logdagur: þesse Forfoll skal, sá sem stefndur er edur stefnt hefur, þar sem hann Vegna einhvors þeirra ei kann koma, láta sveria á Þínge med upprettum Fíngrum epter Logum, utan hann se utan Rikes, í Kónglegum Erindum sentur; Eñ se haň í Ríkinu, þá gefe hann under sinne Hende, ad hann í soddan Kónglegu Kalle var, og kaň þar fyrer ecke koma, edur sende sinn Umbodsmann.

## 2.

Enn ef hann verdur sigtadur á Þínge, so hann siálfur heyrer þaruppá, fyrer hvada Sok þad og er, edur hann tekur vid Giensmæle á Þínge, þá meiga honum eingenn Forfoll hiálpa, ad hann siálfur edur hanns Umbodsmadur ege ad koma og svara.

# XI. Cap.

# Um̃ Heimild.*)

## I. Art.

Hvor

*) Vegna þeß ad HEIMILD í Adkomstar Sokum merker þad sama í Íslendskunne og Dønskunne, þá er sama Ordid her brúkad þó þad merke her lángt annad. Heim,

Hvor sem Heimill vill vera á Þíngum, edur í nockrum Rettargánge, sín eigen, edur sinna Húßbænda Vegna, og vill þarmed draga adra frá sínum Rette, þá skal sá sem so heimilar, strax persónulega standa í sama Stad, under somu Sókn lída og gialda hvada Logmál í sama Rette kann uppá ad fylgia, uppá þad einkis Mañs Rettur edur Sókn skule spillaz, edur til Skada dragaz.

## 2.

Eingenn Heimild skal gillda fyrer fullt, utan þeß sem Vedurhestngur er, edur þeß Fullmegtugur, sem þar ber ad svara med rettu.

## 3.

Eingenn skal framskicka sitt Heimildar-Bref á Þíng, utan hañ sende sitt Bod þarmed, sem fullmyndugt og fullmegtugt, ad strax gete gengid í Rett, sem ádur er skrifad.

## 4.

Kunne þad henda sig, ad nockur med Heimild framkome, añadhvort persónulega, edur med Heimildar-brefe, olldúnges ánægelegu, sem fyrr er ritad, þá skulu Domarar bæde til Logþings, Byþings, Birkeþings, Bygdaþings, edur í odrum Rettum, vera skylduger ad dæma, epter Logum, fyrer utan alla Affsokun, edur Uppsetníng, þad má vera hvor þad vera kañ, sem annadhvort persónulega, edur med Heimildar-Brefe, inngengur í Heimills Stad, ecke álítande nockrar Persónu Stand, edur Condition, látande báda Málspartana fá sama



Dóm

HEIMILD er þad her þá einn tekur vid annars Søk og seger hana sína vera. Til D. Tveir Bændur ega Mál saman fyrer Rette; og þar kemur eiñ stór Herra og seger um̃ annann Bóndann: þesse er minn Landsete, og hanns Søk er mín, og þid hafed eckert med hann. Þá verdur ad sønnu Søkinn þessa Stórherra, enn hann á þá ad dæmaz eins og Bóndinn, þó hann være Greife, sem einasta ætte añars ad dæmaz fyrer Kóngsins Hædsta-Rette, og heiter þetta i Dønskunne HJEMMEL, sem her er útlagt HEIMILD, og er þetta sett til ad aftaka Osid þann, sem her vid geck í gamla Daga, ad þegar einn Magtar-Madur tók soleides einn Avmingia ad ser, var bágt ad koma Logum yfer hann.

Dóm og Rett, sem þeir aňars villdu, edur skylldu giöra og afsegia millum Sóknarans og þeß, sem fært hefur Heimilld, so ad aldeiles eingenn í sínum Rette og Mále fyrer soddan Heimild hindriz, edur uppehalldiz.

# XII. Cap.
# Um Skickanlegheit fyrer Rettinum.

## I. Art.

Hver, sem kemur á Þing edur fyrer nockurn Rett, edur Commißion, hvort hann er Hofudmadur, edur Fullmegtugur, Vitne, edur adrer, skulu heidra Kóngsins Rett, og med hæglátum Ordum, skickanlegum Látum og Fegtum, bæde vid Dómarann og Vidurpartinn gánga í Rett, og framfæra þeirra Saker.

### 2.

Á Þíng meiga koma hverier sem vilia, þótt þeir eckert Mál þar hafe, þó skulu þeir ei sitia þeim Mønnum til Þreňgsla, sem eru tilsetter þar ad sitia, edur sem hafa med Mál ad giöra; Somuleides eiga þeir aller ad gánga út, þá þeim er útvísad, ella sekiz þrem Lódum Silfurs.

### 3.

Hver sem giörer á Þíngum, edur fyrer nockrum Rette, edur Commißion, Dómaranum Ohlióđ med Hrópe, Buldre, Bánge, edur Blóte, edur gefur sínum Vidurparte nockur Skiensyrde, edur kallar eirn annann ærlegañ Mann Lygara, edur í annann Máta talar ærlegu Fólke uppá þeirra Æru og Virdíngu ofnærre, og er Dómaranum óhlýdinn, og ecke vill gefa Pláß og Rúm fyrer Rettiñ, bæte Dómaranum þriú Lód Silfurs, og þarfyrer utan tiltaliz og straffiz, epter sem Misgiordin er stór til.

### 4.

Þó má ei sleppa Hofudsøkinne sem byriad er ad dríva, og byria adra Søk fyrer Ord eda Giørder, sem Partanna í mille kunna ad falla í Rettargánginum.

5.

Sá, sem útan Dómarans Leifes, edur Befalníngar, sver edur brúkar á Þíngum Guds Nafn fáfengelega til Þínga, edur fyrer nockrum Rette, skal gefa í fyrsta Sinne hann sver, hálft Qvintin, ödru Sinne 1. Qvintin, þridia Sinne hálft Lód Silfur, og so tvöfalldt framepter, þá tvo Parta til næsta Hospitals, og þann þridia Dómaranum, fyrer þad hann þetta innkrefur; og skal hvör, sem soleides sver, stilla Dómarann til Frids, fyrre enn hann fer af Þínginu, edur frá Rettinum, edur hafe forbroted þriú Lód Silfurs, hálft til næsta Hospitals, og hálft til Dómarans, og betale samt fyrer hvörn Eid, sem hann svared hefur, sem fyrr er skrifad.

6.

Þeir sem gánga í Rett fyrer Kóngsins Yfer-Hofrette, edur Hædsta-Rette, skulu tilbærelega og med sómalegu Respecte framfæra þeirra Mál, og fyrer Hædsta-Rette ætíd venda sinne Rædu fyrer Rettinum til Kóngsins, hvört helldur Hanns Majestet er siálfur tilstadar edur ei, og á medan þeir fyrer Rettinum eru, halda ser frá öllu Skense, Ligeþæníng, Svardögum, og Blóte og þvílíku Osficke, og hvad helldur Dómurinn geingur þeim med edur mót, skulu þeir med sömu Virdíng frá Rettinum gánga.

7.

Finniz nockur Procurator, edur Fullmegtugur, hertmót ad höndla, straffiz med Fángelse; Sömuleides, ef einhvör af Málpertunum siálfum, edur Underdómurunum sem svara fyrer þeirra Dóma, uppá fyrrsagdann Máta, gleima þeirre Virdíngu, sem þeir eru skylldoger Rettinum, þá straffiz þeir epter Sakarinnar Asigkomulage, og þeirra Stands og Efna Hættalage.

# XIII. Cap.

# Um Vitne og Þíngsvitne.

## I. Art.

Vitne er ei minna enn tvær Persónur, sem eru samhlióda í einum Hlut.

## 2.

Eingenn er skylldugur ad vitna annarstadar enn á sínu Varnar-þinge, þá þeir eru løglega kallader og stefnder.

## 3.

Vilie einhvør góðviliuglega vitna án Stefnu og Fyrerkalls, edur fyrer edrum Rette, Umkostnad þarmed ad spara, þá má þad honum leifaz.

## 4.

Þar sem nockud fornemme Fólk, sem ei plagar ad sækia Þíng, Mannspersónur, eda Kvennfólk, edur þeir, sem liggia á sinne Sóttarsæng, edur hafa ønnur løgleg Forfoll, krafed verdur til Vitnes, þá skulu þeir Siúku og þeir sem ei skrifa kunna, Heima med Eide, í tveggia løgfestra Manna Aheyrn, afleggia þeirra Vitne, hvørt sømu Menn á Þínge med þeirra Eide skulu framfæra; Enn hiner adrer, skulu þeirra Vitne skriflega med Eide stadfest under þeirra eigenn Hondum, tímanlega til Rettarins senda, hvørt ed skal agtaz eins gilldt til Verds og Straffs, eins og þeir á Þíngum med upprettum Fíngrum svared hefde.

## 5.

Eingvum ókunnugum Persónum má leifaz ad vitna, utan þær giore Skírslu á, hvoriar þær eru, hvar þær hafe þeirra Uppehalld, og hvar þær eru ad finna, hvørt ed og skal í Þíngbókina innfæraz.

## 6.

Annars má eingenn á Þínge epter skrifudum Sedle vitna, utan hann Sedilinn siálfur skrifad hafe, og hann siálfur fyrer Rettinum upplese, og med Eide stadfeste.

## 7.

Ef einhvør verdur krafenn ad vitna í nockru Mále, og Dómarinn leggur hønum Eid fyrer, Sannleikann þarf ad vitna, þá á hann ad vitna under Eid, allt hvad hønum þarum vitanlegt er, og hvad hann af Dómaranum, edur Portunum verdur tilspurdur um̃, til þeß Málsins Upplýsíngar, edur bæte Sakfóknaranum og Kónginum, hvorium tíu Lód Silfurs, utan hann kunne og vilie sveria ad hann veit eckert þaraf.

# 8.

Dómarinn skal kalla þá fram sem vitna skulu, og þeir skulu sveria med upprettum Fíngrum, ad þeir Saunleikann segia vilie, og aungvu þaraf leyna, og skal Dómarinn áminna þá, hvada Straff þar skal epterfylgia, þarsem þeir vitna Lyge; Serdeiles þar Málid rídur á miklu, og gyllder Folks Æru, Lif og Velferd, skulu þeir hvor fyrer sig innkallaz alleina og yferheyraz, og fyrer þeim uppleſaz Utleggíng Eidsins og Aminníngin, sem her aptan vid Login innfæriz, og á ollum Þíngum, og hvar Rettur halldinn er, á ad upphengiaz þryckt á eirnre Toblu.

hafa þad þau um Málid vita, og þad á bádar Sídur, ef Partarner báder hafa stefnt Vitnum í Sokinne. Og skulu þeß Vitne alltíd fyrre afheyraz, sem fyrre hefur stefnt í Sokinne. Vitnin í þvílíkum Málum skulu útsegia hvad þaug kunne ad hafa sed edur heyrt, og ad þau ecke vite meira, rettara edur sannara fyrer Gude, enn þad sem þau vitna. Enn þau Vitne, sem alleina vitna skulu um einhvors adkomande Giorníng, edur Skada á Jordu, Skóge, edur þeßháttar, sem hann eingvann Rett edur Hlut í hefur, hvarum hin siotta Bók Laganna greiner, skulu fyrst Eid afleggia, fyrr enn þau vitna, sosem oll onnur Vitne.

# 9.

Í Odals edur Egendóms Þrætum, hvar báder Partarner hallda sig ad vera Eigande, edur hafa Rett til Eignarparta, Landamerkia, Akra, Eingia, Skógar, edur Lands, edur Vatns, edur Rett til Fiskeries Rettugheita og þeßháttar, edur um þeirra Averka: Um serhvad af þessu skulu eingen Vitne sveria, fyrre enn þaug á þeim Stad, hvar til þaug eru stefnd, eru yferheyrd, og útsagt

# 10.

Finniz einhvor ad vitna openbera Lyge, med sínum Fríviliа og fullum Asetnínge, so menn kunna þeckia ad hann vitnade Lyge, þá straffiz hann á sínum tvem Fíngrum, og hanns Búslód falle undei hanns Húßbónda; og skal Dómarinn láta Skrifarann skrifa uppá þá folsku Vitnesbyrde, sem fellder eru, og senda þá med þeirra Nofnum, sem felder eru, til serhvors þeirra Yfervallda, ad þaug þá láte byrta

byrta á Bygda- Birkis- edur Bý-þínge, og Exsecution ske.

# 11.

Hver sem kauper annann til ad vitna Lyge, hann skal vera Madur ad minne, og straffaz á Búslód sinne, enn þó ei á sínum tveim Fíngrum.

# 12.

Finnist einhvörin Sinne Vitne í móte Vitne, og í einu Mále, þá skal Dómarinn granngæfelega ransaka og forfara alla Vitnesburdina á bádar Sídur, og dæma epter þeim, sem rettvíser finnaz; enn þad sem órettferdug finnaz, sækez þar fyrer, sem fyrr er mællt. Seu Vitne í móte Vitnum í Odals, og Egendóms Þrætum, í hvörium Eidurinn er ei tekenn, fyrrenn þaug eru ádur yferheýrd, sem ádur er sagt, þá skal þar umm fara, sem her epter seger í 5. Bókar 3. Cap. 13. Art. umm Odals Þrætu.

# 13.

Hafe einhvor vitnad á einu Þínge, og onnur Vitne þar í mót á odru Þínge skulu færaz, þá skal sá, sem ádur vitnade, loglega fyrerkallaz, til ad heýra hin Vitnin.

# 14.

Enn ef þaug onnur Vitne ei eru á móte hinum fyrstu, þá er ei þorf, ad þaug fyrstu þar til seu fyrerkollud.

# 15.

Þar sem einhvor af Málspartum, umm, skýtur til annara Vitnesburda og Bevísinga, enn hann hefur þá tilstadar, þá leifiz honum þad, þó ei utan Einnsinne, og skal þá nefnaz til hvada Vitnesburdar hann þá skýtur; Enn þar sem einhvor, í Odals edur Egendoms Þrætum, óskar Tídar ad sækia fleire og onnur Vitne, sem hann á nærverande Tíd ei kann nefna, þá má Dómarinn, honum einnrar vissrar og billegrar Tídar þar til unna.

# 16.

Bevísiz, ad sá, sem uppá einn annann vitnar, se hanns opinber Ovinur, edur Ofundarmadur, þá ber hanns Vitnesburdur ei ad agtaz.

# 17.

Villing Vitne, sosem Húsbónde, Husfrú, Foreldrar, Born, Hiú,

Hiú, Systkyn, edur eins nær Mægd, skulu ei agtaz, utan ei kunne onnur Vitne fáz, serdeiles í Dráps, Ofrkes, edur þeßhátt-ar Málum; því þá skulu þeir vitna, sem af vita.

## 18.

Viling Vitne skulu og halldaz ad vera, sem siálf í þeim Giorninge vered hafa, hvarum þavg vitna skulu.

## 19.

Ef Barn, sem er under fimtán Ar, ber Vitne, þá kañ þad Vitne hvorke reysa edur fella.

## 20.

Eingenn Obótamadur, edur nockur annar, sem felldur er fyrer óærlega Sok, Þiófnad, Forræde, edur Galldur, skal standa til Trúar í Vitnesburde, edur í annann Máta, hvad helst sem þeir vilia segia edur vitna uppá añañ.

## 21.

Sá, sem fundenn verdur óstodugur í sínu Vitne, og nú



seger eitt, nú annad, og nú játar, nú neitar því aptur, honum ber ei ad trúa; helldur straffaz, sem Lygare, ef ásett Svik hiá honum finnaz.

## 22.

Hver sem Vitne vill færa uppá þad annar sagt hefur, hann skal giora þad ad ferskum Fæte, og á fyrsta Þinge, sem hañ loglega kann stefna til, epter ad hañ um þvílíka Uppásogn er vís ordenn. Annars skulu Vitne uppá eins Munn ecke gillda í mót hañs Neitun.

## 23.

Enn epter Ars Forhlavp meiga eingenn Vitne færaz uppá þad nockur af annars Munne heyrt hefur.

## 24.

Beskickunar Vitne um hvad þeim verdur svarad, ber á Þinge med Eide stadfestaz, þar sem þeim verdur á móte sagt, og meiga ei fellaz, utan þavg med odrum loglegum Vitnum, edur odrum klárum Bevísíngum, drífez tilbaka.

25.

## 25.

Eckert Vitne má í egen Persónu stefnaz til Logþíngs, edur fyrer annann Yferrett, utan þad á sínu Varnar=þínge ei hafe viliad vitna sinn Sannleika, edur þad skulldiz fyrer sitt Vitne, ad þad se ósatt.

## 26.

Þó ef Logmenn, edur adrer Yferrettarinns Þienarar finna navdsynlegt, serdeiles í Æru og Lífs=Sokum, ad Vitne fyrer þeim í egenn Persónu skule yferheÿraz, og þavg loglega stefniz til ad útþÿda þeirra Vitne, og ad yfervegaz, og í móte odrum ad yferheÿraz, þá byriar þeim ad mæta, edur bæta Saksóknaranum og Herskapinu, hvorium fyrer sig tíu Lód Silfurs, nema þav láte sveria sín logleg Forfoll.

## 27.

Annars, nær Vitne alleina fyrer Processinu beskuldaz, og ei þeirra Æru og Fellíngu vidkemur, sem vitnad hafa, skulu þavg ei stefnaz til ad mæta.

## 28.

Nær einhver af Málspartunum, epter ad Dómur er genginn í Málinu, kann finna nockra betre Sannleikanns Upplÿsíngu og Bevísíngu, enn fyrer Rettinum verid hefur, þá skal honum ei meinaz þad ad giora, so framt sem hann sver, ad hann ecke hafe ádur vitad af þeirre Bevísíngu, edur hafe kunnad fá hana, uppá þad hann somu Bevísíngu fyrer Ædra=Rette, nær Sokin þángad kemur, kunne framfæra; Enn nær Málid er búed ad dæma í Kóngsins Hædsta=Rette, þá leisiz eingenn vídare Proceß.

## 29.

Þíngsvitne er þad, sem góder Menn, Logrettumenn, edur Þíngmenn, sem voru á Þínginu, vitna med þeirra Eide, þad þeir sáu og heÿrdu, og sá, um hvorn þad er, var siálfur til Vidurmæles á Þínginu, edur var loglega kalladur þartil, hvort ad er so sterkt, ad eckert þar í móte kann segiaz.

## 30.

Vitne nockur Madur í Þíngsvitne, sem logfelldur er, edur dæmdur til ad bæta sitt Trema[illegible], þá feller hann avngvan, utan siálfann sig.

XIV.

# XIV. Cap.

# Um Aburd og Eid.

## I. Art.

Sá, sem annann vill sigta og gefa Søk fyrer nockur Ord, edur Verk, hann skal giora þad uppá ferskann Fót, so snart sem hañ þarum er vitande ordenn.

## 2.

Eingver vfdare Eidar skulu á Þíngum og í Rettargánge leifaz, hvorke Sakaráberanum, edur þeim, sem sigtadur er, utan þeir, sem Løg og Rettur útkrefur og leifer.

## 3.

Vitne, sem med Eidum eru stadfest, mega ei med Vidurpartsins Eide neitaz.

## 4.

Eingenn má giora nockurn Eid, fyrrenn þad honum af Dómaranum leift er, edur verdur þad uppálagt.

## 5.

Dómarinn skal ecke lettelega leifa nockrum af Portunum ad giøra Eid, edur nockrum hann úppáleggia, álkrande þad, ad sá sem Søk gefur, á hana løglega ad bevísa.

## 6.

Neitunar Eidur má af Dómaranum uppáleggiaz, nær honum syniz, ad Málid þad útkrefur, edur i hid minnsta epter Sakarinnar Tilstande fólkides, ad jafnvel þad ei nóglega bevísiz, þar þó er viß Grunseme, ad sá borenn er Søkinne, se sakadur, og S kina þarfyrer epter Løgum og Rette ege med sínum egenn Eide ser ad fráleggia, uppá þad hann fyrer vidara tiltale kunne sig fría; enn Edur mót Eide má avngvann vegenn af Dómaranum leifaz, miklu sídur uppáleggiaz.

## 7.

Villie sá sem fyrer Søk verdur ei sinia med Eide, nær þad honum af Dómaranum verdur uppálagt, þá má Sakaráberenn giora sinn Eid, og skal sá Sigtade hafa tapad Søkinne.

8.

Eingenn skal sveria tylftar Eid fyrer nockra Sok.

# XV. Cap.
## Um eginn Medkenniingu.

### I. Art.

Ef einhvor fyrer Dóme og Rette vidgengur því, sem hann er borenn og skulldadur fyrer, þá má hann ei sídar gánga frá því.

2.

Situr hann í Fángelse, og í annars Manns Vallde, og Þvíngan, og medkenner eitthvad, sem hann sídan, þá hann kemur til síns Frelses aptur, neitar og frágengur, þá ber þvílík hans Medkenníng ei ad vera honum til Hindrunar edur Skada.

3.

Ef einhvor er sóktur og tiltalad fyrer einhvoria Sok, og tilbydur sínum Vidurparte Penínga edur annad, ecke þar fyrer ad hann medkenner sig sakadann, helldur ad hann kunne vera frí fyrer Þrætum og Rettargánge, og Vidurparturinn ei vill taka ímóte því Tilbode, þá kann þad Tilbod ei sídan þiena til nockurrar Bevísíngar, ad hann se sekur, enn Vidurpartinum byriar adrar loglegar Bevísíngar ad færa móte honum í Málinu.

# XVI. Cap.
## Um Granskningar (Areid.)

### I. Art.

Nær einhvor klagar sig ad lída Orett, á Jordu, Enge, Skóg-skiftum, Gerdum, Vatnsfollum, Byggingum, Beit í sameaenlegu Lande, edur Akurenge, Landamerkium, Fiskerie og ollu þvílíku, sem ei kann dæmaz, fyrrenn Sión, edur Skodan skedur, þá skal Sorenskrifarinn med sex Logrettumonnum, sem Fógetenn útnefner, koma á Plátsinn og þar ransaka og skoda, hvornen því er vared, uppá hvoria Areid og Skodan

an Dómaranum strax byriar ad dæma á Stadnum, hvad rett er; þykiz nockur Vanhalldenn, þá stefne hann fyrer Logmann.

## XVII. Cap.

# Um Bønd og Fangelse.

## I. Art.

Ingenn má bindaz, utan hann ad ferskum Giorninge se gripenn, sem honum ber ad lída fyrer á Lífe, edur Limum, edur siálfur á Þínge vidgengur þvílíkum Giorningum, edur honum fyrer Þíngsdome eru yferbevísadar soddan Saker. Annars skal hvor einn, sem soleides fyrer Retti og á Þínge áklagadur er, vera óhultur og frí frá og til Þíngs, og tilláted ad svara fyrer sig, þó so ad hann setie Borgun fyrer sig.

## 2

Ef einhvor verdur gripenn á Náttarþele, í annars Manns Húse, edur í hanns Bæ med sonnum Merkium, ad hann vilde stela, edur giora Ofrike, þá má hann bindaz.

## 3.

Take madur Mann og binde, fyrer hvada Sok þad vera kann, og ei færer hann til Kongsins Foveta, edur til annars Yfervallds, enn lætur hann fyrr lausann, þá er hann sekur um sextíu Lod Silfurs.

## 4.

Sleppe Obótamadur út, og verde laus af Bondum og Fángelse, þá má taka hann, hvar sem madur finnur hann.

## 5.

Vilie Kóngsins Fóvete, edur Yfervalldid, ei medtaka Sakamanninn af þeim Sækianda, þá þess er af þeim oskad, og láta forvara hann, og hinn sakade þarfyrer strýkur frá Bóndanum og verdur laus, þá er sá ángurlaus, sem batt hann; Enn Kóngsinns Fógete, edur Yfervalldid, sekiz sextíu Lódum Silfurs; Enn finniz þad nockru Sinne, ad hann med Fóvetanns Vilia, edur Yfervaldsins Vitund, Ráde edur Dád se sloppinn, þá dæmiz þarum fyrer Yfer-

errettinum, hvada Sektum þeir í hædsta Máta skulu svara, edur og straffaz á þeirra Embætte edur Personu, epter Málsins Lelegheitum.

## 6.

Binde madur nockurn med Orettu, setiz um sextiu Lód Silfurs.

## 7.

Finniz nockur rasande, edur galenn, þá má binda hann hvor ed vill, og færa hann til Þíngs; og bióda Frændum hanns hann til, og eru þeir skylduger ad forvara hann, so framt þeir hafa Fe þar til; Ef ecke, þá ber Yfervalldinu ad setia hann í Forvaríng.

## 8.

Ef einhvor fundenn verdur á annars Manns Gótze, sem med Rettu takaz má, þá ber þeim, sem hann grípa og burtfæra vilia, ad gefa þad til Vitundar Landsdrottne, edur hanns Fullmegtugum, edur hanns Landseta, sem býr á Gótzinu, ef Landsdrottenn, edur hans Fullmegtugur er ei so nærre til stadar, fyrr enn þeir færa hann burt af Gotzinu.

## 9.

Enn vilie nockrer þá her í hindra, og hann þarfyrer kemz undan, þá ber þeim ad skaffa hann aptur til stadar, og bæta sextíu Lódum Silfurs, fyrer utan adrar Bætur, epter Logum, ef þeir giora nockurn Skada; Fáe þeir siálfer nockurn Skada, hafe bótalaust.

## 10.

Ef Fánge verdur tekenn med Vallde úr Fángelse, edur frá Rette, og undan Straffe, þá hafa þeir þad giora, forbroted Frid og Búslód.

# XVIII. Cap.

# Um piinulega Yferheyrslu.

## I. Art.

Eingenn skal pínulega yferheyraz, utan hann ádur se til Dauda dæmdur fyrer eitthvort Odádaverk, nema þad se in crimine Majestatis í hædsta Máta, þar Sakarinnar Asigkomu-

lag

lag ecke þoler, ad þeim veniulega Lands Proces se fylgt.

# XIX. Cap.
# Um Arrest og Kyrrsetniing.

## I. Art.

Arrest skal gioraz med Rettarinns Þienurum og Kóngsins Fóveta, edur og, ef þeir eru ecke til stadar, med tveimur Dánumonnum.

## 2.

Neite Rettarinns Þienarar og Kóngsins Fóvete ad giora Arrest, nær þeß verdur óskad á nockurs Persónu, edur Góße, sem arresteraz má, þá skulu þeir svara þeim sem klagar til þeß Skada, sem hann bevísar ad hann þaraf líde.

## 3.

Ef Rettarinns Þienarar og Kóngsins Fóvete giora Arrest á einhvörs Persónu, edur Góße, sem ei er Arreste undergefenn, þá svare þeir siálfer þartil.

## 4.

Hvör sem óskar Arrests á nockurs Persónu, edur Góße, hañ skal setia þeim, sem Arrested óskaz af, nógsamlega Vissu og stilla Borgun, ad hann til Málsins Endalycktar skal vera til stadar, og ad svara til alls Skada, sem þaraf orsakaz, ef þad finnz ólöglegt.

## 5.

Eingenn, sem kemur í Kóngs Erende til nockurs Stadar, og þad strax fyrer Rettarinns Þienurum bevísar, má á sinne Persónu arresteraz.

## 6.

Eingenn Utlendskur, á móte upprettudum Sáttmála, edur Iñlendskur mót Kónglegum útgefnum Fríheitum, má takaz í Arrest.

## 7.

Eingenn, sem kann og vill strax setia nóglega Vissu fyrer þad hann er sóktur um̃, ber á Persónu, edur Góße, ad arresteraz.

 8.

## 8.

Er einhvor utan Bys, Birkes, edur utan Sóknarmadur, epter rigtugre Handskrift, Reverse, edur Dóme, vitanlega Skulld, edur annad, skylldugur, sem ei á rettre Tíd er betalad, edur endt, þá má hanns Persóna, edur Góz, hvar sem hann, edur þad finnz, í Byunum, edur á Landinu, arresteraz.

## 9.

Finniz einhvor innann Bys, Birkes, edur Þíngsóknarmadur, sem epter fyrerfarande Articula er nockud skylldugur, og er Ovederheftugur ad afhenda, edur fela sitt Góz, til ad svíkia sína Skuldunauta, þá má þar leggiaz Arrest uppá hanns Góz, edur Persónu.

## 10.

Hafe einhvor vered í Kóngsins, edur annars Húßbónda, Þiónustu, edur haft nockra adra Bestillíngu, sosem Kirkiu Umbod, Fátækra Fiárhalld, Formyndaraskap, Kaupstada Peninga, edur nockud annad, sem hann skyllde giora Reikníng og Rigtugheit fyrer, og hañ hefur þad ei giordt, og hann ecke



kann stilla nóga Borgun fyrer sig, edur ætlar ad flytia burt, þá má bæde hann og hanns Gots arresteraz.

## 11.

Se einhvor skylldugur fyrer Húsaleigu, þá Fardagar eru úte, sem honum ber ad flytia sig á, þá má hanns Góz arresteraz.

## 12.

Enn ef funded verdur ad hann flytie sitt Góts af Húsinu, þá má leggiaz Arrest á hañs Persónu.

## 13.

Hafe einhvor leged í Herberge og fortært, og vill flytia sig af Húsinu, fyrre enn hann betalar fyrer Herbergid, og þad hann fortært hefur, þá má hanns Góz í Húsinu arresteraz, og ef þad syniz ecke ad hrockva til, þá má Arrest leggiaz á hanns Persónu.

## 14.

Hafe einhvor annars Mañs Góz inne hiá ser, og sama Góz loglega verdur arresterad, þá má sá, sem þad til Geimslu hefur, ecke

Hvor einn sem vígist til Presta-Embættesins, skal gefa til þess Kónglega Universitets í Kaupenhafn 2. Lód Silfurs, sem af Biskupinum skulu innkrefiast og sendast árlega Rectori Universitatis.

# IV. Cap.

## Um Prestana Embætte med Þionustunna i Kirkiunne og Predikunine.

### I. Art.

Eingenn Prestur má hafa fleyre Kyrkiur, enn hann til Gagns med Predikunum, Sacramentanna Utdeilingu, Ungdómsins Uppfrædingu í Barnalærdóminum, og Vitiun Siúkra, vel kann fyrer standa.

### 2.

Hvor Sókn í Kaupstødunum skal hafa í minnsta Máta 2. Predikara, enn hvar þar í einum Bý er stór Sokn, og ecke utann ein Sókn, þar meiga þær hafa fleyre.





### 3.

Sóknarpresturinn predikar til Hámessu, og Medþienarinn til Otta-Saungs, og Kvollds-Saungs, so sem í hverium Stad híngad til brukanlegt vered hefur.

### 4.

Prestarner skulu hallda Gudsþiónustu í Kyrkiunum med Lesinr, Saung, Bæn, Predikun og Sacramentanna Utdeilingu, epter þeim Hætte og Ceremonium, sem í Vorfrú Kirkiu í Kóngsins Residentz Stad Kaupenhafn hellst og brúkast, epter þeim tilsetta Ritual.

### 5.

Prestarner skulu hallda Gudsþionustu í Kyrkiunum á eptersskrifudum Tímum Arsins: Fyrst á ollum Sunnudogum. J odru lage á epterfylgiande Helgumdøgum; þremur Christi Stórhátídum, hvorre í samfellda þriá Daga, Jolum, Páskum og Hvítasunnu, Nyárs edur Christi Umskurnardege, Þrettánda edur Christi Openberunardege, Hreinsunardege Mariu, Bodunardege Mariu, sem

halldast á Pálmalaugardag, ef hañ ber uppá Pálma Sunnudag edur þar epter, Christi Uppstígníngardege, Ste. Johannis Messu Baptistæ, Vitiunardege Mariu, Michelsmessu, Allra Heilagra Messu, Item Skirdege og Fostudege lánga. Í þridia Máta á ollum almeñelegum Bænadogum, sem í Kaupstodunum skulu halldast hvorn Fostudag af hvorium Sóknarpreste þad heila Ar í gegnum; enn á Landsbygdinne á þeim fyrsta Númhelga Midvikudege edur Fimtudege, á þeim Stodum sem þad er so tilsett í hvorium Mánude í Hofud Sókninne, og á þeim odrum á Annexiunne; þó til Fia'lsiñs og vid Siósidnna um Laugardaginn, Almúganum til Hægdar; og skal Þiónustann byriast þad fyrsta mogulegt er, so hún kunne verda endud fyrr enn nockurt Þíng verdur hallded. Í fiórda Máta á ollum Midvikudogum edur Fimtudogum, hvar þad soleidis er tilsett, í Fostu til efstu Vikunnar, á Landinu. Í fimta Máta á þeim Tímum í Kaupstodunum, sem híngad til hefur vered brúkanlegt.

6.

Prestarner skulu í þeirra Predikunum útleggia þá tilgiordu Texta, og þar út af draga til Trúarinnar Lærdóms og christelegs Skicks og Sida, og rettelega kenna Logmálid og Evangelium, epter Guds openberada Orde, og þeim heilogu Kyrkiuñar Symbolis og þeirre óumbreyttu Augsborgisku Játníngu, og bæde í Kirkiunne so vel sem í odrum Stodum, í ærlegum Samkvæmum, í Umgengne og Samfundum (Besogelser) áminna þeirra Tilheyrara ad óttast Gud og heidra Kónginn og láta í þeirra Lifnade og Liferne siá Trúarinnar Avoxtu, og sierdeilis so lempa þeirra Predikaner, epter því sem Tilheyraranna Framferde mest útkrefur.

7.

Þeir skulu í þeirra Predikunum og Utleggíngum ei framfæra nockud sem er myrkt og torvellt ad skilia, ei helldur sýna þeirra Vísdóm og Skarpleika á þeim heilaga Stad, helldur alla Hlute giora til Christi Safnada Uppbyggingar.

8.

Þeir skulu og ecke segia hvad þá siálfa lyster, enn hvad þar vidvíkur Efninum, skulu þeir med klár=

klárum Ordum og skilianlegum áminna.

## 9.

Þeir skulu hallda sig frá allrahanda Deilum, Hædeyrdum (Forhaanelse.) so þeir aungvann hrære med Nafne, alleinasta skulu þeir straffa Syndina almennelega, og soddann, sem þeir hafa heyrt og vita fyrer víst; hvad sem þeir hafa ei heyrt sannferduglega talad um, um þad skulu þeir þegia; Og fierdeilis skulu þeir varast, ad þeir ei af þeirra eigenn heimuglegum Gedsmunum, edur Hatre, í þeim heilaga Stad tale edur framfære nockud, og hefne sín svo siálfer.

## 10.

Þeir skulu ei helldur med Hatre ílla láta ad þeim ødrum, sem hafa onnur Trúarbrøgd, enn þar Þørf krefur, og menn óttast fyrer Hneixle edur Afvegaleidslu, skulu þeir med Hógværd Søfnudinn þar um advara og áminna.

## 11.

Þeir skulu ei giora þeirra Predikaner oflángar, og ei lengra þær yfer 1. Tíma, Almúganum til Leida og þeß minne Uppbyggíngar, sem ei kann í einu sinne allt ofmiked medtaka og muna.

## 12.

Þeir skulu alltíd enda þeirra Predikaner med Bæn til Guds, um Guds Ords fríann Framgáng, fyrer Kónginum, og því Kónglega Arfahúse, fyrer Yfervalldinu og þeim almennelegu Naudsynium.

## 13.

Tvísvar á Are á Pálma Sunnudag og 4da Sunnudag í Adventu, skulu þeir upplesa á Predikunar Stólnum í hvorre Sókn þad Kóngsins Lög, um þá sem sig frá Kvølldmáltídar Sacramentinu skulu hallda, um Svardaga, Helgebrot og Barna-aga.

## 14.

Prestarner á Landsbygdinne skulu án Forsómunar brúka þann seinasta Part af Predikunar Tímanum til Frædanna Utleggíngar og uppá þad þeir fullalldra, so vel sem þeir Ungu rett med Grundvelle kunne skilia somu Lærdóms Meiníngu, og vita ad

ad brúka hann í Lífernе og Lærdómie sem sierdeilis af Prestunum skal drifast. Og þá Dagurinn er stuttur á Veturnar, og Prestur hefur fleyre Þiónustugiorder, skal hann þó í Predikunarennar Enda, uppiesa einu sinne edur tvi svar Lutheri Utleggingar Ord yfer þann Part, sem hann þá lited framar skyllde útleggia.

# 15.

Í sama Máta skulu Prestarner í Kaupstodunum og so brúka þann sídarsta Part af Aptan-Saungs Predikun, á fyrrskrifadann Hátt, til Barnalærdomsinns Utskíringar.

# 16.

Í öllum Tólf-predikunum hvar þær brúkast, skal Catechismus predikast, utann á þeim stærstu Hátídum, edur þá nockrer sierdeilis Textar eru tilsetter á sierdeilis Tímum; So og skulu Frædinn predikast í öllum Kvolldsaungum á Laugardogum, hvar þad brúkast ádur skriptad er, og skal þad ordulega framfara, og hvar sá eine Prestur hefur endad sína sídurstu Predikun, þar skal sá sem nærst fylger taka sinn Texta.

# 17.

Prestar á Landinu skulu án alls Undanndráttar og Forsómunar byria Kirkiu-Þiónustuna í þeirra Kirkiu so tímanlega sem mogulegt er á Sumar og Vetur, og skulu Predikaner ske á Annexium á hvílíkum Dogum og Tímum, sem hingad til hefur vered vanalegt.

# 18.

Prestar meiga ei lýsa af Predikunar Stólnum, því sem ei med rettu hlýder, og christinna Manna Bæn ei vidþarf; enn kann á Landsbygdinne epter Þiónustugiordina í Kirkiugordunum framkvæmast, enn í Kaupstodunum á þad ske á Þíngum. Og ef nockud þarf af Predikunar Stólnum ad kunngiora, þá skal þad fyrer Embætte Prestinum kunngiorast, og gefast til Vitúndar uppá þad ad hann, sem þess Stadar Virdíngu best á ad athuga, kunne ad vita hvort því á ad lýsa edur ei.

# V. Cap.
# Um Prestaña Embætte med Sacramentinn og heimugleg Skriptamál.

## I. Art.

Prestar skulu í Kirkiunum, handtiera og útdeila þad heilögu Sacramenta Skirnarinnar og Altaresinns, elldúngis epter Christi eingenn Innsetníngu, med þeim Leistre og Ceremonium sem sidvanalegar eru.

## 2.

So framt einhvor Prestur annadhvort skirer Barn, edur Kvølldmáltídar Sacramentid handtierar í nockurs Húse utann Navdsyn, skal gefa í Straff fioretíu Lód Silfurs, og sá þad giora lætur hundrad Lód Silfurs.

## 3.

Børn skulu skírast í Kirkiunnar Fonte edur Mundlavg, og M

má þar ei brúkast til nockud annad Ker, Fat edur Mundlavg sem til annarar Brúkunar í Húsunum eru ætlud.

## 4.

Skilgetenn Børn skl ast strax epter Predikun, enn Hórus og Lavngetinn skulu í Kavpstødunum skírast epter Kl: tólf og á Landsbygdinne, þá búed er ad offra fyrer þeim Skilgetnu, þvi þá alli Embætte er endad, og fyrer hvilkum Hórus edur Lavngetnum Børnum má ei offrast.

## 5.

Þad skulu vera Skirnarvitne og Gudfedgin sem ærleg eru, og órigtud, þó má ei fleyrum þar til bióda enn fim af Manns og Kvennpersónum tilsamanns.

## 6.

Hvörier sem láta Børn sín liggia óskírd utann Kirkiu, átta Daga frá því þav fædd eru í þeim Plátsum hvar þad kann ske, seker tuttugu Lódum Silfurs til næsta Hospitals, sem af Kóngs Befalníngsmanne edur næsta Yfervallde skal innkrefiast, sem þeir forsvara

svara villig. Þar sem Borninn eru veik, þá hafa christner Forelldrar slíkt tilbærelega ad adgæta, ad avngvum Sáluhjálpar Medolum gleymt verde.

## 7.

Forsóme Forelldrarner ad færa Born til Skírnar, og Barnid deyr óskírt, þá stande þeir opennberar Skrifter, sem þar í hafa Skulld.

## 8.

Born sem fyrer veikleika Saker eru heima skírd, skulu so snart þeim batnar, færast til Kirkiu, þeirra Skírn af Preste stadfestast og avglýsast í Gudfedginanna Nærveru, á þann sidvanalega Hátt.

## 9.

Enn avngvann vegínn skulu þad skirast ad nýu, utann þar sie Tvil um hvort þad sien skírd, og ei med Vitnum bevísast ad þad sieu riett skírd.

## 10.

Prestar skulu avngvann taka til Kvolldmáltídarinnar Sacramentis, utann hann sig fyrer Preste játad hafe, skriptast og medteked Aflavsn.

## 11.

Þeir skulu ei leyfa þeim Ungu ad koma til Sacramentesinns fyrre enn þeir hafa vel lært þeirra Barnalærdóm, og fenged hanns retta Meiníngu í Hiartad, og þar næst vita hvorninn þeir skulu játa sig fyrer Prestinum, og kunna ad svara til Lutheri smá Spurníuga um því íkt, og skilia hvad Aflavsn hefur ad þýda; Sem og þeir gomlu skulu vita Barna-Lærdómsinns Ord ad skilia. Item hvorninn þeir skulu oska Skripta, og hvad Herranns Kvolldmáltíd er, hvad gagn hún med sier hefur, og til hvors þeir oska hana ad brúka.

## 12.

Enn uppá þad einginn skule af vana edur óverdugur koma til Herranns Kvolldmáltídar, skulu þeir sem annadhvort fyrst vilia gánga þar til, eda hafa eitthvad sierdeilis ad adgæta, gánga til Prestsinns nockrum Dogum ádur, ad hann hagkvæmelega med þeim þar um kunne ad hondla.

## 13.

Presturinn skal under þann Tíma sem hann veit ad Sóknafolkid hellst plagar samann ad koma til ad brúka Herranns Kvølldmáltíd, þá áminna, ad þeir sín og hanns Efne adgæta vilie, og ei koma fleire enn hann kann þióna, og tilhlýdelega heyra og undervísa.

## 14.

Og epter þvi aller kunna ei vera eins forstanduger, og þó eingenn sem þeß óskar hiartanlega og avdmiúklega, á án vigtugra Orsaka lette ega ad víkiast frá, skulu þeir gaumgæfelega athuga sem enn þá láta sig uppfræda, og lofa ad betra sig þar í, ad þeir ei skule finnast so óunderbúner, sækiande nú af Guds Nád epter þeim retta Verdugleika, án alls Mótvilia. Þetta skulu Prestarner med Ástundan adgiæta, sem þeir þad fyrer Gude med godre Samvitsku vilia bekienndir vera, og fyrer þeirra christelegu Yfervallde forsvara.

## 15.

Enn þar sem Prestur finnur nockurn alldúngis ótilbúinn og mótviliugann ad láta sier undervísa, þá skal hann í Skriptastó'num hann advara, ad hann hallde sier frá Sacramentinu, þar til hann retter sig og lærer betur.

## 16.

Sieginn skal med Handa Uppáleggíngu af Prestinum afleysast utann hann af áhugurfullu Hiarta óske Fyrergefníngar Syndanna sinna, og skal sá sem skriptast yfer hofud medkenna Synder sínar fyrer Prestinum, og ef nockud nagar hann í hanns Samvitsku, ská hann ei bligdast vid ad segia þad framm, enn allra Synda Uppreiknun útkrefst hier ecke.

## 17.

Prestar skulu aungvann Bannsettann edur þá sem fyrer Lettferdugheit, Manndráp, Þiófnad, Meinsære edur adra opennbera Leste eru skylduger til ad standa opennbera Aflausn, taka til heimuglegra Skriptamála, fyrr enn þeir hafa útstaded Kyrkiunnar Disciplin, utann þeir kome til ad leggiast á sinne Sóttarsæng, og alvarlega óska í þeirra Siúkdóme, ad meiga verda Hluttakarar Herranns Líkama og

Blóds, ádur þeir deyja, og christelega sig þar underbúa, þó skulu þeir sem aptur batnar, opennberlega í Søfnudinum bidia Forláts, og þá skal kunngiørast hvar fyrer þeir ádur til Kvølldmáltídarinnar Sacramentis hafa tekner vered.

## 18.

Þad skal adgiætast ad þeir sem vilia gánga til Skripta, skulu hallda sig so lenge frá Skripta Stólnum ad Prestur kunne sierdeilislega hondla vid þann sem giører sína Játníngu, sem og sídann med sier hvorn þeirra, ad eingenn kunne heyra til annars, jafnvel þo þad skei í alls Safnadarinns Asjon í Skriptastólnum, annadhvort upp vid Altarid edur ei lángt þar í frá, so adrer sieu nidre í Kirkiunne so lenge, án Preyngsla þeirra í millum, þar til sá fyrre fær sína Aflausn; hvar um Prestarner so vel sem Kluckarar, Diáknar og Substitutar skulu med Astundan adgæta.

## 19.

Prestur má ei under hanns Kalls Tøpun opennbera þad sem nockur fyrer honum í heimuglegum Skriptamálum medgenged hefur, utann þad vidvíke einhvorium Svikum eda ólucku sem hindrast kynne vid Prestsins Auglýsíngu, þo skal þegia yfer hanns Nafne so miked sem mogulegt er.

## 20.

Eingenn Prestur má taka Peninga edur Gáfu af nockrum sem koma til Skripta í Kirkiuna, hvort þar skedur heimugleg, edur opennber Aflausn.

## 21.

Prestar meiga aungva ókunnuga medtaka til Kvølldmáltídarinnar Sacramentis, utann þeir fære Bevísíngu med sier um þeirra Liferne og Lifnad, frá þess Stadar Preste, sem þeir eru komner frá.

## 22.

Prestarner skulu aungvum leyfa ad bruka Kvølldmáltídarinnar Sacramente til Vitnisburdar í Veralldlegum Málum, edur til Stadfestíngar ad þeir sieu Saklauser, helldur alleinasta epter Innsetníngarinnar Tilgánge.

## 23.

Prestar skulu vita Tal á þeim medtaka vilia Sacramentid, so ad ei á Altarinu vante Braud edur Vín, og verde so aptur ad taka til ad lesa, epter því ad þeir hvorke Brauddid nie Kaleikinn meiga útdeila, ádur enn þad med Ordinu og Bæninne helgad er.

## 24.

Prestar skulu hallda epterfylgiande frá Kvølldmáltídarinnar Sacramente, 1. Þeim sem opennberlega eru Bannsetter, og ecke aptur afleyster. 2. Þeim sem forherdter gánga vid einhvorn Villulærdóm. 3. Vitstola Mañeskium og Skilníngslausum Bornum. 4. So morgum sem lifa þverúdarsamlega í nockrum opennberum Löstum, so sem Hórdómsmenn, Frillulífismeñ, Okurkarlar, Dryckiurútarar, Blótvargar, Ofrikismenn, og allra mest Guds Ords Spottarar og Foragtarar, sem opennberlega og án alls Guds Otta syndga.

## 25.

Annars skál eingiñ hallda sig ofleinge frá Sacramentinu, sem veit med rettum Hætte hvad þad er ad brúka Herranns Líkama og Blód. Ecke skulu helldur þeir Ungu sig þar frá hallda, sem eru komner til Alldurs og Forstands, ad þeir kunne giora Mismun og vita hvad á þvílikum Stad christilega er hondlad. Og skulu bæde þeir, sem annadhvort í Visitatium, edur og þar fyrer utann fyrer þeirra góda Forfromun þar í af Prestinum, Prófastinum edur Biskupsinum þar til medtakast, so og einninn aller þeir sem vita ad giora Reikníngskap fyrer Ordaña Meiníngu í hvorium Parte epter Formála Lutheri í hanns Catechismo, vera alvarlega áminnter ad brúka Sacramentid nockrum siññum á Are, og þad so opt sem þeir finna nockurn Mótgáng sem þá tilkuhr ad medtaka soddann andlega Lækníng.

## 26.

Hallde nockur sig yfer heilt Ar frá Kvølldmáltídarinnar Sacramente, þá skal hann útstanda Kirkiunnar Disciplin, og ef hann mót ollum Adværunum framfer í soddann Forherdíng, þá skal fara med hann sem seger her epter í þeim níunda Capitula.

27.

Hvor sem finnst í Dryckiuskap þann Dag sem hann hefur fenged heimulega Aflausn, edur brúkad Altaresinns Sacramente, skal standa openuberar Skripter.

28.

Fremie nockur stærre Leste til Guds-lasts, edur annad Hneixle, skal þad med rettu hærra straffast, epter því sem þad verdur funded ad hafa vered stórt til.

# VI. Cap.
# Um̃ Prestaña Embætte i Ungdomsiñs Uppfrædingu.

## I. Art.

Prestarner á Landsbigdinne skulu med Sóknartiáknunum edur Kluckurunum edur þeirra Substitutum, undervísa Ungdóminum í Barnalærdóminum, og hallda þad so, ad þad sem ei um Sunnudaginn kann gioraſt, þá skal tiltakast annar Dagur í Viku so tidt sem ske kann mögulega, epter hvorrar Sóknar edur Annexiu Lelegheitum; Og skulu Prestar siá til, ad sá sem Bornunum kenner, giore þad med allre Astundan og Alvoru utañ Hneixle, og án Forsómunar, sem þeir siálfer bæde í Prófastsinns og Biskupsinns Visitatium vilia til svara.

2.

Þar sem Ungdómurinn er forsómunarsamur ad læra Barnalærdóminn, skal hann af Preste straffast þar fyrer, og Foreldrarner alvarlega áminnast og advarast, ad þeir hallde Bornunum þar til, og avungvannvegunn þar frá hallde, ei helldur nockrum af þeirra úngu Hiúum, sem þeir hafa kunna í Húsunum, enn ad þeir Morgun og Kvolld, fyrer utann daglegar Bæner, sierdeilis á Helgedogunum keñe þeim Ungu yfer allt sem þeir hafa hiá sier, inn til það af Prestinum og Diáknanum lagfærast, í því sem þau ei ádur lært hafa, og framar í Lutheri Utleggingu kunna ad undervísast, utann þeir vilie hvorsin sinne sem þar yfer klagad verdur, vera skylldugar um Helgebrot, edur um síder straffast med Kirkiuñar Disciplin, sem fyrer Mótþróa og Gudleyse.

VII.

# VII. Cap.

## Um Prestaña Embætte med Hwsvitjan, Umsorgun fyrer Fatækum, Vitiun Siwkra og Fanga.

### I. Art.

Prestar skulu hafa sierdeilis Umsion, og þad á stundum Hús frá Húse, hvar mest vidþarf, og hvar hagkvæmast verdur vidkomed, ad þeir sem eru í Sofnudinum, nære sig ærlega, og hallde þeirra Bornum til ad læra Handverk og adra Þionustu, hvar um þar og alvarlega á ad ske áminning af Prestunum.

### 2.

Prestarner skulu hafa Umsorgun fyrer þeim Fátæku og ecke alleinasta áminna Soknarfolkid til ad gefa Olmusu, helldur og gánga undann þeim þar í med Godgiordum og gódum Epterdæmum; Þeir skulu siá til med Astundan ad Fátæker fáe þad þeim gefid og christelega tillagt er.

### 3.

Prestarner skulu optlega koma til þeirra Siúku og Vanfæru, og iduglega, nær Orsök gefst, áminna Soknarfolkid ad nær einhvor verdur siukur, sende þad í Tíma Bod epter sier, ad þeir þess iduglegar kunne koma til þeirra, og áminna þá og gefa þeim god Rád, og bida ei til hinnar sídustu Naudsynar, utann einhvor verde af nockrum hastarlegum Siúkdome yferfallenn. Hvort Prestarner eru einu sinne kallader, þángad skulu þeir ad Stund lidinne aptur koma, epter því sem hinn Siuke vidþarf, utann hann hafe adra hiá sier, sem honum kunne ánægia til Huggunar og Undervísunar; enn sieu þeir ei kallader, þá eru þeir afsakader þó þeir ei kome.

### 4.

Þad er og billegt ad þar sem Prestsins óskad verdur fyrer Hönd þess Siúka, og þarf Flutnings ad komast þángad, þá sie hann honum med Bodinu sendur.

5.

5.

Oske hinn Siúke med hiartañlegre Epterlavngun, ad verda Hluttakande Christi Kvolldmáltídsar Sacramentis, þá skal Prestúrinn honum þad meddeila med sidvanalegum Ceremonium, og undangengnum Skriptamálum og Aflavsn.

6.

Prestar meiga ei tala fyrer hinum Siúka sem liggur á sine Sóttarsæng um nockud Veralldslegt, sem hann hindra kunne í hanns christelegum Tilbúnínge til Davdanns.

7.

Prestar skulu opt koma til Obótamanna, sem fyrer þeirra Misgiorninga sitia uppá þeirra Líf í Fángelse, ad þeir kunne undervísa þeim til Vidurkenningar þeirra Synda, og ad flýa til Guds Nádar, so þeir rettelega kunne underbúast til Kvolldmáltídariñar Sacramentis Medtekníngar, sem þeim skal, ef þeir þeß óska, meddeilast, einum edur tveimur Dogum ádur enn þeir eru rettader.

8.

Þeir skulu og fylgia þeim til Rettarstadarinns, og eckert epterláta ógiort, af þeim Lærdóme og Aminníngum, sem þeim kann gefast til Sáluhiálpar, og ei yfergefa þá fyrr enn þeir eru rettader.

# VIII. Cap.

## Um Prestaña Embætte med Egtafolk, Yferſetu-Konur og Barn-sængur-Kvinnur.

### I. Art.

Prestar hafa eckert med egta Persónur, hvad Hiónabandid áhrærer, ad giora, utann ad trúlofa og vígia þad samann, og undervísa þeirra sínum ludum Samvitskum.

2.

Trúlofuninaj og Hiónavígsluna skulu þeir giora med sidvanalegum Ceremonium.

3.

## 3.

Þeir meiga aungva í þeim forbodnu Lidum, ei helldur nockra ókunnuga, sem ei eru þeirra Sóknarfólk, trúlofa edur vígia samann, fyrr enn þeir framvísa þeirra Vitnisburde frá þeim Stad þeir komner eru, edur hafa trúverdug Vitne og Forlofara, ad þad fyrer ødrum Trúlofunum og egtaskap eru frí; ei helldur, nær þar er giort løgl gt Forbod, fyrr enn med endelegum Dom er dæmt í Málinu.

## 4.

Þeir meiga og aungva vígia samann fyrre enn um þeirra egtaskap er í þriá Sunnudaga lýst af Predikunarstólnum; ei helldur nockurn Eckiumann edur Eckiukonu, fyrr enn þad hafa giørt Skipte med þeirra Samorfum.

## 5.

Trúlofaner og Vígslur skulu ei halldast í annare Sókn enn þeirre sem Festarmeyan edur Kvinnan er, og uppehelldur sier, utann þad verdi med hennar Soknarprests Samþycke.

## 6.

Prestarner skulu alvarlega fyrerbióda þeim trúlofudu Persónum ad sækia Sæng samann, fyrr enn þau í Kirkiunne eru rettelega til Egtaskapar samann vígd.

## 7.

Hvor Prestur skal hafa Bók ad teikna í vid Dag og Tíd, þeirra Nøfn sem hann trúlofar og víger saman, sem og þeirra Barna sem hann skírer í sinne Sókn, med Gudfedginanna Nøfnum.

## 8.

Prestarner skulu undervísa Yfersetukonunum, hvorninn þær skule sier skicka bæde vid Sængurkonuna og Fostrid, og skulu Yfersetukonurnar vera ærlegar og gudhræddar Kvinnur, sem skilia þeirra Embætte og búa á hagkvæmum Stodum, so vel þeim Fátæku sem þeim Ríku til hiálpar. Somu Yfersetukonur ef þær finna Fostrid davdt í Módurlífe, skulu Gude þad befala, og kappkosta ad Módurinne verde hiálpad, enn finne þær Fostrid lifande, edur nockud framkoma nær davdt, þá skulu þær samt ecke skíra þad, fyrre enn þad er allgreidt fædt. Sie

Barnid í Lífsháre epter ad þad fullkomlega fædt er, þá má Yferſetukonan ſkíra þad med Vatne og ecke ødru, ef Preſtur er ecke vid Hondina, edur noćkur ſkickanleg Männsperſóna, ſem er komenn til Logalldurs.

## 9.

Preſtarner ſkulu áminna Sængurkonurnar til Bæna Akalls fyrer þeirra Fóſtre, og ad þær hallde ſig heima yfer fim̃ edur ſex Vikur epter þeirra Barnafædíngu, ad hvorium lidnum þær ſkulu hallda þeirra Kirkiugáng. Þó leidaſt egta Kvinnur alleina af Preſtinum í Kirkiuna, á þeim Stødum, hvár þad hefur vered brúkanlegt.

## 10.

Preſtarner ſkulu optlega í þeirra Predikunum áminna Forelldrana og ſierdeilis Kvinnurnar, ad þær á þeirra Børnum hafe góda Varatekt, ad Børninn ecke fyrer þeirra Forſómun edur Vangætſlu kome til Olucku.

# IX. Cap.

# Um Preſtanna og þeirra Medhiaalpara Embætte, og Kirkiunnar Myndugleika imot þeim Hardhnøckudu.

## I. Art.

Í Kaupſtødunum ſkal hvørium einum Sóknarpreſte í ſinne Sokn tilſeiaſt nockrer af þeim Gudhræddiſtu, rádvøndustu, vandlátuſtu og beſtu Sóknarmønnum ſem ſkulu vera hanns Medhiálparar, til ad vidhallda chriſtelegu Skicke og Myndugleika, og ef þad er møgulegt og þienanlegt, ſkulu Kirkiuveriarar og Fátækra Forſtandarar fremur ødrum þar til af Stift=Amtmanninum, Biſkupinum, Preſtinum og Borgmeiſturum og Rádeþar til ſetiaſt, edur og í þeira ſtad, edur áſamt med þeim, tveir edur fiórer adrer af þeim gudhræddiſtu og beſtu Mønnum, epter Soknarinnar Stærd og Efnum þar til ſkickaſt og brúkaſt. Og ſo ſem þad helſta, ſem þár bidber ad athuga, er ad þeir hafe gott og ærlegt Mannord og Vitnisburd, um þeirra Líferne og chriſtelega Umgengne; ſo á og þar

hiá,

hiá, so vidt mogulegt er, athugast, ad þeir einer þar til útveliest, sem ei med lavugum Reisum edur Siglíngum leita sinnar Næríngar. Ecke helldur meiga þeir, sem einu sinne eru þar til skickader, án vigtugra Orsaka, nema adrer hentuger aptur fáist, avdvelldlega þar frá frígefast; hvar fyrer þeir og skulu frier vera fyrer odrum Bestillíngum, so sem Formyndara, Kæmsara, Þíngmanna og þvílíkum.

2.

Á Landinu skal Kirkiunnar Forsvar med Profastsinns Ráde, utvelia tvo af þeim Gudhræddustu bestu og best meigande Sóknarmonnum til Kirkiuveriara, sem og skulu vera Prestsinns Medhiálparar; og þó, ef þeir fyrer Þýngsla Saker fá þad ei útstaded, meiga þeir hvort þridia edur fiórda Ar umskiptast, og á medann fríer vera fyrer Rettarinns Þiónustu og Fríslutnínge.

3.

Fyrnefnder Medhiálparar og Adstodar Menn skulu Prestinum tilskickast til þeß. 1. Ad nær hann þeß af þeim óskar, skulu þeir koma tilsamanns med honum. 2. Skulu þeir trúlega leggia honum Rád í ollu því sem vidvíkur skickanlegre og christelegre Lifernis Framleidslu hanns tiltrúadra Tilheyrenda. 3. Og nær Þorf krefur, hiálpa honum og Adstod veita. 4. So vel sem og siálfer gavmgæfa og þar fyrer utann ransaka og med Astundan spyria sig fyrer um allt hvad efasamt vera kann, og til Guds Æru og hanns Safnadar Uppbyggingar kann þiena. 5. Og þad fyrer utann Manngreinar Alit án Forsómunar gefa þeirra Sálusorgara til Vitundar; Og þar sem funded verdur ad þeir, annadhvort fyrer Vild edur Vinskap siáe í gegnum Fíngur vid nockurn, skulu þeir sekiast um sex Lód Silfurs til Fátækra, sem Prestur og Fógete skulu skylldúger vera ad innkrefia, so framt þeir ecke siálfer þar til svara vilia.

4.

Þeir sem hier til útnefnder verda skulu fyrer Prestinum, í nockra Sóknarmanna Nærveru sveria Eid uppá þessa sinn ádurgreinda Artikula, sem epterfylger: Eg N. N. útvalinn til ad vera þessa míns Sóknarprests Medhiálpare lofa og tilsege, ad eg med ollum Trúskap vil forstanda þetta mitt christelegt Embætte

Embætte, og af fremstu Magt og Efnum stunda og framfylgia Guds Dýrd, samt Kyrkiunnar og Fátækra Gagne og Besta, Prestinum í Kirkiunnar Aga ad veita tilbærelega Hiálp sem hier í fyrskrifudum finn Postum sagt er, so sem eg vil tilsvara fyrer Gude og christelegu Yfervallde. So sannarlega hiálpe mier Gud og hanns heilaga Evangelium.

5.

Eckert andlegt edur verallldlegt Yfervalld skal hier med hindrast edur því frátakast sín Logsogn, Bestilling edur christeleg Umsorgun, miklu sídur skal takast frá Prestinum nockud af hanns skylldugre Umhyggiu í Embættis Myndugleika, enn skal helldur þiena honum til Adstodar og stærre Myndugleika.

6.

Prestur skal ætíd med sinne sierdeilis og heimuglegre Advorun og Aminníngu fyrst reyna til, hvort sá Seke vill ecke láta sier kenna og rádleggia, ádur enn hann lætur nockud opinberlega koma fyrer hanns Medhiálpara. Enn þar sem slík Vinsamleg og christeleg Aminníng einkis orkar, þá skal hann sídann, í allra hanns Medhiálpara Nærveru og Aheyrn hann aptur med Alvoru áminna ad leidretta og betra sig.

7.

Prestur skal med sínum Medhiálpurum hid minnsta fiórum sinnum á Are koma til samans í Kirkiunnar Sacristie, og þar sem nockur þá ei kemur, epter í Tíma giörda Advorun, án loglegra Forfalla, skal hann gefa til Fátækra tvo Lód Silfurs, og skal Prestur hafa Tilsión ad þad betalist, so framt hann vill þad ei siálfur gialldа, Og annars so opt sem nockud vigtugt fyrerfellur, Prestinum í Sókninne, þá skal hann á Sunnudaginn ad endadre Þiónustugiordinne samannkalla nefnda Medhiálpara, annadhvort nær hann siálfur hefur nockud formerkt, sem Rádfæríngar vidþarf, edur er af nockrum af þeim advaradur um eitthvad, sem soddann kunne útkrefia; Og ef nockud efasamt edur vigtugt fyrerfellur, þá skal Prófastur og tveir nærstu Herads Prestar vera nærstadder med Rádum og Myndugleika allt ad útretta, ef Presturinn þess af þeim óskar.

8.

## 8.

Í því ad straffa Synder og Leste, og allt þad Prestenum í Guds Orde er befalad ad straffa, byriar hanns Medhiálpurum hann ad adstoda, ef þorf gioriſt. Enn sierdeilislega eiga þeir ad hafa Tilsión um soddann Leste sem med Sidvanalegum Rettargánge ecke heimuglega afskaffader edur bevísader verda, so sem Predikunar Forsómun; Helgradaga Misbrúkun, til Veitslu, Dryckiar, Spila, Gieglеries, Fiktunar, edur annars þvílíks; Fráhalld frá Sacramentinu yfer eirn fiórdúng, hálft edur heilt Ar; idugleger Svardagar og Blót; Gálausleg Medferd á Guds Orde og onnur Misbrúkan í Dagfare; ill Forlíkun mille Hióna, sem án billegra Orsaka hegda sier óchristelega hvort vid annad; so og mille Foreldra og Barna innbyrdis; Hvermódska hiá trúlofudum Persónum sem ei vilia láta sig samañ vígia í Hiónaband, Klám og lettferdugar Rædur, Tilsókn og Umgengne í Lettferdugum Selskap, Hórerie, Fyllerie, og idunglegur Dryckiuskapur, óbilleg Asælne í Kaupum og Solum, ólóglegt Okur, Agirne, og sierdeilis Ungdómsinns Afvegaleidsla til Dryckiar, Spila, Lausløtis, ofmikils Kostnadar og Eydsluseme. Soddann allt á sierhvor af Prestanna Medhiálpurum ad hindra so vel sem Presturinn siálfur, hvor þeirra sem þad fyrst spyr, og med heimuglegre Advorun, og alvarlegre Amínníng giora sitt Embætte med Astundan, ad þvílíkt mege aftakast, og sídañ rádfæra sig hvor vid annann, hvorninn þad best ske kunne. Og so sem þad á ecke ad gioraſt neinum til Bligdunar, helldur allt, so heimuglega sem sked getur, so á og einginn þeirra Advorun illa ad upptaka, helldur hallda þad fyrer christelegs Kærleika Æfing og bródurlega Skylldu.

## 9.

Enn þar sem soddann heimugleg, christeleg, hógværleg og bródurleg Advorun avngvann Avoxt færer, þá má Presturiñ láta Diákuann edur Hríngiarann, sem má taka annann med sier ef þorf krefur, kalla somu Persónu fyrer sig, og þá í allra Medhiálparaña Nærveru, med Alvoru og Vandlæte honum kenna og ávíta og straffa þvílíkt Guds Orda mótviliugt og hardhnackad Foragt.

## 10.

Ef sá sem kalladur er, mæter ei, og hefur ecke óumflýanleg Forfoll, sem af þeim strax skal ransakast, þá skal hann miklu framar verda misþeinktur, og strax uppáleggiast ad bæta til Fátækra tvo Lód Silfurs; enn ef þad skedur optar af Mótvilia og Foragte, þá skal hann advarast ad hann hallde sier frá Kvølldmáltídarinnar Sacramente, þar til hann avdsýner því heilaga Kyrkiu Embætte tilbærelega Hlýdne og Virdíngu, eiñinn skal hóta honum Banne, og þá skal honum Orsøkinn þar til útþryckelega segiast

## 11.

Þar sem øll soddann Aminníng og Strøffun vill enn nú eckert hiálpa, enn verdur framvegis forøgiud þá skal Soknar-Presturinn epter þad hann hefur rádfært sig þar um vid Prófast og Biskup, lýsa þriá Sunnudaga til Banns, og þar fyrer utann tidt og opt ádur giora Bæn af Predikunar Stólnum og Aminningu fyrer somu Persónu. Enn ef eingenn þeckianleg Betrun framkemur í midlertíd, þá skal Presturinn sídann med Nafne útelykia somu Persónu af Guds Søfnude og Samkvæme, og brúka þañ Máta sem í Ritualnum finnst.

## 12.

Sá sem bannsettur er, má ei medtakast til Kvølldmáltídarinnar Sacramentis, ei helldur vera Skírnarvitne, ei helldur innbiódast edur koma til nockurs heidurlegs Samkvæmis, fyrr enn hann forlíkar sig vid Gud og hanns heilaga Søfnud aptur opennberlega.

## 13.

Innbióde einhvor visvitande þvílíkum til ad vera Skírnarvitne edur til annars heidurlegs Samkvæmis, þá skal hann epter Prestsinns og hanns Medhiálpara Tilsøgn vera skylldugur, annadhvort ad standa opennberar Skripter, edur gefa nockud til Fátækra; Þreynge sá bannsette sier inn til einhvors sem hier er fyrerboded, bæte þar fyrer til Kóngsinns epter Sakarinnar Asigkomulage og Dómarañs Urskurde.

## 14.

Þeim sem soleidis bannsettur er, má leyfast í midlertíd ad heyra

Guds

Guds Ord í Kirkiunne; þó skal hann hafa sierdeilis Stad utaf fyrer sig þar sem honum tilskickad verdur, og skal Presturinn þar fyrer utann opt og óstalldañ áminna soddann Manneskiu, og nær Hentugleikar gefast kenna honum og undervísa, ad hann umvende sier, og forlíke sig vid Gud og sitt Yfervalld.

## 15.

Enn ef hann innann Ars og Dags ecke innplantar sig aptur í Guds Søfnud med opennberre Játníngu og Fyrergefníngar-bón, þá skal stefna honum fyrer Stiftamtmanninn og Biskupiñ, og afhenda hann med Dome sínu Yfervallde, og sídann burtvísa úr Kóngsins Londum og Ríkium.

## 16.

Þar sem hinn bannsette meinar sier á einn edur annañ Hátt Orett giordann, þá má hañ iñstefna Málinu til Kóngsiñs Yfer Hofrettar, og skal þar um gioraft hvad Rett er; þó skal hann strax taka Stefnu, annars verdur Domnum yfer honum framfylgt.

## 17.

Enn þar sem madur hefur vered settur út frá Kvølldmáltídarinnar Sacramente, edur hóisad med Banne, og vill sier þó umvenda, og giora alvarlega og hiartalega Játníngu, edur adrer þeir sem standa eiga opennberar Skripter, edur þeir sem á Þíngum med upprettum Fíngrum eru fundner ad hafa svared rángann Eid, edur þeir sem á Þínge hafa vered Sákfellder og Þiófnadur yferbevísadur, enn eru þó Náðader; Item þeir sem fyrer Mañdráp hafa vered til Nádar tekner, og þeir er bannsetter vered hafa, og nú rett alvarlegt hiartanns Apturhvarf girnast í Lióse ad láta þeir meiga aptur fyrer þeirra opennberleg Afbrot og Hneixle, opennberlega til Safnadarinns medtakast, hvad ed ske skal epter Predikun í Hámessu, medañ Søfnudurinn er til stadar, eñ hvorke í Ottusøng ne ádur enn Predikuninn byriast í Hámessu. Aflausninn skal vera epter þeim hætte sem seger í Ritualnum.

## 18.

Þá hinn Bannsette er soleidis aptur iññkominn í Guds Søfnud,

und, og hefur þar uppá, epter sitt christilegt Afturhvarf, fenged Aflausn, þá má einginn bregda honum um þad, hvorke fyrer Rette ne í ødrum Samkvæmum, edur nockur stadar; og ef nockur þad giörer, þá skal hann gefa tuttugu Lod Silfurs til Straffs, til jafnadar Skipta mille Fátækra og þeß sem brugded var, og ef hann hefur ecke Megun til þad ad útgefa, stande opennberar Skripter.

## 19.

Deyje nockur Bannsettur, sem ecke hefur verid afleystur, annadhvort opennberlega í Kyrkjunne, edur á sinne Sóttarsæng, þá má hann ecke jardast í Kyrkju edur Kirkiugarde.

## 20.

Ef nockur, sem opennberlega hefur syndgad í einu Pláise, og kann ei so avdvelldlega ad koma þángad aptur, hvar Sofnudurinn skyllde opennberlega Forláts bidiast, adskilianlegra Orsaka Vegna, óskar hiartanlega Aflausnar á þeim Stad sem hann þá dvelst, þá kann honum þad opennberlega ad epterlátast; þó so, ad sá Preßtur, sem er í þeim Stad, sem Syndin drígd var, gefe greinelega til kynna allar Málsins Kríngumstædur og Asigkomulag, ad sama Persóna mege, hættulaust opennberlega afleysast, so og bidie þeirrar Sóknarpreßt ad giora þad í þeim Sofnude, sem hinn sier þá uppehelldur; Og þegar sama Persóna er þar afleyst, skal Sóknarpreßturinn tilskrifa þeim fyrra Preste ad þad sie hiá sier giort, so hann kunne þad opennberlega í sínum Sofnude ad auglýsa, til ad afbidia, sömu Persónu Vegna giort Hneixle, hvar fyrer hann annar Stadar hefur fenged Aflausn.

## 21.

Þegar nockur á ad standa opennberar Skrifter fyrer sitt Misbrot, og hann þar til framkemur med ángurfullu Hiarta og gudlegre Andagt, þá skal Preßturinn afleysa hann, jafnvel þó Sekternar sieu ei enn þá borgadar.

## 22.

Hende þad sig, ad nockur ókunnugur, sem fæddur er í Kóngsins Londum og Ríkium,

og er halldid frá Sacramentinu vegna þeß, hann framkemur ei med Vitnisburde um sitt Liferne og Framferde, soleidis misbrúkt-ur, ad hann á ad útstanda Kirk-iunnar Aga, þá skal hann þó ei til openberrar Aflausnar med-takast, utann hann kome med Skir-teine, og kome hann ei med þad innann vißrar fyrersettrar Tídar, þá skal stefna honum fyrer Stift-amtmanninn og Biskúpinn, og höndla med hann á þann Hátt, sem hier ad framann fyrer sagt er um forherdta og bannsetta.

## 23.

Einginn má útelykiast af christ-num Søfnude edur bañfærast, ei helldur má lýsast til Banns yf-er þeim, sem menn vita ei hvor er. Enn verde nockur Synd edur ótilbærelegur Giorníngur framinn af óvissum Manne, þá skal Prest-urinn af Predikunar Stólnum bid-ia og ákalla Gud, ad same mad-ur, so framarlega hann life, mætte nockur og uppvís verda, einnenn tilbærelega straffadur, og komast til sinna Synda Vidurkenníngar og Apturhvarfs. Og epter því sömu Manns Synder, sem hann hiá sier leyner, eru honum í Himninum apturhalldnar, og hann er því leng-ra frá sínu Apturhvarfe, sem hañ helldur leyner sier fyrer Guds Ords Þienurum og Christnum Søfnude, skal hann þar hiá áminnast, ef hañ er annars so nærre ad hann kunne þá Áminníng ad heyra, edur skyr-ia, ad hann hallde sig frá Christi Líkama og Blóds Sacramente med því hann er under Guds Reide, þar til hann betrar sig, medkeñer og umvendist.

## 24.

Þar sem víst verdur ad nockur Húsbónde edur Herrafolk ligge og æfe sig í nockrum openberum Syndum og Löstum, mote Gude og sinne eiginn Samvitsku, edur og ad þad á Bæna edur Helgum dögum hallde Þienurum sínum frá Guds Þiónustu med Koodum ed-ur ødrum Sýslunum, utann í stærstu Vidlögum og Naudsynium, þá skal Presturinn í þeirre Sokn, sem sama Persóna er Búfost, edur sier uppehelldur, fyrst áminña hana í Einrúme, og ef þad vill ecke hiálpa, gefa Prófastinum og Bisk-upinum þad tilkýnna, sem skulu kalla sömu Persónu fyrer sig, og sier á þann Hátt vid hana hegda og framfara, bæde med Bannsetníngu og annad, sem þeir á sínum Tíma

vilia forsvara fyrer Gude og Kónginum, ef þeir láta nockurt Manngreinar Alit bleckia sig edur fráhallda ad framkvæma þad, sem þeir eru epter sinu Embætte Gude og Kónginum um skyllduger. Ef þá soddann Persóna þorer ad forgrípa sig á nockrum Guds Ords Þienara, annadhvort med Hótunum, Skipunum, edur odru Ofríke, þá skal þad avngvañ veginn vera óstraffad. Enn riette Presturinn sig ecke epter þessu, þá skal Kóngsinns Stiftbefalníngs-madur og Biskup honum tiltala, og dæma hann frá sinu Kalle; Og ef Befalníngsmadur og Biskup géfa Kónge þetta ecke til Vitundar, skulu þeir gefa fiogur hundrud Lód Silfurs til nærsta Hospitals.

## 25.

Gefe nockur Preste edur hanns Medhiálpurum Illyrde, edur spottar nockurn af þeim fyrer þeirra velmeinta heimuglega Advorun, þá skal þad kunngioraſt þeirra Yfervallde, sem þvílíkt á ad straffa; verde þad af því forsómad, þá skal þad á hærre Stodum auglýsast.

## 26.



Og med því Presturinn og hañs Medhiálparar eiga ad brúka góda og christelega Athugaseme, Hægd og Lempne í efasomum Málum, so skulu og þav Mál sem alleina í Einrúme fyrer þeim afgiorast, med Aminníngum, Advorunum og Fyrerspurnum um útdreift Rygte, ecke sídann færast under nockurn veralldlegann Rettargáng edur Ransókn þeim á móte jafnvel þó allt reyníst ecke epter því sem Rygtid gengur, edur koma neinum til Skada í nockurn Máta fyrer verdslegum Rette; Og uppá þad sá sem rygtadur er, ef hann er Saklavs, kome ecke í Vanrygte, þá skal eckert skriflegt um þad giorast, helldur allt heimuglega á þeirra Samkomu halldast og framkvæmast. Og ef Presturinn edur hañs Medhiálparar útbera eitthvad þad sem heimuglegt er, þá skal hann missa sitt Kall, enn hvor einn af þeim gefa til Fátækra sextíu Lód Silfurs.

## 27.

Prestarner skulu med Athugaseme og Hógværd í Skriptamálum advara alla þá sem daglega forsiá sig med Blóte og Formælíngum, og bæde í Predikunum og Skriptamálum ráda einum og sierhvorium til,

ad hafa þar um tilbærelega Tilsión í sínum Húsum. Þeir skulu og í øllum ærlegum Samkvæmum áminna þá sem á þann Hátt styggia Gud, og ráda þeim ad gefa nockud til Fátækra; þeir skulu og uppteikna Nøfn þeirra sem sýna sig þar í mótviliuga, og senda þad til Yfervalldsins, sem skal straffa þá epter Maklegleikum.

## 28.

Finnist Presturinn edur hanns Medhiálparar ad vera ofliner edur forsomunarsamer í þeirra Embætte, þá skulu þeir straffast sem hæfer, epter Stiptbefalníngsmannsins og Biskupsins Tilsøgn.

## 29.

Nær sem Tvídrægne edur Oeining innfellur mille Forelldra og Barna, Húsbónda og Húsfreyu, trúlofadra Persóna, edur annara Nábúa og Vina, sem christelegt og best er ad forlíkast kynne med Hægd, án vídtloftugheita, og annars Eptermáls, þá á og kann sierhvør, sem hefur christelegast Hiartalag, og helst girnist ad flýia Hneixle, Haturs og ofundarvondann Uppruna, aðadhvort ad klaga sig fyrer sínum Sálusorgara alleina, edur ef þad vill ecke hiálpa, fyrer honum og hanns Medþiónum tilsamañs, og sóleidis gefa christilega Orsok til ad ecke skule verda af litlu Missætte, heidínglegt Sundurþycke, helldur ad í Tíma mætte miked íllt fyrerbyggt verda. Finnist neckur hneixlanlega í þvílíku Sundurþycke ad framfara, þá skal med hann høndla sem hier ad framañ er sagt um Hardhnackada.

# X. Cap.

# Um Prestaña Embætte vid Líikfør.

## I. Art.

Prestar skulu kasta Molld á þá Daudu, þá þeir eru burtsetter edur í Jordina nidurlagder, og ef þeir hafa Tóm til, skulu þeir, sie þess af þeim óskad, hallda Predikun og Áminnsíng af Guds Orde til Fólksinns, af Predikunar-Stólnum og meiga Prestarner í Kaupstødunum, taka vid því sem þeim er godviliuglega gefed þar fyrer; enn øngvann-

 veginn

veginn meiga þeir nockrum fyrerskrifa hvad edur hvorsu miked þeir vilia hafa, under þeirra Kalls Toptan. Fyrer þad ad kasta alleina Molldinne á Líked, má eckert takast á Landsbyggdinne; enn sie þar óskad Predikunar, þá fær Prestur fyrer einn Bónda edur hanns Húsfreyu fiogur Mork Dousk, og fyrer úngt Fólk epter Tiltolu, sem þad er gamallt og fiádt til.

## 2.

Í Líkpredikunum skulu þeir halldast Máta med ad hrósa hinum Dauda, og í því ad framtelia hanns Líf og Lifnad, og vayta sig, ad þeir eckert sege, sem er í móte þeirra eigenn Samvirsku, so og ad þeir tale eckert ósæmelegt um hinn Framlidna.

## 3.

Þegar Pest edur næmar Sótter yfergánga, skulu þeir í Kyrkiunne giora Líkpredikunina stutta og hálfu kortare enn annars, og í Kirkiugardinum í stadinn fyrer Líkpredikun giora alleina stutta Aminning, edur lesa eina Bæn og Fader vor, og þarf ásamt med þeim Nærstoddu Gud ákalla um Siúkdómsinns Linum og adra Naudþurft.

## 4.

Þeir meiga ei kasta Molld á, edur hallda Líkpredikun yfer nockrum sem fyrer sinn Misgiorníng er rettadur, edur hefur myrdt sig siálfur med Vilia, edur er bannsettur og ecke afleystur, edur er dæmdur minne Madur, fyrre enn Yfervalldid og Sækiandinn eru stillter til Frids.

# XI. Cap.

# Um Prestanna Líferne og Framferde, Yfersioner og Bætur.

## I. Art.

Prestarner skulu hegda sier so í ollu þeirra Líferne Framferde og Umgengne, sem Guds Ords Þienurum byriar, ad þeirra Tilheyrendur kunne ad taka af þeim god Dæme, og þeirra Líferne og Lærdómur svare hvort odru til Uppbyggíngar og

án Hneixlis, so þeir ecke siálfer med sinu Efterne skame sitt Embætte; helldur hage sier alltíd so, sem þeirra Embættis Verdugleike útkrefur.

2.

Þeir skulu alltíd gánga í rettum Presta Klædum, sem sóma einum Guds Ords Þienara; eingenn Vopn, Korda edur Bissur bera, edur med sier færa; þeirra Húsfreyur og Born skulu klæda sig epter Þorfum sem þvi Stande hlyder, án allrar ohoflegrar Dragtar.

3.

Einginn Prestur má þióna í annars Kalle, hvorke fremia Gudsþiónustugiord, hallda Líkpredikun, edur í annann Máta, nema ef sá rette Soknarprestur hefur þess oskad, edur Biskupinn skipad.

4.

Prestar meiga avungva Brandstyktu edur Betlebref nockrum utgefa, helldur alleinasta kunngiörá Yfervalldinu um þeirra Þorf og Naudsyn.

5.

Þeir skulu einginn Sóknarvitne underskrifa, edur innsigla, enn Vitnisburde meiga þeir útgefa, sem þeir búast vid ad forsvara.

6.

Prestarner á Landinu skulu hallda tilbærelegar Lokur, Gierde, Gyrdíngar og annad á mots vid sína Nábúa, uppá þad ecke kome upp mille þeirra Kíf og Þrætur; enn hallda sig frá þeirra Gatna-Stefnum; ecke helldur koma á Þíng, utann þeir miog so neydist til þess, og hafe sig ádur þar um vid þeirra Prófast edur Biskup rádfært.

7.

Þeir skulu í Tíma útgefa þad sem þeim byriar til Kóngsins ad betala af þeirra Kalle.

8.

Einginn Prestur má reisa í Lángferd um Stiftid, utan hann geje Prófastinum þad til Vitundar; ecke helldur út úr Stiftinu án Biskupsinns Leyfis; og þó skal hann siá so fyrer ollu, ad eckert í hanns Embætte verde forsómad.

## 9.

Prestar skulu aungvann Kaupmanñskap brúka, utann med þad sem heima hiá þeim aflast, edur þad sem þeim rettelega tilfellur árlega í Tiunder og epter Jardabókarinnar Hliódan, og meiga þeir aungvannveginn kaupa sier til handa nockurslags Vöru af Bændunum, under hvada Nafne edur Skine þad vera kann, til ad selia út aptur til annara, miklu sídur skulu þeir hallda nockurt Dryckiuhús edur selia Öl, edur Brennevín.

## 10.

Þeir meiga ecke gefa sig til nockurra Verdslegra Bestillínga so sem ad vera Fógetar, Skrifarar Talsmenn á Þíngum, Kiæmeistarar í Brullaupum, edur nockurslags Gestgiafarar. Og hvor sá Prestur sem finnst ad vera hneigdur til Þráttana og Dróa, og dirfist siálfur ad skrifa Stefnur, Próf og önnur Bref í veralldlegum Málum, sem hann ecke á ad skipta sier af, hann skal þar fyrer af Stiftamtmanne og Biskupe í einu og odru sinne setiast til retta, edur og, nær eckert annad Gott vill hiálpa, þá skal hann sem órólegur, órettvís og óhlýdinn alldúngis afsetiast, vikiast frá sínu Kalle, og ei sídann audvelldlega vera trúad fyrer nockru odru.

## 11.

Hvor sá Prestur sem hagar sier óvarlega og ótilbærelega í Handtieríngu Kvolldmáltídarinnar Sacramentis, og útdeiler Vínid fyrr enn Braudid, honum skal strax fyrerbióda Predikunar-Stólinn, og skal hann hallda sig frá honum, og epter opinbera Forlátsbón af Prófastinum afleysast: Edur og, ef sá sem misbrytur er siálfur Prófastur, af Biskupinum, eda ef hann hindrast af Siúkdóme edur ödrum löglegum Forföllum, þá af einum helldre Prófaste, sem hañ þad tilseger. Sídann skal stefna þeim sem sig misstied hefur fyrer Stiftamtmanninn og Biskupinn, og þegar grandgæfelega er búed ad ransaka um hanns Lifnad og Framferde, þá skal hann Kiól og Kall forbroted hafa, so framt sem augliósłega funded verdur, ad hann annadhvort er rygtadur fyrer óskickanlegt Líferne, edur hefur sömu Ofersion drígt af Dryckiuskap. Enn ef þad funded verdur, ad hann sie í allann Máta í Lífe og Lifnade skickanlegur, og honum hafe þesse Ofer-

Yfersión orded af einúngis Ogætne, edur diúpum Þavnkum, þá má hann, epter opennbera Aflausn, bæta fyrer Brot sitt, med Peninga-Sekt til Fátækra Presta Eckna, epter Kóngsinns Stiftamtmanns og Biskupsinns Fyrersogn. Enn finnist ad nockur hafe yferfallinn ordid af Siúkdóme og óforvarandis Veikleika tilfelle, þá má hann vera vid Kallid og hallda Capellan, þó má hann ecke siálfsur fremia neina Þiónustu fyrer Alltarinu.

# 12.

Prófastur skal taka til sín í Einrúme, þá sem soleidis hafa medteked Sacramented, og undervísa þeim, hvorsu stórlega þeir hafe misfied sig í því, ad þeir siálfer ecke athugudu hvad þeir giordu; þó skal hann þar hiá hugga þá í þessu sem odrum syndsamlegum Tilfellum, og sídann opennberlega advara alla Tilheyrendurnar, ad þeir skule vel hugleida, ad þeir, ef nockud því líkt Tilfelle fyrerkemur, helldur med hógværre Aminníng aptre Prestinum frá því, enn giora sig Hluttakara í hanns Gáleysse. Sídann kunna þeir, sem fyrer þessu ordid hafa, epter heimugslega Aminníng og Skriftamál, aptur ad medtakast til Sacramentis.

# 13.

Hvor sá Prestur sem tekur til egta nockra þá Kvennpersónu sem ádur hefur af odrum kreinkt vered, edur fynded verdur ad hann hafe samreckt Konu sinne, ádur enn þav eru í Egtaskap samannvígd, misse sitt Kall, epter loglegum Rettargángs Máta.

# 14.

Finnist nockur Prestur so druckinn, ad hann gete ei hneixlislaust giort sitt Embætte, ef hañ er sóktur til nockurs, þá skal hann strax, án frekare Aminníngar dæmast frá sínu Kalle; Og þarfyrer, þegar einhvor andlegrar Stiettar Madur verdur bodenn til nockurs ærlegs Gestabods, skal hann avngvannveginn láta koma sier til Dryckiuskapar ei helldur til nockurs annars Ohófs, Nætur-Seta, hiegómahátttar í Tale, Danse edur nockru soddann. Einginn má helldur upporfa hann, miklu sídur neyda hann til nockurs Dryckiuskapar.

## 15.

Prestarner skulu ástunda ad hafa og brúka abk Bibliunnar, gódar þienanlegar Bækur, sem af vísum og lærdum Mønnum eru vidtekuar. Hafe Presturinn Efne til, og vill ecke útvega sier sodd-ann Bækur, epter þad Prófastur edur Biskup hefur hann þar um áminnt, þá skal hann straffast epter Biskupsins Fyrersøgn.

## 16.

Þær Bætur, sem Prestar edur adrer andlegrar Stiettar Menn verda í dæmder fyrer sínar Yfer-siónner, sem ecke eru so stórar ad þær gillde Afsetníngu frá Kallinu, skulu gefast til fátækra Presta-Eck-na, hvor sem hefur Jus Patronatus til Kyrkuanna. Sama er og ad skilia um þær Leg-Ords Sekt-er edur adrar þvílíkar Bætur ef þær ecke gillda Búslódar Straff, edur Aleigu Misser, sem tilfalla kunna á Prestagardanna Landeign og útgefast af þeirra Þienurum og Þiónustufólke.

# XII. Cap.

# Um Prestanna Bu-stade og Jntekter.

## I. Art.

Prestar skulu búa í þeirra Sóknum, og hiá þeirra tiltrúudum Søfnudum, og á þeirra rettu Prestagordum, sem þeir skulu hafa frí med øllum þeirra rettu Eignum og tilliggian-de Itokum, sem af Alldøble hafa under þá leged; Og þar sem eru tveir edur fleire Prestagardar skal Presturinn búa á þeim eina, og fá úr hanns Skóge, epter Til-vísun, naudsynlegt Byggíngatim-bur og Elldevid, Girdíngarre, Brotarudníng handa siálfum sier epter Løgum, og af hinum ød-rum Gørdum, so vel sem af Bændabýlunum, sem lagder eru honum til Uppehelldis, skal hann uppbera og nióta alla Landskulld og Avoxtu, so og þad Herlegheit, sem hann haft hefur í rólegre tuttugu Ara Hefd, edur og hann bevísar ad sier med Rettu tilhey-re.

## 2.

Ef so er, ad einginn Skógur liggur under þann Gard, sem Prestur á býr, þá skal hann nióta so mikils, sem ádur er sagt, af þeim Skógum sem liggia under hiñ Presta edur Annexiu Gardinn, ef þar er Skógur til.

## 3.

Af Annexiu-Gordunum nióta Prestarner siálfer allrar Tíundarinnar.

## 4.

Med Bygg[in]gar Prestagardanna, sem Prestarner á búa skal halldast sem epterfylger. 1. Hvar sem hellst þad hefur af Alldodle vered sidvanalegt, skal Soknarfolkid byggia og vid Magt hallda þremur Húsum fyrer sinn Soknarprest sem eru: ein Borgara-Stofa, eitt Herra-Kamers og einn Stallur. Hinum odrum Húsum skal Presturinn siálfur, og Eckian á sinu Rádar-Are hallda vid lýde, sem forsvaranlegt er, under Abúdarfall, nær þad annadhvort um Prestsinns Lífstid, edur epter hañs Dauda, af Fógetanum, Skrifaranum og tilteknum Monnum verdur skodad epter Stiftamtmannsinns edur Amtmannsinns Tilskipun. 2. Þar sem einhvors Presta-Gards Bygging af óluckulegu Tilfelle afbrennur, þá skal gefast einn Rixdalur af hvorre þeirre Kyrkiu sem nockur Efne hefur, í því Stifte sem óluckann sked er.

## 5.

Oll Inventaria sem eiga ad vera vid Prestagardanna, skulu þar vera, og ecke víxlast fyrer Peninga edur adra Voru, þegar Umbreyting verdur.

## 6.

Prestarner í Kaupstodunum skulu til þeirra Upphelldis nióta þess Góts sem hingad til Dags hefur til Sóknanna lagt vered, og þad sem epter gomlum Rette, þar til leged hefur.

## 7.

Prestarner skulu nióta þeirra Tíunda í Skileyre ef þeir þess óska, so sem þar um sagt verdur í epterfylgiande 22. Capitula, og þar fyrer utann Offurs á þeim þremur Stórhátídum, af ollum sem þeir útdeila Altaresinns Sacramen-

mente, so og fyrer Brúdhiónavígslu, Barna Skírn og Barnsængur-Kvenna Kyrkiu Innleidslu; þó so ad þeir ecke fyrerskrife nockrum, hvad þeir skule þeim gefa. Somuleidis eins Havstdags Verks af Húsmonnum og Húskonum sem gefa þeim aungva Tíund; og í Kaupstødunum þeirra Presta-Penínga, sem híngad til hefur vered sidvanalegt. Vid Giofum fyrer Brúdhiónavígslu, Kvenna Innleidslu, edur annad, sem sidvanalegt er, ad nockud fyrer fáist, meiga Prestarner í Kaupstødunum táka, sem hvor einn vill þeim af Góðvilia gefa, hvar med þeir eiga ad láta sier nægia, og eckert meira ad heimta; Enn á Landsbygdinne skulu Prestunum gefast sextán Skildíngar Dansker fyrer Trúlofun einnra Brúdarpara í Prestsinns Húse, tvøfallt fyrer Hionavígslu, fyrer Barns Skírn sextán Skildíngar Dansker, og fyrer Kyrkiu Innleidslu eins mikid; Enn ef Bondinn óskar Prestsinns Þiónustu í sínu Húse, í þeim Tilfellum sem í Ritualnum leyft er, þá á hann epter Billegheitum þar fyrer ad ánægia honum.

# 8.

Og so sem þad merkist ad Bændur, offra litlu edur aungvu á Hátídisdøgunum, þá eiga þeir einu sinne á Are ad gefa til Offur eina Skeppu Mels edur áttunda Part af einne Korn-tunnu, hvar í mót allt Púsunar-Fe og Jardfarar Kior skal afskaffast.

# 9.

Og jafnvel þó her í Løgunum sie fyrerskrifad hvad Prestunum á Landinu skule gefast fyrer þeirra Þionustu, þá vilium Vier þó ecke taka frá nockrum hans Frívilia í því ad hyxa framar til síns Sálusorgara, epter sínum Efnum, hvar á mót Prestunum byriar ad yfervega Asigkomulag hinna Fátæku, og ei heimta þad itrasta af þeim fram yfer þeirra Efne.

# 10.

Einginn Andlegrar Stiettar Madur má dirfast til ad heimta Skenkíngar á þeirra Reisum, Fátækum Almúga til Þýngsla; Þó meiga Bændurner ei neita Prestunum edur Capellanunum fyrer þeirra eigenn edur Diáknanna Persónur, um sidvanalegann Flutníng og Nætur greida þá þeir reisa á þeirra fiar-

lægu Kyrkiur, ad fremia þar Guðsþiónustu; Enn Almúganum í sömu Sókn ber til Skiptis ad færa þá med Diáknanum fram og tilbaka, og forsorga þá þar á Stadnum; þó so framt þeir reise beinleidis Heim strax epter Þiónustugiordina, útan þeir hindrist af Guds stravngvum Vedrum; Enn vilie Presturinn reisa adra Leid enn Heim, þá skal hann siálfur útvega sier Flutníng, Færíng og Tæríng. Þó er hier med ecke meint ef hann vill ferdast til annarar sinnar Kyrkiu.

## II.

Sie nockud med Orette gengeð undann Prestinum, annadhvort Gardar, Hús, Akrar Eingi, Skógur, Fiskevatn, edur nockud soddann, þá skulu Kyrkiunnar Patronar edur Kóngsinns Befalníngsmenn innkalla sama Eigenndóm aptur med Rette; Í sama Máta skulu þeir hiálpa þeim til ad þeir fáe med gódum Skilum sínar Tekiur hiá Sóknarfólkinu, og forsvara þá í allann Máta á móte Orette.

# XIII. Cap.

# Um Presta-Eckna og Erfíngia Endurgialld sem kallast Nádar-Ár.

## I. Art.

Þegar nockur Sóknar-Prestur deyr, þá skal hanns eptlátenn Eckia, Born, edur Erfíngiar framvegis nióta eins heils Nádarárs, med allre vißre og óvißre Inntekt innann og utann Kyrkiu, ad óreiknudu því sem hinn Davde hefur þiónad fyrer, hvar í mót þeir giallda og fæda þann nýkomna Prest, epter því sem Prófasturinn med tveimur Prestum kann þá þar um ad forlíka.

## 2.

Deþe Sóknar-Presturinn í millum fyrstu Veturnætur 14. Octobris og fyrsta Sumardags, 14. Aprilis, þá nýtur Prestseckian og Bornin allrar þeirrar Inntektar, sem fellur nærsta Havst epter, og Offra og smá Inntekta inntil Árdsdagsinns epter Sóknar Prestsinns Afgáng. Deþe Sóknarprestur á mille fyrsta Sumardags, sem er 14. Aprilis og Midsumardagsinns 14. Júlii, þá má Eck-

ia og Børn edur Erfingiar behallda allre þeirre Inntekt, sem fellur á sama Are, og þar fyrer utañ hafa á því næst epterkomande Are þridia Part af Prestagardsinns Afla, samt Þridiúng af Tíundum og Landskulldum. Enn þar sem Sóknarpresturinn deýr á mille Mid-Sumars 14. Julii og þeirrar fyrstu Veturnætur 14. Octobris, þá behallda Eckia og Born ollum þeim Rettugheitum, sem sama Ar falla, og þar fyrer utann á epterfylgiande Are Helmíngnum af Prestagardsinns Afla, Tíúnd og Landskulld.

### 3.

Deýe Sóknar-Prestur vid Siósíonna, edur í Nordurlondunum, þar sem Fiska-Tíúnd edur Fiska-landskulld gelldst, á mille Jóns Messu og Michaelismessu, þá nýtur Eckian, Bornin edur Erfíngiarner allrar Fiske-Iñtektar epterfylgiande Ar, og þar fyrer utann á því odru Are þeirrar Inntektar sem Presturinn hefur forþienad frá Jólum til epterfylgiande Jónsmessu. Og deýe hañ á millum Michaelismessu og Jóla, þá niota þeir á epterfylgiande Are allrar Fiska Inntektar, og á odru Are Þridiúngs af somu Rettugheitum. Og deýe hañ á mille Jóla og 1. Aprilis, nióta þeir, fyrer utann þess Ars Fiska-Inntekt, og so hálfrar Fiske-Inntektar á odru Are. Enn deýe hann á mille 1. Aprilis og Jónsmessu, þá nióta Eckian og Borniñ allrar Fiske-Inntektar, sem á því Are fellur, og á epterkomande Are þriggia Parta af soddann Tíund og Landskulld. Enn um adra Landskulld samt Korns og Ost-Tíunder so og med Prestagardsinns Afla, skal fara eins og um þad Prestakoll sem liggia uppá Landinu.

### 4.

Prests-Eckian behelldur Prestagardinum eitt heilt Ar um kríng, þó so, ad hún hallde honum forsvaranlega vid Magt; Enn á medann skal hún fá Epterkomaranum hagqvæmt Húsrum med Sæng, Ellde og Lióse, og sem ádur er sagt, hallda honum Kost, þar til hann á odru Are tekur Inntektina af Kallinu.

### 5.

Þad sem Epterkomarinn hier vid misser, þad skal honum, ef hann í lifanda Life fer frá Kallinu,

nu, edur þá hanns epterlifande Eckiu og Erfíngium epter hanns Dauda, aptur gottgiörast á þann Hátt sem sagt er í fiórum næst fyrerfarande Articulum. Í sama Máta skal og fara um Lectores og Skólameistara í þeim stóru Skólum, ef þeir hafa nockud útgefed.

## 6.

Hende það sig ad Epterkomariñ strax epter síns Formañs Afgáng kome til fullrar og allrar Inntektar, þá kann hanns epterlifande Eckia og Erfíngiar ecke ad hallda sig til nockrar Borgunar fyrer það, sem hann hefur ecke mist. Uppheldis, epter því sem Prófastur og tveir Heradsiuns Prestar álíta billegt, epter Kallsins Asigkomulage og hennar Efnum, þó má það ecke vera yfer áttunda Part af Kallsiuns vißre Inntekt, hvors hún skal nióta allt so lenge hún situr í ærlegu og óryggtudu Eckiustande, og afhendast henne af Prestinum, ef hún uppeheldur sier innann Hierads, annars afhendist það í næsta Kaupstad, þángad sem Eckian þeß óskar. Enn ef fleire enn ein Eckia er í Kallinu, þá skal þetta Tillag jafnast þeirra á mille epter þeirra Efnum og Tilstande, af Prófaste og tveimur Prestum, med Biskupsiuns Ráde.

## 7.

Þar sem Eckian á Landsbygdinne verdur ecke gipt í Kallinu epter Prestsiuns Afgáng, þá nýtur hún þeirrar bestu og hagfelldustu Bólfestu, næst Prestssetrinu, af Prestakallsinns Gótse, til eins Skippunds Þúnga Sunnannfialls, og hálfs annars Lavps edur Spañar Nordannfialls; þó ef sá Gardur leigist dýrara, þá skal hún minka Landskulldina í þeirre árlegu Pension; Og skal Epterkomaring árlega gefa henne nockud til

## 8.

Nær nockur Prestur í Kaupstodunum deyr, þá skal sömuleidis hanns Eckia behallda Prests Setrinu eitt Ar umkríng, utañ hún fáe í midlertíd af Kyrkiuveriurunum hagkvæmann Bústad, hvors hún skal frí nióta, allt so lenge hún situr í ærlegu og óryggtudu Eckiustande; Og annars skal hún epter síns Manns Dauda, og hanns Börn edur Erfíngiar einusiñe hafa Helmínginn af þeirre árlegu vissu og óvissu Prests-Inntekt, ad undann-

anteknum Trúlofunar og Greftrunar Peníngum ad reikna frá Prestsins Andláte, til Arsdagsinns þar epter. Sidann skal Yfervalldid fyrer utann tví Búslad forsorga hana og hennar Börn, ef hún siálf er Felavs, med nockru Uppheldde af fátækra Peníngum; Enn ef eckert Medal finnst her til hiá Yfervalldinu, þá skal Epterkomarinn gefa henne árlega nockud til Uppheldis, epter Kallsinns Asigkomulage, og Prófastsinns og tveggia Presta Tilsögn.

## 9.

Presta og annara Geistlegra Manna Eckiur, sem nehdast til ad setia sig nidur í Kavpstodunum, skulu, so lenge þær sitia í þeirra Eckiustande, og færa christelegann og ærlegann Lifnad, vera frí fyrer ollum Stadarinns borgaralegum Skottum og Þýngslum, jafnvel þó þær hafe litla Hondlan; Enn ef þær brúka stóra Kavphondlan, þá gialldе þær af henne alleina; Enn þær sem eru miog fátækar, skulu þar fyrer utann vera fríar fyrer allre Innhýsíngu, Vagtarhallde og þeßháttar.

## 10.

Þar í Kavpstodunum edur á Landsbygdinne, sem Capellan er í Kallinu sem hefur sin Lavn af Sóknar-Prestinum, og ecke hefur sína vissa Inntekt á annann Hátt, skulu Sóknar-Prestsinns Erfíngiar, epter hanns Afgáng, og Epterkomarinn ad Jofnude forsorga hann Arid um kríng, epter því sem þeir uppbera hvor fyrer sig af Inntektinne og Agódanum.

## 11.

Þá Kónglegu Skatta og Alog, sem leggiast uppá Kallsinns Inntekt, skal hvor einn greida, epter því sem hann þar af nýtur og uppber.

# XIV. Cap.

# Um Capellana edur Prestanna Medþienara.

## I. Art.

Hvor sá Sóknar-Prestur, sem fyrer Alldurdóms Veikinda edur Sóknanna Ordugleika Saker, vidþarf Medþións,

þións, hann má med Biskupsinns og Prófastsinns Ráde, útvelia sier þar til eina skickanlega Persónu, jafnvel sinn eigenn Son, sie hann þar til duganlegur, og senda hann til Biskupsins, ad hann innvíge hann til Embættesinns; Þó so, ad sá sem hefur Rett til ad kalla Sóknar-Prest, hallde Rette sínum óskerdtum, nær Sóknarprestsurinn annadhvort deyr, edur gefur upp Kallid. Vilie og Sóknarprestur fyrsagdra Orsaka Vegna uppgefa Kallid, med Vilia þeß sem Rett hefur til ad kalla, þá skal hañ um sína Lífstíd hafa sitt Uppphellde af Kallsinns Inntekt, epter Prófastsinns og tveggia Presta Alyktun.

## 2.

Annars má einginn Sóknarprestur, so lenge hann er úngur og frískur, taka Capellan, hvorsium hann kann ad gefa litilræde fyrer alla Þiónustuna og Omakid, og lifa siálfur í Idiuleyse og Vellyst, og hafa þó alla Inntektina.

## 3.

Sá Samníngur sem giordur er á mille Sóknarpresß og Capellans, skal af Prófaste underskrifast og innsiglast, so þad kunne rettelega til ad gánga á bádar sídur; Og skal þad í Kallsbrefid innfærast, hvad Capellaninn skal árlega hafa til Launa, og ad Sóknarprestur vilia hallda honum hiá sier, so lenge hann hagar sier ærlega og vel, og þar til hann med ødrum betre Kiorum verdur forsorgadur.

## 4.

Þann Kostnad sem Capellaninn giorer á Reisunne til Biskupsinns, til ad láta sig yferheyra og vígia, byriar Sóknarprestinum ad betala.

## 5.

Eingenn Sóknar-Prestur má burtvísa nockrum Capellane úr sinne Þiónustu, sem þar vill vidvera nema hann ádur kunne ad yferbevísa honum so stóran Brest, ad hann kunne ei hneixlislaust kyrr vera, og þeirra í millum genginn se løglegur Dómur, innehalldande billega Orsøk til soddan Skilnadar.

## 6.

Nær þad skedur ad einn Capellan, sem af gomlum edur veikum

veikum Sóknarpreste er kalladur til ad þióna Sofnudinum, sem þó ecke er stærre enn so, ad einn úngur og frískur Prestur vel kann honum ad þióna, nýtur þó ecke Kallsinns epter þeß gamla edur veika Prestis Afgáng, helldur verdur annar til þeß útvalinn, þá skal Capellaninn hafa sitt Upphellde hiá þeim nýia Sóknarpreste, þar til hann fær betre Kior, og byriar honum á medann stundum ad fremia Kyrkiuþiónustuna, so hann ei falle í Omennsku og Lete.

## 7.

Ef nockur Capellan yfergefur sitt Kall án skiallegrar Orsakar af Lettsinne, ad óvitande Prófaste og Biskupe, þá hafe hann siálfum sier ad kenna, þó honum verde ei annarstadar til Brauds hiálpad jafnvel þó hann hafe bæde frá Preste og Sóknarmonnum gódann Vitnisburd.

## 8.

Biskupinn má ei þreyngia nockrum Sóknarpreste til ad taka Capellan, nema þad sie fyrer honum klagad og bevísad, ad hann forsóme sitt Sóknarfólk, og kunne ecke ad giora því þá Þiónustu sem honum byriar, og Biskup hafe ádur áminnt hann um þad, ad hann láte Þiónustuna vera rett forsorgada, annadhvort af honum siálfum edur einum Capellane, og hann hafe þad ei giora viliad; því þá byriar honum annadhvert ad hallda skickanlegann Mann fyrer Capellan, edur og missa Kalled.

## 9.

Sóknarpresturinn skal hallda sinn Capellan sem einn Gudsþienara og Medbródur í Gudsorde, virda hann og frama; og þeßvegna án Mogls, Skiensyrda og annars Olempis, fá honum naudsýnlegt og vidunanlegt Upphellde, med Mat, Öl, Stofu, Sæng, Hita, Lios, Klædaþvott og annad, so og gódann Fararbeina, þegar hann skal einhvors stadar reisa, Sóknarprestsinns edur síns Embættis Vegna.

## 10.

Capellaninn skal haga sier vid sinn Sóknarprest, sem vid sinn Fodur og Húsbónda, tilbærelega med allre Hlýdne, Audmýkt, Ástundunarseme, Hreinferde

og

og Trúskap, án allrar Hvermóðsku, á móte honum, hanns Konu edur Fólke; Finnist þad odruvíse af Soknar-Prestsinns edur Capellansinns Hálfu, skulu þeir þar um áminnast, se iaft til R.tta, og straffast epter Málavoxtum.

# II.

Capellaninn má ei gipta sig iñi Soknar-Prestsinns Hús, á móte hanns Vitund og Vilia, sem kynne ad orsaka stærstu Þýngsle og Osamlynde.

# 12.

Capellaninn skal eckert giora í Embættinu án Sóknarprestsinns Samþyckis, og epter hanns Befalníng.

# 13.

Af þeim Stodum á Landsbygdinne, sem alltíd er vant ad vera búfaster Capellanar, edur Vice-Pastores, þar meiga þeir behallda þeim Garde, sem þeirra Embætte er tillagdur, med somu Fríheitum, sem hann af þeirra Formonnum hefur setinn vered, Sóknarprestarner skulu og láta þeim fylgia af þeirra eigenn viþre og óviþre Innt.kt allt hvad vanalegt hefur vered ad Ferngilldu.

# XV. Cap.
# Um Diakna og Substituta.

# I. Art.

Til Diákna skulu hier epter alleina skickast Studentar, ef þeir til eru, sem skulu taka þeirra Kallsbref uppá Embættid, af þeim sem Rett hefur ad kalla, og so yfirheyrast af Biskupinum, hvort þeir sieu þar til duganleger; Enn sie þad lángt frá þeim Stad, sem Biskupinn býr, má Prófastur hann yferheyra og medtaka, og nær Biskupsinns Visitatia innfellur, þá skulu þeir sem so antekner eru, mæta fyrer honum.

# 2.

Diáknarner á Landinu, skulu, fyrer utann þá Undervísun, sem skedur á Sunnudogum, og so einusinne í Viku, hvar þad skied getur, uppfræda Ungdóminn

í Barna-Lærdóminum, so ad öllum Ungdóme í Sókninne verde einu-sinne í Viku undervísad af Diáknanum, á þeim Stad, sem Diákninn med Prestsinns Vilia og Ráde, tilseger þeim ad koma fyrer sig.

3.

Þeir skulu vera fyrer Saungnum í Kyrkiunne, þegar Gudsþiónusta er þar framinn, epter veniulegum Hætte.

4.

Þeir meiga ei vera Þíng-Skrifarar, edur þióna ödrum Veralldlegum Embættum.

5.

Þeir skulu vera þeirra Sóknar-Prestum hlýdner og hehruger, í því sem þeir befala þeim, uppá þeirra Embættis Vegna.

6.

Diáknar meiga ei reisa burt úr Prófastsdæminu, án Prestsinns Vilia edur og Leyfis.

7.

Diáknarnir á Landinu skulu allstadar vera búsitiande hiá Soknunum, og nióta þeirra Diákna Setra, sem af Alldodle hafa Diáknunum tillogd vered med öllum þeirra rettu Tillogum: Hvar Sóknar-Diáknarner hafa ecke neina vissa Bústade, þar skal Kóngsinns Lensmadur útvega þeim eina af Kyrkiunnar Jördum, nær nockur verdur laus, til Abúdar og Brúkunar, fyrer billega Festu og árlega Landskulld; Enn finnist eckert Plátz á Kyrkiunnar Gótse, sem honum verde med hiálpad, þá má unna honum nockurs af Kóngsinns Gótse fyrer Festu og Landskulld. Þar sem þeir hafa ecke Lífs Upphellde, þar skal Stiftamtmadurinn og Biskupinn bera Umsorgun fyrer á hvorn Hátt þeir kunne ad fá þeirra Upphellde.

8.

Þeir skulu nióta af Almúganum þess, sem þeim á hvorium Stad frá Alldodle tilheyrt hefur, hvorier sem Gardana og Eignernar brúka.

9.

Af Kyrkiunum fá Diáknarner eckert til Launa.

## 10.

Á Landinu skulu aungver Substitutar vera, utann þeir, sem þeir búsitiande Diáknar, vegna þeirra Alldurdóms, Veikleika, edur annara løglegra Orsaka med Prestsinns og Prófastsinns Samþycke, taka fyrer siálfa sig, og gialldu siálfer Laun.

## 11.

Diáknarner í Kaupstødúnum skulu nióta þeirrar Inntektar, sem þeir af Alldødle noted hafa.

# XVI. Cap.

# Um Profastana.

## I. Art.

Einn Prófastur skal vera í hvöriu Herade, sem skal vera Biskupsinns Medhiálpare, í því ad tilhallda Kyrkna- og Skóla-Þienurum ad giora þeirra Embætte, og siá til, ad aller Huter gánge allstadar skickanlega og rett til.

## 2.

Prestarner í hvöriu Herade meiga med þeirra Biskupe útvelia sier einn Prófast á medal þeirra siálfra, sem þeir álíta þar til duganlegann, hvört helldur hann býr í Kaupstadnum edur á Landinu.

## 3.

Prófastarner skulu í hid minnsta einusinne á Are, edur optar, ef Biskupe þyker þess þurfa, koma í allar Sóknernar í þeirra Prófastsdæme, hvörium sem þær tilheyra, edur hafa Jus Patronatus yfer þeim, og athuga hvörninn Prestarner predika, útleggia Barna-Lærdóminn, handtera Sacramentin, og hvört þeir forstanda í allann Máta sæmelega sitt Embætte, og prýda þad med gódu Líferne.

## 4.

Harnærst skulu þeir kostgæfelega eptergrenslast um Ungdómsinns Uppfrædíng í Barna-Lærdóminum, yferheyra Børninn, ransaka um Diáknanna og Substitutanna Kostgæfne í þeirra Kalle, áminna þá til Astundunarseme í því, einnenn tilhallda Prestunum ad hafa Tilsión um þad, epter sinne Embættis Skylldu.

## 5.

Hvar sem þeir finna nockurn Brest edur Forsómun hiá Prestunum edur ødrum þeirra Underhafande Geistlegum, í þeirra Embætte, Framferde og Líferne, þá skulu þeir kostgæfelega miña þá á, hvad þeim ber ad giøra, og þá sem sig þá ecke vilia leidretta, skulu þeir bera under Biskupiñ, og þá sem hann kann ecke setia til retta, skulu þeir stefna fyrer Kóngsinns Stift-Befalníngsmann og Biskup, og aldeilis eckert óskickanlegt dylia, edur stínga under Stól, helldur láta tilbærelega uppátala þad og straffa, nema þeir vilie siálfer standa til Retta þar fyrer.

## 6.

Þeir skulu og gefa Gætur ad Sóknafólkinu, so þeir vite, hvad þvi hafe framfared í christelegre Trú, og hvørninn þad hage ser í sínum Lifnade epter Evangelii Lærdóme.

## 7.

Hvor sem ecke lætur sinn Ungdóm og Hiú framkoma í Prófastsinns Visitatiu, þeirra Nøfn skal Prófasturinn uppteikna og senda til Yfervalldsinns, sem skal straffa þá þar fyrer, sem fyrer Helgedags Brot.

## 8.

Prófastarner skulu spyria epter, hvort Sókna Diáknarner fá þeirra veniuleg Laun, sem þeir eiga ad hafa, og þar sem þeir finna ad Sóknar-Fólkid helldur sig ecke epter þvi sem her er befalad, skulu þeir áminna þad, og ef þad vill ecke leidretta sig, þá skulu þeir gefa Kóngsinns Befalníngsmanne edur Yfervalldinu þad tilkynna.

## 9.

Þeir skulu og eptergrenslast um Kyrknanna Inntekter, so og hvørninn Kyrkiunum og Kyrkiu-Gørdunum er vid lílde hallded, hvar um her epter framar talad verdur í þeim tuttugasta og ødrum Capitula.

## 10.

Þegar Prófasturiñ fyrer einhvøria serdeilis Orsøk kemur til nockrar Kyrkiu, þá skal Kyrkian gefa hønum einn Rikisdal, og má hann ecke koma fiølmennare, enn med þriá Hesta, edur einn gódann Bát med ser og sínu Fólke.

Nær

Nær hann giörer sína árlega Visitatiu, skal hann hafa frí Flutning og Fararbeina epter Þorfum, og af hvorre Hofud=Kyrkiu einn Rikisdal, og af hvorie Annex=Kyrkiu hálfann Rikisdal.

II.

Prófastarner skulu hafa gótt Skin á Lands-Logunum, og þá einhvor Prestur edur Skóla-Þienare í Kaupstodunum andast, skal Prófastur med einum Preste í Heradinu, edur, ef hann er hindradur, edur siálfur dáiñ, þá í hanns Stad, sá nærstbúande Prestur í sama Herade, strax reisa til Sterfbúsinns, og forsigla þad; Sídann skal sá, sem settur verdur til Prófasts, med tveimur Prestum, vera fyrer Skiptunum, og hondla þar í epter Lands-Logunum.

# XVII. Cap.

# Um Superintendentana, sem eru þeir rettu Biskupar i Kyrkiunum.

## I. Art.

Í hvoriu Stifte skal vera einn Biskup, sem Kóngurinn þar til setur og stadfester, sem skal hafa alla Prófasta, Presta, Skólaþienara, Diákna og Substituta under sier, og hallda þeim til ad giora þeirra Embætte, og siá til ad aller Hluter gánge skickanlega og rett til, sem her eru bodner.

2.

Hann skal vígiast til Embættes sinns af Biskupinum í Sielande í Kóngsinns Adseturs Stad Kaupmannahofn í Vorrar Frúr Kyrkiu, ad nærverande Prófastinum og fimm edur sex Prestum, á einum Sunnu= edur Hátídisdege, ádur enn Predikun byriast, fyrer Altarinu, med veniulegum Ceremonium.

3.

Þá Biskupinn er vígdur, skal hann strax taka vid sínu Stifte, og framkvæma sitt Embætte.

4.

Eingenn Biskup má taka vid nockurre Gáfu af Stiftesinś Prófostum og Prestum, nær hañ kemur til Embættesinns; Ei helldur meiga Prófastarner edur Prestarner bióda honum nockud; Takist edur gefist nockur Skenkur, skal hann vera forbrotinn til fátækra Presta-Eckna í Stiftinu, og þar fyrer utann skal bæde sá sem vidtekur og þeir sem gefa, vera skylldugar til ad gefa eins miked til sömu Eckna, og Skenkíngin er verd.

5.

Biskuparner skulu kenna ödrum þá Heilögu Ritníng, predika Guds Ord fyrer Fólkinu, ecke alleinasta í Stadnum, sem þeir búa, helldur og allstadar í Stiftinu, hvar sem þeir koma.

6.

Þeir skulu hallda Kóngsinś Þegnum til ad vera fridsömum og hlýdnum, med þeirre Undervísün sem þeir skulu gefa þeim í sínum Predikunum, um Yferbodarana og þá Hlýdne, sem meñ eru þeim um skylldiiger.

7.

Þeir skulu kosta Kapps um ad aller Prestar kenne rettelega, og med Eindrægne, Christi heilagt Evangelium, og annad þad sem þar med á ad fylgia, og ad Prestarner med sínu Heimilis Fólke life skickanlega, so sem þvílíkum Christi Þienurum vel sómer.

8.

Enn þá sem þar í mót giöra, og ecke taka Vara á sínu Embætte, edur lifa óskickanlega, skulu þeir áminna og advara, og straffa þá, so ad þeir annadhvort betre sig, edur láta þá mæta fyrer ser og Kóngsinns Stiftbefalníngsmanne, og setia þá af þeirra Embætte.

9.

Þeir skulu árlega koma á Kyrkiurnar í þeirra Stifte, so margar sem þeir geta vidkomed, so eingin Kyrkia í samfelld þriú Ar se óvisiterud, og kostgæfelega ransaka um allt þad, sem her ad framan er sagt um Prófastanna Vísitatiur, og eckert af því sem þar er taled, forsóma edur ógiört láta, nema þeir siálfer vilie standa þar fyrer til Retta.

10.

## 10.

Þeir skulu og heimsækia alla Barna-Skola, bæde smáa og stóra, þá þeir koma í Kaupstadina, so og Hospitolin, og verda vísir hvorninn Skólaþienararner, og fátækra Forstandarar forstanda sitt Embætte, og hvorninn þeir Fátæku erú forsorgader.

## 11.

Í Skólunum skulu þeir kostgæfelega yferheyra ecke einasta Skóla-bornin, helldur og Skólameistara og Heyrara, so og hafa sterkar Gætur á ad einginn spille sinne Skolaverutíd til Onýtis.

## 12.

Þeir skulu hafa Tilsión um Hospitolin, ad þeir sem ecke eru retter Hospitals-Limer, forsorgist þar ei, helldur sie vísad til ad næra sig med Erfide, Spuna og Handverkum.

## 13.

Í sinum Visitatium, edur nær þeirra einhvorra navdsynlegra Orsaka Vegna óskad verdur til nockrar Kyrkiu, edur þurfa þángad ad reisa, skulu þeir med sinu Fólke hafa navdsýnlegann Farargreida og frí Kost hiá Prestunum á Landinu, og í Kaupstodunum hiá Kyrkiu-Veriurunum.

## 14.

Þeir skulu árlega framsenda í Kóngsinns Cancellie sína Underretting, ef nockud af því, sem her er skipad, verdur í Sóknunum forsómad, edur sied ígegnum Fíngur vid, sem þeir ei siálfer geta ráded Bot á.

## 15.

Biskuparner meiga avngvum veita nockurt Prestakall, edur skipta sier þar af, fyrre enn sá, sem Rett hefur til ad kalla, sender honum þann sem kalladur er, til ad yferheyra hann; Ei helldur meiga þeir vígia nockurn til Embættesinns, utann hann hafe Kallsbref frá þeim sem hefur Rett þar til, og framvíse sitt loglegt Testimonium frá Universitetenu.

## 16.

Þeir meiga hvorke siálfer taka, ne láta adra taka Giafer, þá þeir vígia Presta, edur fyrer Stadfeste

festíngarbref; miklu sídur fyrer Gunst edur Gáfu, Vild edur Vinskap, Hatur edur Reide, hindra nockurn frá ad verda Prestur, sem þar til er leglega kalladur, og þar til duganlegur fundinn.

# 17.

Biskuparner skulu taka fyrer sig allar þær Saker sem Samvitskurnar áhræra, um hvoriar menn leita Ráds af Guds Orde, þegar annadhvort Kóngurinn skipar þad, edur Hanns Rád og Befalníngsmenn skrifa þeim til, edur og nockud þvílikt verdur þeim fyrerlagt í Stiftinu, so skulu þeir hid besta þeir kunna, þar til svara af Ritníngunne, epter þeirre Nád sem þeim er gefenn og spyrja sig fyrer þar um hiá ódrum Biskupum, Professoribus Theologiæ, og skinsomustu Prestum, so þeir gete svarad því sem víst og stodugt er.

# 18.

Hiónabands-Sokum skulu þeir vísa til þeirra retta Stadar og Rettargángs, so framt sem openber Domur gánga skal á mille Málspartanna, edur ef nockrum skammarlegum Leste er vitanlega ydserlig, edur menn óttast fyrer eirhvoriu Hneixle ámedal Almúgans; Annars meiga þeir, so í þessum sem ódrum Málum fría Samvitskurnar med Guds Orde, og epter þess Hlióðan gefa góð og stadfost Ráð.

# 19.

Þeir skulu ecke hallda ser til ad dæma í nockrum veralldlegum Málum, nema þeim se þad af Kónge befalad.

# 20.

Biskuparner skulu uppbera sínar Inntekter, sem þeim eru tillagdar, Tíunder, Landskullð Cathedraticum, og annad, sem þeir med Rettu eiga ad hafa.

# 21.

Biskuparner skulu siálfer hallda þeirra Adsetrum vid Magt, af þeim Gótsum, sem þar til logd eru, edur her epter tillogd verda, og skulu Erfíngiar sierhvors Biskups svara til þess, sem hann hefur um sina Tíd, af sonu Femunum uppbored, og ecke lagt Adsetrinu til naudsýnlegrar Umbótar.

22.

## 22.

Allar Geiſtlegar Perſónur, ſem Biſkuparner hafa under ſer, ſkulu heidra ſinn Biſkup, og hlŷda honum í þeim Erendum, ſem einum Biſkupe eru befolud, under þeirra Embættis Topun; Eñ ſiñe þeir hiá honum nockurn merkelegann Loſt, edur hann kenner nockurn rángann Lærdóm, edur forſómar ſitt Embætte, ſo ad hanns Breſtur er ſo ſtór, ad hann añadhvort ecke getur, edur ecke vill, ráda þar Bot á, þá ſkulu hvorke Preſtarner edur adrer Biſkupar þegia um hann, helldur kunngiora þad Kóngſinns Stiftbefalíngsmañe, ſem á ad tilkynna þad Kónginum; Annars má eingenn Kóngſinns Befalníngsmadur rægia nockurn Biſkup fyrer Kónginum, ſem ecke er kominn í opennbert Vanrygte; helldur ſkulu þeir taka Biſkupana í Forſvar, ef Þorf gioriſt.

## 23.

Biſkuparner ſkulu vera ólaſtanleger, ecke alleinaſta þegar þeir eru ſetter til Embætteſinns, helldur og epter þad þeir eru til þeß komner. Verde þad funded ad nockur Biſkup forſtande ecke ſo trúlega ſitt Embætte, ſem hæfer, helldur lætur bleckia ſig af Preſtunum med Gáfum, edur og tekur nockud ad forſóma vegna þeß hañ er ei Arvakur í þvi ad giora þad ſem honum er ſkipad, edur lætur finna ſig í nockrum Glæpum, Ofhófe, Agirnd, Drambſeme, edur fellur í nockurn opennberañ ſyndſamlegann Loſt edur Villudóm, þá ſkal klaga hann fyrer Kónginum; So ſkal leyfa honum ad ſvara fyrer ſig, í Nærveru tveggia edur þriggia Biſkupa, edur annara, ſem Kóngurinn þar til ſetur, og verde hann þar opennberlega yfervunnenn, og rædur ecke Bót á Breſte þeim edur Leſte ſem hann getur leidrett ſig í, þá ſkal hann ſetiaſt af ſínu Embætte, og vera ſama Rette undergefenn, ſem hvor annar, er þvílíkt adhefſt.

## 24.

Nær nockur Biſkup deyr, þá ſkal hanns epterlifande Eckia búa í hanns Reſidentze hálft Ar þar epter, í þad minnſta, þó ecke flŷtia burt fyrr enn um Páſka edur Michaelismeſſu Leite; Deye hann edur burtfare mille þeß 1. Aprilis og 1. Julii, þá ſkal hann edur hanns Eckia, Born og Erfíng-

fíngiar hafa þriá fiórdu Parta af Biskups Inntektinne á því Are; Deye hann edur burtfare mille þess 1. Julii og 1. Octobris, þá skulu þeir nióta allrar Inntektarinnar á því Are; Deye edur burtfare hañ mille þess 1. Octobris og 1. Januarii, þá skulu þeir uppbera alla þess Ars Inntekt, og Fiórdúng af epterkomande Ars Inntektum; En deye edur burtfare hann mille þess 1. Januarii og 1. Aprilis, þá skulu þeir hafa alla Inntekt á því Are, og Helmínginn á því epterkomande; Og skal Arid reiknast frá 1. Aprilis til 1. Aprilis á ødru Are; Og skal Biskups Eckan og hanns Erfíngiar vera skylduger til strax ad afhenda Epterkomaranum Stift-Kistuna, med øllum Brefum og Skilríkium, sem Stiftinu og Embættinu vidkoma; Og ef þess burtdána Biskups Eckia hefur siálf øngva Femune, og verde hún ei nádud med neinnre árlegre Iñtekt, annadhvort af Kyrkiunum, edur med ødrum Hætte, þá skal Epterkomarinn gefa henne árlega nockud til Uppheldis, so lenge sem hún situr í ærlegu og óryggtudu Eckiu Stande, epter Biskupsinns Inntekta Asigkomulage, og Stiftbefalníngsmannsinns og fiogra ellstu Prófasta Alyktun; Þó so, ad þad sie ei yfer hundrad Ríkisdale. A þeim Stødum sem Biskuparner fá Presta-Tekiurnar til Launa, þar skal fara um Tíma Takmørk þess hálfa Nádar-Ars, sem hanns Eckiu er tillagt, so sem ádur er sagt um Presta Eckna Nádar-Ar.

## XVIII. Cap.

# Um Skolana og Gymnasia.

### I. Art.

Í øllum þeim Kaupstødum og á øllum þeim Stødum sem Latinu-Skólar eiga ad vera, þar skulu setiast lærdar og skickanlegar Persónur, tvær edur þriár í þad minnsta, sem þá kuña ad forstanda; Til þeirra skal Ungdómurinn setiast, til ad læra Guds Otta og annann Lærdóm, hvar med þeir í Framtídinne kunne ad þióna Gude í Kyrkium, Skólum og Háskólum, edur í verdslegum Bestillíngum, Almennínge til Þarfa; Og meiga Børn, bæde af Landsbygdinne, og úr Kaupstødunum, sendast til þessara Skóla, þó þad hafa lært nockud Heima.

2.

## 2.

Skólameistararner setiast af Biskupinum, sem hann med Sóknarprestinum hefur yferheyrt, og þar til duganlega funded; Enn Skólameistarinn skal siálfur sorga Skólanum fyrer Heyrurum, og taka þá sem Sóknar-Presturinn þecker og helldur þar til hæfelega.

## 3.

Þeir sem þióna skulu, sem Skólameistarar í þeim stóru Kaupstada Skólum, skulu annadhvort vera a) Magistri edur b) Candidati Magisterii. Yfer allt má aungvum tiltrúast ad vera Skólameistare edur Heyrare í stórum edur smáum Skólum, fyrr enn þeir c) in Examine Philosophico eru álitner verduger ad fá d) primam in Philosophia Lauream, og odlast Meistara-Titil þad fyrsta hann verdur halldenn.

## 4.

Skólameistarar og Heyrarar skulu hafa góda Tilsión med Bornunum, og hallda þeim til Túgtar, Hæversku, góðra Sida og Hreinferdis.

## 5.

Þær Bækur skulu Ungdóminum fyrerlesast í Skólunum, og sú Skickan brúkast, sem af Professoribus vid þad Kónglega Universitet í Kaupmannahofn, epter Kóngsinns Skipan giordar eru, edur her epter giordar verda.

## 6.

Med Kór-Saung og Bænahalld skal halldast epter því sem Skólameistarinn med Biskups og Sóknar-Prests Ráde þad best og gudrækelegast tilskickar, og so sem vanalegt hefur vered, sídan Lagfæring Trúarbragdanna (Reformationen) skede.

## 7.

Skólameistararner skulú med Astundan athuga Næme sinna Skólabarna, og alltíd, nær Bornin eru elldre ordinn enn tólf Ára, kunn-



a) Meistarar. b) Þeir sem sækia ad fá Meistara Titil.

c) Þá þeir eru yferheyrder í Heim Spekinne. d) Ad fá hærsta Titil í Heims Spekinne.

kunngiora þeirra Foreldrum edur Formyndurum í rettum Trúnadar Málum, hvorier af þeim ecke sÿnast ad taka nockre Framfor í sínum Idkunum, so þeir í Tíma setiest í annann Stad til ærlegs Handverks edur Handteríngar, epter hvors eins Hentugleikum; Enn þeim, sem þeir siá ad hafa gott Næme, skulu þeir hallda í Skolanum til sextánda Ars; Enn frá því Are skulu þeir graudgæfelega siá epter hvorier þeir seu, sem gete til Gagns kennt ødrum þad sem þeir siálfer hafa numed í sínum Idkunum, og þá, sem þeim sÿnist þad kunne ad giora, og hafa nád því Takmarke í sínum Lærdóme, sem þeim er í Skólanum fyrersett, meiga þeir senda til Kóngsins Universitet, med stuttum og sannferdugum Vitnisburde, um þeirra Framferde í Skólanum; Enn þeir sem ecke geta giort þad til Gagns, meiga takast frá Skólanum, og setiast til ærlegra verdslegra Embætta.

## 8.

Skólaþienararner skulu behallda þeim Launum og Inntekt, sem þeim eru tillagdar.

## 9.

Skólameistarinn má ei reisa í nockra Lángferd frá Skólanum, án Leyfis Biskupsins edur Sóknar Prestsins, í þeim smáu Kaupstodum under hanns Embættis Toput.

## 10.

Heÿrararner meiga hvorge ferdast án Skólameistarans Leÿfis; Enn ad reisa lánga Vege frá Skólanum, meiga Skólameistararner ei lofa þeim án Biskups Vilia og Vitundar, edur Sóknar Prestsins í þeim smáu Kaupstodum.

## 11.

Reÿnist þad ad Skólameistarar edur Heÿrarar seu forsómunarsamer so ad þeir ecke taka vara á ad lesa á rettum Tímum fyrer Bornunum, edur og slá ser til Dryckiuskapar, Lauslætis, edur þvílíkra Lasta, edur ag ótilbærelega straffa sín Skólaborn, og hafa ecke Hóf þar á, edur hondla óærlega med Barnanna Inntekter, þá skulu þeir áminnast af Biskupe og Sóknar Preste; Ráde þeir ei Bót þar á, þá má Biskup víía þeim frá Skólanum, og setia þángad aptur adrar hæfelegar Persónur í þeirra Stad. Þeir uppábodnu

Diákna-

Diákna-Peníngar skulu her epter, sem ad forngilldu gialldast, af Fógetunum innkreftast, og afhendast til Biskupsinns edur Skólameistarans, sem árlega skulu útbýta þeim til fátækra Skóla-Barna.

## 12.

Palma-stikur meiga ei brúkast í Skólunum ad limlesta Bornin med; Þó meiga þeir vel brúka Palmastikur, ef nockrer stórer Ribballdar vilia setia sig upp í móte þeim.

## 13.

Aller Kaupa-Prang-Skólar skulu vera olldúngis afteknir.

## 14.

Yfervölldin í Kaupstodunum skulu tilsetia og forsorga Skrif- og Reiknings Skóla, og skulu Forsiónarmeñ somu Skóla og Sóknarprestarinn hafa Tilsión med, ad Borninn uppfrædist í sonnum Guds Otta; Skólameistararner skulu yferheyrast af Sóknar-Prestinum, ádur enn þeim verde trúad til soddann Skóla. Þeir skulu og láta sín Skólaborn koma fyrer Prófastinn í Kyrkiunne, og af honum yferheyrast, þá hanns árleg Visitatia skedur.

## 15.

Eingenn má sennda neinn út af Ríkinu med sínum Bornum, sem þau skule uppfræda, nema sá same se ádur yferheyrdur af Biskupe þess Stiftis, úr hvoriu Bornin send eru, og reyniſt ad hann se af þeim Trúarbrogdum, sem vidtekeñ eru her í Ríkinu. Hvor sem her ímót giorer, straffist þar fyrer sem sá ei hefur viliad agta Kóngsinns Log.

## 16.

Eingin má taka nockurn Mann í sitt Hús, til ad kenna sínum Bornum, edur odrum Ungdóme, Latinu og bóklegar Konster, sem ecke er innskrifadur í Studentanna Tal á Kóngsinns Universitete, og hefur auglýst fyrer sínum Læremeistara vid Háskólan, ef hañs Þiónustu er óskad þar sem Universitetid er, edur fyrer Biskupinum, edur í hid minnsta fyrer Sóknar-Prestinum á odrum Stodum, ad um sig se beded til soddann Þiónustu, uppá þad ad sá sem óskar soddann Þiónustu, vita kunne, hvort hann til hennar se þien-

 an-

anlegur.

## 17.

Hiá hvorre Dóm-Kyrkiu skal halldast einn Lector Theologiæ *) sem í Latinu Mále skal lesa þá heilogu Ritníng med Utskyríngu, fyrer Skóla-Diáknum og odrum, sem þángad vilia sækia; Hann skal stundum predika á tilsettum Tídum, þó so ad eingenn venjuleg Predikun hindrist þar vid.

## 18.

Lectores Theologiæ so vel sem adrer Professores í Gymnasiis (þeim stóru Skólum) skulu giora og gefa Tilravn um þeirra Lærdóm og Duganlegleika fyrer Professoribus í Kóngsinns Universitete í Kavpmannahofn, ádur enn þeir inngánga í sitt Embætte.

# XIX. Cap.
# Um Hospitølin og Fatæka.

## I. Art.

Hjá serhvoriu almennelegu Hospitale skal af Hospitalsins Tilsiónarmonnum (þó so ad Kóngleg Stadfesting þar uppá takist) tilsetiast einn gódur, gudhræddur og skilsamur Dánumadur, sem annadhvort er ógiptur, og lifer vel og hreinferduglega, edur er giptur, og á eingenn Born, og skal hann fyrer tilbæreleg Lavn veita Hospitalinu Forstodu, og uppbera og vígsla ollum þeim Rentum og Inntektum, vissum og óvissum, sem Hospitalid hefur þeim Fátæku til Uppheldis og Navdþurftar, og á allann Hátt þiena þeim Fátæku med Trúskap, efla og stunda þeirra Gagn og Besta; Og þegar þesse Forstandare deyr, þá skal hanns epterláted Góts, blífa vid Hospitalid, og skulu hinner Fátæku vera hanns Erfingiar.

## 2.

Hann skal hafa Þióna under sér epter Þorfum, so ad þeim Fátæku verde þiónad, og hafe ei Orsok þar yfer ad klaga.

## 3.



*) Les-Meistare í Gudfrædinne.

Hann skal hafa Tilsión um ad þeir sem inntekner eru af næmum Siúkdóme, kreynke ecke hina, so og leggia Astundan á, ad þeir sem hafa læknanleg Kránkdæme verde aptur hiálpad til Heilsu sinnar. Skylldu nockrer Spitelsker finnast, þá skulu þeir innleggiast í eitt hentugt Hús, sem upp er byggt hiá Hospitalinu, hvar þeir skulu hafa sitt navdsynlegt Upphellde og Adhiúkrun.

4.

Hann skal á Are hvoriu giora rigtugann Reikníng fyrer allar Hospitalsinns Inntekter og Utgifter, ad nærverande Kóngsinns Befalníngsmanne, Biskupe og ødrum, sem Hospitalsinns Tilsion er uppálogd.

5.

Hann skal med Løgum og Rette forsvara Hospitalsiñs Gots, og med sama Hætte apturkalla þad sem med Orettu kann undann því genged vera.

6.

Engiun má inntakast í Hospitalinu fyrer Gunst edur Gáfu, Villd edur Vináttu, helldur alleina þeir, sem þeß stórlega medþurfa; Ei helldur má þar nockur madur inntakast, hvorke einsamall, ne vid annann Mann, fyrer vissa Femune edur Peníngа Summu, nema þad se Hospitalinu til stórs Abata.

7.

Þad skal þeim ei leyst vera, sem í Hospitalin eru inntekner, ad gánga opt í Stadinn, nema allseinasta í Kyrkiuna, án Hospitalshalldaranns Lofords, ei helldur ad gánga um til ad Betla, edur taka ser annad fyrer, so sem Dryckiuskap, Lagaþrætur, edur annad þvílíkt, sem rettum Hospitals-Limum ecke sómer.

8.

Øllum Hospitals-Limum, sem geta erfídad nockud med Hondunum, edur giort nockud ødrum til Góda, skal tilhalldast ad giora þad gódviliuglega; Ef þeir neita ad giora þad sem þeir geta til Gagns, eiga þeir ad rekast úr Hospitalinu.

9.

## 9.

Einginn má lengur nióta Uppheldis í Hospitalinu, enn þángad til hann fær Heilsu sína aptur, og getur med odru móte útvegad ser Braud; Enn þeim, sem menn álíta ecke fyrer retta Hospitals-Lime, skal burtvísa, og adrer siúker, vanfærer og retter Hospitals-Limer inntakast í þeirra Stad.

## 10.

Hvor sem er Opackklátur, Moglunarsamur, hneigdur til Dryckiuskapar edur annara Oskickanlegheita, skal fyrst nockrum sinnum þar um áminnast; hiálpe soddañ Aminning ecke, þá skal honum burtvísa, og inntaka annann í hanns Stad.

## 11.

Sóknarpresturinn skal nockrum sinnum í hvørre Viku, heimsækia þá Fátæku í Hospitalinu, og ef hann finnur í nockurn Máta, ad sú Ræksla og Uppheldne, sem þeir Fátæku eiga ad hafa, se forsómud, þá skal hann áminna Forstandarann þar um; Vilie hann ecke ráda þar Bót á, þá skal hann láta þá vita þad, sem Hospitalsins ô Tilsión er tiltrúud, Kóngsins Befalníngsmanni Biskupinn eda adra, so þar megi rettelega verda rádin Bót á. Hann skal og í þid minnsta einusinne í Viku hugga þessa Fátæklínga og Siúklínga.

## 12.

Stór Hospitol mega hafa og siálf forsorga sína Presta, so þeir Fátæku ei líde nockurn Skada, ef einhvor á Næturtíma óskade Huggunar í Daudans Angist, edur ad verda hluttakande í Christi Líkama og Blóde.

## 13.

Nær þeir Fátæku burtdeya, þá skal þeim veitast ærleg og christeleg Greptrán í Hospitalsinns Kyrkiugarde og uppá þeß Kostnad, nema þeir hafe Vine, sem vilie þar nockud tilhiálpa, og skal allt þad sem þeir burtdánu epter sig láta, koma Hospitalinu til Góda, og þeß Forstodumadur færa þad til Reiknîngskapar: Hafe þeir Vine, sem vilia láta iarda þá ad odrum Stadarinns Kyrkium, þá á ecke ad meina

þeim þad, enn þó skulu, sem sagt er, þess Sálada epterlátner Fiármuner fylgia Hospitalinu.

## 14.

Annars skal so halldast um Hospitolin, sem Konúngleg Stipstan hvors eins, edur annara gudhræddra Manna Fundatiur, med ser bera.

## 15.

Fyrer adra Fátæka og Efnalaust Búfolk, skulu og setiast Forstiodumenn, sem med rettum Trúskap skulu uppbera Rentuna af því sem Fátækum er tillagt, so og þad sem þeim þar ad auke velviliuglega gefed er af gudhræddum Monnum, edur þeim safnast á Toblurnar í Kyrkiunum, á Predikunardogunum, edur med odrum Hætte tilleggst, hvöriu þeir skulu útskipta á medal hinna Fátæku trúlega og ríflega, epter hvors Þorfum. Þeir skulu og giora rigtugann Reikníng fyrer allt þad sem þeir hafa innteked og útgefed, í Yfervalldsins og Sóknar-Prestsins Nærveru.

## 16.

A Landsbygdinne skulu Kyrkiunnar Patronar, þar sem þeir eru, edur Kyrkiuveriararner med Sóknar Prestinum, útskipta til þeirra Fátæku í Sókninne, epter því sem hvors eins Þorf mest krefur, þeim Peníngum sem Fátækum gefast, annadhvort á Toblurnar, edur á Bláckernar edur med odrum Hætte.

# XX. Cap.

# Um Bækur og Almanøk.

## I. Art.

Ingenn, hvor sem er edur vera kann, má láta þryckia nockud, fyrr enn þad er ádur í Kóngsins Universitete í Kaupenhafn gegnumlesed og um þad dæmt af Decano í því Facultete sem Efnid tilhøyrer, edur af odrum Professore, sem Decanus sender þad til, vegna logslegra Hindrana; Og skal sá, sem þad skal yferlesa med sinne eigenn Handar Uppáskrift og underskrifudu Nafne, gefa tilkynna sína Meiníngu um Bókina, sem prentast

á, so sem þeir ætla ad forsvara; Hvor hanns Meiníng þryckiast skal framann vid þær Bækur, edur Skrif hvors Innehallds sem eru, sem á Prent útgánga. Þó skulu Guds Orda Bækur, sem einhvor á Landinu vill prenta láta, fyrst sendast til Biskupsinns í því Stifte ad gegnumlesa þær, og sendast med hanns Meiníng fram í Kóngsinns Universitet, so þar verde fremur um þær dæmt. Hvor sem þar í mót giorer skal straffast bæde sá sem þrycker, og hinn sem þryckia lætur, ecke alleinasta fyrer soddan Ohlydne, helldur og so fyrer Skrifsinns Innehalld, ef nockud hneixlanlegt verdur í því fundeð.

## 2.

Einginn má láta prenta í Ríkinu edur annarstadar nockurt Skrif, áhrærande Kóngsins Hátign, Ríkisstiórnina edur almenníngs Stiórnan, nema þad se gegnumlesed af þeim, sem Kóngurinn þar til skickar; Hvor sem þar í mót giorer, straffist epter Málavoxtum.

## 3.

Aungvar Danskar Bækur, sem prentadar eru utann Kóngsins Ríkia, meiga í Ríkid innflytiast af neinum Innlendskum edur Utlendskum, edur seliast. Ei helldur meiga nockrar Bækur í þýdsku Máле, sem höndla um framande Trúarbrøgd, edur annad, sem menn kynnu álíta ad orsakade nockra Tvídrægne, edur Efasemd í þeirrar óumbreyttu Augsburgisku Játníngar Trú, og Trúarbrøgdum, innflytiast í Kóngsinns Lönd og Ríki, án hanns serlegrar Tilláтseme, seliast edur falar halldast; Hvor sem her í mót giorer, hafe forbroted sömu Bækur, sem og þad hann medferdis hefur, og straffist þar ad auke, so sem sá, sem ecke hefur viliad agta Kóngsinns Lög.

## 4.

Skylldu og nockrar Bækur prentadar verda í Kóngsinns Löndum og Ríkium, edur prentadar þángad innflytiast, sem kynnu ad horfa til Upphlaups, edur á móte Kóngsinns Hátign edur orsaka annad Olempe, þá eiga ecke alleinasta Persónurnar, sem þær prenta edur innflytia í hærsta Máta ad straffast, helldur og Bækurnar kastast opennberlega á Elld af Bödlinum, og uppbrennast.

## 5.

Einginn, hvort helldur Innlendskur edur Utlendskur má prenta edur innflytia í Rikid eda selia, önnur Almanok edur Skrif-Rím, enn þad sem skrifud og samsett eru af þeirre Persónu, sem þar til er skickud af Rectore og hinum ödrum Professoribus í Kaupmannahöfn, under Topun somu Almanaka og annars þeß er þeir hafa med ad fara, og þar fyrer utann meira Straff, sem Kóngsinns Laga Yfertrodslumanne ber; Þó skal ecke meinad vera, ad hvor sem vill, mege til sinnar eigenn Brúkunar, skrifa epter framande Almanokum og Rímum.

## 6.

Einginn Spásagna-Rím meiga hér í Rikinu samanskrifast og prentast, ei helldur má þar innførast nockur Spádómur um Stríd, dyr Tíd, Landplágu edur þvílik Tilferle; Og þeßvegna má einginñ Bókþryckiare prenta edur uppleggia nockur soddann Rím, under eitt hundrad Lóda Silfurs Straff.

XXI. Cap.





# Um Kyrknaña Tilsion, Iñtekter, Utgipter og Bygg-ingu.

## I. Art.

Þeir sem Kóngurinn hefur tilskickad ad hafa Tilsión um Kyrkiurnar og vera þeirra Forsvar, skulu árlega, ef mogulegt er, heimsækia Kyrkiurnar, stunda þeirra Gagn, og siá til ad þær halldist vid Hefd og Byggíngu, og ad sparlega og reidelega se fared med þeirra Inntekter; Þeir skulu og handhefia og forsvara Kyrknaña Jarder og Innkomster, og innkalla med Dóme, ef nockud er undann þeim genged.

## 2.

Þeir skulu árlega í Kaupstodunum, og á Landinu í hid minnsta þridia hvort Ar, heyra Kyrknaña Reikninga í eigenn Persónu, og underskrifa þá ásamt med Heradsprófastinum, sem þeir hvor med ödrum ætla ad forsvara, ef órigtuglega er hondlad med Kyrkiunnar Reik-

Reik-

Reikninga; Forsóme þeir ad heyra
þá á tilteknum Tímum, og annad-
hvort Kyrkiurnar edur Kyrkiu-
veriararnir hafa Skada af því,
þá standi þeir þeim til Retta þar
fyrer. J serhvoriu Prófastsdæme
skal Kyrkiuveriaranna þriggia Ara
Umbod, endast og byriast á sama
Are, uppá þad ad Kyrkna Reik-
níngarner kunne ad verda heyrdir
á sama Tíma.

## 3.

Þeir Reikníngar sem so sagt er,
heyrder eru í hvoriu Prófasts
dæme, skulu sídann strax sendast
til Stiftamtmannanna; Og skulu
Kyrkiunnar Forsvarsmenn taka á-
nægianlega Borgun fyrer þad, sem
Kyrkiuveriararner verda þeim þá
um skyllduger; Og reyniſt þad,
ad Kyrkiurnar hafe nockud til góda
ad Kyrkiuveriaranna Umbodstíma
endudum, þá eiga Kyrkiuveriar-
arner somuleidis ad setia fulla
Borgun fyrer þad.

## 4.

Stiftamtmennerner med Biskup-
unum skulu eptersiá og út-
skýra Reikníngana án undandrátt-
ar, so framt þeir vilia ecke svara
til þess Skada sem Kyrkiunum
edur Kyrkiuveriurunum orsakast
kynne af því Uppehallde, og sen-
da Prófostunum strax í sama Má-
nude þad sem þar af gottgiorist
med Uppteiknun á því sem Kyrk-
ian hefur til góda, og hennar
Peníngum, sem standa á Rentu;
Og skulu Prófastarner strax inn-
færa í hvorrar Kyrkiu Reiknings
Bók þessa útskírdu Reikninga, og
underskrifa þá med Prestinum í
Kyrkiuveriaranns Nærveru, og
innleggia þar hiá í Kyrkiunnar
Kistu forsvaranlega þann Reik-
níng sem Stiftamtmadurinn hef-
ur underskrifad. Utskrifter af
Reikníngunum skulu forsvaranle-
ga innleggiast í Stift-Kistuna.
Skal og sama Stiftis Bók og
Reikníngar afhendast þeim epter-
komande Stiftamtmanne til Und-
errettíngar, sierdeilis um Kyrk-
nanna Eigner, þegar einhvor Um-
skipte verda í Stiftinu, og blífa
kyrr vid Stiftid.

## 5.

Þeir skulu þridia hvort Ar inn-
senda í Kóngsinns Rentu-
Kammer eina Utskrift af Kyrkna-
Reikníngunum, med rigtugre Upp-
teiknan á Kyrknanna Eignum, so
og einnenn hiá hvoriumm Kyrknan-
na

na Peníngar eru setter á Rentu.

6.

Þeir sem hafa Jus Patronatus, og nióta og uppbera Kyrknanna Inntekter, meiga ei láta Kyrkiurnar falla, so framt þeir vilia framvegis behallda soddann Rette og Nád; Láte Patronus og sá, sem Rett hefur til Kyrkiunnar Iñtekta, hana falla, og rædur ei Bót á þeirre Hrornun edur Breste sem hann er advaradur um af Biskupinum, þá ber honum, edur hanns Erfíngum ad bæta Kyrkiunne, henne til Vidrettíngar, þad hún uppbored hefur, og Kyrkian siálf sídann ad behallda sínum Inntektum, med gódum Reikníngskap, under þeß Umsión, sem Kóngur þar til skickar.

7.

Biskupinn skal í sínum Visitatium ransaka um Kyrknanna Asigkomulag; Angefist nockur Brestur, þá skal hañ skriflega, láta Kyrkiunnar Forsvarsmann edur Patron vita þad, so þar á kunne Bót verda rádenn.

8.

Herads-Prófasturinn skal árlega, þá hann visiterar Kyrkiurnar, ransaka Kyrknanna Innkekta Tilstand, so vel þeirra, sem eru under Jure Patronatus, sem annara; Og þar nærst hvada Brestur edur Hrornun finnst á Kyrkiunnar Bygging edur Ornamentum, og þad med Skodun, sem Soknar-Presturinn skal giora med fiórum, vidurheftugum Sóknarmonnum, og gefa frá sér skrifada, hvor og underskrifast skal af Prófastinum siálfum, og sendast árlega til Kyrkiunnar Forsvarsmanns edur Patron, ádur enn Reikníngskapurinn gioriste, uppá þad hann kunne ad ráda Bót á því sem Þorf gioriste.

9.

Merke Prófasturinn ad nockur Jord, Itok edur Inntekt se gengenn undann Kyrkiunne, þá skal hann og gefa hennar Forsvarsmanne þad til Vitundar, so hann innkalle þad aptur med Logum og Rette.

10.

Presturinn skal rádfæra sig vid Kyrkiuveriarana, og stunda Kyrkiunnar Gagn; Hann skal og med eigen Hende skrifa og klára Kyrkiunnar Reiknínga med sínu eigen Bleke og Pappír, og vera

vid þá Reikníngurinn er heÿrdur, og giøra þá góda og sannferduga Underrettíng um Kyrkiunnar Asigkomulag, Inntekt og Utgift.

# II.

Kyrknanna Forsvarsmenn skulu setia til Kyrkiuveriara efnuga Dánumenn, sem vita Kyrkiunnar Besta, og ei stunda sitt eiged Gagn í Inntekt, Utgift, Kavpum, Sølum, Hestaleigum, Byggíngum edur ødru. Kyrkiuveriarañа Nøfn, sem framvegis verda, skulu árlega í Kavpstødunum, og á Landsbygdinne hvert þridia Ar, innfærast sídast í Reikníngïnum. Hafe nockur vered Kyrkiuveriare þriú ár, og annann efnugann Dánumann er ad fá, þá má annar í hanns stad tilsetiast. Setie Kyrkiunnar Forsvarsmenn einhvørn Sóknarmann til Kyrkiuveriara, þá skal hann hlÿda þeirre Skipan; Þó hvad Bygdina áhrærer, so lenge Kyrkiunnar Forsvarsmadur edur Patron hefur skilsama Bændur í Sókninne, þá brúke hann fyrst þó, og sídann adra.

# I2.

Deÿe, fáe Fararleÿfe, edur afsetist nockur Kyrkiuveriare, þá skal hann, edur hanns Erfíngiar, strax afhenda frá ser til Eptirkomaranns, Kyrkiunnar Peníngа med hennar Bókum og Brefsum, og ødru Kyrkiunne tilheÿrande, sem hann hefur hiá ser haft.

# I3.

I hvøriu Stifte skulu vera tvær Bækur uppá allar Stiftesinns Kyrkna Inntekter, Tíunder, Landskullder, Garda, Hús, Jarder, Skóga, og øll ønnur Itøk og Eigner. Sú eina skal vera í Geÿmslu hiá Kóngsinns Stiftbefalníngsmanne, og hin ønnur hiá Biskupinum í Stifts-Kistunne, hvar og einninn øll ønnur Original-Bref og Skilrïke, Geistlegum viddvíkiande, skulu forvarast. Bidie nockur af Vidkomande um Utskrift af þeim, þá skal Biskupinn gefa þeim hana. I sømu Bækur skulu og vera innfærdar Prestanna Eigner, Gardar og Hús, þó alleina til Eptirrettíngar.

# I4.

Hvør Kyrkia skal hafa eina númererada, gegnumdregna, og af Kyrkiunnar Forsvarsmønnum innsiglada Reiknngskaps Bók, sem skal

skal vera í Prestsinns og Kyrkiu-veriaranns Gehmslu; J somu Bók skal fyrst innfæraft Kyrkiu-Stóllinn, underskrifadur af Kyrkiunnar Forsvarsmonnum, Prófastinum og Prestinum, hvar í innfærd er Kyrkiunnar viss Inntekt, Eigenndómur og Itok, hvort sem eru Gardar, Hús, Jarder, Enge, Skógar, samt þar af fallande Landskulld edur Afgift; Þar næst allslags Tiunder, Hofud-Stóll og Renta. Item Fe og allt annad, sem Kyrkian hefur Inntekt af, edur henne tilheyrer, hvoriu Nafne sem heiter; Einninn Kyrkiunnar Inventarium, Kalekur og Patína, Klæde, Bækur og þvíllikt; Þar epter skulu þar innfæraft þeir endudu, yferheyrdu og underskrifudu Reikningar.

# 15.

J Reikningana skal fyrst innfæraft Kyrkiunnar Inventarium, ad þad se til ófargad, og þar hiá hvar med þad annadhvort er forbetrad edur lasnad; Þar næst þad sem Kyrkian átte Arid ádur í Peningum, Vorum og ótilbúnum Verkefnum; Þar epter oll Kyrkiunnar viss og óviss Inntekt, hvoriu Nafne sem heiter, sídann Utgifternar, hvor fyrer sig med Dege og Arstale, og Bevísingar fyrer þeim, og loksinns oll Kyrkiunnar Eign, Rentur og Skullder allt hvad fyrer sig, hvorsu miked og hiá hvorium þad er, so og hvor geymer Brefinn uppá Kyrkiunnar Peninga, sem eru setter út á Rentu.

# 16.

Landskulldar Peníngar skulu uppberast í Rikis Skilldíngum, Morkum og Dolum, Dalurinn reiknast fyrer tvo Lód Silfurs, og Markid fyrer eitt hálft.

# 17.

Kóngsinns Stiftbefalníngsmenn og Biskuparner, hvor í sínum Stad, og adrer vitrer Menn, sem þeir taka med ser, skulu hvort Ar þann 20. Novembris edur næsta virkann Dag þar epter, ef þá innfellur Helge, setia vist Verd uppá Kyrkuanna Korn, Smior og adra Landskulld, þó í hvoriu Fógetadæme og Landspláts epter þess Asigkomulage, og Arferdinu, so ad bæde se lited epter Kyrknanna Gagne, og ad Vorurnar setist ei so dýrt, ad einginn vilie kavpa þær, og þær ligge hiá Kyrkiuveriurunum þeim og Kyrkiunum til Skada.

18.

## 18.

Þeir sem í sin Embættislaun uppbera Tíundena, edur hafa þær ad Lēne, meiga festa þær burt til hvors þeir vilia, þó alleina um þeirra Lífstíd, sem hafa þær ad Lēne.

## 19.

Þeim Jordum, sem til Kyrkna eru gefnar frá Bændagordum, skulu þeir Bændur, frá hvorra Gordum þær Jarder eru gefnar, behallda fyrer eins mikla Landskulld og þar af hefur golldist frá gamalle Tíd; Þó skulu þeir vera skyllduger Madur epter Mann ad festa somu Jarder af Kyrkiunnar Forsvarsmanne edur Patron, Kyrkiunnar Vegna, fyrer billega Festu til Packslætis, þegar sá dehr edur burtfer, sem fest hefur; Hafe nockur þar fyrer utann teked Jord, edur Eigner frá Kyrkiunne, bæte þar fyrer epter Logum, þegar hennar Forsvarsmadur edur Patron hefur unned Eignina aptur med Dóme til Kyrkiunnar.

## 20.

Sie Sóknar-Prestar og Diáknar navdstadder og hafa sagt litla Jord ad búa á, þá skulu þeir, nær nockrar Kyrkiu Jarder, sem ei eru komnar frá Bænda-Gordum, verda lausar, fá þær odrum fremur fyrer billega Festu, þó so, ad þeir árlega med godum Skilum betale til Kyrknanna þá Landskulld og Afgift sem af þeim plagar og á med rettu ad gialldast.

## 21.

Kyrkiunnar Fe og Kvikfenadur, sem árleg Inntekt er af hofd, má ei umbreytast, hvar sem þad er, og þad sem er burtkomed, skal aptur innkallast.

## 22.

Allar Kyrkiur skulu behallda sínum Skógum og Abata þar af, þar sem adrer hafa ecke serserdeilislega Adkomst til og gamlar Jarda-Bækur, uppá somu Skóga, og má eckert hoggvast í Kyrkiunnar Skóge, utann til hennar eiginn Þarfa, sem tilvísast skal af hennar Forsvarsmanne.

## 23.

Fyrstu Festu og þridia Árs Toku, og annad óvíst af ollum Kyrkium,

ium, sem Reikningskapur er giordur fyrer, Tíunder og Eigner, eiga Kyrkiurnar alleina, og má eingenn tileigna ser nockud af því, nema þeir hafe þar til loglega Adkomst, Eignar-Skiol, og gamlar Jardabækur, sem þad útvísa; Og fester Kyrktunar Forsvarsmadur Gardinn edur Jordina burt, Kyrkiunne til Besta. Nú á Prestur og Kyrkia eins mikid í Garde edur Jordu, þá tekur hvor af þeim Helmíng Festunnar, nema þad reyníst ad odruvíse hafe verid í Brúke af Alldodle, án Tvils og Mótsagnar. Sie nockur Festa tekenn, sem ei er færd Kyrkiunne til Reiknings, hana skal Kyrkiunnar Forsvarsmadur her epter strax innkalla.

## 24.

Nær Nofninn umskiptast á þeim sem hafa Kyrkiunnar Tíund edur Eigner í Festu, og adrer fá þær aptur, þá skulu þeirra Nofnu innfærast í Reikníngin ásamt med Stadar-Takmarkinu, sem þar er afgenged.

## 25.

Fyrer Grafer í Kyrkiunum í Kaupstodunum edur á Landinu, skal betalast epter Plátsins Asigkomulage, í Kórnum edur fyrer utann, uppe edur nidre í Kyrkiunne. Hvor sem opnar Kyrkiunnar Gólf, til ad setia nidur nockurt Lík, skal gefa nockud til Kyrkiunnar, epter því sem billegt og vanalegt er, jafnvel þó Grofin hyre honum til.

## 26.

Ecke má gioraſt Mismunur á Kistum, helldur gerast eins miked fyrer ad nidursetia Kistur af Furu og Eik.

## 27.

Eingenn má hafa meira enn einn Legstad.

## 28.

Eingenn má setia nockurn Leg-Stad í Kyrkiunne, hvorke í Kaupstodunum ne á Landinu, án Samþyckis Kyrkiunnar Forsvarsmanns. Þar má ecke helldur í Kyrkiunne edur Kyrkiugardinum nockur Grof grafast, múrast edur opnast, edur Líksteinn yferlegiast, edur Grafskrift uppfestast, edur Stólar uppsetiast edur umbreytast, án

án Kyrkiuveriaraña og Kyrkiuñar Forsvarsmaña Vitundar og Tillát-seme.

## 29.

Kyrkiurnar skulu ei hafa Þyngsle af ad vidhallda þeim uppbygdu Leidum, sem eru hiá þeim, fyrer utann Kyrkiunnar Bygging, án þeß Kyrkiurnar Nióte þeirra til Stóla Stada, edur so miked se þar fyrer gefed til Kyrkiunnar, ad Kapellunne mege friega hallda þar med vid líde.

## 30.

Prestur og Kyrkiuveriare nióta frí Legstadar í Kyrkiunum, ef þeir burtkallast í Embættinu.

## 31.

Fyrer Grafer í Kaupstada Kyrk-na-Gordum se gefed epter Kyrk-nanna Þorfum og Erfingianna Efnum; enn þeir Fátæku nióte Grafanna frí án Betalíngs.

## 32.

Vilie þeir á Landsbygdinne sem Efne hafa, gefa nockud góð-vilíuglega fyrer Kyrkingards Groft, þá færist það og Kyrkiunne til Reikníngskapar; Þó má ecke þreyng-ia ad neinum, um ne..i d þvílíkt under sitt Andlát, under átta Lóda Silfurs Straff; Enn ef þeir vilia leggia Stein edur annad Monument yfer Grafernar, þá ber þeim ad gefa nockud þar fyrer til Kyrknan-na, epter Sanngirne.

## 33.

Fyrer Kluckurnar, ad hríngia þeim til Greftrunar í Kaup-stodunum skal betalast epter því sem híngad til hefur vered í Brúke, ed-ur so sem her epter sett verdur af Kyrkiunnar Forsvarsmonnum, med beztu Sóknarmanna Samþycke. A Landinu gefist fyrer Kluckurnar ept-er sem Efnen kunna vera, eitt, tvo, þriú, edur fiogur Mork.

## 34.

Kluckunum má ei hríngia, þeg-ar nockur deyr, fyrr eñ Líkid skal grafast, og þá ei helldur leng-ur, enn einn Tíma í hid mesta.

## 35.

Kyrkiunnar Forsvarsmadur skal setia vist Verd uppá þad sem bæde Kluckare og Grafare skulu hafa fyrer

fyrer sitt Omak, so og tilsiá ad Grafernar, serdeilis á Pestartímum, seu giordar vel diúpar, þriár Alner hid minnsta.

## 36.

Kluckare má ei stilla Kluckuna nockrum til Vilia, hvorke fyrer Brúdkaupa, Jardarfara edur annara Orsaka vegna, odruvíse enn Sólin og Dagsinns Tíme þad útheimter, under tuttugu Loda Silfurs Straff til Kyrkiunnar.

## 37.

Fyrer Stóla-Sæte í Kaupstödunum, skal, fyrer utan fyrsta Kaup á þeim, gefast epter þeirra Hagkæme árlega, so sem Kyrkiunnar Forsvarsmadur med Soknarmanna Samþycke þad tilsetur.

## 38.

Einginn Stóla-Sæte meiga erfast; Þó ef Erfíngiarner vilia, gefa fyrer þad eins og adrer, og þeir búa í Sókninne, þá eru þeir þeim næster.

## 39.

Kyrkiuveriararner skulu hafa eina Bók, hvar í þeir reglulega skulu skrifa allra þeirra Nofn, sem nióta Stól-Sæta, hvort heldur þeir hafa keypt þá, edur hafa þá til Leigu, og hvad hvor árlega þar fyrer gefur, og nær þeir betala.

## 40.

Þeir sem Stól-Sæte eru epterlátin, skulu ei meina odru godu Folke ad hafa Plátz hiá ser, á medann þar er Rúm, sem Kyrkian hefur ecke fenged fullt fyrer.

## 41.

Þegar Madur deyr úr einum Stól, edur burtfer, og annar kemur inn aptur í hanns Stad, þá skal alltíd sá ellste standa næst Gánginum, og sídan hiner, epter alldre, þó so, ad einkis Stand se þar med óvirdt.

## 42.

Á Landsbygdinne fylger Stól-Sætid Gardinum án Betalings, og þeim sem þar á búa, þó so, ad þeir Ungu audmýke sig fyrer þeim Gomlu.

## 43.

Þar sem tveir búa á einum Garde, til hvors alleinasta eitt Stól-Sæte liggur, þá helldur sá, sem lengur hefur búed á Gardinum, Stól-Sætenu, og hinn hefur Sæte þar sem Kyrkiunnar Forsvarsmadur þad tilsetur.

## 44.

Húsmenn og Hiáleigumenn skulu láta ser nægia med þad Pláß sem epter eru, þá búande Fólk er forsorgad med Stóla-Sætum.

## 45.

Studii-Skattur, Catedraticum, Kyrkiu-Skattur, Skola-Skattur, sem Kyrkiurnar hafa útgefed, edur og med rettu eiga ad útgefa, skal framvegis gialldast, so sem af Alldodle, og sendast Prófástunum, sem þeir skulu afhenda á þeim Stödum sem þeim er befalad. Þeir sem hafa fenged Jus Patronatus af Nád, med Makaskiptum, edur med ödru Móte af Kónginum edur frá Geistlegum, sídann Trúarbragdanna Lagfæríng, skulu þó gialldа þvílíka Penínga, epter því sem Kyrkiurnar af Alldodle gollded hafa, nema þeir kunne ad bevísa, ad ádur se þar fyrer giörd Fullnægia og Uplag, so ad þeim Vidtomande misse eckert.

## 46.

Þegar Reiknýngskapar-Prófastar siálfer heyra Kyrkiu-Reiknínganna, og þeir heimsækia Kyrkiurnar forsvaranlega, þá skulu þeir hafa af hvorre Kyrkiu sem Efne hefur einn Ríkisdal í Prófasts-Peninga, og eitt Rixort í Kostarhalld og eitt Rixort í Skrifara-Peninga, og aldeilis eckert meire, Peninga, Korn edur annad, hvort helldur til Flutníngs, Kostnadar, til Reiknínaskapar Yferheyrslu, Prófasts-Peninga, Gistínga, Skrifara-Peninga, til siálfra sín, edur sinna Þienara edur annars; Ei helldur Tillag, nema þad se víst Tillag, sem finnist fyrer hvoria Kyrkiu utþryckelega innfært, bæde í þær gömlu og nýu Kyrkiu-Reikníngskapar Bækur. Hvar sem Kyrkiurnar eru fátækar, edur hafa ad undanfornu gefid minna enn ádurnefnd sex Rixort, þar skal þad her epter umberast.

## 47.

Prest-

Prestinum gefst eitt Mark Danskt, fyrer ad skrifa hvorn Reikning og eckert meira til Pappírs edur annars.

## 48.

Kyrkiuveriararner skulu hafa einn Ríkisdal edur tvo af efnagódum Kyrkium, fyrer sitt Omak, þar sem og þegar stór Bygging fyrerfellur; Sídann meiga þeir ecke færa Kyrkiunne til Reiknings nockurn annann Kostnad uppá Reisur eda annad; Af fátækum Kyrkium fá þeir eckert.

## 49.

Þar sem nockud vist er lagt til ad skaffa Vín og Bravd, skal Sóknar-Presturinn nióta fremur øllum odrum, ef hann þeß óskar. Reyniſt ad þad sem þar til er ætlad, se meira enn vel er navdsynlegt, og duga kann, þá skal Kyrkiunnar Forsvarsmadur og Biskupinn, stunda Kyrkiunnar Gagn þar í, so Kyrkian kunne nióta þeß, sem ei vidþarf til soddann Brúkunar. Þar sem eckert vist hefur þar til skickad vered, skal Kyrkiunnar Forsvarsmadur med Biskupinum, tilskicka nockud vist, epter Sóknarinnar Stærd, og unna á sama Hátt Prestunum þeß, ef þeir þeß oska, hvorier þá og alleina skulu skylduger ad svara til, ef nockur Brestur edur Klogun þar uppá kemur.

## 50.

Kyrkiu-Liós betalast ei fleyre um Arid, enn eitt Par, sem vegur átta, tíu, tolf Skálapund, epter Kyrkiunnar Efnum.

## 51.

Græn Blómstur, Lavf og Gras til Kyrkiunnar betalast fyrer hálft edur heilt Mark, epter Kyrkiunnar Efnum og Stærd.

## 52.

Þegar nockur merkeleg Bygging er fyrertekenn, þá skal Kyrkiunnar Forsvarsmadur, med Skodun, í Prestsins og nockra bestu Sóknarmanna Nærveru, í eigenn Persónu, ef mogulegt er, láta virda og yferlíta þad sem til Byggíngarinnar vidþarf.

## 53.

Þær Smá-Adgiørder sem á Kyrkiunum eru fyrerteknar, skulu innfærast í Kyrkiu Bokina, þegar Kyrkiu-Reikníngarner eru yferheyrder af hennar Forsvarsmanne, underskrifast, og sídann ei betalast, nema þad se leyft ad undannförnu.

54.

Af Kyrkiunnar Hálfu má eingenn Kostnadur gioerast, fyrr enn Þak., Hvelfíng, Vegger, eda Múrar, Gluggar, Lopt og Dyr eru smídud, hvad allt saman án Forsómunar skal tilbúast og fullgioerast.

55.

Fáe Kyrkian Skada á nockru fyrer einhvors Forsómun, og því er ei halldid vid Magt edur umbætt í Tíma, þá svare þeir þar til sem eiga ad hafa Tilsión um Kyrkiuna, so og þeir, sem þad forsoma, so framarlega sem Kyrkian hefur Efne á því; Kome óforvarande Fall á nockud, þá addvare Presturinn Prófastinn, og Prófastur Kyrkiunnar Forsvarsmann, sídañ hage hvor sér þar med, so sem hañ vill forsvara.

56.

Kunne Kyrkian ecke hiálpast med sína eigenn Inntekt, þá skal Kyrkiunnar Forsvarsmadur yfervega og upphuxa med hvoriu Medale henne verde hiálpad, hvort þær adrar Kyrkiur, sem eru under hañs Tilsión, og hafa Efne fyrerliggiande, gete komed henne til Hiálpar med Láne og Utlátum, edur og henne verde hiálpad med Tillage frá Soknarfólkinu, edur med ødru Mote.

57.

Skule Kyrkian byggiast innann edur prýdast med Turne, Hvelfíng, serlega vænum Kluckum edur þvílíku, þá kann Sóknarfólkid, epter sinne eigenn Andagt, ad láta giora þad, þar sem Kyrkiurnar hafa ecke Efne til þess.

58.

Øll Verkefne og annad til Kyrkiunnar Byggíngar, Adgiørda, og annara Naudsýnia, skulu á réttum Tíma innkaupast fyrer besta Verd, og takast Bevísíng af þeim sem selia, hvorsu mikid og hvorsu dýrt þad vered hafe, med Tolu, Vigt og Mæler; Og skal þad standa Kyrkiuveriurunum frítt fyrer, ad leita hinns besta Kaups, þar sem

þeim

þeim sýnist, og ei vera skyllduger til ad kaupa þad hiá einum alleina; Þó ef Kyrkiunnar Forsvarsmadur álítur fyrer gott ad höndla vid einn Dánumann í einum Kaupstad fyrer allt Prófastsdæmid, er hönum þad í siálfræde; Þó so, ad gód Vara afhendist, og fyrer so billegt Verd, sem annarstadar fæst best; Því af hvorre Orsök sem Madur afhender nockud til Kyrkiunnar, þá skal þad í Reikníngsskapnum ei meira betalast, enn fyrer þad billegt Verd, sem aññarstadar kann ad fást.

## 59.

Innkaup til stórra Bygginga skulu ske med og epter Kyrkiunnar Forsvarsmanna Ráde, og skal allt Kaup á Erfidinu og Vorunum ske í Prófastsins, Prestsins og nockra beziu Sóknarmaña Nærveru. Adgiörd skal kaupast í Prestsins Nærveru, þegar Dagurinn er lengstur, uppá Erfidismannanna, eigenn Kost, fyrer besta Kaup sem mögulegt er, og fyrer vissa Peninga, án þess ad gefa Dryckiu-Peninga, Öl edur annad. Og skal so tilskilia í Kaupinu, ad se Erfidid ei giort til Gagns, skule Erfidisfolkid umbæta þad aptur, uppá sinn eigenn Kostnad. Þegar þeim er betalad sem erfidad hafa, þá takist þeirra Bevísing fyrer því, edur og Prestsinns, med þeirra Innsigle edur Marke, ef þeir kunna ei siálfer ad skrifa.

## 60.

Kyrkiunnar Bændur skulu, so miked sem þeir eru skyllduger, ferdast fyrer Kyrkiuna; Hinar adrar Ferder skulu innfærast med Dæge og Arstale, og hvada Verkefne og Byggíngarmenn í þeim hafe flutter vered til Erfidesinns edur frá því; Enn ef Byggíngarmeñerner reisa Heim í sín eigeñ Erende, á medann þeir eru vid Erfidid, þá ber Kyrkiunne ei ad betala þad. Aññars ef Kyrkian þarf nockrar stórrar Umbótar vid, skal allur Almúge án Mismunar hiálpa þar til, so sem þeim byriar, med Erfide, Tilflutnínge og ödru epter gömlum Vana.

## 61.

Þad sem afgengur af Byggínguñe, skal, þurfe Kyrkia þess ei vid fyrst um sinn, annadhvort seliast, edur, ef þad getur ei sked, setiast í góda Geymslu, og innfærast í

Kyrk-

Kyrkiunnar Eigna-Lista og Inventarium, med Vigt, Mæler og Máta, hvert helldur þad eru Efne til Byggínga, Fotur, Kerhollð, Trog, Stígar, Spadar, Skeflur, Tre-Slár og allt soddann, hvorin Nafne sem heiter.

62.

Kyrkiuveriararner í Kaupstodunum, skulu hallda þeirra Kyrkium vid Magt af Kyrknanna eigenn Innkektum, fyrer utan Tillag frá ødrum Kyrkium, og án þeß ad þyngia þeim, so og forsorga sína Soknar-Presta, Capellana og adra Kyrkiuþienara med hagkvæmum Búſtodum og hallda þeim vid Magt af Kyrkiunnar Eignum, og byggia á þeim þad sem naudsýnlega vidþarf.

63.

Þeir skulu hallda vid Magt Skólans og Skolaþienaraña Húsum, og hvar sem í einum Kaupstad eru fleire enn ein Sokn, þar skulu aller Kyrkiuveriararner hallda Skolans og Skólaþienaranna Herbergium vid Magt, þó so, ad sú Kyrkia sem mest Efne hefur skal mest tilláta, epter Kongsins Befalíngsmanns, Profastsins og Yfervalldanna Fyrersögn.

64.

Stundar-búdinn á Landinu, skal halldast vid Lyde af Kyrkiuveriurunum, af Kyrkiunnar Peníngum.

65.

Í Kyrkiuna má ei innlátast nockur Góts edur Vara, helldur skulu Kyrkurnar vera til þeirrar Brúkunar, sem þær eru skickadar til, so ad Prestarner hafe þar Pláts ad framkvæma sitt Embætte, og Sóknarfólkid hafe Rúm til ad heyra Predikunina: Giøre nockur her í mote, hafe Vorurnar forbroted til Kyrkiunnar.

66.

Einginn má brúka Kyrkiunnar Fortog*) til Girdínga edur Byggínga, án þeß hann hafe Leyfe af Kyrkiunnar Forsvarsmanne, og hún hafe þar af sín Rettugheit.

67.

*) Fortog heiter þad Pláts sem er fram af Kyrkiunne, allt ad Almenníngs-Gøtunne.

## 67.

Kyrkiunnar Peningar og innheimtar Skullder skulu setiast a Rentu, kunne þad ad ske hia vissum Mönnum, og þa Suman bleypur sig til tuttugu Rikisdala þa skal af hvorium tuttugu takast einn, og af hvoriu hundrade fimm. Ef Peningarner eru minne enn tuttugu Daler, edur og þeir verda ei a Rentu setter hia vissum Mönnum, þa maa Kyrkiunnar Forsvarsmadur trwa Kyrkiuveriurunum fyrer þeim, ef þeir eru Vidurheftuger, edur og nidursetia þa a vissann Stad, til þeß Kyrkian þarf þeirra med, edur þeir verda tryggelega utsetter, annars meiga Kyrkiuveriarar ei hafa Kyrkiunnar Peninga a Rentu.

## 68.

Setie fleyre Kyrkiur i Samfelage Peninga a Rentu, þa tekur hvor sinn Part af Rentunne, og Handskriftin geymist vid þa Kyrkiu, sem a stærstann Hlut i Hofud-Stolnum, edur þar sem Kyrkiunnar Forsvarsmenn ætla hun mune tryggelegast geymd verda.

## 69.

Þegar Kyrkiunnar Reikningar verda yferheyrder, þa skulu þeir sem þa heyra vel adgæta, hvort Kyrkiunnar Peningar standa hia vissu Folke, hvor Vissa fyrer þeim er hofd, hvort Rentan er golldin edur ei, hvort nockrar ovissar Skullder finnast þar a medal, hvort Rentu, Hofud-Stol, edur ödrum Innteektum er halldid inne fram yfer rettann Tima, so þad verde Kyrkiunne til Besta innheimt, og i Tima uppskrifad, þar sem Ofsika er ad vænta; Og skulu Kyrkiuveriarar ner þvilika Peninga og Skullder innheimta med löglegum Rettargaange og Dome, þad fyrsta mogulegt er, og skulu Kongsinns Befalningsmenn og Fogetar hialpa þeim til þeß.

## 70.

Þær Kyrkiur, sem hafa teked Peninga til Laans, af ödrum Kyrkium ser til Þarfa, skulu gialld af þeim Rentu, ef þær sialfar eru Efnugar, edur hafa Peninga a Rentu.

## 71.

Þegar Kyrkiunnar Reiknings-Bok er utskrifud, þa skal önnur ny bestillast uppa Kyrkiunnar Kostnad, og su gamla leggiast forsvaranlega til Geymslu i Stigt-Kistuna; Þo skal hun sendast þeim sem hefur Forsvar og Umsion yfer Kyrkiunne, þa hann þeß oskar, og skal hann aptur afhenda hana i Stigt-Kistuna.

## 72.

Prestarner skulu, þa Biskup edur Profastur visitera, gefa til Vitundar,

ar, ef nockud af øllu þvi sem her er be alad, verdur forsomad.

# XXII. Cap.
# Um Tiunder.

## I. Art.

Bændur og allur Almuge, Hws-menn, Pipar-Sveinar (o-gipter Lausamenn) og Pion-ustufolk, sem brwka Korn-Sæde, og aller adrer, af Geistlegu, Verds-legu og Strids-Stande, sem sáa nockra Bonda Jord, skulu med godre Skilseme Tiund giallda hvorn tiunda Vøndul edur Kerfe af alls-slags Korne, Ruge, Bygge, Hveite, Boghveite, Toere-Bygge, Hofrum, Baunum og øllu sem til er sád, so sem Avoxturinn er af hvorium Jardar-Parte edur Akre; enn af þvi sem ecke er sád til, gefst eingin Tiund; Og skal rigtuglega segia til Tiundarinnar innann 14. Octobris og endelega skal hwn á Kastbwd-inne gialldast og skiptast innan Jola. J sama Máta skal halldast um Tiundina af Hampe og Line, enn Ost-Tiundin afhendist á sidvanaleg-um Tima.

## 2.

J þeim Lands-Platsum og Stød-um, sem ecke er so ysersliotan-



lega sád til Korns, sem annarstad-ar, þar skulu þeir gefa Smior, Fisk og annad, sem þeir plaga ad tiun-da epter Sidvana. J Christian-sand-Stifte skulu Kyrkiurnar án Hindrunar niota þeirrar Tiundar-tekiu af Laxaveidum og ødru Fiske-rie, sem vanalegt er.

## 3.

Enn á þeim Stødum, sem al-menneleg Fiskever eru, eiga aller þeir sem fánga Fiska, ad giallda og svara sinum Tiundum, ádur enn þeir fara i burt; Og skal øngvum Borgara edur Kaupmanne leyfelegt vera, ad kaupa nockurn Fisk, fyrr enn Tiundin þar af er gollð-inn, hvar med Fogetinn og Bænda Lensmadurin skulu hafa gaumgæfe-lega Tilsion, og skulu Bændurner i Tima advara Prestana, so þeir kunne, ef þeir vilia, vera tilstadar þegar Tiunden er tekenn.

## 4.

Tiundin skal skiptast i þria jafna Hlute, til Kongs, Kyrkiu og Prests.

## 5.

Kyrkiu og Prests-Hlutinn af Fi-ske-Tiundinne, sem þeir hafa ti-undad, sem bwa i ødrum Sokn-um, skal skiptast i tvo Parta, Hel-ming

minguriun til þeß Stadar Kyrkiu og Soknar-Prests, sem Fiskurinn hefur fengist, og Helminguriun til þeß Stadar Kyrkiu og Soknar-Prests, sem þeir eiga Heima, er fiskad og tiundad hafa.

## 6.

Þær Bændagarda Jarder, sem sidan Arid eitt þusund sex hundrud sextiu og eitt eru teknar edur teknar verda til Afla- edur Hladu-Garda Brwkunar, skulu eins vel tiundast, og allar Skylldur af þeim gefast, sem þær væru brwkadar af sialfum Bændunum,

## 7.

Klage Tiundatakarinn uppaa nockurn Mann, ad hann hafe ecke rett tiundad, og oskar þeß vegna ad hanns Korne se kastad, þaa skal Hwsbonde þeß sem skulldadur er, vera skylldugur ad laata kasta hans Korne. Finnist Brestur hiaa honum, þaa skal hann betala til þeß sem klagade, þrefallt so miked, sem hann hafde sviked, med hanns Kostnade, og þar fyrer utann hafa forbroted sinn Gard til Hwsbondans: Vilie ei Hwsbondinn hialpa þeim sem klagar, til Retta, þaa skal þad klagast fyrer Kongsinns Befalningsmanne, sem skal hialpa hønum til Retta, sem sagt er.

## 8.

Enn reynist saa sem skulldadur var, saklaus, þaa skal saa sem klagade betala hønum fyrer þann Skada, sem hann leid, epter Dannamanna Tilsøgn.

## 9.

Giøre Tiundatakarinn nockrum Orett i Tiundartekiunne i nockurn Maata, og heimtar edur tekur meira, edur af ødru, enn her er sagt, þaa gialllde hann þeim, sem hann hefur soleidis Orett giørt, þrefallt aptur.

## 10.

Þeir Kaupstader, sem hafa Jardar-afla, eiga og med rettu ad gialllda Tiund, nema þeir hafe serdeilis Friheit þar uppaa, edur og hafe ønnur Medøl til ad vidhallda þeirra Kyrkium, og skal sw Tiund skiptast einasta i tvo Parta saa eine til Kyrkiunnar, og hinn til Prestsinns Parfar.

## 11.

Þau Hofudbol, sem hingad til hafa vered fri fyrer ad giallda Tiund, skulu her epter niota somu Friheita, hvor sem þau aa edur þau hellldur, til þeß ad Eignarmennerner hallde sinum Þienurum til ad tiunda rettelega, þo skulu þeir fullnægia sinum Sokn-

Soknar-Prestum fyrer sitt Omak og Þionustu; Þvi Sokna-Prestarner eru þeirra Lavna verder, og ecke skylldugir ad þiena þeim fyrer eckert, helldur enn ødrum Soknarmøñum sinum; Og mꜳ einginn Prestur, Fogete, Embættismadur edur ødrer hallda nockrum Bondagarde fri frꜳ Tiundum, edur taka nockud fyrer fram af Tiundinne.

## 12.

Huusmenn, Hiꜳleigumenn og Vinnu-ar-Sveinar skulu fiorum sinum ꜳ Are gefa til Kyrkiunnar eitt hꜳlft Mark Danskt.



# Þridia Book
um
# Veralldlegt- og Hwsstioornar = Standed.

## I. Capitule
um
## Kongsinns Befalingsmenn og adra Embættismenn.

### 1. Articule.

Kongsinns Befalingsmenn skulu allar Konglegar Forordningar og Skipaner, so sem þær eru, hvor i sinne Tid utgefnar, læta registrera og i eina Bok innfæra, sem hiæ Amtinu ætid skal vera, og nær þeir koma fræ Amtinu, skal hwn þeirra Epterkomara afhendast, æsamt þeim Þingsvitnum, Domum, og ødrum Brefum, sem i Amtinu til Underrettingar kunna navdsynlega ad þurfa.

### 2.

Þeir skulu hafa æstundunarsama og alvarlega Tilsion, ad Kongsinns Løg, Forordningar og Skipaner, sieu halldnar, og þeim epterlifad i øllu þeirra Amte, so eckert sie mote þeim høndlad edur tillæted; Og finne þeir nockurn Hwßbonda forsomunarsamaññ æ sinu Gotse, ad lifa epter þvi sem þeim er befalad, edur vilia ei læta þæt fæ sinn Rett, sem klaga yfer þeirra Þienu-

Þienurum, epter Løgum og Dome, nær þeß er oſkad, þaa ſkulu þeir hafa Makt, og ſkyllduger vera, med Exſecution þvi ad framfilgia. Fiñeſt þeir hieri forſomunarſamer, og þad ſkilviſlega verdur bewiſad, ad þeir hafe þad vitad, og ecke ſømu Tid vered hindrader i nockrum Kongſinns Erindagiørdum, ſkulu þeir hafa forbroted þad Amt ſem þeim er tiltrwad.

## 3.

Þad Misforſtand og Oeining, ſem i Kaupſtødunum kann uppkoma, hvort helldur mille Yfervalldſinns og Borgaranna, edur mille Yfervalldaña Innbyrdis, ſkulu Stift-Befalingsmennerner, þad dempa med allre Aſtundan ſtrax i Upphafe; Een vilie þeir ei laata ſier ſegiaſt, ſkulu þeir þad ſtrax fyrer Konginum angiefa, med ſannre og eftertakanlegre Frаaſkiringu, um þeirra Oeiningar Kringumſtædur.

## 4.

Aller Andleger og Veralldleger, ſem trwad er fyrer Kongſinns Peninga edur nockra Innteckt, og ſtanda ſkulu fyrer Afgift, Forpøgtun og Reikningum, ſkulu aarlega, epter þeirra Forvaltnings, Forpagtnings, edur Beſtillingar Brefum, rigtuglega aa riettre Tid, þar fyrer klaara aa Kongſiñs Rentu-Camere, under þad Straff ſem af Konginum verdur vidlagt.

## 5.

Kongſinns Befalingsmeñ aa Landsbygdinne, og Yfervølldiñ i Kaupſtødunum, ſkulu hafa tilbærelega Umſion, ad nær einhvor deyr, ſem med Kongſinns Innteckt hefur haft ad giøra, ad þeirra Bw ecke raſkiſt, edur fortæreſt, edur Skifte halldeſt, fyrre enn Konge eru giørd full Skil, utan Erfingiarner ſieu ſo efnabirger, ad þeir til Kongſinns ſvara kunne nogſamlega ſinum Riettugheitum, og hvorium einum, ſem løglegann Pant hefur, þad þeim med Rettu ber.

## 6.

Kongſinns Fogetar, Amts- edur Commiſſarii-Skrifarar, meiga avngva Skrifara-Peninga krefia, edur taka af Bondanum þaa hañ gielldur ſina Landſkulld edur Skatt, fyrer Afſkrifun edur Sedel, under þeirra Beſtillinga Topun, þad ſama er og um annara Hwßbænda, Fogeta og Skrifara.

## 7.

Aller Hwßbænda, Fogetar, Skrifarar og Þienarar, ſem ſtanda fyrer Reikning, ſkulu vera ſkilldnger til þeirra Hwßbænda aarlega aa viſsre Tid, ad afhenda þeirra Reikningſkap med tilheyrande Beviſingum, og taka Hwßbondanns Qvittering þar uppaa, ſem

sem þeim ei maa neitast og aa Hwsbondinn innan þriggia, fiogra, fimm edur sex Vikna i leingsta lage, efter sem Reikningarner eru adhugaverder, ad giefa þeim tilkynna hvad vantar edur ofullkomed er i Reikningunum; og skulu nefnder Fogetar, Skrifarar og Þienarar, vera skylduger til innann þriggia Vikna i þad hædsta, fraa þvi Reikninganna Feill er þeim afhentur, ad giora aanægianlega Utskiringu yfer þaa ellegar betala þaa strax; Enn ef þeir giora heri ecke sina Skylldu, sem sagt er, eiga þeir strax þar fyrer ad stilla Hwsbondanum aanægianlega Borgun, og full Vissu, eda borge sialfer fyrer sig, utan nockurra Klogumaala. Þar sem Hwsbændur finnast forsomunarsamer, ad meddeila Bevisingar, edur innsenda þad aa faatt er, so framarlega sem þeir ei loglega bevisa ad þeir hafe vered i þvilikum Hindrunum, ad þeir hvorke sialfer, edur þeirra Fullmektuger hafe gietad þaa gegnumsied, og Merkingar yfer þaa giort, þaa hafa þeir forbroted sinn Rett til ad sækia nefnda Fogeta, Skrifara og Þienara, fyrer þaa Reikninga sem þeir i riettann Tima afhentu.

# II. Cap.
# Um privilegeradar Personur.

## I. Art.

Þeir sem niota Friheita med Haalß og Hond yfer sinum eiginn Þienurum, so og Jus Patronatus, Birkeretrugheita og annara Friheita, skulu þar med rietta sig og hallda, epter Landslogunum, ad þeir þavg ei med ologlegre Medferd forbriote.

## 2.

Einginn Framande, sem giefur sig ut ad vera af Adle fæddur, og hier i Rikinu vill setia sig nidur, og ei þienar hier soddan Embættum, sem med sier færa Adalleg Friheit, maa niota edur Hluttakande vera Innanlands Adallegra Friheita, aadur enn hann fyrst fyrer Kongenum, edur þeim Kongurinn tilsetur, sina Adallega Anhær og Ætt noglega bevisar; Og þar epter skulu þeir allraunderdaanugast, bidia Konginn ad þeir meige niota þeirra Adallegu Friheita; Take nockur hieri Forsomun þaa tileinke sier þad sialfum, ef honum vidurferst nockud sem ei hæfer hanns stande.

## 3.

Ei helldur meiga framande Greifar edur Friherrar, niota Innlendskra Greifalegra edur Friherralegra Friheita utan þeir verde af Konginum naturaliserader.

# III. Cap.
## Um Borgara i Kavpstødunum.
### I. Art.

Vilie nockur vera Borgare i einhvorium Kavpstad þa skal hann giora sin Eid fyrer Borgmeistara og Raade; Þar epter skal hann giefa nockud fyrer sinn Borgaraskap epter Politi-Forordningunne, og fyrr maa hann ei brwka Borgaralega Næring, under Fallsmaal fiøretiu Lod Silfurs Bætur til Kongsins og Stadarinns.

### 2.

Þeir skulu halldast fyrer Borgara og niota Borgaralegra Friyheita, sem soleidis sin Borgaraskap spared hafa, giora og giefa øll Borgaraleg Stadarinns Þyngsle, og sialfer hallda Hws og Elldstad i Bynum, og einginn annar, jafnvel þo hann i ødrum Kavpstad, hafe teked Borgaraskap, og sig fyrer Borgara laated innskrifa.

### 3.

Einginn Borgare maa flytia sig fraa Stadnum fyrre enn hann aa Raadhwsinu hefur løglega Borgmeistara og Raade, sinum Borgaraskap uppsagt, og giørt Skil og Riktugheit aa þvi hann hefur fyrerstaded og honum af Yfervalldinu hefur vered tilkwad; Enn merke Yfervallded ad hann aan Skilagiorda ætle ad flytia sig, þaa meiga þeir bæde hanns Gots og Personu laata arrestera, hvada Undanbragd sem hann kann ad giora, utan setie fullvedia Borgmarmenn, edur stille billega Borgun i hræranlegu edur ohræranlegu Gotse.

# IV. Cap.
## Um Yfervølldinn og adra Embættismenn i Kavpstødunum.
### I. Art.

Í hvorium Kavpstad skulu vera so marger Borgmeistarar og Raadmenn, sem Stadarens Hentugleike utkrefur hvorier af Konginum setiast skulu, og honum sin Eid giora; Enn hvar einginn Borgmeistare og Raad er, þaa skal Byfogtinn giora þad Borgmeistara og Raade tilkemur.

### 2.

Eing-

Eingenn maa Lausn faa fraa Yfervallds Embætte, utan þad se med Koongsins wtþryckelegu Leife.

## 3.

Einniz nockur Oduguadur, fyrer hvoria Orsok sem vera kañ, þaa skal Koongsins Stiftbefalingsmadur þad Koonginum tilkynna.

## 4.

Yfervallds Persoonur, Doomarar og Skrifarar, sem tiltalad verdur til Þijnga fyrer þavg Maal, sem þeirra Æru, edur gott Nafn og Rigte og Raadvendne gilda, meiga ei sitia i Yfervallds-Sæte, fyrr enn þeir med Doome frijkennaz og erkleraz. Amedan skulu adrer af Stiftbefalijngsmanninum, og aa Landsbygdinne af Amtmanninum setiaz i þeirra Stad, inntil þeir løglega, sem sagt er, erkleraz. Enn fyrer einsamlar og lausar Sakargifter aa eingenn ad vijkia wr sijnu Sæte, helldur vera þar vid, þartil hann løglega verdur sooktur.

## 5.

Borgmeistarar og Raad skulu hallda goodu Skicke og Politie, aldeiles epter þeim Pwnktum og Greinum, sem i Løgunum og Politie-Ordnijngunne standa um Kaupskadina, og med Astundan adgæta, ad þvijlijkt i allann Maata verde hallded, og epter þvij breytt, so framarlega sem þeir ei af Koongsins Fiscal vilia laata ser tiltala, og sialfer standa til retta.

## 6.

Þeir skulu taka Vara aa ad allt þad sem af Koonge uppaabooded verdur, se hallded, og ef þeir i þriaar Vikur laata Laganna og Koonglegra Forordnijnga Yfertrodslur ouppaataladar hiaalijda, epter ad þær eru ordnar þeim vitanlegar, þaa skal Byrinn þaraf ongvann Hlut hafa i Sakafallinu, eñ Borgmeistarar og Raad skulu sialfer þann Part wtleggia, og þaradauk fyrer þeirra Forsoomun af Koongsins Fiscal tiltalaz uppaa sitt Embætte.

## 7.

Þeir skulu laata øll Bref, sem Bynum vidkoma og sem annadhvort til Borgmeistara og Raads, edur af þeim wtgefaz, registrera og færa i eina Book, sem aa Raadhwsinu skal vera i Geimslu.

## 8.

Þeir skulu sia soleides til ad hvør og eirn kynne fyrer billegt Verd faa þaa Voru sem Landsinns Innbyggiarar vidþurfa, og fiinaz aa til Kaups i Kaupstodunum, og skulu þeir aarlega i hvorium Kaupstad um Paaskaleite tilsetia two af þeirra Haalfu, sem ei all-

ein nockrum sinum á Are, skulu setia Verd uppá ferskt Urakiot, saltann og hardan Fisk; Norskt Öl og Brand. Jtem setia billegt Verd á Vijn, Salt og annad, ad öngvu undanteknu, sem Kaupmenn og Handverksfoolk og adrer skulu hafa fyrer sijna Voru og Erfide; helldur og hafa Tilsioon med sijnum Medbrædrum, og uppþenkia Medøl, hvørnig Almwgans Navdsyn af þvijlijku kunne i Tijma ad wtvegaz, utan þeir sialfer vilie hvor svara fyrer sijna Fordomun; og þeir sem taka meira enn af Borgmeisturum og Raade tilsett er, skulu seker i fyrsta sinne tuttugu Loodum Silfurs Kooginum, i annad Sinn hafe forbroted sin Borgaraskap, og ei leifaz framar ad hafa Hondlan i Rijkinu.

## 9.

Hin smáu Embætte i Kaupstødunum og Stadarinns Þienarar meiga til- og affetiaz af Borgmeistara og Raade, og lijka sem eingenn vegna Rijkedæmes, Medhallds, Skylldugleika og Mægda skal takaz til Embættes, so skal og ei helldur hiá neinum sneidt vera søkum litelmootlegs Alits, ef hann er duganlegur.

## 10.

Eingenn Borgare má hlidra ser hiá ad þiena nockru Bysinns



Embætte, utann hann se Skipherra, Styremadur, Siglijngamadur, edur soddan Handverksfoolk, sem Loginn og Politie-Ordan þar frá frija, hvørier og þartil brwkaz meige, ef þad sialfer samþyckia.

## 11.

Borgmeistarar og Raad meiga ei áþyngia nockrum privilegerudum andlegum, graduerudum Persoonum, og þeim sem eru i Koongsinns Þienustu, og ei brwka borgaralega Nærijngu med nockrum borgaralegum persoonulegum Alogum.

## 12.

Þegar einhvør verdur kiorenn til nockurs Embættes, þá má soddan Kosnijng hvørke byriaz ne endaz med Dryck, Gestabode, edur nockurt Gilde þarfyrer tilreidaz. Ei helldur skal nockur Reiknijngskapur, Registrun, Kaup, Sala edur annad soddan framqvæmaz vid Dryck edur Gestabod, so framt bæde Vert og Gestur ei vilia þarfyrer Tiltale og Straffe mæta.

## 13.

Þá Koongurinn lætur sijna Befalnijngu wtganga til Borgmeistara og Raads, ad láta til Foolk til Hans Þienustu til Lands eda Siooar, þá

meiga

meiga þeir öngvann þarum advara, so þeir kunne ad koma ser undan, mik-lu sijdur hlijfa neinum sem er i þeirra edur annara Þiónustu, so framt þeir ei med Vanæru vilia missa sitt Em-bætte.

## V. Cap.

# Um Kemnara.*)

### I. Art.

Borgmeistarar og Rääd skulu ärlega þann 2. Januarii af þeim fornemstu Borgurum nefna eirn Stadarinns Kemnara, ed-ur fleire, ef Þorf er, hvörium fyrer-farande Ars Kemnarar skulu afhenda þad sem er tilbaka af Stadarinns Pen-ijngum, og giora Reiknijngskap inn-ann fiortään Daga þar næst epter, i Borgmeistara og Rääds og nockra Borgara Nærveru, hvorier Reik-nijnginn skulu med Athygle yfersiä, og uppteikna þä Breste sem þari finnaz.

### 2.

Giore Kemnarar eingvann Reik-nijngskap, sem ädur er mællt, innann fiortään Daga þarnæst epter, þä skulu þeir þarfyrer tiltalaz og straf-faz epter þeirra Efnum. Fyrer Brest-ina skulu þeir strax bæta, edur med nooglegre Skyrslu bevijsa. Giöre þeir þad eigi strax klaart, skulu þeir þar-fyrer tvöfalldt gialda.

### 3.

Fyrerfarande Ars Kemnare, ef ei er utan eirn i Bynum, edur sä nedste, ef fleire eru, skal næstfylg-iande Ar alltijd vera tilstadar þar sem hanns er oskad af Kemnurunum, ad gefa Undervijsun um allt þad sem þess Ars Kemnare þarf af honum til Epterrettijngar ad spyria.

## VI. Cap.

# Um Taxerunar-Borgara.

### I. Art.

Borgaraskapurinn skal ärlega þann 3. Januarii utvelia tvo, fiora, edur fleire Borgara, sem lenge i Stadnum hafa bwed, og þeckia Borgaranna Tilstand, hvorier



*) KEMNARAR eru Kaupstadana Fullmektuaer, Forsvar og Tilsiónarmenn, sem sku-lu standa fyrer Býsinns Inntekt og Utgift, og giora þarfyrer Reikningskap.

med fyrerfarande Ars Kemnara þann fyrsta særann Dag i Februario þeß Ars skulu Taxera þaa sem bwa i Bynum hvarepter Ugiftinn til andlegrar og veralldlegrar Brwkunar skal fyrer hvorn eirn utreiknaz.

## 2.

Þeir sem bwa i Kavpstodunum og øngva borgaralega Nærijngu brwka, sosem hinar privilegerudu, andlegu og graduerudu Persoonur, og þeir sem i Koongsinns Þienustu eru, skulu, so vijdt þeir Eigner hafa i Kavpstodunum, skatta epter þeim Taxta sem nw er settur, edur herepter settur verdur; Enn finniz nockur af adurnefndum, annadhvørt sialfur, edur hanns Hustrw edur Hwßfoolk, nockurn Kavpmannskap, Hyckerie, Toppun, Handverk edur borgaralega Nærijngu ad brwka, þaa skulu þeir øll Koongleg og Borgaraleg Þyngsle wtstanda.

## 3.

Aller sem bwa i Kavpstodunum, hvørs Stands sem þeir eru, og hvad Frijheit sem þeir fyrer sig bera, skulu gefa Kyrkiuþienurunum sijn Rettugheit, so og hallda þvij vid Magt sem þeir sialfer abata og Gagn af hafa.

## 4.

Taxerunar-Borgarar fyrer þeirra eigenn Persoonur skulu blijfa vid þeß fyrra Ars Taxta, utan þeir hafe grædt vid Arf edur i annann Maata, ellegar vegna þeirra Bws Sundurdeilijngar edur oluckulegra Tilfella, merkelegann Skada og Þursd lided hafe a sijnum Fiemunum; og þaa skal Borgmeistarar og Raad tvo adra Borgara þartil nefna sem þaa a ny innann fioortan Daga skulu taxera.

## 5.

Se klagad yfer Taxtanum, þaa skal Borgmeistare og Raad heira so vel þeirra Framburd, sem meina adra ad vera oflijted taxerada, sem og þeirra sem meina sig ad vera ofhaatt setta, og hvar þvijlijkt skilvijslega funded verdur tilhallde þeir Taxerunar-Borgurunum þvii ad umbreyta.

## 6.

Þeir skulu þar fyrer utan sia allann Taxtann igegnum, og þar sem þeir finna ad Taxerunar-Borgararner hafa giørt nockrum til Vilia, þaa skulu þeir laata þeim tiltala fyrer Otrwskap, og straffa epter Doomsinns Innehallde.

## 7.

Borgmeistarar og Raad skulu aarlega til hvørs Nyaarsdags giøra

rigt-

rigtugann Reikníjng uppa allar þeirra Inntekter og Utgifter af Skottunum, og þar hia fraskiljra öllum þeirra Inntektum med rigtugu og skilmerkelegu Manntale, hvør Skatt hafe golded, og hvorsu miked hvør hafe wtgefed, hvort ed af Kemnaranum, Raadmeistaranum og bestu Borgurum, sem aa Þijnge aarlega skulu wtnefnaz, skal underskrifad og samþyckt verda, ad so miked og ecke meira se uppaalagt og uppbored, hvørier Reiknijngar med öllum þar til heyrande Assignationum og Qvitterijngum skulu aarlega þrim Maanudum epter Nyaarsdag i Koongsins Rentu-Kammers afhendaz, under tilbærelegt Straff.

# VII. Cap.

## Um Løg og Handverk.

### I. Art.

Þaa einhvør tekur Borgaraskap, þaa skal hann af Borgmeisturum og Raade laata sig innskrifa, hvada Handterijng og Handverk hann ætlar ad brwka og næra sig af, og ef þar er nockurt Lag fyrer somu Handterijngu, þaa skal hanns Nafn uppteiknad med Bysinns Þienurum sendaz af Borgmeistara og Raade til Oldermannsinns (Handverksins Forsjugia) og skal so saa sem þannenn er tilknadur, meiga brwka þaa Handterijng edur Handverk, aan vijdare Teiknunar edur Samþyckes, utan honum verde nockur aarlegur og lastsamur Misgiorníjngur klaarlega yferbevijsadur, sem hann ei vid Gud og Yfervalldid er forlijktur fyrer.

### 2.

Annars skal med Meistarastycke, Lærebref og allt þad sem þvijlijkum Løgum og Handverkum vidvijkur, halldaz epter Politie-Orduñe.

# VIII. Cap.

## Um hlavpande Kramara edur Varningsmenn.

### I. Art.

Full Gestaskot, sem framande Kramarar gefa i Kavpstødunum, ad þeir mege standa wte og selia þeirra Voru, skal yfer allt Rijkid vera afskøffud, og øngvum vera unnt med nockra Kramvøru ad hlavpa um fraa einum Kavpstad til annars, edur og nockur stadar þar-

 med

med wte ad standa, og i Almum, Loodum edur Pundum ad selia, utan hann se Borgare, under Vorunnar Uppnaam sem hann hefur med ad fara, og annad Straff epter Sakarinnar Asigkomulage.

2.

Eingenn Borgare edur Undersatte maa taka framande Kaupmanns Peniinga edur Goots, edur hafa Niderlag med þeim og brwka til hinna Framande Gagns og Nitsemda alleina, under sama Goots og Peninga Forbrot, og sextiu Looda Silfurs Sekter.

# IX. Cap.

# Um Markade.

## (Kaupstefnur.)

## I. Art.

Eingenn Torgsala (Kaupstefna) maa a nockrum Sunnu- edur Helgum-Dege halldaz. Innfalle þær a soddan Dögum, þaa skulu þær uppsetiaz til annars Virksdags þarepter.

2.

Einniz þad ad a nockrum Helgumdege se Krambwdum uppslegeð, edur nockur Vara bodenn til sölu, þaa skal sa hafa forbroted þad hann kauper og selur, og þar fyrer utan sekiaz fioretiu Loodum Silfurs, hallft til Koongsinns og Stadarins enn hallft Faatækum.

# X. Cap.

# Um Mæler og Vigt.

## I. Art.

Eingenn Mæler edur Vigt maa i Kaupstodunum edur a Landsbygdinne brwkaz, utan sw sem af Koonginum er tilsett, og skulu i öllum Kaupstodum a Raadhwsinu soddan Vigt og Mæler finnaz, epter hvorium eirn og serhvor skal hafa Magt og Frijheit til ad proofa hvort honum se nockur Orettur med Vigt og Mæler giördur. A Landsbygdinne skal i hvoriu Foovetadæme, hiaa einum herum midt i Foovetadæminu edur vid Hofnina og Hlodsluplatsin bwsitiande Lensmanne edur Dannumanne ödrum, uppaa alls Foovetadæmesinns Kostnad innsetiaz Vigt og Mæler, og ein hiaa Foovetanum, ad ef Agreiniingur uppaakemur, kunne allt þarepter ad rettaz, uppberaz og wtgefaz.

2.

Eingvum skal vera meinad sem selur eda gelldur nockud Korn, skalsum med jøfnu Slettunartrie ad strijka annadhvort Tunnu edur Skeppu, sem med er mælt.

## 3.

Yfervolldum i hvorium Stad skal standa frijtt fyrer, so oft sem þavg hallda navdsynlegt, i hvors eins Hwsum ad lata ransaka hvada Mæler og Vigt þeir brwka.

## 4.

Finnez ad nockur hafe edur brwke annad Maal edur Vigt, enn fyrrskrifad stendur, edur brwka annann Mæler og adra Vigt, ad mæla edur vega wt med, enn hann brwkar ad vega inn med, þaa skal hann aalijtaz sem Falsare, og hafe forbroted sijna Bwslood, hvor sem hann er.

# XI. Cap.

# Um Flutningsferder og Feriumenn.

## I. Art.

Yfervolldin yfer Høfud skulu tilsetia vissar Persoonur, sem bæde til Lands og Vatns skulu lata þeim Reisande i tie Fararbeina, fyrer þad Verd sem af Kooginum sett verdur.

## 2.

A Landsbygdinne skulu allstadar vera visser Flutnijngsmenn vid almennijngs Vege, ad veita Reisendum Fararbeina aa Sioo og Lande, hvoria serhvor Befalijngsmadur i sijnu Amte hefur ad tilsetia, þar sem hagkvæmast er, bæde fyrer hinn Reisande, og þaa sem honum hiaalpa skulu aafram.

## 3.

Aller Gestgiafarar skulu hafa þann Taxta sem af Koonge er settur, þrycktann i sijnum Hwsum haangande, ad hinn Reisande kunne sia, hvad hann skal betala.

## 4.

Take nockur meira af þeim Reisande, enn Taxtinn leifer, edur ecke vill flytia fyrer þann setta Taxta, þaa skulu Yfervolldin straffa hann epter Koongsinns Tilskipan.

## 5.

Hvor sa Feriumadur, sem meira heimter edur tekur til Fragtar edur Feriulavna, annadhvort fyrer lidugar Persoonur Reisande, Hesta med Monnum edur Hesta, enn sem af Kooginum er tilsett, straffiz, þaa honum

honum þad yferbevijsad verdur epter Koonglegre Skipun.

6.

Hvor sa Skipherra edur Feriumadur, sem nockurn Betiara flytur fra einum Stad til annars, utan hann med ser hafe þann Passa og Skyrteine, hvarepter honum leifez ad reisa fra einum Stad til annars, gefe til Straffs fyrer hvoria Persoonu þeim Fatæku tiju Lood Silfurs, sem af Koongsinns Foovéta skal inndrijfaz, og burtfære hann uppa sinn Kostnad til þess Stadar, sem hañ er frakomenn, og medan hann er a þeim Stad, underhallde hañ sialfur.

7.

Skipherra edur Feriumadur, sem innfærer edur flytur i Rijkid yfer eirn Feriustad til annars nockurn Tatara (þann sem gefur sig wt fyrer Kunnattumann) hafe fyrergiort Skipinu, sem hann fer med, og siñe halfre Bwslood.

8.

Fære Skipherra edur Feriumadur Þioof yfer vijsvitande, þa misse hann sijna Hwd, og heite Þioofsinns Stallbrooder.

9.

Eingenn Skipherra edur sioofarande Madur ma Koongsinns Baatsmenn edur nockurn af Strijdsfoolkinu, sem i Koongsinns Þioonustu eru, inntaka i þad Skip sem þeir færa, og af Rijkinu edur Landinu wtfæra, utan Koongsinns Passa, edur þeirra sem þartil eru setter; Ei helldur fleire Foolk medfæra, enn þeir navdsynlega til Skipsinns þurfa, under Skips og Goots Fortøpun.

10.

Serhvor Skipherra skal gefa þess Stadar Tollara i Rijkinu, hvarfra hann sigler, tilkynna, hvorsu marga Baatsmenn hann innann Skipsborda hefur, og medþarf til sinnar Reisu Navdsynia, so og forpligte sig sama Foolk, þa hann aptur kemur i Rijkid, med ser ad færa, utan hann loglega bevijse, ad þeir sem eru i burtu, seu davder.

11.

Inntake Skipherrann annars i sitt Skip nockurn af Koongsiñs Undersaatum til ad wtfæra, þa skal hañ missa þa, og gefe fyrer hvoria Persoonu, sem hann i þann Maata vill wtlavma, hundrad Lood Silfurs, og þeir sem so olaglega vildu burthlavpa, skulu hafa sijna Bwslood forbroted, og setiaz a Hoolminn.

## 12.

Koongsinns Tollarar skulu i hvørjum Stad Rijkesinns hafa alvarlega Tilsioon, nær nockur Skipherra burtfer, ad eingvar þvilijkar Persoonur., sem her ad ofan er umtalad, med nockru Skipe heimuglega burtkomiz.

# XII. Cap.

# Um adskilianlegt sem Bygdafolkinu almeñelega vidkemur.

## I. Art.

So skal Almennijngur vera, sem hann vered hefur af Alldødle, bæde þad effsta og ytsta. Falle til Þræta um Almennijng, og aa eina Sijduna verde sagt, ad þad se Almennijngur, enn aa adra, ad þad se nockurs egenn Jord, þaa maa saa sem þad seger sitt ad vera, giora þaruppaa Forbod, og framfylgia Søkinne loglega.

## 2.

Skyllde Koongsinns Foovete nockurn ad hafa teked nockud fraa Koongsinns Almennijnge, og verdur þad bevijsad, ad þar seu Priaatiju Ar sijdan þad var skiled fraa Almennijnge, þaa vere saa sem þad hefur, fyrer þeirre Søk aangurlaus.

## 3.

Serhvor skal nioota Selstødu og Fiaarbeitar i þann Almennijng, sem liggur til hanns Bygdarlags. Selbeitarmerke skal vera til Fialls sem þad hefur vered fraa gamalre Tijd. Selmerke maa eingenn flytia, utan þavg flytiz þaangad sem avngvum er Skade ad. Til Selstødu skal halldaz hinn rette Rekstur, sem af Alldødle vered hefur, og skal þar mæta Horn Horne og Klavf Klavf. Serhvor maa giora ser Sel i Almennijnge, sem þar vill sitia um Sumur.

## 4.

Koongsinns Foovete skal ecke burtbyggia nockurt Plaatz i Almennijnge, utan þad vid loglega Skodun finniz ad kunna med Tijdinne ad verda upprudt til Skattbylis. Byggiz og festiz þad nockrum soleides, þaa skal hann giora Gard þar umkrijng innañ Ars og Dags, og ecke optar flytia þad, og hafa sijn Landamerke ollumegen fraa Bænum, so vijdt sem honum er leift.

## 5.

Sæe nockur Korne edur slæe Hey i Almennijnge an Foovetanns Leifes, þa a Koongurinn bæde Korn og Hey.

## 6.

Almennijngs Skoog maa hvor eirn brwka, sem byr þar sem hann tilleged hefur fra Aldodle, so miked sem medþarf til serhvors Eldevidar, naudsynlegs Byggijngatymburs, og Heimiles Brwkunar. Hvor sem feller meira Tymbur i Almennijnge og brenner brota, utan Leifes til Upprudnijngar, enn nw er sagt, sekiz þar fyrer, sem sa er hoggur i annars Skooge.

## 7.

Hvor sem upptekur nockra Eydejord, annadhvort i Herade edur i Almennijnge, og bygger þar, þa skal hann hallda þvij i sex Ar utan Leigu og Leidijngarbods, og ecke vera skylldugur til Bodburdar, edur ad flytia Fatæka Forumenn, og sijdan behalda henne sijna Lijfstijd, ef hann helldur henne i Hefd, og giorer rett þaraf, sem Loginn segia. Hafe hañ Hustrw eda Born epter sig, þa eru þaug næst ad sitia a Jordinne fyrer tilbærelegt Afgiald.

## 8.

Nær þaug sex Ar eru umlidenn þa skal Jordin setiaz fyrer Leigu og Leidijng af Sorenskrifaranum og sex skynsomum Monnum, sijdan skal hañ bera Bod og flytia fatækt Foolk til næsta Bæar, edur sekiz epter Logum. Ef Præta vedur um hvor Bær næstur ligge, sem til er flutt edur Bod tilberz, þa maa Vegurinn mælaz med Stavng. Verde sama Jord aptur i Eyde, þa skal Þijngbod beraz, sem þad var adur bored, enn sw Jord var upprudd.

## 9.

Hvar sem helst a nockrum Garde Bwa fleire menn i Hwse saman enn eirn, þa meiga þeir eins frijtt brwka þær Dyr sem oskiptar eru. Hoggve nockur fleire Dyr enn a voru, þa hann þar kom, sekiz eitt Lood Silfurs, og giore Hwsid jafngott aptur og þad var, epter Sorenskrifaranns og Logrettumanna Doome. Fatækt Foolk ad flytia og Bod ad bera, skulu þeir skipta a mille sijn. Eldevid skulu þeir taka epter þvij sem þeir hafa Foolk til, og ei sem þeir hafa Jord til. Take nockur Tad fra annars Jordu og flytur a sijna, sa betale eitt Lood Silfurs þeim er Tad atte, og tedie so miked aptur af hañs Jordu, so vel sem sitt eged, þar hañ tadde med hanns Tade, sem hann færde af.

## 10.

Tileinke Madur ser Jord sem hann ei situr, og annar hefur til Brwkanar

unar, þaa maa hann ei slaa Hey edur skera Korn þar aa. Giøre hann þad, þaa maa Abwandenn giora hønum Fimtarstefnu og logfesta þad sem hañ sloo edur skar, og skal hann þaa færa þad strax tilbaka, epter ad Doomur af Sorenskrifaranum er gengenn, og giallde Bwanda Landnaam, og sverie Eid, ad ei færde hann minna tilbaka, enn hann burtfærde. Enn fære hann ei tilbaka, þaa sækiz sem Vitaskulld.

# II.

Hafe tveir edur fleire Menn samegenlegann Afla, Hey edur Koorn, þaa skal eingenn þeirra nockud þaraf burttaka fyrr enn þvij verdur skipt þeirra imille. Enn slæe saa eine Hey aa þeß annars Lood, þaa bæte hann ei þarfyrer so lenge hann hefur jafnmiked fyrer Hende ad leggia aptur. Enn flytie hann allt burtu, þaa flytie hann tilbaka aptur og sverie Eid, ad allt flutte hann tilbaka, sem hanns Granna tilheyrde, og sekiz hælfu Loode Silfurs.

# I2.

Hafe nockur Sel edur Hagbeit fyrer Fenad sinn i Skooge, þaa skulu þeir reka sinn Peniing saman fraa Heimagarde, þaa tveir Maanuder eru af Sumre, utan þeim samegenlega syniz annad hagkvæmara. Sitie nockur þarepter Heima, þaa meiga Grannar hanns hønum þad fyrerbiooda. Sitie hann lengur, þaa skulu Grannarner stefna hønum med Fimtarstefnu til Þiings, og þar skal hann dæmaz til ad bæta eitt Lood Silfurs, og uppretta þeim sem klaga sitt Grasverd. Og skulu þaa nefnaz so marger Menn til sem þørf gioriz ad reka Fe hanns wr Heimahaugum. Hvør af þeim sem ei fer med, sekiz hælfu Loode Silfurs vid Koong: Eins miked skal og saa sekur vera, sem færer heim aptur i Bygd, fyrr enn aa rettañ Tijma, og þeir adrer færa med.

# I3.

Hafe tveir edur fleire Jørd samann innann eins Gerdis, og saa eine fær hyrdt fyrre enn saa annar, og vill hafa Fe sitt þari, þaa skal hann þeß so geima, ad þad ei kome i hanns Granna Akur eda Beit, kome þad þari, þaa bæte Skadann epter Doomaranns og Logrettumanna Virdingu og Alite, og gialde Landnaam þeim er Korn edur Gras heyrer til. Nær saa sem sijdar hirder, fær sitt Korn i Hws, þaa skal saa sem fyrst sette þaangad Fenad sinn, enn þaa geima þad so þad ei kome i hinns annars Beit; þartil jafnbeitt er, annars betale Landnaam þeim sem Gras aa.

# I4.

I þeim Skoogum sem nyter eru, og duganlegt Tymbur edur Lest

 kann

kann af ad ſaaz, ſkulu eingenn ferſk Tre hoggvaz til ad brenna Tioru af; hvor þad giorer, bæte fyrer hvort Tre eitt Lood Silfurs.

# 15.

Hafe tveir edur fleire Menn Skoog edur Utenge tilſamans, þaa ſkal eingenn þeirra brwka meira þaraf, enn hanns Partur kann ad þola. Og ef nockur vill brwka meira þar, þaa maa Loodareigandenn biooda honum Tilhlutunar (Loods) ſo ad hvorium wtſkiptiz ſinn Partur, a ſama Haatt ſem Login ſegia um Odalſkipte; þvij ſaa ſkal niota Skipta, ſem Skipta beidiz. Hafe nockur Skoog moot Koonge edur Kirkiu, þaa maa hann laata ſkipta honum af Sorenſkrifaranum og ſex vvidridnum Monnum, ef hann vill, ſo hvor vite ſinn Hluta og mege brwka ſitt Eged, epter þvij ſem honum ſyniz ſer beſt og gagnlegaſt vera.

# 16.

Gerde ſkulu ſkiptaz epter þvij ſem hvor hefur Jord til ad brwka. Þeir Gardar ſem ſetiaz mille Granna, ſkulu vera ſo haaer, ad take Manne under Arm: Alen ſkal vera mille hvors Stavrs, og Stoolpe hiaa þridia hvorium Stavr, og vel Jardfeſtur; og ſkal Gerded vera ſo þyckt, ad ei verde Boloxe kaſtad igegnum þad. Eitt annad ſlags Gerde kallaz Rima-Gerde, þar ſkulu vera fioorar Reimar i med Krookum vid Endana, og feſtaz ſo hardt med Stavrum og Vidium, ad þad ei dette, um koll edur Fenadur fare þar igegnum; Þridia ſlags Gerde kallaz Skijdgerde; ſem gioriz af Vid, þavg ſkulu faſt uppgioraz, og endurbætaz þar vidþarf. Fioorda ſlags eru Hagafialls-Gerde, ſem menn brwka til Hafagerdes imillum Eigna ſinna, þavg ſkulu vera ſo þyck, ad Fenadur gaange þar ecke igegnum, þaa eru þavg løgleg. Seu þvijlijk Gerde nidurfallenn, þaa ſkal hvor lwka ſinn Hlut. Girde Fiall edur Myre, edur Vatn fyrer einhvørs Jord, þaa ſkal þad reiknaz fyrer Gerde, medann þad kann ad girda. Enn gaange Fe þaryfer, þaa ſkal ſaa ſem girda atte, taka þann Skada fyrer Heimgialld ſem hann þaraf hlytur, og bæte Granna ſijnum allann þann Skada, ſem hann þaraf fær.

# 17.

Hvor ſkal hafa ſijn Gerde bwen um Kroſſmeſſu a Vor, ſem er þann 3. Maii, og ſkulu halldaz til Calixti Dags, þann 14. Octobris. Ste. Hallvards Dag, ſem er 14. Maji ſkal Grannaſteſna halldaz, og þaa ſkal epterſed verda hvort Gerde eru løgleg. Verde nockur af þeim

þeim nidurbrotenn epter þann Dag, þaa skal saa betala Skadann, er Fed atte sem bravt Gerded. Enn finniz ad þavg hafe vered ologleg, þaa skal sa er Gerde atte betala Skadann, sem her aa epter seger.

# 18.

Ef almennijngs Vegur liggur igegnum nockurs Manns Gerde, þaa skulu gioraz Dyr aa, og þari hengiaz Grind med fioorum Rimum og tveimur Kroßbondum, og einum Stoolpa vid hvoria Sijdu, og hengiaz so ad hon falle sialf aptur.

# 19.

Vilie menn hafa Gerde millum Bæa, sem ei hefur fyrr Gerde vered, þaa skal hvor girda sem hann hefur Jord til, so vel i þeirre einu Jord sem hinne annare, þo skal þeim fyrerleggiaz ad skipta Gerdinu þeirra amille og hafa Votta vid, og skal leggiaz Hlutfall aa Gerdenn hvort sem saa eine vill edur ei, og hallde hvor vid Magt þvij Gerde, sem hanns Hlutur fellur aa. Hvor sem ei vill girda, hann bæte allann þann Skada, sem þaraf kemur.

# 20.

Þar sem tveir edur fleire eiga Jord innann eins Gerdes, og saa eine ei loglega helldur sijnum Parte af Gerdinu, so ad einhvors Fe' fer þar innyfer i annars Akur eda Enge, þaa skal saa, igegnum hvors ologlegt Gerde Fed er innkomed bæta allann þann Skada, sem saa er Fe atte, þaraf hlytur, nær þad verdur innsett af þeim, hvors Akur edur Enge þad hefur i fared; hvarum herepter talad verdur.

# 21.

Eige madur annarka' Fe, sem plagar ad brioota Gerde, edur stockva yfer þavg, og hanns Grannar vita þad, þaa skulu þeir bidia hann ad hallda þvij heima. Vilie hañ þad ecke, og þad sijdan kemur i nockurs Akur eda Enge, þaa maa saa er Akur eda Enge tilheyrer, kalla Menn til ad sia þad er innkomed, og setia þad iñ med Vottum, og se þad i Eigandañs Abyrd, og ecke þeß sem þad innsetur, og er Eigandinn skylldugur ad betala þann Skada, sem þad giort hefur, hvorn tveir skilrijker Menn skulu meta, ef þeir ecke odruvis kunna ad forlijkaz. Saa sem Fed innsette, skal giora Bod þeim þad tilheyrer, þann sama Dag sem hann þad innsette. Vilie hann ecke leisa þad og betala sanngiarnlega þeß Foodur, ef þad hefur nockra hrijd staded, helldur lætur þad standa til fimta Dags, þaa behallde saa þvij, sem þad inntook, og se þarmed bætt fyrer Skadann. Vilie Eigandiñ sitt Fe wileysa, og hefur ecke Penijnga, þaa skal hann setia honum Pant, edur

fra honum Borgunarmenn, sem eru gooder fyrer ad betala Skadann. Eñ vilie hann ei læta lavst Fed, fyrrenn hann Peniinga i Hendur fær, enn svelter Fed, þa betale hann þeim sem Fed tilheyrer eitt Lood Silfurs, og borge honum aptur Fe hanns, epter Sorenskrifaranns og skilrijkra Manna Doome, ef hann misser nockud þar af. Vilie hann ecke enn þa wtlæta Fed, og betala sem sagt er; þa kresie hinn wt Fiar siins og lyse honum Raane a Hendur, og kvedie Sooknarmenn med ser, og wttake Fe sitt, og þad sem betalaz a. Hvor sem ei fer med honum, bæte til Koongsinns eitt hælft Lood Silfurs. Koogsinns Foovete edur Hanns Fullmegtugur skal fara med, og avinna þarmed Kooginum hælft Lood Silfurs. Hvor sem vill hamla þessare wttoku, hafe bootalavst, hvort helldur hann fær Skada edur Mein, og bæte þarfyrer utan til Koongsinns hvor fiegur Lood Silfurs.

## 22.

Vilie Eigandinn ecke Fed wtleisa, edur giora þarfyrer þa Wissu sem sagt er, helldur tekur þad wt, þa betale hann þeim sem þad innsette, avk Skadanns eitt Lood Silfurs; fyrer Lockunarran, og hvorium sem med honum var, til ad taka þad wt og reka, eitt Qvintin Silfurs.

## 23.

Af fyrrsagdann Hætt skal og medfara, nær Sviin edur annad Bwfe fer yfer edur igegnum nockurs løgleg Gerde, vegna þess ad Eigandinn hefur ei læted þad tilbærelega vagta. Sømuleides nær nockurs Fe gengur i eins Akur edur Enge igegnum annars ológleg Gerde, hvarum adur er talad.

## 24.

Sveitæft Foolk i hvoriu Prestsdæme, sem eckert hefur siælft ser til Uppheldes, og þeirra Frændur hafa ei helldur Efne til ad fæda þa, og þeir ecke so færer, ad þeir siælfer komiz Bæa a mille, eiga aller Bændur i Prestsdæminu ad flytia, epter sama Mata og Rod, sem Bodburdur skedur. Hvor sem ecke þanninn flytur hinn Fatæka og Vanfæra fra ser til nærsta Bæar, bæte þarfyrer hælft Lood Silfurs Koonginum og eins miked, ef hann flytur þa wtwr Prestsdæminu, þar þeir heima eiga. Flytie hann hann ecke til Mannabygda, helldur affiides a Eydemerkur, so hann deyr fyrer hanns Forsomun; edur og ef nockur viisar fatæku Foolke fra ser, og vill ecke hysa þad, so þad deyr þessvegna, verdur bited af Hundum edur rifed af Dyrum, betale til Koongsinns sextiju Lood Silfurs.

## 25.

Ef

Ef sa sem fyrer situr vill ei vidtaka, edur lata innleida hiñ Fatæka, þa skal sa sem hann þangad færde, kalla Vitne til, og vera so Sijknsaka, enn hinn annar stande til retta þarfyrer.

## 26.

Eingenn skal fatækann Mann flytia um Sumar epter Soolarlag, og um Vetur þa Myrkt er orded.

## 27.

Þeir Fatæku sem geta flutt sig sialfer, skulu sa Hws a Vetur moot Kvølde þa Fenade er gefed; Sa þvij neitar, bæte Koonge eitt Lood Silfurs. Deye sa Fatæke wte fyrer hañs Hwsum a somu Noottu, þa stande hann til retta epter Sakarinnar Asigkomulage.

## 28.

Verde nockur fatækur Madur siwkur og oskar Prests, þa skal Boondinn sækia Prestinn, og ecke flytia hann burt wr sijnu Hwse fyrrenn Presturinn kemur; edur bæte til Koongsinns tvo Lood Silfurs, nema hann hafe løgleg Forfoll. Vilie Presturinn ecke koma til hanns, þa bevijse Boondinn þad sem hanns vitiade.

## 29.

Þa Umskipte verda a Amtmønnum edur Foovetum, þa skal hvorke sa sem ad nyu tilkemur heimta af Bændunum neina Pockaun ne meðtaka, jafnvel þo þeir hønum goodvilliglega gefa vilie, ei helldur Bændurner nockra Pocknun wtgefa. Take nockur þvijlijka Pocknan, þa hafe forbroted ferfalldt so miked til Koongsinns. Eihelldur skulu Bændurner a þeirra Adsetursstødum edur Aðdrattargordum giora meira Erfide, enn þeir med rettu eru skylduger til, edur nockra Erfidispenijnga i þeß Stad wtgefa, edur med nockrum þeßhattar Alogum þyngiaz. Hvor sem þa hertil þvijngar edur lockar, verde a sliteñ sem Laganna Yfertrodare.

## 30.

Foovetunum skal unnt vera nockurs Havsterfides af næstbwande Bændum, og skal Amtmadur þad anafna i hvøriu Foovetadæme, so og hvad marga Daga hvøreirn skal hialpa þeim; og skal þad setiaz soleides, ad Bændurner ei þurfe þeßvegna ad forsooma sijna egen Havstyrkiu, edur ofmiklum Þyngslum mæta, og skulu þeir eckert annad Erfide fremia fyrer þa, hvorke fyrer Lavn nie utan þeirra. Somu Bændur skulu og vera frijer fra øllu ødru Ferdalage og Erfide fra þvij Plægijngin byriaz, og þartil Hyrdijng og Havstplægijngu er loked.

31.

## 31.

Hoovetinn skal ei taka oløglegar Giafer af siins Foovetadæmes Bændum, ei helldur Hugnun, Nætuhalldspenijnga, oløglegar Stijgviela-Hwder, Forlijkunar-Gaasur Giafer vid þridiu Toku, ovaniuleg Alag med Nækur, Hey, Vid, Tymburhegg og þeß Flotun, edur nockurt annad Erfide, framar enn aadur er sagt. Item Giſtijng edur Foovetа-Tunnu, edur Jardaña Yferskodan. Ei helldur aa Arfaskiptum, hvar Foovete ei kemur einasta sem Skulldaheimtare, hvar Koongsinns Skattar epterstanda, edur fyrer eitthvad annad, under þvij Skine, ad fyrre Foovetar hafe þad giort, og ad Almwgenn þær Giafer goodviluglega wtgefe; ei helldur þrengia Boondanum til ad afhenda imoot hanns Vilia, hvorke Slaatrunarfe edur adra Voru. Skedur nockud soddan oløglegt, þaa skulu Bændanna Vitnesburder øngvann frija, ad hann ei þarfyrer stande til retta og straffiz; enn aa þeim þremur Þijngum, um Vor, Sumar og Havst, sem vegna Skattanna endelega eiga af Foovetanum ad halldaz, skal Foovetinn underhalldaz med einum Þienara, samt Sorenskrifariñ og þeir adrer, sem frij Næturgiſtijng og Beina plaga ad hafa, af þeirrar Sveitar Almwga, sem til Þijngan-na aa hvørium Stad innkallaz, so vijdt veniulegt hefur vered. Giøre nockur Foovete herimoot, þaa gefe hann fyrsta og ødru Sinne twofalldt so miked aptur. Ef þad skedur optar, hafe hann sitt Embætte forbroted, Ei helldur maa Foovetinn leita nockurs Betalijngs hiaa Almwganum fyrer þann Greida, sem einn edur añar Veralldlegur edur Strijdsþioonustumadur kann ad þiggia hiaa hønum edur ødrum, jafnvel þo hann reise til Utskriftar, edur annara Koongsinns Erinda. Helldur skal Almwginn vera frij fyrer øllum þessum Utgiftum, og serhvør betala Foovetanum þad hañ i soddann Maata med Sannsyne kann ad oska

## 32.

Foovetar meiga eckert Jardagooß kaupa af þeim Bændum, sem þeir eru Foovetar yfer, ei helldur laata virda ser þad til, ef annad er ad faa, under Gootsinns og þeirra Embættes Fortapun. Neydiz þeir til ad taka þad med Utlage fyrer Skatta edur Bætur, þaa skal þar i allann Maata medfara, sosem i fimtu Book um wtlagt Gooß sagt verdur.

# XIII. Cap.

# Um Odalsmeñ og Landsdrottna.

1. Art.

# I. Art.

Odalsmadur og Landsdrottenn eru næster ad bwa a Jord þeirre er þeir eiga, edur hafa Part i, helldur enn nockur Framande, og brwka allt Jardarinnar Tillag, þo so ad hann eige ad minsta Koste Hälfpartinn, og hafe hälf Byggingar-Rad, og se sialfur annars Sambylesmadur, edur Jardnædeslaus, so þad ei skedur ödrum til Þrengsla helldur ad hann vill sialfur bwa þar a, og kann ad sanna þad med Eide; og skal hann þa tilsegia Landseta sijnum fyrer Jool, ad standa upp fra ser, og gefa honum aptur sijna Festu, edur fyrstu Toku, og betala honum þad hann hefur giort vid Jordina framyfer þad honum var uppalagt epter Logum. Vilie þeir adrer Odalsmenn edur Sameigendur ecke leigia þeirra Part þeirra Sameignarmanne, þa skal hann fyrer Fardaga biooda þeim þa Leigu, sem adrer vilia gefa þaraf; þo so ad madur vist vite, ad annara Bod seu ecke Ofundarbod. Fare nockur annar þangad, ad undanteknum þeim sem a soddañ Part, sem sagt er og vill bwa þar a, þa giorer hann Jardar Ran, og skal þa fyrerbioodaz þangad ad fara, og fare hann þangad, þa skal hann fara þadan aptur, og sekiz Koonge þriw Lood Silfurs. Fare hann ecke burtu, þa skal halldaz þarum, so sem Logi segia um þann sem situr a Jordu ólofinne.

# 2.

Enn sitie madur a siñe egeñ Jordu, og ligge nockur Jord edur Plats þarunder Utangerdes, þo innann Sveitar, sem hann a Hlut i, og kann ad brwka Averka a, þa er hann næstur ad brwka hann ef hann er lidugur. Ei ma hann þann Stad edur Plats fram fyrer adra Loodareigendur hafa til Jardar sinnar, sem Fiall stendur fyrer, edur A rennur i millum.

# 3.

Hvör Odalseigande og Landsdrottenn ma hoggva i sijnum Skooge, so miked sem hanns Partur kann ad þola, þo so ad hann hoggve ecke sijnum Sameigendum til Skada.

# XIV. Cap.

# Um Leigulida.

# I. Art.

Ef nockur fer a annars Manns Jord til ad bwa a heñe, ann hanns Leifes, og hefur ecke fest hana, þa hafe Landsdrottenn hanns Afla, og skal hann gialda Landnam til Landsdrottenns, epter Doomaranns og sex Manna Urskurde. Vilie hann ecke fara fra Jordinne,

þaa ſkal Landsdrottenn ſtefna honum til Þijngs, og taka Doom þarum, og oſka ſijdan Koongſinns Fooveta og Bœndanna hiaalpar til ad fœra hann áf Jørd ſinne; og ſkulu þaa Koongſinns Bœtur takaz af hanns Bwe, nefnelega twø Lood Silfurs. Þar ſem nockur burtfeſter eins aññars Jørd, ſem honum ei vidkemur ad burtfeſta, þaa ſkal hann gefa Eigandanum aptur Feſtepenijngana og eins miked Koonge, og þarfyrer utan ſvare Eignarmanninum til alls ſijns Skada og Hindrunar. Saa ſem vijsvitande feſter Jørdina af honum, miſſe Feſtepenijngana, og ſekiz haalft ſo miked vid Koong.

## 2.

Eirn og ſerhvør behelldur þeirre Byggijngu, ſem hann hijngad til haft hefur, edur med Arfe edur ødrum løglegum Hætte er adkomenn. Hvar tveir edur fleire eru Sameigendur eirnrar Jardar, ſem hafa Byggijngar Rett fyrer nockrum Parte þari, þaa ſkal ſaa ſem meſtann Part hefur, raada fyrer ad byggia og feſta Jørdina burtu, og ſkal gefa hinum Eigendunum þeirra Hlut af Feſtepenijngunum, hvørium epter Tiltølu og Rette. Þar ſem tveir edur fleire eiga eins miked i Jørdu edur Garde med jøfnum Byggijngar Rette, þaa raada þeir Byggijngunne hvør med ødrum, og ſkipte Feſtepenijngunum ſem fyrr er ſagt, og ſkal ei leifaz ad hvør bygge ødrum til Þrengſla. Ef þeir verda ei aa eitt ſaatter, hvørium þeir vilia Jørd byggia, þaa gillde þad ſem hiner fleſtu ſamþyckia. Eru þeir aller oſamlyndrer, edur ecke utan tveir ſem ei geta ſer ſamankomed, þaa gaange þarum epter Hlutfalle. Hvar nockur Jardarpartur er eins affkipt Eign og liggur þo til eirnrar Jardar edur under hennar Eign, þaa rædur ſaa fyrer Byggijngu ſem aa ſama Jardarpart med Byggijngar Raadum, þo ſo ad hañ ei feſtiz fraa þeim Garde ſem hann liggur under.

## 3.

Hafe eirn edur fleire Byggijng i einum Garde, og eru þo fleire Medeigendur ſem eingva Byggijng þari hafa, þaa ſkulu þeir ſem Byggijng hafa, kavpa edur faa i Skiptum hina Partana; annars ſkal ſaa ſem rædur fyrer Byggijngu, betala þeim ad fullu þeirra Landſkulld; Sømuleides ſkal ſaa ſem rædur fyrer ad byggia Jørdina, ſem adur er ſagt, ſkaffa þeim ødrum ſem Byggijngar Raad háfa med honum, þeirra Landſkulld i rettann Tijma.

## 4.

Eingenn Boondamadur maa faa Jørd edur Plaatz til ad feſta, utan hann hafe vered i Koongſiñs Þieniſtu fyrer Soldat edur Baatzmann, og gete þarum framvijſad rigtugt Skilrijke og Paſſa, hvarum Foovetar

ſkulu

skulu hafa riguga Eptersioon, sem þeir ætla ad forsvara og skulu Landsdrottnar vera skylduger, so lenge sem nockrer af þessum finnaz, ad unna þeim Jarda framar ödrum, fyrer sanngiarnlega Festu, sem annar kann ad biooda, þo so ad ei kunne Ofundarbod ad reinaz.

## 5.

Þad skal ei leifaz, ad nockur Partur i einnre Jordu mege byggiaz fleirum enn einum Leigulida, utan þar gefiz af ærlega i Landskulld eins Punds Þyngd i Korne, Miöle og Malte, edur so miked af annare Landskulld sem þar i moot æ ad reiknaz epter venjulegum Taxta; undantekniu til Fialls og vid Sioosijduna, og hvar nockur er sialfur Odalsmadur, þa er honum leifelegt ad sitia æ þvij hann æ, og brwka þad, þo epter fyrerfarande þrettaunda Cap. fyrsta Art.

## 6.

Leige madur ödrum Jord sijna og vill ei læta hann hallda henne, sem hana leigde, þa maa sa sem leigde Jordina, læta løgfesta edur giora Forbod uppa Jordina, epter ad hañ Foovetanum synt hefur Skilrijke ad Jordin er honum leigd, og stefne Landsdrottne til Þings þar Jord liggur; A medan maa hann Jord brwka, og ef hanns Skilrijke finnaz logmæt, dæmiz honum sw Jord til sem hann leigde; enn ef ecke, bæte Landsdrottne epter þessa Capitula fyrsta Art. Enn þar sem nockur leiger Jord og vill ei behalda henne, þa maa Landsdrottenn, epter ad lidenn er 14. Aprilis, læta sialfur sa Jord og behalda henne, sosem hinn ecke hafe leigt hana, edur byggia hana ödrum, ef hann vill, og sa sem fyrst leigde, svara bæde til Leigu, Leidijngar og Landskulldar, og allra Logskila fyrer þad Ar.

## 7.

Nær Foovete fester Koongsjord nockrum fyrer Lijfstijd, þa skal hann fyrer utan Festuna, hafa Stijgvelahwd edur eiñ Rigsdal, hvort helldur Boonden vill wtelæta, og er ecke Boondinn skyldugur ad gefa Foovetanum meire Penijnga fyrer hvoria þridia Ars Toku.

## 8.

Lege fleire Menn eina Jord tilsamans, sem er oskipt, og kome ecke aller saman undereins til Jardarinnar, þa maa sa sem skipte vill hafa, oska af Fooveta edur Liensmanne, ad þad mege ske med tveimur Vitnum. Og skal þa Jordin hvort helldur nockud af henne er byggt edur obyggt fleirum, mælaz wt i eins stoorum og eins vel ræktudum Portum, so ad hinn sijdaste kunne ad fa eins stooraun Hlut og hinn sem fyrst kom, og giore sijdan

an hvort þeir vilia, kaste Hlutum a, ef hinn annar kemur noogu snema til, edur hvor hafe þad hann tekur. Ef Jordinne sijdan finnz ad vera oriett skipt, þa skal þad ateliaz og rettaz, epter Doomaranns og Logrettumanna Urskurde. Þvij sem Leigulidar hafa þaninn skipt, halldi þeir medan saman bwa, enn fare sa eine burtu, og kome þar annar Madur aptur til Jardarinnar, þa fær sa aptur kemur, þann Hlut Jardarinnar og Hwsanna, er hinn hafde sem burtfoor, og niote þvor þeß sem hanns Formadur hefur betrad med Byggijngu.

# 9.

Bygge nockur þa Jord odrum sem hann fyrst einum byggt hefur, þa skal sa Jordinne hallda, sem fyrst feste, ef hann þad skilvijslega bevijsar, Enn hinn sijdare skal hafa af Landsdrottne eins mikla Jord annarstadar, ef hann hana a; ef hann a ei, þa gefe hann honum sijna Festepeningа aptur, og so miked til sem hann skyllde eitt Ar hafa haft i Landskulld, og bæte Koonge fiortan Lood Silfurs, og skal þaruppa talaz innann Hálfsmanadar epter ad menn vita þad Jordin er tveimur byggd.

# 10.

Sa sem hefur Jord festa, hann skal behallda henne so lenge sem hann kann ad bevijsa ad hann hafe hana um morg Ar til Leigu teked, jafnvel þo hann sæe nyann Landsdrottenn. Hafe hann fest Jordu sijna Lijfstijd, edur gefed Festu eda fyrstu Toku, þa skal hann behallda henne sijna Lijfstijd, þott ad Landsdrottnaskipte verde, so framt sem hann þaraf gefur Landskulld og Rettugheit i rettann Tijma arlega, og ei hoggur Skoogenn til Skada, sem Login herepter umtala. Landsdrottne skal hann syna tilbærelega Hlydne, edur straffaz epter Sakarinnar Asigkomulage.

# 11.

Eckian skal behallda þeirre Jordu sem hennar Madur leigt hefur, so lenge hwn er Eckia og giorer sem her adur er sagt, enn ef hwn vill giftaz, þa skal sa sem hwn egtar, festa Jordina af Landsdrottne.

# 12.

Til þridia Ars Toku skal einasta gefaz af hvoriu Skippunde, Sponn, Smiorlavp, edur tveimur Hwdum eirn Rigsdalur, og ei meira, og skal af eirnre Vog Fiska ei meira uppberaz enn hálfur Rigsdalur. Skorufiskur og allar þvijlijkar oloeglegar Alogur, skulu aldeiles vera afteknar.

# 13.

Eing-

Eingvum Leigulida skal wtbyggiaz, þo vante þridia Ars Toku, nær hann helldur Jordunne vid Hefd og Magt, edur fyrerbioodaz ad brwka Jordina, nær hann ei af Mootvilia innehelldur þridia Ars Toku, helldur sækiz sem fyrer adra Landskulld.

# 14.

Eingen Landsdrottenn maa setia Jord sijna edur Gard fyrer hærre edur stærre Landskulld, eñ Doomarinn med sex skilsomum Monnum kañ dæma loglegt og rett ad vera.

# 15.

Leigulidar skulu gefa þvijlijka Landskulld, og onnur Rettughejt, sem fraa Alldodle vered hafa, og Jardabækurnar þeim tilhallda, i Korne, Smiore, Hwdum og odrum Vorum; Enn uppaa þad Landsdrottenn ei skule vera skylldugur ad medtaka, edur Leigulidinn wte ad laata Vorurnar in natura (i Skileyre) aa moote sijnum Vilia, þaa til ad koma i Veg fyrer adskilianlegar Ertijngar og Þrætur, sem uppaa kunna ad falla þeirra imillum nær Landskuldiñ er bodeñ in natura, um Varanna Gillde, retta Vigt og Mæler og annad þeßhaattar, þaa skal bæde aa Koongsinns og annara Landsdrottna Gootse þarmed hondlaz aa epterfylgiande Haatt: 1mo. Taxtenn aa allslags Korne, moludu og omoludu, hvort helldur er Landskulld, Leidijng edur Tijund, skal setiaz af Stiftbefalijngsmanninum og Biskupinum aarlega i hvoriu Stifte, innan þeß 20. Novembr., epter þvij sem þad kann aa þeim Tijmum meſt ad gilda i Kavpstodunum, Christiania, Christiansande, Biorgvin og Þraandheime. Hvor Taxte strax skal meddeilaz Amtmoñunum, Land-Commissariis og Profostunum, so ad strax þarepter verde Befalnijng gefenn Prestunum og Foovetunum, ad byrta hann vid Kirkiu i hvorre Sookn epter Predikun. 2do Ein Mork Smiors, hvort helldur er Landskulld edur Leidijng, sovel sem adrar Jardabookarinnar og Leidijngar Vorur, skal betalaz i Penijngum epter þeim Taxta, sem sovel fyrer þaa nordan- sem suñanfialls, af Koonginum settur er edur settur verdur.

# 16.

Oll Landskulld skal betolud vera Adfaangadag Joola, enn ef Leigulidar i hinum næstu Foovetadæmum vid Kavpstadina ei standa Skil þar aa Adfaangadag Joola sijnum Hwsboonda, se hann bwande i Stiftinu, edur hanns Fullmegtugum, sem honum byriar ad hafa i einhvorium af Stiftesinns Kavpstodum edur Hlodsluſtodum, ef hann er sialfur bwande i odru Stifte, edur innann næsta Dags fyrer Kyndelmessu ef Leigulid-

enn byr lengra enn siø Mijlur fraa sijnum Hwsboonda edur hañs Fullmegtugum, þaa betale hann til Straffs einum fioorda Parte meira. Epter hvoriu Verdlage þad þaa med Logum og Doome, æsamt Maalskostnadinum maa sækiaz, og skal Hwsbooninn þaraamoote vera skylldugur ad taka aamoote Penijngunum, sem Leiguliden bydur, og qvittera hañ fyrer þaa i Bookinne, somuleides teikna þarhia hvad Leiguliden ad Lokum verdur skylldugur, edur hafa tapad þvij sem epter stendur.

## 17.

Bændur skulu ei vera skylldugir ad færa sijna Landskulld lengra enn til næsta Kaup- edur Hlodslustadar, og nær þad skedur, edur og ad Landskulldin verdur nær tekenn, skal þo eckert framar af Boondanum heimtaz fyrer Færslu.

## 18.

Ef meste Hlute Landskulldarinnar verdur seldur af Landsdrottne, þaa skal Boondinn ecke neidaz til ad færa nockud lijted sem epterstendur, og lijka hefde kunnad ad seliaz, hefde menn ecke under þvij Yfervarpe viliad brwka Boondann til ad flytia annad, utann þeir fære þad allt edur hid mesta þaraf tilsamanns, og þeir þaa aa vissum Stodum fæe slijka Flutnijngs Vog af Fiske, sem þeir fraa Allodle fengid hafa, og tefiz ei i Stodunum, helldur meige strax aptur heimhverfa. og med þvij tvær Reisur plaga ad gioraz Haust og Vor til Stefnu i Biorgvin, þaa skulu þær Vor-Reisur, sem Boondanns Fiskeri forsoomaz fyrer, aftakaz, utan vera mege nockra Daga til Hafnar, og skulu aarars Vorurnar færaz, sem veniulegt er, til Haust-Stefnu, nær þad er Boondanum sijst til Skada i hanns Fiskerie. Og vilie einhvor senda nockra Voru, þaa skal hann sialfur þar uppaa kosta, edur innfragta hana aa odrum Duggum.

## 19.

Eingenn Landsdrottenn maa aaþyngia sijnum Landsetum med Færslu edur Flutningum lengra enn þriaar Mijlur Vegar aafram, og þad ecke oftar enn fioorum sinnum aa Are. Giore nockur her aa moote, þaa betale hann Leiguliddanum tvo Lood Silfurs fyrer hvoria Mijlu, sem hañ lætur hann flytia yfer þad sem aadur er sagt.

## 20.

Landsdrottenn edur Foovetinn skal afhenda hvorium Landseta eina hentuga Book, sem hann alltijd skal hiaa ser hafa, þaa hañ betalar sijna Festu, Landskulld, Stijgvielahwd, þridia Ars Toku, edur onnur Rettugheit af sijnum Garde edur Jordu,

so

so þad meige i sömu Book innfæraz. Og skal Boondanns Book vera samhlioода Landsdrottenns edur Foovetanns Book, sem þeir skulu rigtuga hafa, so framt þeir vilja ei þarfyrer standa til retta, uppaa þad, ad, ef Boondinn misser sijna Book, þurfe hann þo ei twisvar ad betala og skal Bondinn aldeiles eckert betala fyrer Innskrifuninа.

## 21.

Eingenn Landsdrottenn maa dyrfaz ad hafa i Frame nockurt Ofbelde vid sijna Þienara, under tuttugu Rigsdala Straff, til Qvesthwssinns, nær þad honum fyrsta Sinn yferbevijsaz. Vere þad til oftar, þaa misse hann sinn Byggijngar-Rett, og hafe hann øngvann, þaa skal Leigulidenn vera frij fyrer tveggia Ara Landskulld, og øllu Erfide. Verde þad oftar, þaa se Jordenn forbrotenn under Koong.

## 22.

Eingenn Landsdrottenn edur Foovete maa hallda fyrer Landsetunum þeim tilskickudu Bookum. Og skal Leigulidinn betala þessar Bækur tveimur Skylldijngum fyrer hvert Ark, og þari qvijtteraz fyrer serhvad sem golded er wtaf fyrer sig, og skal vid Leigulidann rigtugur Reiknijngur gioraz, um þad hvad hann ad undanfornu er skylldugur. Og nær nefndar Bækur eru wtskrifadar, skulu Bændunum adrar nyar med fyrrgreindu Verde i Tie laataz, og þarmed framhalldid verda Ar af Are. Gete Leigulide bevijsad ad hann hafe beded Landsdrottenn edur hanns Fullmegtugann, ef hann er sialfur utan Stiftes, annadhvort heima edur aa Þijnge, og hann hafe þo ei viliad faa honum sijna Book, og þar i giora vid hann Afreiknijng, þaa hafe same Landsdrottenn tapad þvij sem epterstood hiaa Leigulida bæde þad og fyrerfar[illegible]de Ar. Skyllde þad og finnaz, ad Landsdrottenn hafe giort Leigulida Orett i Afreiknijnge, þaa betale hann Leigulida þad aptur, og misse þaradauk jafnmiked af næstgialdande Landskulld, sem hann hafde rangtlega af Landsetanum dreged.

## 23.

Eingenn Landsete skal vera skylldugur til ad betala nockur Foodurnavt, Erfidespenijnga edur Þocknun, sem þeir aadur ei hafa Kooginum goldid, ei helldur þad sem aa fyrre Tijmum var af Amtmonnunum uppaalagt fyrer ferskann Mat, og annad Erfide til Koongsgardanna, nema so se ad Koongsinns Afhendijngarbref wtþryckelega tilnefne hvad gefaz skule fyrer Foodurnavt og Erfidespenijnga, edur og ad þad verde bevijsad med Atteste fraa Koongsinns Rentu-Camerse ad þad se sem onnur Landskulld Landsdrottne til Betalijngs reiknad edur wtlagt. Þo hvar þvijlijkt er ei Lands-

drottne tilreiknad, og finnz þo ei ad sijdur i gømlum Jardabookum, þaa skal þad framveges Kooonginum giallda. Enn þar sem nockur hefur løglegg rett til Foodurnavts og Erfides-penijnga, sem Leigulidar hafa af Alldødle golded, epter eldre Afhendijngarbrefum og Jardabookum enn fraa Arinu 1640. sem og soleides vid hvørs Leigulida Nafn fyrer sig aa ad finnaz teiknad, þar maa þo ei takaz meira af Lavp, Skippunde edur Spañe, eñ sextaan Skildijngar Danster, og Leigulidinn avngvanegen vera skyldugur ad foodra nockurt Navt, Kw edur Hest, ei heldur giora nockurt Erfide heldur vera frij þarfyrer, so vel sem fyrer Erfide til gamallra privilegeradva Høfudbola, ef hann byr lengra þarfraa enn tvær Mijlur, og bwe hañ innann tveggia Mijlna, maa hañ þo ecke med meira Erfide aaþyngiaz, enn veniulegt hefur vered.

## 24.

Eingenn Landsdrottenn hvør helst sem hann er, skal heimta edur taka meira af þeim sem eina Jord vill festa, enn i mesta Maata tiju Rigsdale af einum Skippunds Þunga, og fiñ Rdr. af eirnre Hwd, og af annare Voru epter sonnu Tiltolu. Þo hvar nockur serleg Hlunninde finnaz, maa takaz Þridiwnge meira enn sagdur Byggijngar-Taxte. Hvarimoot skal takaz minne Festa af einu Spañe vid Sioo og i ødrum adqvædalitlum Plaatsum, nefnel. einum Þridia Parte minna enn i aadurnefndum Taxta er tilskipad.

## 25.

Byggijngarbrefid skal skrifaz med Dege og Dato, og aa þañ þar til setta stimplada Pappir til tolf Skilldijnga danskra, aan þeß ad taka þarfyrer nockra Skrifarapenijnga, og þar i nafngreinaz Jardarinnar og Plaatsinns Asigkomulag vidvijkiande Landskuld og Taxta, samt Festu Upphæd, ef þad aa ad vera i nockru Gilde aa adrahvørja Sijduna, og skal þad upplesaz aa næsta Þijnge þarepter, ef þad skal koma þeim sem fester til Nota.

## 26.

Eingenn Landsdrottenn, sem hefur annann Aflagard vid þañ Stad, hvar hann byr, maa brwka meir enn eirn Aflagard, nema hann vilie af soddan nyum Aflagarde gialda tvøfalldann Skatt, og wtgiøra tvøfaldt fleira Foolk epter Gardsinns Tiltolu.

## 27.

Eingenn Landsdrottenn maa taka nockurt Fiskerie, edur ønnur Hluñinde fraa sijnum Landseta, sem þar hefur underleged, þaa hann bygg-

de

de Gardinn, nema Boondinn þad samþycke og þaa skal Landsdrottenn qvijtta þad epter Sannsyne i Landskulldinne, og sialfur svara þeim Þyngslum, sem liggia aa þvij sem fraa er teked, so miked sem þad kann ad stijga.

# 28.

Einne Leigulide uppaa nockurt nytt Fiskeri, þaa skal hañ faa Fullnægiu fyrer sitt Erfide, epter Sorenskrifaranns og sex Manna Tilsogn. Og vilie Landsdrottenn byggia nockrum slijkt nyfunded Fiskeri, þaa skal sa sem byr aa Jordinne standa nær til ad leya þad enn annar Framande, epter Sorenskrifaranns og sex Manna Alite, ef þeir foreinaz ecke sialfer þar um.

# 29.

Leigulide maa hvorke med Forlikun edur aa annann Haatt laata gaanga nockud undann þeim Garde sem hann fest hefur, þad sem þartil liggur; eñ kalle nockur annar þartil, þaa skal hann laata sinn Landsdrottenn þad vita, sem þar til skal af Mootpartinum loglega stefnaz og fyrerkallaz.

# 30.

Olum þeim Hwsum sem aa Jordinne voru, þaa Leigulide took hana, skal hann vid Magt hallda, þekia þaug vel, og hallda þeim Lekalausum. Hann skal vidhallda Torfe, Vindskeidum og Krookreftum, og skyla so ad ei komiz Slagregn ad Veggiunum. Se Hws so forvarad, þaa svare Abwande ei til þo Hws fwne af Elle. Enn laate hann þad fwna fyrer Vanrækt, þaa bygge hann annad i Stadinn. Hallde hann ei Hwsunum vid Lijde epter Logum, þaa betale hañ Ofanaalag, epter sex skilrijkra Manna Virdijngu, fyrer hvort Landsdrotteñ skal sialfur laata tilbærelega byggia edur endurbæta Hwsinn. Betale Boonde ecke þaa maa Landsdrottenn logfesta hanns Afla, og tiltaka Tijma nær hann skule giora Fullnustu. Betale hann enn þaa ecke, þaa maa Landsdrottenn laata virda so miked af hanns Afla, sem Hwsid edur Ofanaalagid er virdt fyrer, sem brwkaz skal til Gardsinns Byggijngar, sem sagt er. Take Fiallskeida Hws, edur feyke Vedur burt, þaa svarar ecke Leigulide þartil.

# 31.

Hvar eingenn Hws finnaz aa Jordunne, edur þaug eru fwnud nidur, þar skal Landsdrottenn sialfur laata byggia navdsynleg Hws, edur koma ser saman þarum vid Landsetañ. Enn þar sem Hws brenna af Vodaelde, medan Leigulide byr aa Jordinne, þaa aa Leigulide ad færa Tymbur og oll Tilfong ad Tooftinne til slijkra Hwsa, sem fyrr stoodu, enn Landsdrottenn skal kosta uppaa ad byggia þaug upp.

## 32.

Ef Landsete bygger Hws ꜳ Jørdu, sem hann ei var skylldugur til, og Landsdrottenn þo heimter fulla Landskulld, enn Landsete feck Tymbur og øll ønnur Tilefne i añars Manns Skøoge, og hwsade yfer Eydetooft, þar eckert Hws stood, þaa hann til Jardar kom, þaa skal hann, ef hann fer burt af Jørdinne, biooda Landsdrottne med tveimur Vottum, ad kavpa af ser Hwsid, epter sex skynsamra Manna Virdijngu. Vilie Landsdrotteñ ecke kavpa, þaa selie hann þad hvørium hann vill, edur hafe flutt þad burt innann Vor-Krossmessu. Se þad þaa ecke burtflutt, þaa behallde Landsdrottenn Hwsinu.

## 33.

Leigulide mꜳ avngvum leifa ad sꜳ Jørd sijna, utan Syne sijnum og Vinnumanne, sem ei hefur siꜳlfur Akur edur Enge; og ei þeim helldur, utann hann hafe Aflagsjørd, þad er, þad hann kañ missa ꜳn sijns Skada. Leife hann ødrum, edur breyte ꜳ annann Hꜳtt, þꜳ take Landsdrottenn allt þad ꜳ Jørdunne spratt, og þartil Landnꜳm af þeim sem sꜳde, edur brwkade Jørdina, og er Leigulide skylldugur ad betala þeim er hañ liede eins miked og Landsdrottenn tøok frꜳ honum.



## 34.

Skoog mꜳ Landsete brwka sem hann vidþarf til Eldevidar, Byggijngar-Tymburs og Gierda, og þarfyrer utan so miked Tymbur eda Trelest, sem svarar hanns hꜳlfre Landskulld, hvørt Landsdrottenn er næstur til ad kavpa framar ødrum, ef hann beidiz, fyrer so miked sem annar vill sannsyñelega gefa. Høggve Leigulide meira, þꜳ hafe hann þartil Leife og Samþycke, edur og gialde Landsdrottne Landnꜳm þarfyrer, og hafe forbroted til hanns þad hann hioo. Giøre hann so mikenn Usla, ad Doomarinn og ovidridner Løgrettumenn kunne ad dæma, ad Jørdin hafe þarmed merkelega skemd vered, þꜳ misse hann Jørdina.

## 35.

Næfur skal Leigulide ecke flꜳ til ad selia utan so miked sem hañ vidþarf, til ad kavpa navdsynlegt Salt fyrer til sijns Heimiles. Salt mꜳ hann ecke meira brenna, enn hann þarf til Hwssins, og ad kavpa Næfur med ꜳ Hwsin, utan hann hafe þavg Brennefavng, sem þartil brwkaz, med Landsdrottenns Leife, edur hann gete wtvegad þavg añarstadar ad.

## 36.

Tiøru

Tioru maa Leigulide ecke meire brenña, enn hann þarf til ad bræda med Baat sinn, ef Skoogurinn kann þar vid ad skemmaz; enn þar sem finnaz Stofnar og Rætur, maa hann brenna so miked þaraf sem faaz kann.

## 37.

Leigulide maa aungvum leifa aan Landsdrottenns Samþyckis ad hoggva i þeim Skooge, sem liggur under Jord hanns, meir enn þriu Hloß (þrennar Klifiar) Vidar, og tvo Hloß Skafs fyrer Fe sitt; en Landsdrottenn maa gefa Leife fyrer so miklu sem hann vill, þo so ad Leigulide lijde aungvann Skada þarvid moote Skilmaalum þeirra og Byggijngarbrefe.

## 38.

Faalkar og Havkar, þar þeir bygg-ia Hreidur, þar heira þeir þeim til sem Jord aa, þar þeir giora Hreidrid. Vilie hann selia þaa, skal hann fyrst biooda þaa Koonginum, edur hann selur þaa ødrum. Take nockur annar þaa, skile hann þeim aptur og gialde Landsdrotne Landnaam.

## 39.

Vilie nockur flytia sig fraa Jordu, edur segia lavsre þeirre hañ leigt hefur, þaa skal hann uppsegia henne fyrer Jool, ella behalde henne þad Ar wt, ef Landsdrottenn vill, og gialde þeß Ars Landskulld. Enn fare hann fraa Jordinne aan slijkrar Uppsagnar, þaa behalde Landsdrotteñ sialfur Jord sinne, og sa sem burtfoor, betale næsta Ars Landskulld.

## 40.

Sa sem skal flytia sig fraa nockre Jord, hann skal giora haalf Hwsin toom til fyrsta Fardags, sem er sa þrettaande Dagur ad lidiñe Joola Haat:jd, og behalda haalfum Hwsunum, þartil hann tekur ser adra Jord aa næsta Vore, og eirn Maanud epter þad hann hefur ser adra Jord teked. Take hann ser ecke adra Jord, þaa behalde hann haalfum Hwsunum til Tiburtii Messu, þann 14. Aprilis. Enn faae hann hvørge Jord, so hann verdur Jardnædislavs, þaa behalde hann Fioordwnge Hwsanna til Kroßmessu þann 3. Maii. Sa sem til Jardar fer epter hann, skal taka med ser tvo Menn og biooda honum ad skipta Hwsum med ser, og skulu þeir aqveda Tijma til ad skifta. Vilie hann þaa ecke, þaa skal nefna til tvo af Grønnum hanns ad skipta og kasta Hlutfalle aa Hws þeirra aa millum. Halde hann þeim þarepter, þaa skal hann bæta þeim sem til Jardar aa ad fara, eitt Lood Silfurs, og laata þo Hwsin strax lavs. Vilie hañ ecke þvij svara, þaa maa hinn annar sækia hañ þarum sem adra Vitaskulld.

Þar þeir hafa skipt Hwsum, rædur hvor sijnum Hlut.

## 41.

Nær madur flytur, skal hañ lææta allar Dyr standa med Skræm sem Naglfastar eru, Hiorum, Heskpum, Skorsteinsjæærnum og ødru Jææruverke sem Jordinne fylger. Sømuleides ogso Bord, Becke og Naglfost Rwm, epter þvij sem Uppbootin wtkrefur. Fære hann nockud ædur-skrifad burtu, þæ betale hann Landsdrottne Landnææm, og fære þad tilbaka aptur; og bæte til Koongs eitt Lood Silfurs. Enn brioote hann nockud sem saman er groopad, þæ bæte hann þad aptur, og betale eitt Lood Slifurs, hæælft Koonge og hææ[l]ft Jardeiganda. Fyrer allt þad er ææ-lited verdur fyrer Hwsbroot, skal gialda eitt Lood Silfurs Koonge, samt betala Landnææm til Landsdrottenns, og Hwsin gioraz jafngod aptur, sem þavg ædur voru. Nær hanns Landskulld er goldenn, þæ mæ hann epter fyrsta Fardag færa med ser Hey sitt, Korn og allt Bwsgagn. Hañ mæ og flytia burt Vidarkost siñ, Hææm og Hiææmsteingur, og allt þad sem ecke er samangroopad edur naglfast vid Bieelka edur Fialer. Somuleides Efnevid sinn. Hafe hañ nockud plantad i Kææigordum, þæ skal þad vera burtflutt innann Kroßmessu um Vored þann 3. Maji. Enn þad sem finnz æ Jordinne epter sijdasta Fardag heyrer Landsdrottne til, utan hann hafe fært þad til Siææfar, edur æ Mork Utangards, so ad þvij hvorke er eked yfer Akur ne Enge, nær þad er burtflutt, og hafe fært þad burt Botolfs Meßu þann 17. Junii. Ligge þad lengur, þæ heyrer þad Landsdrottne til.

## 42.

Sæ sem sig burtflytur skal lææta fioorda Part Jardar liggia osæædann og tiltrodenn, ad Fenadur kunne þar æ ad gææ[n]ga. Skal og allt Vetrartad leggiaz æ þæ Jord, sem ei er æbored, utan þeirrar einu Næturmykia, þæ hann ad Morgne fer af Jordinne. Se Taded troded, þæ skal þad beraz þar æ sem mest er Þorf til, sem hann vill sanna med Eide, ef Landsdrottenn mistrwer honum. Vilie hann ecke sveria, þæ betale hann þann Skada, sem þaraf fylger epter Sorenskrifaranns og sex skynsamra Manna Doome, ef hann hefur oloeglega breytt. Kyrlagsmykia, þad er so miked sem ein Kyr tedur æ Vetre, skal leggiaz æ hvort hææfft Pund Sædes, edur Landsdrottne gialdaz eitt Qvintin Silfurs, ef æbrestur. Hafe hann sææd Vetrar Rwge, þar sem Akur er, og fare hann fræ Jordunne, þæ fær hann þar eckert af. Hafe hann broted upp Enge Utangards, og sææd þari, þæ fær hann sitt Sædeskorn aptur. Enn hafe hann broted upp Utangards, og

girdt

girdt um, þaa hafe hann hœlft, og hœlft sœ til Jardar kemur.

## 43.

Lœte hann Gerde liggia i Eyde fim̃ Fadma lœngt edur meira, þaa skal hann giora þad so gott aptur sem þad aa ad vera, og gialde Landsdrottne Landnœam. Se þad swed edur i Eyde tiju Fadma lœngt edur meira, þaa betale hann eitt Lood Silfurs til Landsdrottenus, og endurbœte Gerdid. Eñ af Trodnijngs-Gerde, þad er þad sem stendur krijngum þaa Jord sem ei er sœd i, maa hann ecke lœata meira i Eyde vera enn Hœalfpartinn, þvij annars skal hann bœta aptur, og betala Landsdrottne Landnœam.

## 44.

Deye Leigulide edur verde wtlœgur og fridlavs, og sege Landsdrottenn ad þeß Ars Landskulld se ogoldeñ, þaa skulu hanns Erfingiar bevijsa, ad bœde Landskuld og Uppboot se betolud. Gete þeir þad ei, þaa betale þeir þad sem epterstendur.

# XV. Cap.

# Um Rudnijng.

## I. Art.

Aller skulu vera skylduger til ad ridia þaa Jord, sem þeir aa bwa, hvar hagkvœmt er til Sœdes og Engia, og Abate kann af ad faaz; og skal Sorenskrifarinn og Boonda-Lensmadurinn, edur ad minsta Koste annar þeirra med tveimur løgvitrum og ovidridnum Løgrettumonnum i hvorre Sveit, edur tveimur odrum dugandis Monnum, sem siaalfer hafa Lyst til Rudnijngs og Yrkijngar, einu Sinne hvort Ar, yfersiaa allra Jarda Landareigner, og ei alleina epterlijta og yferrega, hvada-Hentugleike þar kañ ad vera til Rioodurs, helldur og hid skilvijslegasta og rettsynasta, afmœla hvorium Boonda sitt vijst Plaatz, sem Boondinn sama Ar skal ridia, jafna og slett giora, og undereins roothøggva og upprycka Rootunum rett i Grunn, hvort helldur tilforna hafa vered gamler Rwgbrotar, edur þad eru adrer nylega upptekner Stader, og strax þarepter laata þarum gaanga Ploog og Spada, ad þad sem fyrst kunne ad verda Akur edur Enge. Og skulu fyrrskrifader Skodunarmeñ epter Asigkomulagsins grandgœfelegustu Yfervegun mœla Bœndunum wt Plaatz sumstadar til hœalfs Fioordwngs Sœdes, sumstadar til heils edur hœalfs annars, sumstadar til Hœalftunnu Sœdes, og eckert meira. Og skal hvør sœ sem þetta Rudnijngarverk forsoomar aan løglegra Orsaka, sosem Siwkdooms, Fœatœktar, edur þeßkonar, hafa til Straffs forbroted so miked af sinne fyrre Leigumœala-

mœlajørd, sem sw Jord, er hønum fyrerlagt var ad rydia og yrkia, er taxerad og sett fyrer. Hvorn Part Jardarinnar hann skal ad nyu leigia af Landsdrottne.

## 2.

Þar sem fleire eiga saman þad Plaatz sem rydiaz a, so þad er Sameignarjørd Innanngards edur utan, og sa eine þeirra sem a bwa, ecke kann ad komaz til ad rydia fyrer hinum ødrum, sem forsoomunarsamur er, og Jordin þeßvegna liggur aldeiles orudd og fordiorfud, þa skal þeim þeirra sem rydia vill, afmælaz i þessare Sameignar Mørk edur Jord, so miked Plaatz med Friaalsu, sem hønum ber ad tilleggiaz, epter hans Jardar og Landskulldar Upphæd, og stande hønum frytt fyrer ad girda um, þa hann vill. Skodunar og Tilsioonarmennerner skulu og aarlega skoda þavg umgetnu wtvijsudu Plaatz, og finnez med Røkum Forsoomun þeirra sem rydia skulu, gefa þad strax hvors eins Yfervallde edur Landsdrottne tilkynna, og skulu somu Skodunarmenn niota sameigenlega fyrer sitt Omak, Kostgæfne og Trwskap, Helmings moote Landsdrottne af þeim Leigumaala-penijngum sem fyrer soddan Forsoomun verda forbrotner.

## 3.

Tilsioonarmønnunum skulu og i sama Maata wtvijsaz Plaatz til ad rydia, af ødrunt ovidridnum Skodunarmønnum.

## 4.

Ræturnar skulu ei eijnasta upprykkiaz fra Grunne a soddan Rudnijngarplaatsum, helldur og bæde Rætur, Boler, og Greiner aldeiles burtføraz wr þeim Stad, strax þar epter a sama Are, edur næsta Ar i þad seinasta. Ef þad skedur ecke, þa bæte Koonge fyrer serhvors Tres Leifar sex Skylldijnga Danska.

## 5.

Nær Plaatsid er þannig rudt, þa skal þvij og so alltijd vera halded vid Lijde, og Bwkunum, sem aptur uppkoma og eru til Skada, verda burtrudt. Se þvij ei tilbærelega vidhallded, og þetta framqvæmt nær Abwandinn þar um af Tilsioonarmønnunum aaminntur verdur, þa bæte Koonge fyrer Forsoomun sijna eitt Lood Silfurs og fullnægie þo þari Skildu sinne.

## 6.

Abwendurner meiga behallda þeim Plaatsum, sem þannig rudd og yrkt eru, sijna Lijfstijd, an Jardarinnar Afgialds Upphæckunar framar enn var aadur enn þeir byriudu ad rydia. Og sijdan seu þeirra Erfingiar

iar næster til ad festa þavg. Eñ deye Abwendurner edur enn sex Ar eru wte, þa nioote Erfingiarner Plaatsinns frij, þad sem epter er af þeim sex Arum.

## 7.

Koongsinns Foovetar skulu under tilbærelegt Strass, hafa kostgæfelega Tilsioon ad Skoodunarmennerner hage sier epter þvij sem ad undanfornu sagt er, og ad serhvor halde vid Lijde, þvij sem honum er tilvijsad; Somuleides ad somu Jarder setiz til Landskuldar og Leidijngar a loglegum Tijma sem sagt er.

## 8.

So framt nockur, fyrer utan þad Plaaz, sem honum wtmælt verda vill rydia i Uthogum til Fiarbeitar edur Navtagavngu, þa maa þad leifaz ad rydiaz og upphoggvast a veniulegann Haatt, soleides ad nockrer Stofnar stande epter. Þo eiga somu Stofnar sinaamsaman ad burtrydiaz, so miked sem mogulegt er, og hentuglegast ske kann. J Selstodum maa ei rydia, helldur eiga þær ad þiena Jordunum til Fiarbeitar, sem fraa Alldodle hefur vered. Eñ med Plaatz sem i Almennijnge kunna ad rydiaz, hvar Sel eru ecke, skal haldaz epter fioorda Art. hinns tolfta Cap. i þeisare Book.

# XVI. Cap.

# Um Vege.

## I. Art.

Ad hvorium By eiga med rettu ad vera so marger Veger sem vidþarf.

## 2.

Hvør sem Almennijngs Veg, þann ollum er leifdur, bannar, tillykiar, umbreiter edur spiller med Grefte edur Plægijngu, sem til Stadar, Kyrkiu, Þijngs, Siofar, Vatns, Mylnu, edur Skoogar lagdur er, legge Veginn wt aptur, og giore hann so greidan, sem adur var, og þar fyrer utan sekiz þremur Loodum Silfurs.

## 3.

Annars skal halldaz med Vege i allañ Maata epter Politi-Ordunne.

# XVII. Cap.

# Um Vopn sem serhvør a ad eiga,

og

# og um Vidar- vørdu.

## I. Art.

Hvor bwsitiande Boonde, skal eiga eina duganlega længa Byssu, med stooru Hlaupe, og navdsynlegt Pwdur og Hogl, eirnenn vænann Korda og eina Oxe, ad undanteknum þeim sem sitia æ Fioordwngs-Jordum, edur Eydejordum, hvorier ef þeir ecke eiga Byssu, skulu hafa goodann Arngeir edur Spioot med Jærnspavngum æ, og vænann Korda. Strandsitiarar, sem hafa Efne þartil, skulu hafa Vopn sem Bændur þeir er bwa æ Jordum. Eñ hafe þeir ecke so mikel Efne, þæ hafe þeir Vopn, sem sagt er um Fioordwngs-Jarder. Hwsmenn og Viñupiltar, sem þiena fyrer full Lavn, skulu hafa eirn Halfatgeir, edur Spioot og eina Handoxe. Hvorn sem brestur nockurt af þessum Vopnum, gialde Koonge eitt Lood Silfurs fyrer hvort sem hann vantar, og wtvege ser þo Vopnid ei ad sijdur.

## 2.

Koongsinns Umbodsmeñ skulu einu Sinne æ Are i hvorre Þijngsookn tilsiæ ad hvor Boonde hafe sijn Vopn tilbwenn epter Logunum, og gefe þeim ædur loglega Advorun, ad hvor eirn skule vera til stadenns med þavg Vopn, sem hann hefur fyrer Jord sinne. Og se nockur siwkur, edur burtreistur, þæ skal Vinnumadur hanns bera fram Vopn hanns. Enn se Einvirke siwkur, sem ei helldur Vinnumann, þæ kalle hann til sijn Naabwa sijna, og læte þæ siæ Vopn sijn og bera Vitne þarum. Finniz nockur ad feinged hafe til Laans þavg Vopn sem hañ þar framber, þæ eru þavg forbroteñ til Koongsinns, og sæ sem þavg ad Laane feck, bæte fyrer þavg Vopn sem hann vantar, sem ædur er sagt.

## 3.

Þavg Vopn sem eirn Boonde æ ad hafa fyrer Jord sinne, mæ hann ecke selia edur pantsetia, nie burtliæ. Ei heldur meiga þavg fræ honum i Pant takaz edur virdaz; ef þad skedur, þæ se þad ogilldt.

## 4.

Koongsinns Umbodsmadur skal læta tilsegia Bændunum ad hafa Vidvordur tilbwnar æ þeim Stødum, sem þær af Alldsdle vered hafa. Bændur sem bwa i næstu Sookn vid Vidvordur, skulu byggia þær, og þar hiæ Vorduhws med Þake yfer og fioorum Dyrum æ hvoriu Hwse. Hvor sem tilsagt er ad byggia Vidvordur, og þad forsoomar, gialde Koonge tvo Lood Silfurs, og giore þo

þo sijnum Parte Fullnustu. Med Vakt og annad Skick, sem Vidarvordunum vidvijkur, skal serhvor haga ser sem i Strijdstijd verdur tilskipad.

# XVIII. Cap.

# Um Hioonaband.

## I. Art.

Hvor Konu vill eiga bidie hennar af hennar Foreldrum edur rettum Forsvarsmanne, þo med hennar Jaayrde og Vilia.

## 2.

Enn gifte hwn sig utann þeß Vilia, sem epter Logum er hennar rettur Forsvarsmadur, þaa rædur hann fyrer hennar Gootse, medan hwn lifer, ef hann vill.

## 3.

Heimugleg Trwlofun skal ei haldaz, sem sked er aan Foreldra Vilia edur þeirra sem eru retter Forsvarsmenn ad Logum. Þo ef Foreldrar edur Forsvarsmenn hafa avngva skilvijslega edur logmæta Orsok þad ad hindra, skal þeirra Forbod, edur hvor Hindran sem þeir þari vilia giora eckert gilda.

## 4.

Halde Forsvarsmadur nockurre Mey, epter þad hwn er aatiaan Vetra, ogiftre hiaa ser, ser sioalfum til Abata, ef henne bydz haggvæm Giftijng, þaa meiga adrer hennar Frændur og Viner klaga þad fyrer Yfervalldinu, sem þari skal giora hvad rett og sannsynelegt er.

## 5.

Sw Trwlofun skal ecke halldaz, sem skedur i Dryckiuskap, edur aa nockurs omyndugum Alldre, sem aalitaz skal aa Kallmanne aadur enn hann er full twijtugur, og aa Kvennmanne aadur hwn er fullra sextaan Ara. Ei helldur ef eirn er ecke Heilvita.

## 6.

Ei skulu helldur agtaz edur gild aalijtaz þavg heimugleg Egenord edur Trwlofunarbref, sem eitt gefur odru.

## 7.

Lofe nockur Egtamadur edur Egtakvinna, medan þavg lifa i Hioonabande, ad egta nockurn, þaa skulu þavg sem soddan Lofaner giora, edur skriflegar gefa, sovel sem þeir er þær taka, standa openberar Skrifter og straffaz epter Efnum, ef þavg Fe hafa; Enn ef ecke, þaa skal Mannspersoonan straffaz nockra stund i Jaarnum

um, og Kvensniftin med Spinnehwsinu.

## 8.

Eige Egtamadur medan hann er i Hioonabande Barn med eirnre Kvennpersoonu, þaa maa hann ei, nær hanns Egtaqvinna er dæinn, iñgaanga Egtaſkap med þeirre ſem hañ aatte Barn med. Ei helldur ein Egtaqvinna, ſem teked hefur framhiaa Manne ſijnum, giftaz epter Dauda Manns ſijns þeim ſem hwn took framhiaa med.

## 9.

### Perſónur ſem vegna Skildugleika og Mægda ei meiga egtaz.

1.) Forelldrar og þeirra Born, ſo og þeir ſem eru i Foreldra ſtad, og þeir ſem eru i Barna ſtad, meiga hvorke nærre ne fiærre inngaanga ſin aa mille Egtaſkap. Forelldrar eru Fader og Mooder. Born eru Sonur og Dotter. J Forelldra ſtad eru aller Forfedur, og Foreldra og Forfedra Syſtkyn fraa Olldwnge til Olldwngs, hvorſu laangt ſem naa kann uppepter. J Barna ſtad eru Barna Born og þeirra Born nidurepter hvorſu laangt ſem þad kann nidur ad ſtijga.

2.) Brædur og Syſtur meiga ei koma ſaman i Egtaſkap, hvort ſem þaug eru Al- edur Haalf-Syſtkyn. Brooder maa ei helldur taka til egta Syſtur- edur Broodur-Dottur, ei helldur nockurn þeirra ſem af Broodur- edur Syſtur-Bornum eru komner, hvorſu laangt nidur ſem þad naa kann. Ei helldur maa Syſter faa til Egta ſinn Broodur- edur Syſtur-Son, ei helldur nockurn ſem af þeim er komenn, hvorſu vijdt ſem þad kañ ad naa nidur epter.

3.) Þeir ſem i annann og þridia Lid eru ſkyllder, þad er Syſtkynaborn og odrum og þridia. Item ef þad eina er i annann, og hitt annad i fioorda Lid, meiga ecke egtaz. Eñ þeir ſem eru i fioorda Lid, ſo og ef ſu eina Perſoonann er i þridia og hin oñur i fioorda Lid, meiga eigaz.

4.) Kallmadur ſkal ſo vel hallda ſer fraa Skildfoolke Konu ſinnar ſem ſijnu eigenn; og ein Kona ſkal ſo vel hallda ſer fraa ſins Manns Ættingum, ſem ſijnum eigen; Þvij ſo ſem eirn maa ecke taka til Egta ſijna eigen Syſtur, ſo maa hañ ei heldur egta Syſtur Konu ſiñar, og ſo ſem ein Kona maa ecke egta Broodur ſinn, ſo maa hwn ei helldur egta Broodur Manns ſijns, og ſo framveges. Og ſkal þarhiaa adgiætaz, ad Mægder ſem Hioonaband hindra, aalijtaz ecke vijdara, enn aamille eins Manns og allra hanns Kvinnu Ættijngia, og aa mille eirnrar Kvinnu, og allra hennar Manns Ættijngia, og ecke medal Mannſins og Kvinnunnar Ættingia

Inn-

Jnbyrdes. Hvarfyrer Manns og Kvinnu Ættijngium ecke er fyrerboded, sokum Mægda ad ĩgaanga Hioonaband. So meiga þaa tveir Brædur eiga tvær Systur. Fader og Sonur meiga eiga Moodur og Dottur, og eirn Madur maa egta sinnar Stiwpmoodur Moodur edur Doottur, og so fram̃vegis.

5.) Eirn Madur maa ecke egta Skylldmenne Konu sinnar, edur Kona Skylldmenne Manns sijns i ødrum edur þridia Lid, epter þad ad Madurinn edur Konan er daainn. Eñ i fioorda edur þridia og fioorda Lid maa þad ske. J sama Maata skal og haldaz, ef nockur fellur i Barneign, med Kvenmanne þott ei seu þavg Egtahioon, ef annad þeirra vill þarepter giftaz, þaa maa hvorke hann egta hennar ne hwn hanns Skylldmenne i annañ edur þridia Lid.

6) Eingenn Kallmadur maa taka til egta sijns Stiwpfødurs Eckiu, edur Kvennpersoona sinnar Stiwpmoodur Eckiumann, med þvij slijkt ecke einasta mootstrijder almenneligre Sidprydε, helldur og er til stoors Hneixles. J sama Maata maa eirn Kallmadur ecke taka til egta sijns Stiwpsonar Eckiu, edur Kona sinnar Stiwpdoottur Eckiumann.

7.) Kome annars overitande saman i Hioonaband nockrer i þessum forbodnu Lidum, sosem Systkynaborn og adrer, þaa skulu þavg þarfyrer hvorke med Doome adskiliaz, ne straffaz. Enn ef nockur forser sig herimoote vijsvitande, þaa skulu þavg straffaz epter Efnum, og ryme þad Amt sem þavg bwa i.

8.) Vijke nockur burt af Rijkiunum, til ad laata sig innvijga i Hioonaband sem annars være i Koongsiñs Rijkium epter Løgum oleifelegt, og sijdann gefur sig aptur inni Rijkin edur setur sig þar nidur. þaa skulu þavg ei alleina straffaz aa Fiaarmunum sijnum, helldur og eirnin sem Laganna underforuler Yfertrodarar, ecke meiga uppehalda ser i Koongsinns Rijkium.

# 10.

Þær Persoonur sem ecke eru i Ranginum edur af Adle, edur jafnar Adle ad Virdijngum, og vilia inngaanga Hioonaband, skulu fyrst trwlofaz og sijdan fyrer Brullavpid laata lysa þrisvar Sinnum med ser i þria Sunnudaga hvørn epter annann opinberlega af Predikunarstoolnum i þeirre Sookn hvar Festarmeyin edur Konann aa heima, uppaa þad, ad se nockur sem slijkt Hioonaband kann ad Løgum ad hindra, gete hann þad aa medan ransakad, aadur enn Hioonabandid fullgioriz. Þarfyrer hafe nockur þar aa moote edur vilie giora Forbood aa Hioonabandinu, þaa skal hañ aadur enn lyst er i þridia Sinne, gefa þad Sooknarprestinum til kynna i tveigga-

tveggia edur þriggia Dannumanna Nälægd, og vera skyldugur til ad taka strax Stefnu, hvarfyrer hañ edur hwn vilie Hioonabandid hindra. Se þad ei giort, skal sama Forbod edur Hindrun eckert gilda, ne agtaz hvad hann þarepter vill giora.

# 11.

Eingenn Trwlofun skal ske, ään þeß ad Presturinn og fim̃ adrer Vottar ad minsta Koste seu þar vidstadder. Þo skal medal þeirra sem er i Ranginum (hafa Hä-Embætte) edur af Adle, edur og þeirra sem Adle eru jafner ad Virdijngum, halldaz fyrer fullkomna Egtaskapar Losun, þegar hvorutveggiu i Närveru sex Manna af beggia Vinum, heiter hvort ødru Egenorde, og gefur hvort ødru fullkomid Jaayrde.

# 12.

Þavg sem soleides eru trwlofud, edur hafa hvort ødru heited Egenorde, meiga þo ei i eina Säng stiiga fyrr enn þavg eru saman vijgd i Kirkiunne. Hvor sem dirfiz her i moote ad giora, skal straffaz af sijnu Yfervalde, nær þavg af Prestinum hafa äminnt vered; og ef þavg framfara i vondum Lifnade og undandraga ad lata sig i Kirkiunne samannvigia, þa skal Sooknarpresturinn setia þeim fyrer vissann Tijma; og ef þavg ecke in̄ann þeß Tijma läta vijgia sig saman, skal hann openberlega vijsa þeim fra Altaresins Sacramente. Og vilie þavg enn ecke betra sig, þa skulu þavg fyrer soddan Hneixle openberlega bañfæraz.

# 13.

Fäae Presturinn Forbod ädur enn Trwlofunin skedur, þa skal hañ hallda ser þar fra, og sa sem Forbodid giorer vera skyldugur strax ad taka Stefnu sosem ädur er sagt þarum, ef nockur vill giora Forbod fyrer Brullavpid.

# 14.

## Orsaker, hvarfyrer trúlofadar Persónur meiga adskiliaz.

1.) Sw Trwlofun sem eirn neydiz til, ä ecke ad halldaz, so framt þad verdur til kynna gefed fyrer Festar. Enn ad segia þarepter, ad madur hafe neyddur vered, skal ecke gilda.

2.) Ef nockur fester eina Mey, og þad sijdan finnz ad hwn hafe krenkt vered af ødrum, þa ma hann skilia sig vid hana, vilie hann ei taka hana i Sätt. Og vilie sa fyrre, sem hana krenkt hafde, taka hana til egta, þa ma þad leifaz.

3.) Ef onnurhvor þeirra trwlofudu Persoona forser sig, so ad annadhvort hann verdur brotlegur med nockrum ødrum Kvennmanne, edur hwn med ødrum Kallmanne, þa

meiga

mega þavg og vera lavs hvort vid annad; nema sw Persoonan sem saklavs er, vilie taka i Saatt þær seku. Enn verde þavg bæde brotleg, skal þeim ecke leifaz, ad egta þaa Persoonu sem þavg forsaau sig med, vegna þeß Hneixles sem þar af kynne ad fylgia; helldur skulu þavg straffaz med twofolldum Legordsbootum.

4.) Ef nockur trwlofar sig eirnre, og liggur med henne, og þarepter trwlofaz annare, og aa Barn med heñe, þaa skal hann gialda þrennar Legordsbætur, og hvorugre behallda; Og saa Prestur, sem giorde hina sijdare Trwlofun, og ecke adgætte þad sem aadur er sagt um Trwlofun, skal straffaz med Penijnga Utlaatum til saatækra Presta Eckna, epter Stift-Amtmanns og Biskups Tilsogn.

5.) Ef nockur, epter þad Trwlofun er sked, fer burt fraa sinne Festarmey, og er lenge henne fiarlægur moote hennar Vilia og Samþycke, þaa maa hwn epter þriw Ar gifta sig odrum, se Festarmadurinn ecke af loglegum Forfollum hindradur. Sama er og ef Festarmey fer burt fraa sijnum Festarmanne, þo skal þad fyrst bevijsaz ad Persoonan hafe so lenge burtu vered.

6.) Ef onnurhvor Personan forser sig epter Trwlofun med Hoofnade edur odrum oærlegum Misgiorningje, sem þo ei forþienar Lijfstraff, þaa maa sw Saklavsa vera frij fraa hinne Seku, ef hwn þeß beidiz.

7.) Hafe nockur fyrer Trwlofunina haft eirn leynelegann Siwkdoom so sem Spitelsku, Nidurfallssoott, edur nockurn annann þvijlijkañ næmann og vidbioodslegann Veikleika, og hann sama ecke openberad, þaa maa hann eda hwn vera lavs hvort vid annad, ef þavg vilia. Eñ falle þeim til soddann Siwkdoomur edur annad Krankdæme epter Trwlofunina, þaa skal aqvedaz nockur Tijme, ad Raada verde leitad þeim Siwka til Hialpar. Verde þad ecke, maa Trwlofunin uppsegiaz, ef þeß er oskad.

8.) Ef eitt trwlofaz odru, og annad þeirra epter Trwlofunina reyniz ecke so rijkt, sem þad hafde sagt sig, og hitt fyrer þaa Orsok vill onyta Trwlofunina, og ecke halda hana, þaa meiga þavg þarfyrer ecke adskiliaz.

## 15.

### Orsaker hvarfyrer Egtahión meiga adskiliaz.

1.) Hoordoomur. Þo skal sw Persoonan, sem klagar, loglega stefna þeirre sem klogud er, fyrer Rett, og þad skilvijslega bevijsa. Og er þad ecke noog, ad sw klagada Persoona medkenne þad sialf, þvij þad er margreint ad menn liwga aa sialfa sig, so hvort gete skilid vid annad, og til ad giora þeim Mein, sem hann eda hwn segiz

iz hafa synndgad med, edur fyrer adra Søk. Her hiaa skal Doomarinn proofa 1.) Hvort Persoonann sem klagar, er Syknsaka, þvij sianez hwn sek i sama Maata, þaa eiga þavg ecke ad adskiliaz, med þvij hvort þeirra sem i þañ Maata vill ødru Søk gefa, hlytur sialfst saklavst ad vera. Enn efønnur Persoonann lagfæriz og betrar sig, enn hin ecke, so þad bevijsanlega finniz, þaa maa sw sem sig betrar, ad Vijsu skilia vid hina sem aafram helldur i sijnu syndsamlega Liferne. 2.) Skal og grandgæfelega ransakaz, hvort annadhvort þeirra hafe gefed ødru Oesok til soddann Yfersioonar med Hoorurie og Hardydge edur i aunann Maata, sem Doomarinn kann ad aalijta ad se full Orsøk til soddan Falls, þaa eiga þavg ecke avdvelldlega ad skilia. 3.) Ef einnre Oaanumanns Hwstru verdur navdgad, þaa ber henne ecke fyrer soddan Navdgun ad skiliaz fraa sijnum Egtamanne, þvij saa aa ecke ad straffaz, sem Orett lijdur, helldur hiñ sem Orett giorer. 4.) Sænge Madurinn med Konu sinne epter þad hwn er uppvijs ad Hoordoome, þaa hefur hann þarmed fyrergiort Tiltale til hennar; Enn missiaae hwn sig i annad Sinn, og hañ helldur sig þaa fraa henne, þaa maa hañ þad kiæra og skilia so vid hana, og maa hwn ecke giftaz aptur aan Koongsinns serlegrar Tillaatseme, og þad ad lidnum þremur Arum; og skal hwn þaa hafa aa Hondum skylavsann Vitnisburd, ad hwn um þañ Tijma hafe hagad ser ærlega og christelega. Þo maa hwn ecke gifta sig, edur vera bwsitiande i þeirre Sookn, Herade edur By, sem sw oseka Persoona er bwande i. Sama er og ef Konan finnur Mañ siñ i Hoordoome. Þeirre oseku Persoonu er i sialfræde ad gefa sig strax i annad Hioonaband, nær þavg eru med Doome adskilinn.

2.) Desertio, nær annad Hiooñaña aan nockear tilbærelegrar Orsakar, edur hinns annars Samþyckes, yfergefur þad og fer burt. Og skal aa þennann Haatt þar med hondla. 1.) Sw Persoonañ sem yfergefenn er, skal bijda hinnar ad minnsta Koste i þriw Ar, utan so se, ad aanægianlega verde bevijsad, ad sw Persoona sem burt er vikenn, hallde vid nockra adra, þaa maa þeirre sem yfergefenn er, strax leifaz ad giftaz, epter þad slijkt er bevijsad. Eñ ad þeim þremur Arum lidnum, þaa skal sw yfergefna Persoona stefna hinne fyrst til Heimaþijngs, og sijdan til Landsþijngs, og færa þad bevijsad fyrer Consistorium. Þar næst skal hwn hafa sinn Vitnisburd skriflegann fraa sijnum Sooknarpreste og Sooknarfolks Skirteine, sem takaz skal

æ Þijnge, ad sw onnur Persoonan hafe fiarlæg vered i þriw Ar, og ad hin yfergefna hafe æ medan lifad og hagad ser vel og ærlega, og ecke gefed hinne burthlavpnu neina skilvijslega Burtferdar Orsok. Og nær alt þetta er þannenn loglega bevijsad, mæ þeirre yfergefnu Persoonu leifaz ad gifta sig ad nyu. 2.) Vere so til, ad sw forlæatna Persona missimæ sig ædur enn þavg þriw Ar eru wte, þæ skal hwn tilbærelega straffaz af sijnu Yfervallde þo ecke fyrerbioodaz ad gifta sig utañ þeirre Persoonu sem hwn hefur orded brotleg med. 3. Ef eirn Madur fer i Strijd, edur til Kavphondlunar, og fyrer þæ Sok verdur lengur burt, þæ skal hañ ecke ælijtaz sem Desertor (burtstrokenn) helldur skal Konann bijda epter honum ad minnsta Koste i sio Ar. 4.) Se þad og sannspurt ad hann se fæangenn, edur i annann Mæata hindradur ad Ovilia sijnum, þæ skal hwn fortakslavst bijda hanns, og ecke giftaz nockrum odrum. 5.) Hafe menn Vitnesburd þarum ad eirn Madur se dæemn, amadhvort i Strijde, edur odruvijs, þæ skulu þeir Vitnesburder yferheiraz af tilhlydelegum Doomurum, hvort þeir seu trwverduger, og þar takaz skrifleger, og sijdann skal sw Persbona, sem giftaz vill, færa somu Vitnesburde inn fyrer Consistorium (þañ andlega Rett) og þar bevijsa sijna skickanlega Breytne, og sijdan mæ henne epterlæataz ad gifta sig. Enn ef nockrar Persoonur dirfaz ad samreckia hvort med odru ædur enn Doomur er loglega geinginn i Consistorio, þæ skulu þær þarfyrer straffaz af sijnu Yfervallde. 6.) Vere so til, nær ein Kona þannig hefur giftz odrum Manne ad gengnum Doome, ad hennar fyrre Madur aptur kome og krefiz Konu sinnar til sijn, þæ ber honum ad hafa trwanlegann Vitnesburd med ser, ad hann hafe ser æ medan tilbærelega hegdad, og ecke med neinne annare brotlegur orded, edur honum skal tilsegiaz, ad wtvega soddan Vitnesburd hiæ þeim sem hann hefur med vered. Og þegar hann hefur þad bevijsad, skal Konann skilia vid hinn Manninn, og fara aptur til hinns fyrre.

3.) Impotentia; Nær eirn er til Hioonabands oduganlegur. Þo skal þeirre Persoonu, sem ad þessum Breste verdur fundenn, epterlæataz þriggia Ara Tijme til Rædaleitunar, ef honum kynne æ þeim Tijma ad verda vidhialpad, hafe hañ þann Brest haft fyrer Brullavpid. Enn fæe hann þæ avngva Boot þaræ, þæ mæ ske Adskilnadur þeirra æmille. Enn hafe honum þesse Brestur tilviliad epter ad hann giftiz, þæ skulu þavg lijda þad sem annann Kroßburd, sem Egtahioonum kann til ad falla.

## 16.

### Ymislegt Tilfelle i Egtaskap.

1.) Ef Madur edur Kona, sem egengift er, fellur i Barneign med hanns edur hennar Broodur, Systur, edur næsta Skylldmenne, sem er imoote Guds Løgum, og hønum edur henne verdur fyrer serlega Orsøk Lijf gefid; þaa meiga þaug (ↄ: Hioonin) saman vera, nema so se, ad hid saklausa oske Skilnadar vid þad sem sig i slijkann Maata hefur missed.

2.) Ef sa sem Festarmey hefur, tekur ser adra til Egta, þaa, so framt hann hefur nockra frekare Umgengne haft vid sijna Festarmey, ber hønum ad yfergefa hina, og behallda þeirre fyrre, ef hwn vill. Enn se hann aa þañ Maata saklaus, þaa skal hann blijfa vid hina adra, hafe hwn ecke vitad ad hann var trwlofadur hinne fyrre, þegar hwn giftiz hønum. Enn hafe hwn vitad þad, þaa skal hann yfergefa þessa, og blijfa vid þaa fyrre, ef hwn þeß oskar. Oske hwn þeß ecke, þaa skal hann behalda hinne, med þvij hann vel visse, ad hann var aadur trwlofadur. Og han sem sig med þessu Moote misser, skal straffaz þarfyrer af Yfervalldinu med frekustu Fiaarwtlaatum.

3.) Ef Boonde edur Hwsfreya falla i nockurn banvænann Siwkdoom, sosem Lijkþraa, edur þeßkonar, þaa skulu þaug ecke þeßvegna adskiliaz, helldur lijda þad þolenmoodlega, sem uppaalagdann Kroß. Þo er þad i sialfsu ser christelegt, ad hvort Hioonanna, sem af slijkum Siwkdoome er halldid, sporniz vid ad veikia hitt annad.

4.) Se þad bevijsanlegt ad annadhvort Boonde edur Hwßfreya hafe vered spillt af Lijkþraa, og ecke avglyst þad aadur enn þaug komu saman i Hioonaband, helldur ad þad eina hafe fordiarfad hitt añad, þaa maa þad sem þanninn er prettad vid hitt skiliaz.

5.) Verde Madurinn edur Konann assinna, þaa maa þeirra Hiwskapur ei þarfyrer adskiliaz, helldur skal þad eina siaa hid besta fyrer hinu og hiaalpa þvij i allann Maata, sem mogulegt kann ad vera.

6.) Ef Madurinn edur Konañ verda uppvijs ad Þioofnade edur annare oærlegre Søk, sem kostar Lijfid, enn verdur þo frijadur fraa Lijfstrafse af Yfervaldinu, þaa meiga þaug ecke þarfyrer adskiliaz. Enn verde slijker Odaadamenn Fridlausir edur Utlæger, og faae ecke sinn Frid aptur af Yfervalldinu innann þriggia Ara, þaa maa þeirre oseku Persoonu leifaz ad gifta sig, ef hwn um þann Tijma hefur hagad ser vel og ærlega, og þad med Rokum verdur bewijsad.

7.) Ef nockur verdur Fridlaus, þo ecke fyrer neitt oærlegt, þaa aa Konann ad bijda i sio Ar, ef hann aa þeim Tijma kann ad fridstilla Yfervalldid, og verda Fridhelgur aptur. Verde þad ecke, þaa maa hen̄e epter sio Ar leifaz ad gifta sig odrum.

8.) Ef eirn Egtamadur fer annarstadar, og giftiz þar annare Konu, sem ecke veit af hanns fyrre Giftijngu, þaa aalijtz hwn sijknsaka, so leinge sem hwn veit þad ecke, og aa þarfyrer hvorke hwn ne hennar Born sem þaug hafa saman aatt, ad lijda nockurn Skada aa Æru eda Gootse. Enn faae hwn fulla Vitneskiu, ad hann eige adra Konu, þaa fremur hwn Hoordoom, ef hwn lengur hefur Mok vid hann, og nær sodan verdur openbert, ad hann, maaske, verde naadadur af Kooginum aa Lijfinu, vegna einhvorrar merkelegrar Orsakar, þaa skal han̄ fara aptur til hinnar fyrre, ef hwn vill taka hann til Naadar. Vilie hwn ecke, þaa maa hann þo ecke behallda hinne. Enn henne skal vera innannhandar ad giftaz odrum Manne. Hid sama skal og halldaz, ef eirnrar Egtakvinnu Yfersioon i þann̄ Maata verdur fundenn.

9.) Ef nockur Egtahioon annadhvort aa Þijnge edur sijn aa mille sialfra gefa hvort odru Skilnadarskraa, þaa skal sama Bref ad aungvu agtaz, enn þaug sem soddan Bref wtgefa edur samþyckia, skulu straffaz af Yfervalldinu og standa openberar Skrifter.

# XIX. Cap.

# Um Omyndugа og Fiarhalldsmenn.

## I. Art.

Þeir sem ecke geta sialfer vered sijner Logveriarar annadhvort vegna Aldurs, Faavitsku, Sydsluseme, edur an̄ara Orsaka, sem af Yfervalldinu gilldar aalijtaz, skulu hafa Forsvarsmenn.

## 2.

Omyndugra Barna Forsvarsmadur epter Moodur Afgaang er Fader. Epter Fodur Afgaang er Brooder, sem er fullra fim̄ og tuttugu Ara. Eige þeir Omyndugu fleire Al-Brædur, þaa er saa næstur til ad vera Logveriare, sem eldstur er. En̄ seu þeir Haalf-Brædur, þaa skal saa vera Logveriare, sem næstur er ad Fodurnum. Er ecke Brooder til, þaa er Fodurfader næstur til ad vera Logveriare. Er ei Fodurfader, þaa er Moodurfader nærstur. Er hann ei til, þaa er Fodurbrooder. Er han̄ ei, þaa Moodurbrooder. Se eingenn

þessara til, þaa skal saa sem næstur er ad Skylldseme vera Veriare. Fodurfrændur eru nær til ad veria enn Moodurfrændur, ef þeir eru jafn naakomner, og lijkleger til vel ad veria. Enn se hætt vid, ad nockur fæddur Logveriare (sem vegna Skylldseme aa med rettu ad veria,) munne illa veria, edur se ecke fullvedia, edur ef eingenn fæddur Logveriare er til, þaa skal Yfervalldid med Yferformyndaranna Samþycke, hvar þeir tilskickader eru, setia þann til Fiaarhalldsmanns, sem þeir best kunna ad trwa fyrer Barnsins Femunum, sosem þer vilia siaalfer til svara.

## 3.

Hafe nockur þriw vandamykel Fiaarholld aa Hende, þaa aa honum ei meira ad uppaaleggiaz.

## 4.

Ef saa fædde Fiaarhaldsmadur er ecke i Bynum edur tilstadar, og þo i Rijkinu, þaa skulu Yfervølldinn, so snart sem þeim er tilkynna gefed, ad nockur se daaenn, sem omyndug Børn hafe epter sig laated, laata hañ skriflega uppaa Bysins Kostnad saa þad ad vita, ad hann strax kome til ad takaz Fiaarhalldid aa Hendur, so framt hann ecke vill svara til alls þeß Skada, sem þeir Omyndugu kunna þaraf ad hliootа.

## 5.

Hver sem vera skal annars Fiaarhalldsmadur, hann skal siaalfur eiga so miked med fullum Eignarrette, sem hann tekur under sitt Fiaarhalld, uppaa þad, ef nockud eydiz edur fyrerferz af þeirra Gotse sem hann er Fiaarhalldsmadur fyrer, þaa kuñe hann jafnmiked ad gialda af sijnu egen, og endurbæta Skadann.

## 6.

Eige hann ecke so miked, þaa setie hann Vissu fyrer sig.

## 7.

Enn gete hann avngvann Borgunarmann edur Vissu sett, og er þo skynsamur, kostgæfenn, og ærlegur Madur, þaa maa honum Barnanna Fe i Hendur faaz.

## 8.

Eingenn sem ei er fullra fim̃ og tuttugu Ara gamall, maa vera añara Fiaarhalldsmadur.

## 9.

Stiwpfader maa ei vera sinna Stiwpbarna Logveriare, utan næstu Frændur og Yfervølldin vilie þad samþyckia.

## 10.

Lavnsonur mä ei vera Egtaborenns Sonar Fiärhalldsmadur.

## 11.

Festarmadur mä ei vera Festarmeyar Fiärhallsmadur, þo mä hann vidstaddur vera, þä Skipte henne vidvijkiande verda halldenn.

## 12.

Borgmeistarar, Rädmenn, edur Byfoovetar meiga ei vera neirnra Omyndugra Fiärhalldsmeñ, nema þeir seu þartil ad Logum rett borner; edur og Staderner so smäer ad avngvann annañ fullvedia se ad fä.

## 13.

Sä sem fellur i nockurn þwngann Siwkdoom annadhvort af Elle edur Ovite, Vinnumadur edur miñe Madur, mä einkis Omyndugs Logveriare vera.

## 14.

Nær Mooderinn og Bornin epter Fodursins Afgäng eru med loglegum Skiptum adskilenn, þä skal Moodurinne standa frijtt fyrer ad behalda Barnanna Gootse under sijnu Fiärhalide, og þvij sijdañ Forstodu veita epter Logum, so lenge sem hwn situr ogift. Þo so ad fædder edur tilsetter Logveriarar hafe Tilsioon ad Barnanna Fe ei misfariz, sosem þeir vilia siälfer tilsvara.

## 15.

Enn formerkiz þad, ad hennar Bärnafe gänge til Þurfdar fyrer hennar Skuld, þä skulu Logveriarar taka þad til sijn frä henne.

## 16.

So lenge sem Mooder situr med fodurlavsum Bornum ogift, þä mä ei taka Bornin frä henne, helldur ber henne ad siä fyrer þeirra loglegu Upphellde og Christelegre Uppfrædijngu, og niota þarfyrer sannsynelegs Betalijngs, sosem af Yfervolldunum, Frændunum edur Logveriurunum kann rett ad älyktaz.

## 17.

Enn giftiz Mooderinn, þä skulu Bornin fara til Fiärhalldsmanna, utan þavg seu so wng, ad þavg mege ei Moodurinnar Hiälpar än vera, þad er til þeß þavg eru sio Vetra.

## 18.

Vske Mooderin ad meiga hafa Bornin frañvegis hiä ser, serdeiles Dæturnar, og vilie hwn gefa þeim siñ

sinn Kost frij, og Frændur þeirra æ-lykta ad Børnin verde hiæ henne vel uppfoostrud, þæ er ei rettvijslegt, ad menn take þavg fræ henne.

## 19.

Þo, þegar hwn giftiz, hvort helldur Børnin eru hiæ henne edur ecke, þæ take Løgveriarar Barnañæ Fe i Geimslu og Vardveitslu, og gialde henne Foosturlavn og Kostgiald, þartil þavg eru sio Vetra.

## 20.

Þad Lavsafe sem Omyndugum tilfellur i Skiptum, skal Fiærhalldsmadurinn strax med openberre Auction (Uppbods-Solu) þar sem hwn er brwkanleg, koma i Penijnga, edur æ annann Hætt selia þad hid dyrasta þad seliaz kann, og ei odyrara enn þad hefur vered. Þo ef þar er Stwlkubarn, sem so er til Ara komed, ad menn vænta hwn mune sem fyrst giftaz, þæ mæ Fiærhalldsmadurinn hallda epter handa henne af Lavsafenu þvij sem syniz ad vera henne þarflegt til ad reysa Bw med.

## 21.

Hvar Lavsafe verdur ei med openberre Auction komed i Penijnga, og Løgveriarinn getur ei helldur selt þad ad minsta Koste fyrer so miked sem þad er virdt, þæ biode hañ þad uppæ Þijnge, og take þar Þijngsvitne uppæ, og vere so Angurlavs.

## 22.

Eingenn Fiærhalldsmadur mæ ser af Hende læta Jardagootz hinna Omyndugu sem hann hefur Fiærhalld fyrer; Þo þar sem Forelldrar deya, sem epter sig læta stærre Skullder og Þyngsle, enn Gootsid med Afgialdinu kann ad betala Rentu af, edur med Lavsafe betalaz, þæ mæ Fiærhalldsmadur hinna Omyndugu selia af Jardagootsinu, þartil Skulldin mijnkar, so, ad, þegar bwed er ad taka Fiærhalldslavn og annann Kostnad ærlega af Eptergialdinu, þæ kunne Rentan af Skuldinne hæglega ad betalaz med sama Eptergialds Afgænge.

## 23.

Þo mæ Fiærhaldsmadur hvorke sialfur kavpa ne læta kavpa fyrer sig nockurt Barnafe, Lavsagootz edur Fasteign, miklu sijdur fæ þad neinum fyrer minna Verd, enn virdt er, utan þad se æ openberre Auction.

## 24.

Finniz nockur Fiærhalldsmadur ad stunda epter obillegum Abata, edur haga ser otilbærelega, þæ stande hann

hann til retta og straffiz, sem sa er fundenn verdur ad Svikum og Underferle.

## 25.

Fiarhalldsmadur maa ei færa Barna-Penijnga wr þvij Herade, Birke edur By, hvar Arfurinn er tilfallenn, utann hann aalijtiz af Yfervalldinu fullkomlega skilsamur, edur setie þarfyrer annann Lofunarmann, sem sialfur a þar Eigner, uppa þad Penijngunum verde haldid Barninu til Besta hia vissu Foolke, og þeir betaliz þar sem þeir eru upptekner, nær Barnid kemur til Logalldurs.

## 26.

Serhvorium Fiarhalldsmanne byriar i allann Maata ad stunda epter sijns Umbods-Barns Gagne og koma Inntektinne af ollum Kroftum sem hædst ad ske kann, og skal þad sem umfram verdur, þegar allur Kostnadur, so og þridie hvor Penijngur sem Fiarhalldsmadurinn nytur fyrer Omak sitt er fraadregenn, koma þeim Omynduga til Þarfa.

## 27.

Fiarhalldspenijngar skulu alleina skiliaz, þegar allur Kostnadur, sem af Gotsinu gengur og oll Þyngsle, sem a þvij liggia, hvort sem eru Folkslaun, Hroßþienusta (Hestahallds Skylda) Skattur eda hvad annad sem af Buinu a ad wtsvaraz, og þeß Omynduga naudsynlegt Uppheldde er fyrst frateked.

## 28.

Vilie Fiarhalldsmadur aungva Fiarhalldspenijnga taka af sijnu Umbodsbarne, þa a hann ei þar a moote ad skylldaz til ad svara til Rentu Rentu af Omaganns Femunum. Gete Formyndarinn ecke sett sijns Omaga Penijnga uppa Rentu, þa a hann ad biooda þa uppa Herads og Logþijnge, og vilie eingenn um þa bidia, sem fyrer þa er truande fyrer fimm af hvoriu Hundrade, þar sem eingenn vill taka þa fyrer sex af Hundrade, þa maa hann setia þa nidur hia Yfervalldinu, og vera frij fra ad svara sijnum Omaga til Rentunnar, þar til hann kann ad geta þeim skilvijslega wtkomed.

## 29.

Fiarhalldsmenn skulu vera skylldugerr til, so oft sem þeß verdur oskad af Yferformyndurunum og Yfervolldunum sem ad minsta Koste skal ske, einu Sinne a Are, ad framleggia Skilrijke fyrer sijns Omaga Femunum, hvar og i hvoriu þeir bestanda.

## 30.

Sa sem er Logveriare, og hefur Barnagootz og Penijnga i Geimslu og Umønnun, skal standa sijnn Umbodsbarne Skil og Reikníjng, þegar þad er komed til Logalldurs fyrer alla Inntekt og Utgift i eins af Næwngunum edur Yfervalldsins Vidurvist.

# 31.

Losne nockur vid Omyndugra Fiarhalld, og annar tekz þad a Hendur med Yfervalldsinns Samþycke edur Befalnijngu, þa skal sa fyrre giora hinum good Skil þarfyrer, og fa Qvitterijng af honum, hvarmed hann skal og fyrer ollu Tiltale af hinum Omynduga sijdarmeir, og odrum frij vera. Enn hinn sem vidteked hefur og gefed Qvitterijng þarfyrer, a til þeß alls ad svara, og so hañ kunne þeß vissare vera, ma hann, adur eñ hann qvitterar hinn fyrre Fiarhallds-mann, lata Yferformyndarana og Yfervalldid skera wr þvij sem honum synis vafasamt i hins fyrra Fiarhalldsmanns Reiknijnge.

# 32.

Gete Fiarhalldsmadur ecke svarad Omaganum til þeß sem hañ fyrer sitt Fiarhalld verdur skylldugur um, þa skulu Yferformyndararner, sem ecke hafa haft betre Tilsioon med Logveriaranum, svara þartil. Fae ei Omaginn Rett sinn hia þeim, þa sækiz Skadanns Upprettijng hia Yfervalldinu edur Hwßboondanum, sem a ad hafa Umsioon med Omyndugra Gootse.

# 33.

Se Fiarhalldsmadur ecke borenn ad Logum helldur skickadur til þad ad vera, og sa sem þartil er ad Logum borenn, hefur aan loglegra Forfalla og Affsokunar ecke viliad takaz þad a Hendur, þa svare hinn fædde Fiarhalldsmadur Omaganum til sijns Skada, fyrrenn Yferformyndarar og Yfervalldid sækiz þarfyrer.

# 34.

Sa sem er atian Vetra gamall take sialfur vid Fe sijnu ad vardveita. Þo skal Fiarhalldsmadur, epter þad hann hefur fenged Qvitterijng fyrer sitt Fiarhalld, edur annar goodur Madur sem Yfervalldid tilskickar, framveges hafa Tilsioon med þeim sem sialfur hefur vid sijnu Fe teked, þartil hann er tuttugu og siñ Ara, ad ei eyde hann Fenu onaudsynlega; og a þarfyrer eingenn Pantur, Afhendijng edur onnur Handskrift ad agtaz, sem af hinum wnga Manne sett edur gefenn verdur, aan þeß þad gioriz med adurnefnds Curatoris (Umsioonarmanns) Samþycke.

# 35.

Þeir

Þeir sem brwka vilia nockurn Kaupskap edur Handverk, serdeiles ef þeir eru ecke hneygder til Dryckiar, Dubls og Eydsluseme, meiga til somu Handteriꞇngar Framkvæmdar, med siꞇns Umsioonarmanns Raade og Samþycke brwka ser til Nytsemdar nockud þad sem þeim kann ad vera i Arf tilfallid, seirdeiles þaa þeir gefa sig i Hioonaband, jafnvel þott þeir hafe ecke fiṁ um twijtugt.

36.

Sœ sem er aatiaan Vetra gamall, geldur avngva Fiaarhallðspeniꞇnga, jafnvel þo hann se Utanlands, helldur betaliꞇ alleina Logveriaranum hanns Uppaakostnadur. Þo ef nockur af Mootþroosa er fraaverande aan loglegra Forfalla og Affsokunar, nær hann er fullra aatiaan Ara, og vill ecke taka vid Fe siꞇnu og epter giordaṅ loglegann og rigtugann Reikniꞇng gefa Fiaarhallðsmaṅinum Qvitteriꞇng, þaa aa ecke Fiaarhalldsmadurinn ad hafa Vanda af Fiaarhalldinu, edur Omak og Þyngsle fyrer eckert.

37.

Enn se Omaginn fiṁ og tuttugu Ara gamall og Innanlands, og giorer ecke endelegann Reikniꞇng vid siꞇnn Formyndara, nær Formyndarinn hefur honum þad loglega tilboded, og giorer þad bevijsanlegt, og Formyndarinn deyr aamedan, þaa ega Erfiꞇngiar hanns fyrer þaa Sok avngvu Tiltale ad mæta.

38.

Fader maa ei hallda fyrer Sonum siꞇnum þeirra Moodurarfe epter Moodurinnar Afgaang uppfraa þvij þeir eru aatiaan Vetra, og vilia fara fraa honum, þo so, ad þarmed se hondlad epter þvij sem aadur er sagt i þritugasta og fioorda Articula. Enn Dootter maa avngvanvegenn segia sig fraa Fiaarhallde Fodur siꞇns, fyrr eṅ hann fær henne annaun rettann Logveriara edur Hwsboonda.

39.

Eirn Omage skal laata ser nægiaꞇ med þad Fardagooꞇ, sem eirn Formyndare hlytur ad taka til Betaliꞇngs epter þeim Taxta sem af Kooṅginum settur er, og med þaa Inntekt sem þaraf verdur goldenn, so ad Formyndarinn skal ecke vera skylldugur ad svara siꞇnum Omaga til meira, nær ad eins ei verdur bevijsad ad þad hafe af Formyndaranns Forsomun orsakaꞇ, ad annar og betre Betaliꞇngur er ecke sooktur og til Leidar komenn.

40.

Þar sem og Formyndarinn til siꞇns Omaga Vissu tekur Pant annadhvort

hvørt í lávsu edur fostu Gootse, og same Pantur er af Formyndaranum løglega tekenn, og med þvij Verde, sem i Landinu er a Pante brwkanlegt, þa a Omaginn ad lata ser nægiaz med þann Pant, og Formyndarinn ecke ad vera skylldugur til ad fa sijnum Omaga reidu Penijnga þarfyrer, so framt hann hefur brwkad tilbærelega Vidleitne og Medal vid Skulldunavtinn til ad fa reidu Penijnga, og þa hefur ecke vered ad fa.

## 41.

Eckia ma taka ser Løgveriara, hvørn hwn vill af Frændum sijnum, ellegar annann goodann, ærlegan og fridsamann Mann, sem hana kunne med Rad og Dad i hennar Malefnum ad adstoda, og med henne til Styrkijngar underskrifa þa Giørnijnga og annad Umvardande, sem hwn ser fyrer Hendur tekur.

## 42.

Finniz Løgveriarinn ad vera orvoolegur, og orsaka Eckiunne oþarfar Þrætur edur giora henne a annann Hatt Skada, þa skal Yfervalldid banna henne ad brwka hanns Rad, og tilskicka henne annann goodann Mann i hanns stad, sem henne er þienanlegur.

# XX. Cap.

# Um Yferformyndara og Børn.

## I. Art.

I hvorium Kavpstad skulu vera tveir merkeleger Borgarar, sem nockurnegenn eru til Alldurs komner og vel Efngder, sem skulu vera Yferformyndarar, og med Borgmeistara og Rads Adstod, hafa Tilsioon med ollum þeim sem a Hende hafa Fiarhalld þeirra er Fiarhalldsmenn þurfa.

## 2.

Þarnæst skulu þeir hafa Umsioon med Ungdoominum, hvornin hann er uppfæddur, so vel sem med Forelldrunum, hvorsu þeir breyta vid Bornin.

## 3.

Serhvor þessara skal ad minsta Koste vera fiogur Ar vid þetta Embætte, og skulu ecke bader i senn þar fra lavser gefaz. Helldur nær sa eine verdur lavs gefen, afsettur, edur deyr, þa skal sa sem epter er, med þeim sem med honum verdur skickadur, blijfa vid ad minsta Koste tvo Ar.

4.

## 4.

Verde fundinn nockurs Odugnadur i þessu Embætte vegna Armoods, Siwkdooms, Vanvitsku, Drickiuskapar edur annars Lettferdugleika, þaa skulu Borgmeistarar og Raad setia annann i hanns Stad, og þar ad auk, ef hanns Hyrduleyse, Otrygd edur annad soddann verdur funded, tiltala honum og sækia hann fyrer þaraf orsakadann Skada, um Betalijng til Hlutadeigenda. Og skal af þeim Bootum sem hinn seke soleides geldur, Hælfparturinn alleina færaz Kooanginum til Innutektar, enn hinn annar Helmijngur skal wtdeilaz medal fatækra omyndugra Fodur- og Moodurleysijngia.

## 5.

Nær nockur hefur wtþioonad sijna Tijd i Embættinu, og oskar þar vid ad losaz, ef hanns Medbrooder annars, sem sagt er, hefur hid minsta tvö Ar þioonad Embættinu, þaa so framt sem nockur finnz þar i Stadnum duganlegur, skal hann þann sijdasta Decembris afhenda þeim sem Borgmeistarar og Raad þartil sama Dag skicka, i Yfervalldsinns Nærveru, rigtuga, enn þo stutta Uppskrift alls þess sem hanns Embætte vidkemur, og þar stuttlega upptelia Nöfn þeirra sem Fiaarhalldsmenn hafa, hvar ad se Porf þeirra og Astand, þarnæst Fiaarhalldsmannanna, hvoria Meinijng hann þarum hafe. Hann skal og afhenda Uppskrift Forelldranna og Barnanna, og hvöier Brefter hiaa hvorutveggiu finniz. Hvar Uppskrift ecke skal koma neinum til Hindrunar eda Skada, hvorke þeim Uppteiknande ne Uppteiknada, helldur einasta vera sem Underviisun, epter hvorre hanns Epterkomare kann ad spyriaz fyrer. Ei helldur skal Epterkomarinn hiaalpa ser vid somu Uppskrift edur Underviisun til Afsökunar Forsoomun sinne edur Faakænsku, helldur skal hann vera skylldugur til ad kynna ser allt sialfur.

## 6.

Yferformyndarar skulu ecke brwkaz i nockrum Bysins Embættum edur Reisum, so lenge þeir hafa þad Embætte, og sijdan skal þeim eirnenn hlift vera fyrer Kemners Þienustu, ef nockurn er annann duganlegann þartil ad faa.

## 7.

Yferformyndarar skulu hafa Tilsioon med, ad Forelldrar hallde Börnum sijnum, Piltum edur Stwlkum til Skoola, ærlegrar Þioonustu, Kaupskapar edur Handverka, og ef þeir finna ad nockur hallde sijnum Börnum hiaa ser i Ydiuleyse, þaa skulu þeir setia Foreldrunum fyrer eirn vissann Dag Maanadar, innann hvors þeir skulu hafa raadid Boot þaraa. Verde þad ecke, þaa skulu Yferformyndarar-

 ner

ner setia Børnin til ærlegra Handverka, og skulu Forelldrarner vera skylduger til ad klæda þavg og fæda. Vilie þeir ecke giora þad goodviliuglega, þaa skulu Yferformyndararner sækia þad hiaa þeim med Næme (hvort þeir vilia edur ei) sem adra Vitaskulld, ef þeir annars eru so Efnader. Enn hafe Foreldrarner ecke Efne þartil, þaa skulu þvijlijk Born, so vel sem ønnur fodurlavs edur fundenn Born af Yferformyndurunum fyrst setiaz i Skoola, so þeim undervijsad verde i sijnum Barna-Lærdoome, og þavg kunne ad klædaz og fædaz af þeim Ølmusum, sem nockur vill goodfwslega gefa, og sijdann se þeim halldid til Handverka.

# XXI. Cap.

## Um Þionustufolk aa Landsbygdinne og i Kavpstødunum; Hwsfolk og Lavsgaungara.

### I. Art.

Þioonustufoolk maa ei med Misbrotum giora Hwßboondanum Skada, helldur ber þvij sialfu ad lijda fyrer Brot sijn.

### 2.

Enn gefe Hwßboonde Þienara sijnum edur ødrum Fullmagt, ad wtretta nockud sijn Vegna, þaa aa Hwßboondinn ad svara sialfur til þeß sem honum þari yfersez er hann hefur Fullmagt gefed, og sækia af honum þeß Vidrettijng.

### 3.

Se Þienaranum misþirmt af ødrum enn Hwsboondanum, þaa tekur Þienariñ sialfur Bætur þarfyrer.

### 4.

Eingenn Lavsamadur edur Hwsmadur, sem er til Hwsa aa Landsbygdinne maa vista sig til Boondaerfides edur Þioonustu skemur enn heilt edur halfst Ar, enn þeß ad hafa eins halfs Ars Lavn forbroted.

### 5.

Og skal so eingenn erfida aa Landsbygdinne hiaa Bædunum fyrer Daglavn, utan þeir sem gifter eru og bwsitiande aa Jordum edur Jardarpørtum, og Gøtu-Hwßmenn, sem gialda og greida aarlega øll Skil sijnum Hwßbændum.

### 6.

Þo skal ecke hermed bañad vera, ad þeir sem næra sig vid Sioosijduna

all-

alleina af Fiskerie og Sioo arafla a visfum Arsins Tijmum, mege her epter sem hijngad til a Vetrinum og nær þeir ecke era vid Siooinn, liaz Bændunum fyrer Daglaun. Ei helldur ad Prestiarar mege takaz af hvorium sem þeirra vidþurfa til ad preskia Korn sitt, a hvorium Tijma og so lenge sem menn hafa þeirra Þorf.

## 7.

Hwßmenn, hvort helldur eru Karlar edur Konur meiga ei af Bændum edur Hwßmonnum til Hwsmensku takaz, under þeirra Festu Topum, utan þeim se þad af Hwsboondanum edur hanns Fullmegtugum epterlaated, sem skal grenslaz epter Hwßmannsins Hegdan og Nærijngu, so þad kunne ad verda Hwßboondanum og Boondanum Skadlaust.

## 8.

Nær nockur Framande kemur i Sooknirnar, skulu Bændurner strax gefa þad Prestinum tilkynna, sem skal lesa þeirra Passa og Vitnesburde, sem þeir medferdes hafa, og yferheyra þaa; Og ef nockur Misgrunur kann um þaa ad vera, skal Presturinn þad Yfervalldinu edur þess Fullmegtugum tilkynna. Og skulu Prestarner kostgæfelega uppteikna þeirra Nøfn og Fædijngarstad, sem uppehallda sier i þeirra Sooknum, hvort helldur eru Hwsmenn, Vinnumenn Drenger edur Lausgaungarar, so menn, nær Þorf gioriz kunne herum ad faa hiaa þeim fullkomna Undervijsun.

## 9.

Aller Vinnumenn og Drenger, sem til Boondaerfides eru tekner, hiaa hvorium hellst sem þad er, nema þeir feste Jarder, edur Jardarparta til ad næra sig af, skulu vera skylduger til ad uppsegia Hwßboondanum løglega sinne Pioonustu, atta Vikum fyrer Fardaga, sem er um Sumarmaal þann 14. April: og um Veturnætur þann 14. Octobr. Og ef Hwßboondinn vill giora þeim otilbærelegt Uppeholld, meiga þeir segia lausre Vistinne i Nærveru nockurra af Stadar, edur Sooknarfoolkinu, edur og a Kirkiu Samkomu. Gefe Hwßboondinn þeim þarfyrer Hogg edur Slog, straffiz hann sem fyrer Ofeijke.

## 10.

Nær eitt Vinnuhiw, Karlmadur eda Kona, hefur løglega uppsagt Vist sinne, serdeiles ef þad ætlar burt wr Sooknimne, þaa skal Sooknarpresturinn vera skyldugur til ad gefa þvij Vitnesburd, nær þad hanns oskar, ad þad se laust og lidugt fraa Herraþiooonustu til Lands og Vatns, so vel sem fraa Boondanns Pioonustu, og Hioonabande,

bande, se þad aungvum' gift edur trwlofad; og skal eingenn Prestur under tilbærelegt Straff, synia þvij þessa Vitnesburdar edur hallda hønum fyrer þvij yfer haalfann Dag. Og skulu Prestarner gefa alla Vitnesburde skrifada under sinne Hende og Signete, sem þeir vilia svara til og medkennaz. Og skulu þeir þarfyrer nioota af serhvorium Vinnumanne, Dreng, edur Kvinnu, fiøgra Skilldijnga Danskra.

# II.

Fare nockur Karlmanns edur Kveñpersoona oløglega burt wr Hwßboondanns Þioonustu, þaa skulu þaug hafa fyrergiørt so miklu, sem svarar þeirra, haalfum Ars Launum, haalft til Hwßboondanns og haalft til Hwßboondanns Landsdrottens. Og þeir sem visvitande vid þeim taka, skulu laata wte tvøfaldt vid hinn fyrra og retta Hiwsinns Hwßbonda og hanns Landsdrottenn.

# 12.

Hvør sem tekur annars Manns Svein, Þienara, edur Vinnukonu til Þioonustu aan Vitnesburdar, skal svara þeim sem Þienarinn er so aan løglegs Vitnesburdar fraadregen, til alls þeß Skada, sem hann þaraf hlytur, og þaradauk bæta hønum sem adur er sagt; og skal hvøreirn gefa sijnu Þioonustufoolke, Kørlum og Konum, þegar fraa hønum fara, siñ Vitnesburd, sosem þaug eiga skilid; ad eingenn verde þarmed tældur.

# 13.

Eingenn maa taka annars Manns Þienara i Forsvar, fyrr eñ hañ er løglega skilenn vid sinn Hwßboonda.

# 14.

Lofe nockur sinne Þioonustu, og fær Festepenijnga wti Hønd, og vill ecke fara i Vistina, skile aptur Festepenijngunum, og betale þaradauk fioorda Part af eins Ars Launum, sem hann fengid hefde, ef hann hefde fared i Vistina. Enn hafe hann aungva Festepenijnga teked, betale hann þo Fioordwng Arslaunanna, sem sagt er.

# 15.

Hafe Madur raaded Hiw til Vistar, og vill sijdann aan løglegra Orsaka ecke vid taka, þaa behalde saa sem vistadur var aatalenn þeim Festepenijngum sem hønum eru gefner; og auk þeß skal Hwßboondinn betala hønum fioorda Part eins Ars Launa, sem hønum bored hefde, ef hann hefde fared i Vistina.

# 16.

Nær ed Þioonustufoolk, sem sagt hefur upp Vist sinne, edur ad-

rer

rer Lavsgangarar, sem ecke eru bwsitiande, og tijunda Koonge, Kirkiu og Preste, edur gialda og greida nockur Løgskil, ei helldur hafa fullkomna Bevijsing, edur ænægianlegañ Vitnesburd fra Prestinum, hvar þeir hafe sér uppehalded, og hvorsu þeir hage sér, hvort helldur þad eru, Karlmenn edur Konur, sem nockurstadar hittaz, og ecke løglega bevijsa, so framt þeir Heilbrigder eru, ad þeir hafe Vistar bediz fyrer billegt Kavpgiald, þar sem þeirra hafe Þørf vered, og Vidtaka veitt orded, þa skulu þeir strax handtakaz og Doomur yfer þeim wtvegaz, ad erfida eins lenge i Jarnnum og þeir hafa sér fra Þioonustu hallded. Edur ef þeir vilia leinelega strwka burt wr Rijkinu i framande Lønd, og hittaz sijdan, skulu þeir þarfyrer sækiaz, tiltalaz og straffaz med Fangelse og Jarnum. Og þa skulu Koongsinns Amtmenn senda med sem minstum Kostnade ske kañ, þa sem a Koongsinns Lood finnaz a þennañ Hatt seker, annadhvort a Bremerhoolm edur annarstadar, asamt med Doomnum, i hvorn aller þeir Vitnesburder, sem tekner hafa vered þeim a moote, skulu innfæraz, uppa þad, ad, hafe nockrum Þvijlijkum af Hatre og Øfund vered Orettur gior, i þvij Skine, ad hann være Lavsgangare, honum þa kunne ad verda hialpad til retta.

## 17.

A sama Hatt skal og med þa hondla sem lataz vera Sooldatar, edur eru Sooldatar, og strwka Landshorna a mille; þo undantakaz þeir Vinnumenn edur Sooldatar, sem hafa løglegann Passa, og skilvijslega proofaz ad vera a rettferdugre Reisu, og uppehallda sér fyrer utan Snikiur, edur og vafalavst eiga so miked til, ad þeir þaraf gete lifad, og an nockurs Manns Skada lavser vered. Hvar uppa þeir eiga, ef oskad verdur, ad framfæra Sooknarvitne og Skijrteine.

## 18.

Koongsinns Amtmenn skulu hvor i sijnu Amte, tvi Svar a Are, sem er þann 1. Junii og 1. Decembr. halda Inqvisition (Eptergrenslan) um allt Þvijlijkt Foolk, so og eirnen ransaka, hvorsu menn i øllu adurskrifudu hage sér; og adur enn þad skedur, skulu þeir advara Landsdrottnana og Landsbygdinne, sem i hvørs Amte eru bwande, ad sérhvør a siñe Lood kunne a sama Dege og Tijma ad hallda Ransookn, og hialpa til ad þetta framqvæmiz.

## 19.

Finniz nockur sem dregur sig i Hilmijngu tvo adursagda Daga, þegar Rañsooknin skedur, þa skulu þeir aliþtaz, sem Lavsgangarar, og strax grijpaz, og medhøndlaz, sem adur er sagt.

## 20.

Ef Landsdrottnarner og Landsbygdinne eru ecke siælfer Megnuger, sodann mootþrooanlega Lausgængara ad handtaka, straffa, edur i oruggu Halde ad hafe, edur vilia ecke brwka þær til sinnar egen Þioonustu og Erfides, þa meiga þeir þad Amtmanninum til Vitundar gefa, i hvors Amte þeir bwa, og læta þa hønum afhenda, ad hann kunne vid þa ad breyta, sem fyrr er sagt.

## 21.

Finniz ad nockrer vijsvitande halde Lausgængara, edur þa sem aungvann Passa ne ketta Kynnijngu hafa, hyse þa og herberge, þa skulu þeir a Landsbygdinne hafa fyrergiort sinne Festu til Hwßboondanns, og þar fyrer utan, verde þeim yferbevijsad ad þeir hafe nockra orelega Høndlan edur Samfelagskap haft vid þvijlijka Menn, skulu þeir þarfyrer standa til Retta, og straffaz, sem byriar. Enn i Kaupstødunum skulu þeir sem þad giora, straffaz so sem þeir er hysa Ofridhelga.

# XXII. Cap. Um Jwda og Tatara (Tofra-Prackara.)

## I. Art.

Eingenn Jwde ma gefa sig hijngad i Rijkid, edur læta sig her finna, fyrer utan Koongsinns serdeileslegt Fridarbref, undir þwsund Rixdala Straff af hvorre Persoonu, sem hittiz an þeß ad hafa fyrrskrifad Leidebref.

## 2.

Hvor sem nockurn Jwda giører Uppvijsann fyrer Koongsinns Amtmanne, og vijsar hønum a hann, skal fa þarfyrer fimtiju Rixdale.

## 3.

Tatarar, sem hlaupa hijngad og þangad, og tæla Foolk med Svikum, Lyge, Þioofnade, og Galldre, skulu af Stadarinns Yfervallde takaz faster, hvar þeir finnaz, og þeir sem af Almwganum a Landinu verda handtekner, skulu afhendaz næsta Boonda-Lensmanne,

sem med Bændanna Tilstyrk skal færa þá Foovetanum, og skal allt þad þeir hafa medferdes, frá þeim takaz, og þeirra Forijnge straffaz á Lijfinu, og hiner adrer ryma Rijkid frá þeim næstu Stodum, sem þeir kunna burt ad komaz. Og verde þeir þarepter i Rijkinu uppspurder edur höndlader, skulu þeir sosem þeirra Forijnge straffaz á Lijfinu; og sá sem þá hyser edur herbergiar, bæte til sijns Lands-drottenus fÿrer hvoria Nátt, og hvoria Persoonu, sosem sá er hyser Fridlavsa.



Fiórd-

# Fioorda Book
um
# Sio-Rettinn.

## I. Capitule
um
## Skip-Herra Styre-Manna og añara Skips-Þioona Antekning, Lavn og Hegdan.

### I. Articule.

Þegar Reidarar vilia antaka einn Skip-herra, sem skal fara med þeirra Skip, þaa skulu þeir giora vid hañ skriflegann Contract, sem bæder Partarner skulu underskrifa, og sijdann oriwfanlega hallda. Þar epter rædur Skip-herrann sier Skips-foolk, sem hann helldur þurfe til Skipsinns, og hanns Reidurum kunne i Framtijdinne vera holped med.

2.

Eingenn Skip-herra maa underkavpa annars Styre-mann edur Baats-menn; hvor sem þad giorer, og þad bevijsaz, þaa skal saa sem fyrre hafde teked hann, behallda honum til ad fullgiora sijna Reisu med, sem hañ hafde lofad, og sie þad i Skip-herrañs Vallde, hvad hann vill gefa honum af sijnum Lavnum, vegna þeß hann hefur tapad sijnum Rette med því ad hann rediz til tveggia, og saa Skip-herra sem vitanlega hefur til sijn ræded annars Foolk, bæte þar fyrer tuttugu Lood Silfurs til Koongsinns

sinns, og tuttugu Lood Silfurs til Bysins.

## 3.

Nær Skip-herra leiger Foolk, þaa a hann strax fyrerfram ad semia vid þad um þeß Kavp; og gefa hvorinum einum i hid minnsta eitt Mark Danskt uppaa Hendina, og þaa er Foolkid strax sem Skip-herrann þvij þad tilseger, skylldugt ad flytia sig i Skipid, og taka þar Vara a sijnu Embætte og Erfide, ad hlada edur bak-lesta Skipid, aadur enn þad upp-ber nockud af sijnum Lavnum. Hafe þad fenged sitt Kavp, og verdur hirdulavst, og tekur ecke Vara a Skipinu, ellegar, þaa þad er leigt til einhvorrar Ferdar, yfergefur Skipid, fyrer utann Siwkdoom, og aïnur løgleg Forfoll, og aan Skip-herrañs Leyfis (hvort helldur þad er vegna goodra edur vondra Tijdenda, sierlegra Tilfella til Sioos, edur vegna annara Orsaka) aadur enn þad hefur fullkomnad sijna Reisu, er fullkomlega afsermt, aptur rettelega bakleſtad, og Seglin tekenn fraa Raanne, þaa giallde sitt Kavp tilbaka, og þaradavk so mikid, sem þvij var lofad til Lavna, haalft til Koongsinns, og haalft til Skip-herranns, edur og setiz i Faangelse uppaa Vatn og Bravd i fioortaan Daga, ef þad hefur ecke ad betala med. Sie Skipid i Haaska ad forgaanga, edur ad verda teked af Vijkijngum edur Reisurum, og nockur þaa yfergefur þad aan Skip-herrañs Samþyckis, hafa fyrergiort Lijfinu, hvar sem hann verdur sijdann hondladur.

## 4.

Ef nockrer Skipsmenn burtleigia sig fyrer vist Kavp, og eru ei duglegir til þeß sem þeir hafa undergengiz, og þeim verdur þad skiallega yferbevijsad af tveimur eda þrimur Skipsmønnum, þeir skulu missa allt sitt Kavp, og þaradavk bæta so miked sem þeim var lofad til Lavna, haalft til Koongsinns og haalft til Skip-herranns. Hafe þeir ecke til ad bæta med, skulu þeir þrisvar dragaz under Kiol, utann Skip-herrann vilie meire Miskun a giora.

## 5.

Gefe nockur sig wt fyrer Styre-mañ, og leiger sig sem Styre-mann til einhvors viß Stadar, og Skip-herrann fær Skada annadhvort a Skipe edur Gootse, sokum hanns Forsommunar edur Vankunnaattu, þaa skal saa Styremadur, þaa honum er þad løglega med tveggia forfarinna Sioomanna Vitnisburde yferbevijsad, vera skylldugur ad bæta allann Skadañ aptur, ef hann hefur Efne a; Gete hann þad ecke, þaa hafe hann fyrergiort Lijfinu; Enn skyllde Skip-herrann umbreyta sinne Reisu, og Styremadurinn visse þad ecke, og treyster sier ecke, þaa hañ er þar um adspurdur,

til ad framhallda þeirre nyu Reysu, þaa skal hann nioota sinna Styre-mañs Lavna, sem hann hefur þaangad til forþienad, og þar epter einasta Høfud-baats-manns Lavna, vilie hann vera kyrr aa Skipinu; Enn vilie hañ ecke, þaa betalar Skip-herrañ hønum haalft hanns Kavp, ef Reisunnar Umbreyt-ijng skedur aa Heimannferdinne; Enn verde hwn aa Heimferdinne, þaa be-talar hann hønum allt Kavpid; Enn lofe hann forsvaranlega ad fullkomna Reisuna, og nockur Skade skedur søk-um hanns Vankunnaattu, þaa misse hann Kavpid, og bæte Skadann.

## 6.

Ef nockrer Skipmenn hafa leigt sig, og eru burt af Skipinu aa Nætur-tijma aan Skipherranns Leyfis, þaa bæte hvor einn þar fyrer þriw Lood Silfurs til Koongsinns, og þriw Lood Silfurs til Bysinns; Verde nockur meire Skade fyrer slijka For-soomun, þaa stande þeir þar fyrer i Rette epter Sakarinnar Asigkomu-lage. Ef nockurt Skips-Erfide fyr-erfellur aa medann, hvar af einhvor af þeim til stadar verande Skipmønn-um fær Skada, þaa skal saa fraaver-ande gefa til Hiaalpar til Barskera-Lavna epter Skipherranns og Styre-mannsinns Fyrersøgn.

## 7.



Finnist nockur Baatsmadur, sem er raadenn til einhvorrar Ferd-ar, aa Gøtunne um Næturtijma, ed-ur og i osæmelegum Hwsum og Her-bergium; þann maa og skal Foogetiñ og Stadarinns Embættismenn taka og setia i Faangelse i þriaa Daga upp-aa Vatn og Bravd, og skal saa seke þaradavk bæta þriw Lood Silfurs til Koongsinns, og þriw Lood Silfurs til Bysinns. Giøre hann nockurn annann oløglegann Giørning, stande þar fyrer i Rette epter Maalavøxtum.

## 8.

Kome einhvor Skipherra til Hafn-ar edur aa Legu med sitt Skip, og vilie hanns Foolk fara i Land, þaa skal þad ske med Skipherranns Leyfe, þo skal Helmijngurinn vera i Skipinu, og gæta þeß trwlega, og þeir sem fara i Land, skulu koma aptur til Skips snemma um Kvolldid, edur um Dag-inn, þaa Skipherrann þeim befalar. Hvor sem dirfiz herimoot ad vera i Lande aan skiallegrar Orsakar og Skip-herranns Leyfis, skal straffaz og bæta þar fyrer, so sem her næst fyrer fram-ann sagt er.

## 9.

Þegar nockrer Skipmenn vegna Dryckiuskapar edur annarar O-hlydne, vilia ecke fylgia sijnum Skip-herra, þaa Vindurinn er goodur, ed-ur þeim af Skipherranum tilsagt ver-

dur;

dur; þaa skal hann avngvannveginn liggia Byrinn af sier, helldur leigia adra i þeirra Stad, og saa, sem brotlegur fiñst skal aptur gefa þad sem hañ hefur medteked, og þad sem saa sem i hanns Stad leigdur er, kostar meira, og hafe forbroted tiju Lood Silfurs til Koongsinns, og tiju Lood Silfurs til Bysinns. Hafe hann ecke ad betala med, þaa skal hann afhendaz Stadariñs Yfervallde, og þræla fyrer sijnu Brote og Fallsmaale; Og ef nockur er sijnum Skipherra ohlydiñ aa Sioonum og trœtsugur honum aa moote, edur orooa- og jogunar-samur vid hitt Skipsfoolkid, so ad af honum er ad ottaz fyrer Upphlavpe, Morde, edur annare Olucku, þaa hefur Skipherrann Magt til, med Raade og Samþycke tveggia edur þriggia bestu Maña, sem i Skipinu eru, ad laata hann aa Land, þo þar sem christner Menn bwa, og kavpa annann i hañs Stad, af Lavnum og Ahøfn þeß ohlydna, og sie Skipherrann þar med aakærulavs. So maa ei helldur nockur Skipherra edur annar Skips-Embættismadur, hafa osæmeleg Ord edur Verk i frame vid nockurn af sijnu Foolke sem i Skipinu er, og ef hann missier sig i þvij, þaa skal hann tilbærelega straffaz þar fyrer, nær hann er heimkominn.

# IO.

Dirfiz nockur til ad giora Flockadraatt, Upphlavp edur Samband aa moote Skipherranum, og þad verdur skiallega bevijsad, þaa skal þad straffaz sem Høfudlavs Giørnijngur, og eins skulu þeir straffaz, sem vilia neyda og þvijnga Skipherrann til ad sigla til annars Stadar med þaa, eñ þeir leigder eru, Skipherranum og Reidurunum til Skada.

# II.

Foolkid skal hallda goodann Frid og Einijng innann Skipsborda. Enn ef nockur særer edur limlester añann, so ad Skipid eda Skips-Erfidid forsoomaz þar fyrer, þaa skal saa, sem Skadann giort hefur, kosta añann i stadinn, og bæta þar fyrer til Koongsinns og Bysinns, epter þvij sem Skadinn er stoor til, og bæte Skipherranum þann Skada, sem hañ þar af fenged hefur.

# I2.

Enn døye saa særde af þeim Skada, þaa skal Skipherrañ og allt Skipsfoolkid vera skylldugt ad hallda Mañdraaparanum føstum, og afhenda hañ Stadarinns Yfervalde, þar sem þeir koma fyrst i Koongsinns Løndum og Rijkium, til ad lijda sitt forþient Straff epter Maalávøxtum; Og ef same Stoorbrota-Madur kemst undañ med þeirra Vilia og fyrer þeirra Forsoomun, þaa skulu aller þeir sem i Skipinu voru, svara til hanns Giørnijngs.

# 13.

Ef nockur Skipherra, Kaupmadur edur Bátsmadur fellur i nockurn Lijfleysis Giorniijng, þá skal sw hañs Yfersioon ecke koma Skipe og Gootse meir til Skada edur Hindrunar, eñ hanns eigenn Partur i þvij kann ad vera, og þad skal afhendaz med Eyde þriggia hinna bestu Manna, sem i Skipinu eru.

# 14.

Af þeim Skipum sem Barskerar eru fyrer viß Laun anteikner, þá skulu þeir þioona einum og sierhvorium af Skipsfoolkinu med Klippijngu, Rakstre, og ad lækna þá Siwku ään nockurs Betalijngs, nema þad sie eytrande Siwkdoomur, ellegar einhvor hefur ordid sier sialfur ad Skada, fyrer utann Skips-Erfide. Giore nockur Barskere hierimoot, edur tekur munnlegt edur skriflegt Loford fyrer þá Þioonustu sem hann er skylldugur ad giøra, þá skal þad vera Magtarlaust, enn hann skal þar fyrer utann missa tvøfallt af sijnum Launum, vid þad sem hann med soddann Moote vilde ábataz.

# 15.

Einginn Bátsmadur má finna ad Skipherranns Koste, ecke helldur beidaz annars Matar iñañ Skipsborda, enn sidvanalegt er, og Deginum tilheyrer. Hvor sem þad giører, og ecke hefur skiallega Orsök þar til, skal þar med hafa forbroted sitt Kaup og Atvinnu, og Skipherrann má láta hann uppá þad fyrsta Land sem hann kemur til, þar sem christner Meñ eru, Somuleidis skal og fara, ef nockur spiller Øle edur Mat af Asetnijnge. Vilie nockur af Skipsfoolkinu hindra þad Skipherranum til Mootþrooa, skal vera sama Straffe undergefenn.

# 16.

Kome Skipherrann til Hafnar, þar sem ferskann Mat er ad fá, þá er hønum leyft ad kaupa hann, epter sijnum eiginn Vilia; Þo má eingiñ neyda edur þvijnga hann þar til. Hvor sem giører hierimoote, skal hafa forbroted þriw Lood Silfurs til Koongsinns, og þriw Lood Silfurs til Skipherranns.

# 17.

Hvor sem vill neyda Kockenn til ad giøra Elld og hallda Máltijd utann á rettre Tijd, hann bæte þar fyrer tiju Lood Silfurs til Koongsinns, og misse sitt Kaup; Enn ef Kockuriñ þeiger yfer þvij, og vill ei opennbera þad, og þad verdur sijdann uppvijst, skal hann þar fyrer bæta þriw Lood Silfurs til Koongsinns og þriw Lood Silfurs til Byarinns; Kockuriñ skal og skylldugur vera ad geima Skips-Kostinn so hann ei spilliz edur fordiarfiz, sokum hanns Forsoomunar.

Giore

Giøre hann þad ecke, þa bæte Skadann og misse sitt Kaup.

## 18.

Einginn skal dirfaz iñañ Skipsborda ad drecka ohooflega, edur giøra Gestabod i Skipinu; enn hvor, sem Maaltijda i mille vill drecka epter Þorfum, honum maa þad leyfaz, og ei fremur. Reyniſt ad nockur giøre hier a moote, hafe þar med forbroted þriu Lood Silfurs til Kongsins og eins mikeo til Reidaranna, so opt sem þad skedur og er klagad. J sama Maata skal Skipsfoolkid straffast, ef þad forsoomar sijna Vagt, edur dirfiz ad gaanga med Elld edur Lioos, edur reykia Tobak under Deckinu, hellst i Strijds-Skipum hia Pwdurhwsinu, og þar sem nockur laus Hor edur Haalmur vera kann. Forsiaae Skipherrann sig hier i, edur nockur annar Skips-Embættismadur, þa bæte twofallt.

## 19.

Sierhvor, bæde Embættismenn og sletter Skipmenn skulu innann Skipsborda, so lenge sem Reisann varer, hallda sier fra Table og Leik, hvort helldur þad aahrærer Penijnga edur Vorur, edur þeir leika uppa Borgun, og giøra þar um sijn a mille munnlegt edur skriflegt Loford, þa skulu soddann Loford aldeilis eckert gillda, og þar ad auke skal bæde sa sem vinnur og hinn sem tapar, hafa forbroted, hvor fyrer sig, þrefallt vid þad sem þeir vedindu um, hvoriar Bætur Skipherrann skal strax innkrefia, edur korta af hvors eins Launum, og skiptaz þær sijdan a mille Skipherranns, fatækra Sioomanna og annara saklausra Baatsmanna.

## 20.

Einginn af Skips-Pioonunum maa hier epter heimta nockra Penijnga edur Penijnga Verd af þeim sem vera kunna innann Skipsborda, hvort helldur þad er Skipmenn edur Reisande, og koma a þann Sioo, sem þeir hafa ecke fyrre um siglt, miklu sijdur ogna þeim epter gomlum vondum Vana, til ad laata hella yfer sig Vatne, edur nockud þvijlijkt; Enn Skipherrann skal strax straffa hvorn einn, sem dirfiz þvijlijkt ad giøra, med Vatne og Bravde i þria Daga.

## 21.

Hlaupe nockur Baatsmadur fra Skipherranum med sitt Kaup, og þad kann bevijsast med Saññindum, þa skal hann þar fyrer straffast sem annar Pioofur.

## 22.

Hvor Skipherra sem hefur leigt sitt Foolk til nockurs viß Stadar, og ef

ef hánn fær i Sinne, þaa hann er þaangad kominn, ad vilia sigla med sama sitt Skip til annars Stadar, hvort helldur hann affermer aa þeim fyrre Stadnum eda ecke, hann forbetre Foolksinns Lavn, epter Reisunnar Asigkomulage, og skal þad vera skylldugt ad fylgia honum, hvor under fiorutiju Looda Silfurs Bætur, hälft til Koongsinns og hälft til Reidarans, og þaa Skipid kemur þaangad, sem Skipherrañ giører sijna Kavp-Stefnu, og hefur affermt, skal Skipherrann gefa þeim sijn Lavn, nema so sie ad Skipid fyrer þeirra Forsoomun hafe Skada fengid.

23.

Faae einn Skipherra i Sinne ad riwfa Brolka sinn aadur eñ hañ kemur til þeß Stadar, sem hañ hefur leigt sitt Foolk til, og hann s'er sinna Reidara Gagn og Abata þar vid, þaa maa hann þad vel giøra, og hanns Bætsmenn skulu vera skylduger, utann Kuurr og Mootmæle, ad affarma; Og ef so mikid er epter af Farminum i Skipinu, ad þad er noogu hladed, til ad sigla þaangad, sem hann hefur leigt sitt Foolk, þaa er hann ei skylldugur ad avka neitt Lavn þeirra; enn þeir skulu fylgia honum þaangad, sem aadur er skrifad; Enn ef hann affarmer aldeilis, og verdur aptur ad inntaka Bak-Lest, þaa gefe hann sijnu Foolke allt þeß Kavp, og vilie hañ so aafram leingra sigla, þaa skal hañ gefa þvij þad sem sangiarnlegt er, og hann kann ad verda aasaattur um vid þad. Finnist nockur ad vera ohlydugur i þessu, þaa skal hann þar med hafa forbroted sitt Kavp og Ahofn, og þar ad avke bæta tiju Lood Silfurs til Koongsinns og tiju Lood Silfurs til Byarinns.

24.

Forsoome nockur Bætsmadur sitt Erfide, allann þann Tijma sem aa Skip er bored edur affermt, þaa skal hann gefa sijnum Stallbrædrum fyrer hvorn Dag sem hann þad forsoomar, hälft Lood Silfurs.

25.

Einginn maa fara fraa Skipe med Bætinn eda Juluna, nema med Skipherranns, Styremannsinns edur Hofudbaatsmañsins Leyfe. Hvor sem þad giører, skal hafa forbroted til alls Skipsfoolksinns þriw Lood Silfurs, og skemmist Bæturinn nockud, edur nockur annar Skade hlyst af þvij, þaa skal hañ standa þar fyrer i Rette þeim sem þar eiga Søk aa, epter Maalavoxtum.

26.

Saa Skipherra, sem vill sigla utann Rijkis, skal gefa Foolkinu sem hann leiger til Ferdarinnar, hälft Kavpid i þeim Stad sem hañ wtreider

er edur bakfermer Skipid, og annann Helmijnginn þegar hann kemur aptur tilbaka, og hefur affært þad Goots og Vorur sem i Skipinu voru; enn þeim sem fara fyrer Maanadar-Kaup, skal betalast epter því sem þeim hefur samed um vid Skipherrann.

## 27.

Nær Skipherra vill sigla utann Rijkis i Vesturpartinn af Evropa, þaa maa hanns og Styremannsinns Ahøfn i þad hædsta ei vera meir enn ein Lest; Høfudbaatsmannsinns, Skip-Skrifarans, Timburmannsinns og Kocksinns ei helldur meir enn haalf Lest og hvors eins hinna Skipsmannanna þridiungur af Lest; eins Dreings Helmijngur vid þad, og skulu þeir hafa þaa Ahøfn Skipleigu frij, og ecke meira. Enn a þeim Skipum sem Vidar-Lest flytia, skal avngvum hvorke Skipherranum nie Baatsfoolkinu leyfast ad hafa nockra Ahøfn.

## 28.

Eingenn maa selia sijna Ahøfn af Skipinu aan Skipherranns Samþyckis og Vitundar under Topun somu Ahafnar, haalfrar til Koongsinns og haalfrar til Skipherranns; Þo þar sem sa er Skipid hefur til Leigu teked vill behallda somu Ahøfn epter Kaup-Stefnunnar Prijs, þaa stande þad honum frijtt fyrer.

## 29.

Skipherrann skal ei helldur vera skylldugur ad svara til nockrar Ahafnar, þaa i Skipid er hladed, helldur skal hann, þaa til þess er teked, yfer Høfud aaminna alla um þad, og tilkynna hvoriumm einum, sem vill koma sinne Ahøfn i Skipid, ad nyta sier Rwmid sem best hann kann. Þo' skal eingiun Baatsmadur gefa sitt Rwm ødrum epter aan Skipherranns Samþyckis.

## 30.

Fare Baatsmadur fraa Skipe og giøre sig onytann af Dryckinskap, edur a annann Veg, og verdur þar af Limlestur, so hann getur ei fullkomnad sijna Reisu, hañ skal gefa aptur tilbaka þad sem hañ uppbored hefur, og Skipherrann leige annann i hanns Stad. Þad sem þad kostar meir, skal betalast af þess sama Baatsmanns Færijng.

## 31.

Fae einhvor af Skipsfoolkinu Skada vid Skips-Erfide, edur med ødrum Hætte, Skipinu til Þarfa og Gagnsemdar, og er þo ecke sialfur Orsøk þar til, edur og ef einhvor verdur siwkur a Reisunne

unne, so hánn ei getur leged i Skipinu, þaa skal Skipherrann laata flytia þann Siwka aa Land, og wtvega honum Herberge, so honum sie þar þioonad og med Lioose og Fædu forsorgadur epter Þorfum med þeim Hætte, sem Kostur hañs er aa Skipinu. Verde hann heilbrigdur, þaa kome hann aptur aa Skipid; Og ef hann kemur aa Skipid aadur enn Reisan er endud, þaa skal hann faa allt sitt Kavp; Þo er Skipherrann ecke skylldugur ad bijda epter honum, helldur sigla þaa Skipid er Seglferdugt. Og deye hann medann Skipid er aa Heimannferdinne, þaa skulu hanns Erfijngiar hafa hallft hanns Kavp, og alla Færijng, enn giallda hallfa Skipleigu, med ødru sem honum tilheyrer; enn sie Skipid aa Heimreisunne þaa hann deyr, þaa taka hañs Erfijngiar allt hanns Kavp og Færijng, aan þeß ad betala nockra Skipleigu, enn betale fyrer hanns Jardarfør; Og skal Yfervalldid hafa Tilsioon um þetta, ef Erfijngiar þeß Burtdaana eru ecke nálæger.

## 32.

Hafe Skipherra hladid sitt Skip, og hvorke þorer, maa ne getur, sokum Strijds, Siooreifara, Arrests af Stadarinns edur Landsinns Yfervallde, fullendad sijna Reisu, og honum er leyft ad laata sitt Foolk fraa sier, þaa er hann ei skylldugur ad borga þvij meir eñ fioorda Partinn af Kavpinu; Enn ef Skipherrann sigler wt aa Haf, og misser annadh-ort Segl, Mastur, Atkere edur Kadla, edur fyrer adrar merkelegar Orsaker neydiz til ad hlavpa aptur til Hafnar, ad uppleggia sitt Skip, þaa skal Skipsfoolkid laata sier nægia med hallft Kavpid, ef þad er leigt til Heimannferdarinnar alleina. Enn sie þad leigt bæde fram og tilbaka, þaa med fioorda Partinn; og sie þad leigt til hvors Maanadar, þaa skal þad faa Borgun fyrer so laangann Tijma sem siglt hefur vered.

## 33.

Verde Skipherra siwkur edur osamþyckur vid sijna Reidara, so ad þeir vilia setia aññ Skipherra fyrer Skipid, þaa skal allt Skipsfoolkid fylgia þeim nysetta Skipherra fyrer somu Lavn og þeim fyrre, under Kavpsinns Fortøpun. Þo skal hann bæta vid Lavn þeß, vilie hann lengra sigla. Enn vilie Skipherrann selia Skipid, þaa eru þeir ei skylldiger ad þioona þeim nya Skipherra lengur enn epter þeirra Samnijng vid hinn fyrra Skipherra. Vilie og saa nye Skipherra taka nya Haaseta i Stad þeirra gomlu, þaa skal saa fyrre Skipherra betala þeim allt þeirra Kavp, og flytia þaa til þeß Stadar sem þeir fyrst fraa sigldu.

## 34.

Ef Reidurum synist raadlegast ad assetia nockurn Skipherra, þaa skal þad ske med allra þeirra Vilia og Sampycke; enn kome þeim ei samann um þad, þaa skulu Doomararner dæma hvort skialleg Orsok sie til hans Assetningar. Eige saa assette Skipherra nockurn Part i Skipinu, þaa skulu Reidararner kavpa hann epter goodra Manna Tilsogn.

## 35.

Kome Oeining mille Skipherrans og Reidaranna, so hann ecke kann leingur ad fara med þeirra Skip, edur og so mille Reidaranna Innbyrdis, i þann Maata, ad sumer vilia Skipid skule sigla, enn sumer ecke, þaa skal Skipid þar fyrer ecke kyrrt liggia og forsoomast, helldur skulu þeir færre eru, meta þad fyrer Peninga, so sem þeir vilia selia þad edur kavpa, og hvorier sem þaa behallda Skipinu, skulu betala þad hinum Reidurunum innann sex Vikna þar epter, aan alls Rettargaangs, og laata þad avngvanveg hindrast; Enn kome þeim ei samann um Skipid, þaa skal þad ei þar fyrer liggia, helldur maa hinn meire Partur Reidaranna, wtreida Skipid sier til Gagns; enn aller Reidararner skulu aabyrgast Skip, og þeir sem ecke vildu wtreida þad, eiga ecke ad hafa neina Leigu af Gootsinu.

## 36.

Ligge Skipherra bwinn til Byriar, þaa maa einginn hindra hans Styremann edur Baatsmann med Skulldaheimtum. Enn þad Gots sem hann aa i Skipinu, ad undannteknum hans Hafnar- og Sængur-Klædum, skal af Skipherranum og Foolkinu med svornum Eyde, afhendast þeim, sem uppaa klagar, enn hinn skal fullenda sijna Reisu, sem hann hefur lofad.

## 37.

Gete Styremadur edur Baatsmadur sialfur wtvegad sier Skip, og vill sialfur fara med þad, þaa maa hann vera lavs, þo hann hafe leigt sig odrum, þo skal hann setia annann i sinn Stad, edur skila Skipherranum aptur þvij sem hann hefur uppbored.

## 38.

Einginn Baatsmadur maa skipta sier af Mottum *) edur þvij sem i þeim loder, helldur skulu Kavpmennerner sialfer niota þeirra og þeim behallda, hafe þeir til þeirra kostad. Þar aa moot skulu Baatsmennerner hafa



*) MOTTUR er Umbúnadur af Hálme edur ødru, í kringum lavst Góts í Skipinu, sosem Sallt, Kornvørur rc.

hafa til Primegelt (Gladnijngs) fioora Hvijta af hvorre Lest þar sem Skipid er affermt.

# II. Cap.

# Um Skip-Leigu, Tilsion og Reikningskap.

## I. Art.

Eingin Skipherra skal hafa Valld til ad burtleigia sitt Skip, nema med Vilia og Samþycke sinna Reidara, so framarlega sem þeir eru so nælæger, ad hann getur fyrerspurt sig þar um hiaa þeim, annadhvort munnlega edur skriflega, og maa, þeim ad skadlausu bijda epter Svare. Enn ef ecke, þaa rædsære sig þar um vid adra fornemme Skipmenn, og ræde sijnum Reidurum til Gagns og Gooda, so sem hañ byst vid ad forsvara, utan hañ sie aa þeim Stad, sem hann med sijnu Fragtbrefe er wtþryckelega skulldbundinn til ad epterfylgia Factorsins Befalnijngu: Og giore hann hier aa moot, þaa skal þad, sem hann soleidis giort hefur, vera Magtarlaust, og þar ad auke skal hann svara til alls Skadanns, og bæta tiju Lood Silfurs til Koongsinns og eins mikid til þeß Byar, hvar Skipid er fermt edur affermt i Koongsinns Londum.

### 2.

Nær Contractar eru giorder mille Skipherra og þeirra er Skip leigia under Goots sitt, þaa skal þad skriflega ske, hvorier Samnijngar kallast Certipartier, og skulu Skipherrarner þar fyrer utañ wtgefa þriu eins hlioodande Skrif uppaa allt þad Goots, mikid edur litid, til serhvors sem flytur nockud i Skipid, hvor Skrif ad kallast Conoscement (Skips-Jardteikn.)

### 3.

Þegar Skipherra hefur burtleigt sitt Skip, og aakvedid vissañ Dag mille sijn og Kaupmannsinns, þaa skal Skipherrann ef hann ecke er tilbwenn, epter þeirra Certiparties og Samnijngs Hlioodan, aa þeim tiltekna Dege, og Kaupmadurinn þeßvegna hindrast, og fær ecke sitt Goots aa Kaupstefnuna, standa Kaupmanninum þar fyrer i Rette, og bæta honum sinn Skada, epter Dandemanna Tilsögn, ad þvij undannteknu, ef Ovedur, Vetrardagur edur oñur stoor Olucka, og hvatskeitlegt Tilserle, kynnu ad hindra hann aa sinne Reisu. Sömuleidis ef Skipherrann er tafinn af Kaupmanninum, gillde hid sama.

### 4.

Leige Skipherra sitt Skip til einns, tveggia edur fleire Kaupmaña, med so Moote ad hañ skule aa vissum Tijma bwiñ

bwiñ vera, og einhvor af þeim Kavpmonnum færer ei sitt Goots til Skips i rettann Tijma, so Skipherrañ þeß vegna tefst, þaa byriar Skipherranum ei þeß vegna ad undanndraga sijna Reisu, helldur med tilhlydelegum Hætte protestera aa moote þeim, sem ecke er kominn med sijnar Vorur, hvor ed skal betala fulla Leigu epter þad honum aaqvardada Rwm, so framt Skipherrann, þaa hann vill sigla, lætur þria hina bestu sijna Skipmenn sia ad þad er avdt, og þeir geta þad loglega vitnad; þo ef Skipherrann getur, aan þeß ad hindra sig, fenged annad Goots i þeß Stad, þaa skal sw Leiga, sem þar epter gelldst, koma Kavpmanninum aptur til gooda. J sama Maata ef einn Kavpmadur vill naa aptur wr Skipinu sijnu Gootse, sem þaangad er komed, og Skipherrann, aan þeß ad hindra Ferd sijna, getur wtlosad þad, þaa skal hann betala Skipherranum fulla Leigu, nema so sie, ad Skipherrann gete aan þeß ad hindra Ferd sijna, fenged añad Goots i Stadinn, þaa skal Kavpmadurinn aptur i moot nioota þeirrar Leigu, og borga Skipherranum fyrir sitt Omak og Umkostnad fyrer Gootsinns aa- og afførslu af Skipinu. Enn skyldu aller Kavpmennerner vilia af Skipinu føra sitt Goots, þaa skal Skipherrann laata sier nægia med haalfa Leigu, og Foolkid med haalft Kavp.

## 5.

Kome Skipherra til framande Landa, og fremur þar nockra Hondlun, hvort helldur er Kavp, Sala, Skipleigijng, edur hvør onnur Kavphondlan nefnast kann, og hefur med Brefe og Signete skulldbundid sijna Reidara sem heima eru, til ad svara til og betala nockud, þaa eru þeir ecke skylduger til ad hallda þad i nockurn Maata, þvij einn Skipherra hefur ei Valld yfer Reidaranna Gootse, meir enn hann under Hondum hefur, sem er þad Skip og Goots, sem hañ þaa hefur med ad fara; Enn hafe einhvor keypt, selt edur hondlad vid Skipherra, þaa maa hañ søkia Skada sinn hiaa Skipinu, enn ei hiaa Reidurunum, nema so sie ad þeir sysle og med sama Kavpmanns Goots.

## 6.

Hafe Skipherra lofad Kavpmañe ad flytia hanus Goots til Kavpstefnuñar, og befalar honum ad føra þad til Prammunnar (stoorrar Feriu) og Skipherrann sender þad tilbaka, og lætur þad liggia, þaa skal Skipherrann skylldugur ad borga Kavpmanninum þad Goots so dyrt sem þad kunne seliast aa Kavpstefnune, þegar hann kemur þaangad, enn draga þo Skipleiguna af Betalijngnum.

## 7.

Take madur Skip af nockrum til Leigu, og vill sialfur laata fara med

med þad um vissann Tijma til aaqvedinns Stadar, og þvij Skipe tilsellur einhvor Olucka, aan þeß Forsoomunar sem þad til Leigu took, þaa svare hann ecke þar til; Enn brwke hañ þad moote Contractinum, lengur enn aakvedid var, edur til annara Stada, aan Vilia þeß sem Skipid tilheyrer, þaa bæte hann honum sinn Skada, epter forfarinna Sioomanna Tilsogn, nema ef hann er Arresteradur aa þeirre sinne Reisu, og er ei sialfur Orsok þar til, edur neydist til moote Vilia sijnum, ad sigla annann Veg, hvad honum byriar ad sanna med aanægelegum Bevijsijngum.

## 8.

Ef Skipherra leiger sitt Skip til nockurs fyrer ofmiked, þaa byriar honum ad taka so miked i Skipid af Gootse þeß sem af honum leigde, sem hann hæglega getur flutt, enn laata eckert i Skipid aan hanns Vilia, hvorke fyrir sialfann sig nie adra. Giøre Skipherrann þar aa moot, þaa upprette hann þeim er aa Leigu took allann þann Skada, sem hañ lijdur.

## 9.

Sierhvor Skipherra skal hafa aa þvij goodar Gætur, ad hann ei sialfur ofhlade Skipid sokum Agirndar; Enn verde þad fundid, skal hann forbrotid hafa af sijnum eigenn Penijngum fioruttiju Lod Silfurs til Koongsinns, og fioruttiju Lood Silfurs til Byarinns, og þar fyrer utann bæta Skadann.

## 10.

Sierhvor Skipherra skal hafa grangæfelega Tilsioon um Kaupmanns Gootsid, þaa þad er i Skipid fært og honum er þad afhent vid Skipid, so og þaa þad er komid i Skipid, um þeß Stubning*) og Garnering**) og allt annad. Faae Kaupmadurinn Skada edur Skipherrann ellegar hañs Foolk minkar hanns Goots, þaa skal Skipherrann þad borga af sinum eigenn Penijngum, og bæta Kaupmanninum hanns Skada, epter þvij sem Gootsid kynne seiiast aa Kaupstefnune, og Kaupmadurinn þar aa moot betala Reidurunum fulla Skipleigu. Enn ef sama Goots lekur edur fordiarfast aan Skipherranns edur hanns Foolks Forsoomunar, þaa, nær Skipid kemur þaangad, sem þad skal affermast, og slaae Kaupmadurinn Prisvarsiñum aa Fatid sem Vijn edur onnur fliootande Vara er i, og skipar ad hissa þad ut, þaa gefe hann Skipherranum fulla Leigu, edur og laate hann behallda þvij Fate uppi Skipleiguna. Forsoome

soome

*) STUBNING er, stablad og fastsett.

**) GARNERING er Fódur-Verk af Plønkum samsett soleidis, ad þad kunne ad hallda Vatninu frá Bøtsinu, bæde nedañunder og kríng Sidurnar i Skipinn.

soome Kaupmadurinn þanninn ad taka sier Vara, þa hafe Skada fyrer Heimgialld. Enn sie Skipsfoolkid Orsök i nockru þvijlijku, þa hafe Skipherrañ Adgang til þess þar fyrir.

## II.

Nær nockurt Skip kemur iñi einhvoria Höfn her i Rikiunum med Styrte-Goots,*) sem selst med Tuñu-Mæler, þa skal Skipherrann ecke flytia neitt wr Skipinu, utañ þad sie mælt i rett breñdum og merktum Tuñum, so vel Foolksinns Færijng, sem Reidaranna Part, og skal þad ske i Stadariñs Mælijngar-Meistara Nærveru, og skal sa sem Gootsid medtekur, gefa Mælijngar-Moñum til Launa af hvorre Tunnu so mikid sem tilskipad er i hvorium Stad. Hvor sa Skipherra sem giorer her a moot, hafe þar med forbrotid tiju Lood Silfurs til Koongsinns, og tiju Lood Silfurs til Byarinns. Sierhvor Skipherra skal kostgæfelega adgæta, ad Styrte-Gots, hellst Korn edur annad sem þess vidþarf, sie iduglega a Ferdinne snwed, so þad ecke mocke edur fordiarfist.

## 12.

Eingenn Skipherra skal hafa Valld til ad selia sitt Skip, hvorke Utannlands nie Innann, utañ med siña Med-Reidara Vitund og Samþycke, og þar til skal hann hafa þeirra skriflega Fullmagt, ef þeir vilia sa þad i burtu, uppa þad Skipherrañ kunne ad gefa þeim sem kaupa vilia, tilbærelega Fullvissu. Sie hier i moote giort, þa skal þad Kaup verda Magtarlaust, ef þad er uppaklagad, og Skipherrann skal hafa forbroted eitt hundrad Lood Silfurs til Koongsinns, og þar ad auke, giora sijnum Reidurum Anægiu. Enn sie þad so, ad sama Skip feinge nockurn merkelegann Brest og Skada a sinne Reisu, og Skipherrann vill þess vegna selia þad, þa hefur hann Valld til þess; þo skal hañ sanna med Vitnisburde fiogra hinna bestu Manna sem a Skipinu voru, hvort þar vár skialleg Orsök til, edur ecke.

## 13.

Einginn Skipherra ma selia, burtgefa edur sialfur behallda nockru af Skips Utbwnade, Foolksiñs Koste edur odru sem Skipinu tilheyrer, nema so sie ad hann ad Reisunne endadre, stande rigtugann Reikning af þvij med ollu odru sem ofargad er. Hvor sem giorer odruvijse, skal straffast þar fyrir, sem fyrir annann Þioofnad.

## 14.



*) STYRTE-GOTS kallaz þad sem lausu má hella i Skipid, so sem Korn, Salt &c.

Ef nockur af Reidurunum vill selia sinn Part i Skipinu, þaa skal hañ fyrst tilbiooda þad sinum Med-Reidurum, ef þeir vilia gefa eins mikid fyrir þad og einnhvor annar, þvij þaa eru þeir nærster til ad behallda þvij. Giore hann þad ecke, helldur selur þad einum Framande, þaa hafa þeir tilsamanns Magt til ad innleysa Skipid af þeim sem keypt hefur, med sama Verde epter goodra Manna Tilsögn.

# 15.

Falle so til ad eitt Skip liggur lenge aa Leid, og vantar Kost edur annad sem þad vidþarf, og Skipherrann hefur ecke Penijnga til ad kaupa fyrir, edur getur ecke fenged þaa i Tijma aa Vexel uppaa sijna Reidara, þaa maa hann selia so mikid af Kaupmanns Gootsinu sem hann medþarf til þeß, og ecke meira, og skal hann betala þad eins dyrt og hitt annad er selt aa Kaupstefnune, og rijnga Skipleiguna vid Kaupmanninn i Betalijngnum.

# 16.

Ef þad skedur ad nockur Skipherra er lenge aa sinne Reisu, og hann tekur ad hafa lijtinn Kost, þaa skal hann med Styremannsinns, Hösudbaatsmannsinns og Skrifarans Raade, skipta og wtdeila i mille alls Skipsfoolksinns, epter Tijmans Asigkomulage.

# 17.

Skemmist Kaupmannsinns Goots i Skipinu, af þvij ad Yfer-decked er ecke þiett og vel forvarad, sem byriar, þaa skal Skipherrañ svara þar til, og bæta Skadaan; Eñ kome þad ad nedanverdu, þaa skal þad gaanga yfer Skip og Goots, so framt Skipid þaa þad wtsiglde, var vel adgætt, og vard lekt aa Ferdinne, og sijdann hefur eingin Skipherrans edur Foolksinns Forsoomun vid Pumpuna þvij vallded.

# 18.

Hvor Skipherra er skylldugur ad hafa gooda sterka Kordeler og Vindukadla i sijnu Skipe til ad færa Kaupmanns Gootsid med wt og inn i Skipid. Slitne Vindukadallinn og skemmizt Gootsid, þaa svare Skipherrann einsamall til þeß Skada; eñ sleppe Gootsid wr Kadlinum, sökum þeß ad Foolkid hefur ecke lagt þad vel i, þaa betale þad þann Skada.

# 19.

Aller Skipherrar edur Styremeñ skulu, helst aa þeim Reisum, sem ecke eru aa mille Skattlandanna i einu Rijke, hallda rigtugar Dag-Bækur yfer þad, hvadann Vindurinñ hefur aa hvorium Dege og Tijma vered, so og hvorninn Reisann gengur, og hvad laangt henne er aa hvorium Dege framhalldid, nær þeir koma til Hafnar, og hvorsu lenge þeir verda

þar

þar ad vera, hvad Vinddurinn blæs hvorn Dag, sem og rigtuglega upp-teikna nær og til hvors þeir selia nockud af Vorunum, uppa þad Reidarar-ner og Kaupmennerner sjae af sömu Bookum fullkomna Underretting um þad sem sked hefur a Reisunne, þeg-ar Skipid er luckulega Heim aptur komed.

## 20.

Strax sem Skipherra hefur med-teked sijna Skipleigu, og annad sem hanns Reidurum tilheyrer, þa skal hann aan alls Undanndrættar, giora þeim i allann Maata good Skil og Reiknijngskap. Verde þad sunded ødruvijse enn rett er, þa skal þad straff-ast jafnt vid annann Otrwskap. Sijn-um Reidurum til Anægiu, og Reik-nijnganna betre Upplysijngar, skal han framvijsa sijna Book, hvari sierhvors Nafn sem nockud hefur i Skipid laated, skal med Dege og Dato innfært vera, so og rigtug Tala og Merke a øllum Pockum, Fotum og Tunnum, med Upplysijng um þad. hvad sagt hefur vered ad i þeim være; Og þar fyrir utann skal hann vid sijna Reiknijnga hafa skylausar Bevijsijngar uppa all-ar hanns Utgipter og Tilkostnad, sem er giort Skipinu til Nota, og ad Reik-nijngunum rigtuglega endudum skal hañ afhenda hvorium af sijnum Reidurum, þad hønum med rettu tilheyrer. Skyll-de og Skipherrann med þvij ad segia rangt til a Tollstadnum, edur ad sækia til nockrar ologlegrar Hafnar, med þvij ad innfæra Skip og Goots i annann Stad, edur hlada i þad añ-arstadar enn i rettum almennelegum loglegum Hofnum, hvar Koongsinns Foogetar, Tollarar edur Zisemeistar-ar eru tilskickader, edur med ødrum Hætte orsaka Skips og Goots Con-fiscation, þa svare Skipherrann til alls þeß Skada, sem nockrum þar-fyrir tilfellur.

## 21.

Ef nockur Skipherra annadhvort sialfur, edur lætur sitt Foolk burtfæra sijna Bakleſt a forbodnum Stodum, og nockur Skade edur Ut-svar orsakast af þvij, þa svare Skip-herrann øllum þar til.

## 22.

Sierhvor Skipherra og Skips-Embættismadur skal hafa alvar-lega Tilsioon um. þad ad allt gange christelega, ærlega og fridsamlega til innann Skipsborda, og avngvann-veginn lijda ad nockur sverie, bølve edur veke nockra Þrætu edur Tvijdræg-ne, edur ad. hvor gegne ødrum med osæmelegum Ordum edur Verkum. Giore nockur þetta, þa skal Skip-herrann med nockrum hinum bestu Skipmonnum, hafa Valld til strax epter sinne Velþocknan ad straffa þa. Sie Sokinn af stooru Verde, þa skal hafa þann Seka i Hallde þar til

þeir

þeir heim koma, og þa gange þar um epter Lands Løgum og Rette. Allar þær Bætur, sem svarast skulu epter þessum Sioo-Rette, skulu rigtuglega, og an nockurra Mootmæla betalast af þeim Seka; edur og, ef hanns Goots, sem innann Skipsborda er hrockur ei til, þa skal iñehallda so miklu af hanns Kavpe, og annadhvort geymast i einnre Sparebyssu (Geymslu-Bavk,) edur og af Skipherranum afskrifast, og Hlutur hinna Fatæku afhendast þeirra Forstandara, imoot tilbærelegre Qvitterijng, þa Reisan er endud. Forsoome nockur Skipherra þad, þa skal hann sialfur betala twofallt so miked.

# III. Cap.

# Um oluckuleg Tilfelle, Averie og Loodsmenn.

## I. Art.

Vrioote nockur Skipherra sitt Skip, skal hann vera skyldugur til med Skipsfoolkinu ad biarga Skipe, Gootse og Skipreida, og fa þar fyrir af Kavpmanninum sanngiarnleg Biarglavn, epter goodra Manna Alite; Og skal sa sem Gootsid a, betala Skipherranum Skipleigu epter þad biargada Goots, og Skipherrann Skipsfoolkinu sijn Lavn, epter þvij sem Sizlijnginn er lavng til, og Dannumenn alijta rett ad vera; Og ef nockur burttekur, edur dregur under sig nockud af þvij Skipbrots-Gootse, skal straffast so sem fyrir añañ Þioofnad, og hvor sa Baatsmadur, sem ei vill hialpa Skipe og Gootse og Skipsreida, hann skal missa sijna Færijng og Kavp med, ef hañ hefur adur nockud fenged, og halldast sijdann fyrir ærlegann Mann ibland annara goodra Siooferdamanna.

## 2.

Skyllde nockur uppkveikia Elld a Nattarþele, edur uppsetia nockurt Teikn a Biorgum, edur añarstadar vid Siafarstrondina, til ad villa Siglijngamenn, og koma þeim i Olucku edur Skada, þa skal hvor sem ad þvij verdur loglega yfirbevijsadur, straffast a Lijfinu.

## 3.

Kome tvo Skip siglande, og hvorugt getur viked fra odru, enn fa bæde Skada, þa skulu bader Skipherrarner med sijnu Foolke sveria, ad þad skede af Orade og af Ovijlia, þa betale bader Skipherrarnir Skadann, hvor ad Helmijnge, hvort helldur þad verdur a Noott eda Dege.

## 4.

Ligge Skip i Hofn edur œ Legu, og annad kemur siglande, og rekur þad i Kaf sem liggur vid Atkere edur er fest, ellegar giörer þvij med ödru Moote Skada, þœ skal sœ Skipherra sem Skadann giörde, betala allann Skadann af sijnum eigen̄ Peningum, so miked sem hanns Goots tilhrockur, ef þad verdur sokum han̄s Forsoomunar og Fyrersioonarleysis. Hafe hann ei Efne œ ad betala, þœ borge Skipid Skadann: Þo skal ei Kaupmanns Gootsid þessa gialllda. En̄ fœe sœ siglande sialfur Skada, þœ hafe Skada fyrir Heimgialld; Enn verde Skadinn fyrer Naudsyn, þœ skal hann betalast af bœdum Skipunum, epter goodra Manna Alite, epter þvij sem sanngiarnlegt vera kann.

## 5.

Verdur nockurt Skip laust, af þvij ad Atkere edur Kadall sundurbrestur annadhvort i Storme edur af ödru Ohappe, og rekur þad œ an̄ad Skip, sem liggur fast vid Atkere, og fœ bæde Skada, og þad reynist ad Skipherrann hefur ecke Skulld i þvij, þœ skal sœ Skade yferskodast af skinsömum Sioomonnum, og betalast af bœdum Skipunum epter þeirra Velþocknan og Alite. Enn fœe þad Skip alleina Skada, sem rekur ad hinu ödru, þœ skal þad Skipid, sem liggur vid Atkere ecke svara þar til i nockurn Mœta

## 6.

Liggur Skip vid Atkere, og eitt an̄ad Skip rekur þar ad af Storme og Sterkvidre, og eitt edur fleire, sem liggia i Vege fyrir þvij sem rekur, verda vör ad Skade er i Nœnd, og ef einhvor slepper Kadle edur Atkere, til þess ad fyrirbyggia stærre Skada, sem eitt Skipid kynne fœ af ödru, þœ skal Streingurinn og Atkerid reiknast œ mille og betalast bæde af þvi Skipe sem rekur, og hinum ödrum sem slepptu sijnu Atkere, epter dugande Sioomanna Tilsögn.

## 7.

Ligge nockur Skip nærre hvort ödru, og þad eina liggur so nærre Grynningum, edur annara Orsaka vegna getur ei burtviked, og hætt er vid ad þau kunne ad skada hvort annad, þœ skal sœ sem liggur nærre Grynningum, og ei getur burt viked, beida hinn annann, sem getur fært sig, ad draga upp sitt Atkere, til ad hindra Skada, og vilie hann þad ei giöra, skal hann sialfur meiga giöra þad. Enn ef hinn bannar edur giörer i þvij Hindrun, og verde þess vegna nockur Skade, þœ skal sœ sem viked gat, betala hann.

## 8.

Fœe eitt Skip Skada œ annars Atkere, sem liggur œn Hnackmida, þœ skal þad Skip sem avngvan̄

vann Hnackmida hefur, betala allañ þann Skada sem hitt fær, nema so sie ad Boolstreingurim hafe slitnad epter þad Atkerinu var wtkastad, og Skipherrann med þrimur odrum bestu Monnum, a Skipinu vilie sveria, ad Bool var a þvij sama Atkere, þa hann kastade þvij sijdarst wt: Somuleidis, ad hann ei visse annad enn þar være Hnackmide a, þegar Skadinn skede, og þa bæte Skipinn Skadañ til Helmijnga, ad Kvvpmanna Gootsenu fraateknu.

9.

Þav Skip sem liggia vid Atkere wt a rwm Sioo, edur sigla a Havsttijma, þegar Nætur eru dymmar, skulu til ad fyrerbyggia allann Skada sem fyrer er ad ottast, brwka Skridlioos; Þo er ei her med meint þav smaau Skip, sem ei geta hæglega flutt sóddann Skridbittur.

10.

Nate eitt Skip sem er hladid med Kavpmanns Goots i Storma edur adra Navd, so Skipherrann verdur ad laata kasta af Gootsinu, edur hoggva Masturtre, Kadal edur Atkers Streing, ellegar ad hleypa a Land med Skipid, uppa þad hañ kunne ad biarga sijnu Lijfe, Skipe og Gootse, þa skal Skipherrann fyrst raadfæra sig um þad vid Kavpmanninn, edur hanns Umbodsmann, ef nockur af þeim er þar til stadar. Vilie þeir ecke samþyckia, og Skipherrann aalijtur þad þo navdsynlegt, þa skal hann fylgia Meinijng hinna flestu og bestu Skipmanna, sem skulu sijdañ þa þeir eru til Lands komner, stadfesta med Eyde, ad þad hafe giort vered til ad biarga Lijfe, Skipe og Gootse. Sierdeilis skal Skipherrann siaa vel til ad þvij þyngsta og miñst verda Gootse sie fyrst kastad, epter þvij sem mogulegt er. Og skal Skipherrann virda Skipid fyrir Penijnga, so mikla, sem hann vill sialfur behallda þvij fyrir, og rædur þa sa sem took þad til Leigu, hvort hann vill taka þad fyrir so mikid, edur laata Skipherrann behallda þvij, og skal þo sa þad a Leigu took, hafa innann tuttugu og fiogra Stunda, gefed þar um vist Svar.

11.

Þar nærst skulu allar Vorurnar, bæde þær wtkostudu, og þær sem epter eru, verdleggiast, epter þvij sem þær seliast a Kavpstefnune, hvar þær sem til eru, skulu seliast, og skal sijdañ allur sa Skade, sem Skip og Goots hlotid hefur i nefndu Tilfelle, ellegar af þvij kastad var fyrir Bord, edur hoggvid Mastur eda Reide, tilreiknast ollum sem Hlut eiga i, hvad ed kallast Averie, so ad Skadinn skiptist bæde ollu Skipinu, og ollu þvij vardveitta Gootse, so vel sem og Skipleigunne sem gefast atte af ollu þvij Gootse, sem i Skipid var flutt, bæde þvij

þvij behalldna og þvij wtkastada, og er einginn Skipherra skylldugur ad láta neinn fara burt med sitt Goots, fyrr enn hann er bwinn ad betala sin̄ Part af Averie, edur stillt þar fyrir ánægelega Borgun. Skipsfoolksins Færijng skal ei her med reiknast, ei skal helldur Averie gefast af Bodmerie-Penijngum.

# 12.

Í Samann-Reiknijngnum skal þad Goots sem wt var kastad alleinasta teliast, epter þvij sem Skipherran̄ hefur Conoscementer og Skipleigu Bref fyrir, og eckert meira, nema Skipherrann gete loglega og ánægelega bevijsad, ad meira og an̄ad Goots hafe vered i Skipinu.

# 13.

Ef nockurt Gots fordiarfast vegna þeß þvij er wtkastad, edur wtþenst af Sioonum i þvij sama, þá skal sá Skade og álijtast fyrer Averie; Enn þad sem kemur til Skada utann þvijlijk Tilfelle, skal ei reiknast fyrer Averie, og ecke helldur sá Skade sem skedur epter þad Gootsid er aptur stablad og sett i Lag.

# 14.

Skyllde og nockud af þvij wtkastada Gootse edur Skipsreida reka til Lands, edur dragast wr Sioo, og Eigandinn fær þad, þá byriar ecke framar ad reiknast Averie, edur gottgioraſt fyrir sama Goots edur Skipsreida, enn Skadinn sem þad hefur fenged, hleypur sig til.

# 15.

Allur sá Skade sem Skipsfoolkid fær i soddan Tilfelle, þeß Læknis Lavn, edur Graftar Umkostnadur, ef þad er vid Land, so ad þeirra Jardarfør er giord, skal betalast af Skipe, Gootse og Skipleigu, sem ønnur Averie, og þá bæte hvor Skadann ad sijnum Hluta.

# 16.

Enn ef þad skedur ad Vijkijngar edur Siooreifarar koma til nockurs Skipherra i Hafe, hvors Skip hladid er med Styrte-Goots, sem er hellt tilsamanns, og nockud verdur af þvij teked, þá betalist þad aptur, af hinu ødru Styrte-Gootse, sem i Skipinu er, og skal Skipid ecke neitt gefa til þeß; þvij þad stendur i sinne eiginn Abyrgd: Enn allt annad Goots, sem er i Pockum, Fotum ellegar Tun̄um, er i sinne eigenn Abyrgd, og lijdur hvor þann Skada sem hann fær.

# 17.

Enn ef so var, ad Skipherra var i Hafe yfersallinn af Ovinum edur Sioo-

Siooreisurum, og biooſt til Varnar, ſo ad hanns Foolk vard ſært edur limleſt, þaa ſkal Skipherrann laata hiaalpa þeim og lækna, og ſkulu þav Læknis Lavn, ſamt Kavp og Færijng þeß Foolks, ſem raadid er i ſtadinn þeirra ſærdu, og allur annar Koſtnadur, gaanga yfer Skip og Goots, vegna þeß þad ſkede til ad forſvara Skip og Goots.

## 18.

Werde Skipherra i einnre Hofn ræntur nockru af ſijnum Skipsreida edur innehafande Gootſe, þaa hafe ſaa Skada, ſem hann aa hitter nema þar ſie til nockur ſierleg Orſøk, ſem ſkulldbindur alla ſem Hlut eiga i Skipe og Gootſe, til ad bæta Skadann epter Tiltølu.

## 19.

Ef þad ſkedur ad Skip og Goots verdur teked og halldid faſt, og Skipherrann kavper þad wt fyrer viſſa Penijnga Summu, og hann getur bevijſad þad løglega, þaa gengur þad yfer Skip og Goots, ſem onur Averie.

## 20.

Kome eitt Skip aa þad Farvatn ſem grunt er, enn riſter ſo diwpt, ad þad getur ei komiſt til þeß Stadar, ſem þad er leigt til, ſo Skipherrann verdur ad hafa Praamu eda Baata, til ad flytia Gootſid aa; þaa Leigu og Feriu-Penijnga ſkal Skip og Goots betala, og ef ſama Goots fær nockurn Skada, þaa ſkal hann gaanga yfer Skip og þad Goots ſem behalldid er; Enn til þeß Skada, ſem ſkedur aa Praamum edur Baatum, þeim ſem leigder eru til ad færa Gootſid i Land, ſkal hvorke Skip ne Goots ſvara; helldur ſkulu þeir, ſem hafa laatid leigia ſig med ſoddann Feriur, ſialfer ſvara til Skadanns.

## 21.

Kome nockurt Skip aa Grynnijnga, og Skipherrann getur fenged Skwtur og Praamur til ad loſa Gootſid i, og letta Skipid af Grynnijngum, þaa ſkal Skipherrann ſialfur koſta til ad laata bæta Skip ſitt, og Kavpmadurinn betala þad ſem fyrir Gootſinu hefur haft vered, og ſkal þad reiknaſt yfer allt Gootſid, hvorium ad ſijnum Hluta, og ſkal Skipherrann laata bæta Skipid þad fliootaſta møgulegt er, ef þad er bætande, og færa Kavpmanninum ſitt Goots til Kavpſtefnunnar. Enn ſie ei Skipid bætande, þaa ſkal Skipherrann hafa Leigu epter þad Goots ſem behalldid er, ſem goodum Mønnum ſyniſt billegt vera, epter þvij ſem Siglijngunne hagar. Ef nockud ſkemmiſt af Gootſinu, þaa ſkal ſaa Skade gaanga yfer þad annad Goots ſem biargad er, ef þad er kaſtad edur lavſt Goots; Enn ef þad er Tunnu-Goots, Pakkar og Stykkia-Goots, þaa medtekur hvor ſitt

sitt Merke, og betalar Kostnadinn, sem honum byriar. Verde Skipinu og nockrum Parte af Gootsinu og Skipsreidanum biargad, þaa skulu ei Skipmennerner hafa allt sitt Kaup, helldur ad nockrum Parte, so sem Skipherrann feck Skipleigir epter rettre Tiltolu, og ei odruvijse; Enn ef þad skedur ad Skip og Goots forgeingur, og Skipherrann getur bevijsad med ollu sijnu Skipsfoolke, ad þad ei skede sokum hanns Forsoomunar, þaa maa hann biarga Skipe sijnu ef hann getur, og ecke betala Kaupmonnunum neinar Skadabætur fyrir þeirra Goots. Giore hann þad med Vilia og af Hreckium, edur ef þad skedur sokum hañs edur hañs Foolks Forsomunar, þaa stande hann Kaupmanninum þar fyrir i Rette, og hafe ecke Valld til i nockurn Maata ad skipta ser af Skipinu fyrr enn hann hefur stillt Kaupmanninn til Fridar. Nw skedur þad ad Skipherrann getur ei fært Kaupmannsinns Goots aa Kaupstefnuna, vegna þeß hanns Skip var ei fært þegar hann byriade Reisuna, þaa skal hann strax leiga annad hentugt Skip til ad flytia Gootsid aa til aakvedinns Stadar, aa moote aadur tilskildre Skipsleigu, edur og bæta Kaupmanninum allann sinn Skada.

## 22.

Nw hefur Skipherra leigt sig og Skip sitt fraa einum Stad til annars, og hann ratar i Storma edur adra Hafsnavd, so ad hann verdur ad hallda til annarar Hafnar edur Kaupstefnu, enn hann var leigdur til; vilie Kaupmadurinn þar medtaka sitt Goots, þaa betale hann Skipherranum fulla Leigu; Vilie hann ei vid þvij taka, þaa er Skipherrann skylldugur ad afhenda honum sitt Goots aa Kaupstefnuna, sem hann lofad hafde, uppaa sinn Kostnad og Kaupmannsinns Abyrgd, annadhvort med sijnu Skipe, edur odru goodu Skipe, sem Gootsid er vel geymt i. Þo skal Skipherrann sialfur med þrimur odrum bestu Monnum, sem i Skipinu eru sveria, ad hann neyddist til þessa, sem fyrr er sagt. Enn finnist þar nockur onnur heimugleg Svik under, þaa skal Skipherrann og aller þeir sem i þeim Raadum eru, bæta Kaupmanninum allañ þann Skada sem hann kann af þvij ad hlioota.

## 23.

Hvar sem Skipherra kemur med sitt Skip aa Sioo þann, hvar Loodsmenn skulu vera, skal hann skylldugur vera ad leiga Loodsmann fyrir þad besta Kaup sem hann getur ordid aasaattur um vid hann, og skal Skipherrann gefa honum Kost og betala hanns Laun af Gootsinu, epter þeim Vana og Verde sem brwkast aa Kaupstefnunne, þar sem hann letter Skipid. Dirfist Skipherrann her i moot ad hleypa inn med Skipid, og þad fær þar af Skada, þaa skal hañ sialf-

siꜳlfur bæta hann af siinum eiginn Peniingum, nema þad se af Navdsyn og ecke annars.

## 24.

Strax sem Skipherrann hefur teked Loodsmann, skal hañ froomlega kunngiora honum hvad margra Feta diwp hanns Skip rister. Sege hann ecke rett til þeß, heldur seger þad minna, þꜳ skal hann gefa Loodsmanninum sextꜳn Lood Silfurs fyrer hvort Fet sem hann þeger um, og byriar Skipherranum ad taka rigtuga Bevisíng uppꜳ þad, hvad margra Foota diwp hann hefur tilsagt um sitt Skip, so og hvad hann hefur betalad Loodsmañinum, og giora Kavpmañinum og Reidurunum Reikniing epter þvij. Yfersiꜳist nockrum Loodsmañe, þꜳ straffist hann, so sem ꜳdur er sagt i fyrsta Kapitulanns fimta Articula, um Styremann.

# IV. Cap.

# Um Skip-Brot og Vogrek.

## I. Art.

Vorgange Skip med Gotse vegna Storms edur añarar Olucku, þꜳ skal Skipsfoolkid vera skylldugt ad hiꜳlpa og biarga Skipe og Gootse fyrir billeg Biarglavn; þo skal einginn fꜳ nein Biarglavn, nema hann hiꜳlpe til ad biarga, og skal Skipherrann med hanns Kavpmonnum og odrum, sem hann getur þar til fenged, meiga biarga, medann þeir vilia og geta, og þꜳ þeir ei geta meiru biargad, þꜳ meiga þeir selia edur afhenda hvorium þeir siꜳlfer vilia, þad Goots edur Vogrek sem epter kann ad vera, og mꜳ einginn giora þeim Hindrun i þvij i nockurn Mꜳta.

## 2.

Enn sie þad so, ad Skipherrañ gete ei biargad med siinu Foolke, þꜳ skal Koongsinns Amtmenn, Borgmeistarar og Rꜳd, Foogetar og Strandar-Foovitar, og aller adrer sem hafa yfer nockrum ad segia vid Sioosiiduna, edur og sꜳ sem Rett hefur til Rekanns, ef þad skedur ꜳ hanns Fioru, vera skylduger til, ef þeß er af þeim oskad, ad vera Skipbrotsmonnunum hiꜳlpleger vid Almwgann, ad hiꜳlpa og biarga Skipe og Gootse ef mogulegt er, fyrir billeg Biarglavn; og þegar soleidis er biargad, þꜳ skal Amtmadurinn, med þeim bestu Monnum sem i þvij Bygdarlage eru, edur Borgmeistare og Rꜳd, ef þad verdur vid Kavpstadina, yfervega og ꜳkveda, hvad Skipherrann edur Kavpmadurinn, skal gefa þeim til Lavna sem biargad hafa epter Asigkomulage og Gootsinns Verde.

3.

## 3.

Giore nockur Skipherra Samnijng, vid þa Meñ sem biarga, um vissa Penijnga sem þeir skule hafa fyrir þad sem þeir geta biargad, edur og um eiñ Part af Gootse þvij sem biargad verdur, fyrer sijna Hættu og Omak, edur og verdur aasaattur vid þa um vissa Penijnga sem þeir skulu gefa honum, fyrir allt þad sem þeir geta biargad, þa a soddann Forlijkun og Samnijngur ad standa vid fulla Magt.

## 4.

Enn ef so skedur, ad Skip og Goots verdur Vogrek, og aungver lifande Menn eru þar hia, þa skal Amtmadurinn ef þad er a Koongsiñs Fioru, edur saa, a hvors Lood þad fiñst, vera skylldugur med allre Kostgæfne ad laata biarga so miklu, sem mest mogulegt er, og setia þad i gooda Geymslu med skijru Registre, og þegar sa rette Eigande kemur sijdann edur hañs Umbodsmadur, med anægianlegre Bevijsing innann Ars og Dags, þa skulu þeir sa sitt Goots, fyrer tilbærleg Biarglavn, sem fyrr er aahrært. Enn ef þar eru nockrar Vorur, sem hafa feingid Skada, edur eru ordnar votar, þa, ef þeim verdur hiaalpad, skal Amtmadurinn, edur saa, a hvors Fioru sama Gots uppber, laata hiaalpa þeim uppa þeß Kostnad, sem þad skal aptur hafa. Enn verde þvij ei hiaalpad, maa þad af adurnefndum Persoonum strax seliast fyrir Penijnga, so dyrt sem verdur. Hvor sem otrwlega hondlar med Vogrek, straffist þar fyrir, sem fyrir annad oheimillt Goots. Enn ef einginn framkemur innann Ars og Dags med anægianlegar Bevijsijngar til þeß ad Skip og Goots heyre honum til, þa heyrir þad Kooginum til, edur þeim, sem hefur Rett til Rekanns.

## 5.

Finne Skipherra nockurt Vogrek a Sioo, edur Mararbotne, Atkere edur annad, skal hann afhenda þad þeim, sem uppa Koongsinns Vegna er yfersettur a þeim Stad, sem þad er flutt a Land, hvor ed strax skal gefa honum Pridiwnginn af þeß Verde, fyrir sitt Omak, og skal sama Gots liggia þar Ar og Dag. Ef sa rette Eigande kemur a medann med anægianlega Bevijsijng, skal hann nioota þeß fyrir somu Biarglavn, med ollum Uppaakostnade; Enn ef einginn kemur, þa er þad Goots fallid under Koonginn, og skal sendast til Koongsinns Amtmanna, og hvor sem sama Goots edur Vogrek under sig dregur, skal straffast sem Pioofur. J sama Maata, ef Fiskarar fiña Atkere i Sioonum med sijnum Veidarfærum, edur geta fangad þad med odrum Hætte, hvort helldur þar er a Hnackmide edur ecke, skulu þeir a lijkann Haatt afhenda þad Koongsinns Befalnijngsmonnum, sem skulu gefa þeim til Biarg-

Biarlgávna Þridiwngiñ af þeß Verde, og siidann sie med þad höndlad, sem fyrr er skrifad. Finnist Vogrek wt a Hafe fyrir utann öll Lönd, og avngver Menn eru þar hia, sem þad eiga, þa skal sa, sem þvij biargar behallda Helftinne og Koongurinn Helftinne, nema sa rette Eigande kome innann Ars og Dags sem áđur er sagt.

## 6.

Vorgange Skip og verde Gootsinu hialpad, þa skal Skipherrann hafa þar af billega Skipleigu; þo rædur sa, sem þad leigde, ef hann vill lata Skipherrann behallda Gootsinu fyrer Skipleiguna.

## 7.

Þegar ströndudu Gootse verdur biargad, þa er ei skylldugt ad borga af þvij nockra Averie fyrir hitt annad Goots edur Skip sem tapadist.

## 8.

Enn ef ecke verdur so miklu biargad af Skipe og Gootse, sem fyrir utann annann Umkostnad med ad biarga, getur tilhrocked ad Skipsfoolkid kunne þar af ad fa sitt epterstandande Kavp, þa ma þad eckert heimta af þeim sijnum Lavnum.

# V. Cap.

# Um Bodmerie og Bijl-Bref.

## I. Art.

Ef einn Skipherra kemur i framande Lönd, og getur ei fenged sitt Skip hladid þar wt med sinna Reidara Penijngum, og einginn Vexel getur fengist fra þvij Plaatse til ad draga uppa hañs Reidara, edur og ad eckert Goots er i Skipinu, sem hann getur selt sijnum Reidurum til Abata, þa i soddann Tilfelle og Navdsyn, sem hann skal i sijnum Reiknijngskap fyrir Reidurunum anægelega bevijsa, med Vitnisburde þriggia hiña bestu Skipsmanna, hefur hann Magt til ad taka Penijnga edur þeirra Verd, til Laans, uppa Skipsinns, Skipsreidanns og Skipsleiguñar Abyrgd, sem kallast Bodmerie, med bestu Skilmaalum, og setia þeim sem Penijngana laanudu, Skipsreidann og Leiguna i Pant fyrir þa Bodmerie-Penijnga, og skal Skipherrann vera skylldugur ad betala adurnefnda laanada Penijnga, strax sem Skipid er komid til þeß Stadar sem Bodmerie-Contractin uppa hlioodar; Enn sigle hann til aña Stada, og ferdast lengra moote Vilia þeß er Penijngana laanade, blijfur þo

Bodmerie-Contractinn við fulla Magt, og skal Skipherrann svara til alls þeß Skada sem þar af hlytst.

## 2.

Einginn Skipherra maa taka Peninga uppaa Bodmerie af sijnu Skipe, allt so lenge hann er nalægt sijnum Reidurum, fyrer utañ þeirra Vilia og Samþycke; Þo er Skipherranum ecke bannad ad taka Penijnga uppaa Bodmerie uppaa siñ eigiñ Part i Skipinu, og ei framar. Saa sem laanar nockrum Skipherra i þvijlijku Tilfelle meira, enn fyrir hanns eigeñ Part, eige sinn Adgang til Skipherranns, og hiner adrer Reidarar eru ei skylduger ad svara þar til. Eñ hafe einn eda fleire af Reidurunum gefed Skipherranum Fullmagt til þeß, þaa svare sier hvor þar til epter sinne Fullmagt.

## 3.

Hende þad sig ad nockur Skipherra aan stoor Navdsynia pantsetur sitt Skip mootviliuglega, edur ad navdsynialavsu, sigler iñ aa þaa Hofn, sem hañ er ecke leigdur til, þaa skal saa Skipherra sialfur svara sijnum Reidurum til alls þeß Skada, sem þeir geta bevijsad, ad þar af hafe kunnad koma, og þar fyrir utann fara utlægur af Koongsinns Rijkium og Londum; Eñ skyllde hann hafa afhendt Skipid og Gootsid i þeim Stad, og so burtstrokid, þaa svare hann til Skadanns, og straffist þegar hann verdur höndladur, epter Maalavoxtum.

## 4.

Ÿngstu Bodmerie-Bref gillda alltijd meira enn þav, sem fyrre kunna ad hafa vered utgefinn.

## 5.

Þynger nockur Skipherra sitt Skip hærra med Bodmerie-Penijngum, enn Skip, Reide og Leiga kañ verdt ad vera, þaa eru hanns Reidarar ei skylduger til þeß ad svara, helldur sækist þad hiaa Skipherranum.

## 6.

Verde þad Skip, sem er pantsett, teked edur arresterad, og Skipherrann getur ei fenged sitt Skip aptur, þaa skal Skipherrañ afstanda añadhvort allt Skipid, edur þañ Part af þvij sem hañ hefur pantsett til þeirra, sem hafa laanad hönum Penijnga uppaa Bodmerie; Og ef þeir sem laanad hafa Penijnga uppaa Bodmerie, faa Valld yfer Skipinu, þaa faa þeir i soddann Tilfelle fyrst sijna Penijnga, þegar allur Umkostnadur er fraadregiñ, og þad sem Afgangs er, kemur Reidurunum til Gooda.

## 7.

 Skyll-

Skyllde eitt Skip fá nockurn Skada, þá betalast þar af avngver Bodmerie-Penijngar; Enn ef nockru verdur biargad af Gootsinu, sem Skipherrann kann ad fá nockra Skipleigu epter, edur og verde nockru biargad af Skipinu edur Skipsreidanum, þá eiga þeir lánudu Penijngar med sinne Premie ad betalast, so mikid sem Leigann epter þad biargada Goots, Skip og Reida tilhrockur; ef Penijngarner eru tekner uppá allt Skipid; Enn ef þeir eru tekner uppá nockurn Part i Skipinu, þá betalast ei meir enn þeim Parte tilkemur af þvij biargada. Skyllde og einn Skipherra sökum einnrar edur annarar þeckianlegrar Yfersioonar edur Forsoomunar, vera Orsök til Skipsinns Skada eda Olucku, þá á Skipherrann til þess ad svara med sialfs sijns Persoonu og öllu sijnu Gootse, þangad til Bodmerie-Penijngarner eru betalader.

## 8.

So skal og sá sem lánad hefur Penijnga uppá Bodmerie, innann sex Mánada i þad lengsta epter ad Skipid er komid til þess ádur ákvedna Stadar, sækia sinn Betalijng, edur og sijdann hafa tapad sijnum Rette, enn hanns Rettur se okreinktur um ádurnefndann Tijma, jafnvel þo Skipid hafe ödrum selt vered; Enn hlioode Bodmerie-Brefid so, ad Penijngarnir skule betalast þegar Skipid kemur tilbaka aptur til þess Stadar frá hvorium þad utsiglde, þá, ef þad kemur þángad ecke aptur innann Ars og Dags, skal krefia Penijnganna strax hiá Vidkomendum, og þeir án Uppehallds af þeim betalast, og ef Bodmerie-Penijngarnir eru ei betalader á Forfallsdeginum, þá skal upp frá þvij gialldast af þeim tilbæreleg Renta.

## 9.

Ef nockur lánar Penijnga til ad byggia nytt Skip, edur Foolkinu til Upphelldis á medann, hann skal giora þar um skriflegann Contract, med tveggia goodra Manna Underskriftum til Vissu, hvor Contract kallast Bil-Bref, og á sw Skulld ad betalast, og Skipid vid hana ad frijast, ádur enn Skipid gefur sig til Reisu, og ámedann er Skipid sem Pantur, og ef fleire Bil-Bref eru wtgefinn med þeim Hætte, þá gillda þau elldre meir enn þau yngre. Sömu Bil-Bref eiga til þvij stærre Rigtugheita strax epter þeirra Datum upp ad lesast á Þijnge, þar sem Skipid er byggt, og þá gengur sw Skulld fyrir öllum ödrum, sem á Skipinu vera kunna.

# VI. Cap.

# Um Asseurance (Abyrgd á Skipe og Gotse.)

I.

# I. Art.

Ef nockur vill læta setia Borgun fyrir sitt Skip edur Goots fyrir fram, þæ skulu þar um upprettast rigtug og greineleg Bref, og þar med hondlast, ef þav giord eru i Koongsinns Londum og Rijkium, æ epter skrifadann Hætt.

## 2.

Somu Fullvissu-Bref, sem kallast Policer, skulu finnast hiæ þeß stimplada Pappirs Forvolturum, og gillde hvort Ark eitt Rixort; og skal i þav aydu Plæts i þeim af Meklaranum, edur þar sem einginn Meklare er, af einne Yfervallds Persoonu, rigtuglega innskrifast Skipid, Skipsinns Utbwnadur, og Skipherranns Nafn, og þar hiæ teiknast hvort Skipid æ ad sigla, hvar fermast og affermast; Sijdann innskrifast hvad hvor einn vill hafa Borgun fyrer sett.

## 3.

Oll soddann Bref underskrifast, af Asseuradeuranum (þeim er Borgunina setur) med eigenn Hende, og Summa þeirra Peniinga sem lofad er til Borgunar, skal innskrifast med Asseuradeurans eigenn Hende. Enn seu þeir fleire, þæ skrife hvor einn fyrir sinn Part, sem hann lofar, edur gefur Vissu fyrer, og se einginn um meira skylldugur, enn hann hefur skrifad sig fyrer.

## 4.

Meklarinn, sem giorir soddann Bref, skal allt ædur taled vel adgæta, og i eina forsiglada og numererada Book innfæra, hvorn sem fyrir nockud hefur Borgun sett, til hvors, hvad, og med hvada Skilmæla.

## 5.

Einginn mæ dirfast ad setia Borgun fyrer nockurs Lijf, ei helldur Skipfoolksinns Lavn og Kavpgialld, þeß Skipskost, Pwdur, Hogl og allslags Skipsreida, helldur allrinasta fyrir sitt Skip, edur vissa Parta i þvij, sem og allt innehafande Kavpmanns Goots, og skal hvor einn sem æ þann Hætt tekur Borgun, behallda uppæ sinn eigenn Skada og Abyrgd, hid minnsta tijunda Partinum af þvij forsikrada Skipe eda Gootse, epter þeß setta Taxta og Verdlage.

## 6.

Skule og nockur vilia læta setia Borgun fyrir sitt Skip edur Goots æ fleirum enn einum Stad, þæ mæ þad vel vera, þegar aller soddann Fullvissu Peniingar tilsamanns eru ei meir enn niju tijundu Partar, af sama Skips edur Goots retta Verde. Se þad þar yfer, þæ skal þad vera magt-

magtarlavst, og þeir sem hafa brwkad þvijlijkt Underferle, skulu missa þad sem þeir hafa wtgefed til Fullvissu-Penijnga, sem kallast Premie. Annars skulu her med alvarlega vera fyrerbodinn oll Svik og Fals sem a adrahvoria Sijdu kann ad uppþenkiast edur gioraft, under Straff a þeirra Æru edur Lijfe, epter Misverknadarinns Asigkomulage, og stande þar fyrir utann þeim Saklausa til Retta fyrir allann þann Skada, sem hann lidid hefur.

## 7.

Þegar Asseurancen (Abyrgdar Contractenn) er loglega giordur, so er Asseuradeuren skylldugur ad svara til alls þess Skada, sem tilfellur þvij Skipe og Gootse sem hann hefur sett Borgun fyrer; Og gillder sw Fyrirlofun fra þeim Tijma Gootsid er flutt i Skipid af Lande, og endast fyrst þegar sama Goots er aptur flutt a Land.

## 8.

Premia edur Fullvissu-Penijngar skulu strax wtelaatast þegar Policen underskrifast; þo ef nockur lætur setia Borgun fyrir sitt Skip edur Gots til langrar Reisu, og þar er tilskilid bæde um Fram- og Tilbaka-Reisuna, þa betalist Helmijngurinn strax og annar Helmijngurinn þegar Skipid heimkemur, edur a þeim Tijma sem þeim samann kemur sijn a mille. Ef her vid skedur nockur Forsoomun, so ad Skildagin er ecke rigtuglega halldinn, þa skal hann skylldugur vera ad gefa i Rentu einn af Hundrade a hvorium Maanude, þar til betalad er.

## 9.

Kome Skip edur Goots, sem Borgun er sett fyrir, nockurn Skada edur Olucku, þa skal sa sem hefur laatid setia Borgun fyrer þad, strax gefa Asseuradeuranum þad til kynna, og laata þar med fylgia loglega Bevijsijng, og ef sa, sem Borgun sett hefur, betalar ecke innann þriggia Maanada, epter ad hann hefur fenged þad ad vita, þa skal hann gefa þeim sem Skadann leid fra þeim Tijma, sem hann þad visse, einn haalfann (ɔ: Rixdal) af Hundrade til Rentu a Maanude, þar til hann betalar, og skulu Doomararner kostgæfelega yfervega, hvort Asseuradeuren hefur nockra billega Orsok til ad veigra ser vid ad betala, sokum nockra vitanlega i frame hafdra Svika, so sem ef Fullvissu var oskad fyrir Skipe og Gootse, epter þad Eigandinn fullkomlega visse ad Skipid var forgenged, og þa skulu þeir strax dæma þar um epter Maalavoxtum.

## 10.

Ef einginn Tijdinde fast epter ad þar hefur vered grandgæfelega halded Spurnum fyrir um eitt Skip edur

edur Goots sem Borgun hefur vered fyrir sett, innann Ars og Dags, og þad hefur ætt ad gænga til eins Stadar i Evropa, þæ skal þad halldast ad vera forgenged. Se þad fyrir utann Evropa, og fæist eingenn Vissa um þad innann tveggia Ara, so reiknast þad tapad, og epter þann Dag hefur Assiuradeuren þriæ Mænude til ad betala Peniijngana, edur sijdann, sem ædur er mælt, betala Rentu, og af Rettinum, þvijngast til ad betala.

## II.

Vere so til ad nockur, einrar edur annarar Orsakar vegna, aldeilis umbreyter sinne fyrirhafande Reisu, edur tekur minna Goots i Skipid, en Vissa var fyrir tekinn, þæ skal Eigandinn, strax sem hann hefur þad ræded, edur honum er þad vitanlegt, gefa Borgunarmaninum þad tilkynna, og uppsegia sijnum Contract, hvad ed kallast Restourno, hvarimoot sæ ædurgiørde Fullvissu-Contract skal vera upphafinn; þo nytur Assiuradeuren fyrer sitt Omak fyrir þvij ad inn- og af-skrifa, einn hálfann af Hundrade, af þeim wtgefna Skenk, og lætur strax fræ ser þad sem þæ er umfram af Peniijngunum.

# VII. Cap.

# Um Admiralskap.

## I. Art.

Seu nockur af Koongsins Undersæta Skipum i eine Hofn, innan edur utan Rijkesins, sem æ sama Tijma eru seglferdug, og vilia ferdast sama Veg, og þav af Otta fyrir Siooreifurum, edur ødrum oluckulegum Tilfellum, hallda rædlegt ad vera tilsamans, og giora Admiralskap, so skulu þav ingænga vissa skriflega Articula sijn æ mille, sem þav sijdan oriwfanlega hallda skulu, þar tii Reisann er endud.

## 2.

Fære nockur æmedal þessara, þad Skip sem til Strijds er wtbwid, þæ skal hann færa Flaggid, og forsvara hin onnur, og avngvannveginn leyfa, ad nockurt framande Skip ligge um Bord hiæ honum, under hvada Yfervarpe sem þad vera kan, annadhvort ad siæ hans Passa edur Sioobref, helldur skal han hallda þeim fræ ser þad mesta mogulegt vera kan, hvar til oll hin Skipin, sem i þeim Flota eru, skulu hiælpa honum af fremstu Kroptum, og ræda æ þad; og skylde nockur Framande med Magt vilia þvijnga han og ad honum leggia, þæ skal han af ollum Kroptum standa þar æ moot, og avngvanvegin lijda, ad nockud þar ske skule Koongsinns Hætign til Rijrdar, edur Hanns Undersætum til Skada. Giore nockur her imoot, og ecke setur sig til Varnar, ef han

hañ þad añars getur, þa straffist epter Sioo=Artikulunum. Og finnist Skulldiñ hia nockrum af Foolkinu, sem ecke vilia giora sijna Skylldu i sødann Tillfelle, halldist i sama Maata epter Sioo=Articulunum.

### 3.

Allar Utgifter og Skadar sem a þañ Haatt gioraft og gialldast, skulu betalast af øllum sem i Flotanum eru, epter þeirra vidteknu Admiralskaps Brefe, og þad epter jafnre Tiltølu af serhvors Skips innehafande Hledslu billegu Verde.

### 4.

Øll til Varnar wtbwin Skip skulu a Naattarþele hafa Skridbittur med tendrudum Lioosum i, so þav þvij betur kunne ad vera tilsamañs, og geta þvij betur teked ser Vara fyrir øllum voveiflegum Skada.

### 5.

Ef nockurt Kaupferda=Skip, hefur giort Admiralskap med ødrum, og sijdann aan billegrar Orsakar yfergefur þav, þa skal sa Skipherra ecke alleinasta betala tvo Mørk af hvorre Lest til þeß sem Søkina opinnberar, saatækra Sioomaña og añara Skipherra, sem hallda tilsamans i Admiralskapnum, helldur og so svara somu Skipherrum til alls þeß Skada sem þeir hafa lided a Skipe og Gootse, epter sama Jofnude, sem þeir skylldu hafa betalad, ef hañ hefde vered kyrr i Flotanum, og kome hann sialfur i Olucku þa hafe Skada fyrir Heimgialld.

### 6.

Eñ bere so til ad nockurt Ovina Skip verde sigrad af einum soleidis sameinudum Flota, þa skal þad strax færast i eina Koongsinns, edur hanns Skattmaalabundiña Rijkia Hofn, og þar, epter loglega Medferd, dæmast Herfang. Þad sem þar af kemur, skiptist i mille allra þeirra sem i sama Admiralskap hafa vered. Eñ ef þad verdur sigrad af einum fra ødrum adskildu Skipe, þa nytur sa sem þad færde þeß alleina, og skipter Herfanginu, mille sijn og sijns Skipsfoolks, epter hvors eins Launum edur Maanadar=Peniungum. Skyllde og einhvor sem færer til Strijds wtbwid Skip, na fra sijnum Fiandmonnum þvij Skipe, sem tilheyrir nockrum af Koongsiñs Undersaatum, og hafde vered i þeirra Vallde tuttugu og fioorar Stunder eda lengur, þa er þad hañs Herfang alleina. Enn kuñe einhvor iñañ þeß Tijma ad fa Valld a þvij fra Ovinunum, þa nytur hañ Helmijngsiñs af þvij apturtekna Skipe, og Eigandiñ hiñs Helmijngsinns.

# VIII. Cap.

# Um þad hvørsu Sioo-Rettarinns Saker skulu wtfæraſt.

## I. Art.

Allar þær Saker ſem hafa ſinn Uppruna af þeſſare Siooar-Høndlun, edur og hanga af þeſſum Sioo-Rette, ſkulu, hvort helldur þær iñfalla mille Iñlendſkra edur Utlendſkra, ſtrax fyrertakaſt af ſerhvors Stadar reglulegum Doomara, og iñañ þriggia Soolar-Hrijnga, epter løglega Medferd og þeſſum Sioo-Rette dæmaſt, og ef einhvor hefur ei Vitsmune til ſiaalfur ad wtfæra ſijna Søk, þaa ſkal Stadarinns Yfirvalld, þegar hinn þeß oſkar, ſtrax ſkicka honum eiñ ærlegann og løgklookann Mann, ſem þiene hønum i ſinne Søk fyrer billegann Betalijng.

## 2.

Innfalle Tvijdrægne mille þeirra ſem eru innann Skipsborda, þegar Skipe edur Gootſe hefur tilfallid nockur Skade, ſøkum einhvors Embættismanns edur ſletts Skipmanns Yferſioonar, og þeir ſem vitna ſkulu, meiga ecke bijda epter þeim reglulega Tijma, aa hvorium þeir, ſem Søkiñ vidkemur kunna annadhvort i eigenn Perſoonu, edur fyrir Fullmegtugann, vera til Anſvara, þaa meiga Vitnin afheyraſt og i Eyd takaſt aa Þijnge, edur fyrir Byfoogetinum i hans eigeñ Hwſe, i þriggia Dannumanna Nærveru, uppaa þad Sannleikurinn kunne ad koma fyrir Dag, ſem ſijdann ſkal gillda fyrir fullt, nema ſo ſe, ad nockur hafe ſtrax aa þeim Stad ſem Oluckann ſkede, ſer til Frijunar, wtvegad ſer anægianlega Bevijſing, og teked Vitnisburd hiaa næſta Stadar Yfirvallde, uppaa þad, ad Skadinn ſkede ecke af nockurs Forſoomun edur Yfirſioon, hvar þaa Yfirvalldid aa þeim Stad alvarlega ſkal aaminna þaa Vidkomande, ad þeir ſege hreinann Sannleika, og þar hiaa hid grandgæfelegaſta giøra ſer Sakarinnar Aſigkomulag kunnugt, ſamt hvorninn Vindur og Vedur vered hefur aa þeim Tijma, og hvorninn Siglingunne var framhalldeð, hvad alltſamann i þetta Þijngs-Vitne edur Document ſkijrlega ſkal innfæraſt, hvaraamoote ſijdann ecke avdvelldlega meiga færaſt ønnur Vitne.

# IX. Cap.

# Um Koongſinns Sioo-Foolk.

## I. Art.

Allt

Allt Koongsinns Siòofoolk, so vel Embættismenn, sem slet-ter Skipmenn, sem nw eru i Koongsinns virkelegre Þioonustu, ed-ur gefa sig i hana herepter, skulu, i hvorium Kavpstad sem þeir bwa kun-na, edur vilia setia sig nidur i Koong-sinns Rijkium og Londum, vera frij-er og þeim hlijft fyrir øllum Borgara-legum og Byarinns Embættum, samt Þyngslum og Alogum, hvoriu Naf-ne sem heita kunna, jafnvel þo þeir kunne ad brwka eina edur adra borg-aralega Nærijng; Þo so, ad þeir æ tilhlydelegum Stødum, betale tilbær-elega til Koongsinns Tolls, Accise og Consumption,*) af þvij sem þeir med hondla.

## 2.

Allt Norskt Siòofoolk, sem fara utann Rijkis til framande Lan-da, og vilia aptur gefa sig til Noregs og bwa i Landinu, skulu, strax sem þeir hafa gefed sig i Lioos og lætid sig innskrifa, ad þeir vilie fyrir rigtugt Kavp og Betaling þegar Þorf gioriſt, fara i Koongsinns Þienustu, niòota ad þeirra Born og einn Þioonustu-karl, seu frij fyrir allre Utskrifan, bæ-de til Lands og Vatns, so vel sem fyrir øllum Flutnijngsferdum og Erfi-de i allann Mæta, og þar fyrir utann hafa einn Gard, nefnelega til eins Skippunds Þwnga, edur med ann-are Landskulld epter Jofnude, frijann fyrir øllum reglulegum og oreglulegum Skøttum sem nw eru uppæbodner edur her epter verda kunna, so lenge sem þeir lifa, og eru innskrifader.

## 3.

Framar skal þeim standa frijtt fyr-ir ad sigla til hvors Stadar sem þæ lister i Evropa, med Jnlendskum ed-ur Utlendskum, sem eru Koongsinns Vinir; Þo skal serhvor sem soleidis wtfer, giora Yfervalldinu i Kavp-stødunum, og Koongsinns Foogeta æ Landinu, kunnugt, ad hann vill gefa sig til soddann Reisu, sem skulu med-deila honum æn Betalings einn Passa til hennar, epter hvors Framvijsun hann mæ ferdast.

## 4.

Enn þurfe Koongurinn þeirra vid til sinnar Þienustu, skulu þeir advarast um þad um Veturinn ædur, uppæ þad þeir gete til stadar vered i Tijma.



Fimta

*) ACCISE og CONSUMPTION er Tollur sem gelldst fyrer ad meiga inn- og útfæra af Rikinu, Kornvørur, Vin og annad.

# Fimta Book
um
# Adkomst,
# Göts og Skullder.
## I. Capitule
um
## Contracta og Skulldbindingar.
### I. Articule.

Hvor Madur er skylldugur ad efna þad sem hann hefur lofad og undergengist med Munne, Hønd og Signete.

heiter, sem ecke eru moote Løgum og Ærlegheitum, skulu halldast i øllum sijnum Ordum og Punctum, so sem þeir eru inngengner.

2.

Aller Contractar sem frijviliuglega gioraft af þeim sem eru Myndugėr, og komner til sijns Logaldurs, hvort sem eru Kavp, Sala, Giof, Makaskipte, Pantur, Laan, Leiga, Skulldbindijngar, Fyrerlofaner og annad, hvoriu Nafne sem

3.

Sa Contractur sem ecke er underskrifadur og innsigladur af øllum Vidkomande, edur fyrir Doome og Rette inngengi n, kann ecke ad gillda a moote þeim sem ecke hefur underskrifad og innsiglad hañ.

## 4.

Ef Madur i Bondum og Faangelse, edur vegna Ofrijkis og Þvijngunar, inngengur edur lofar nockru, og hann neitar þvij aa Þijnge, so snart sem hann kemur aptur i Frelse sitt, þaa er hann ei skylldugur, þad ad hallda.

## 5.

Giøre Madur Samnijng med vissum Skilmaalum i nockre Søk, obundinn, friaals og oneyddur, þaa er hann skylldur til ad efna þad sem hann lofad hefur.

## 6.

Vilie Madur ei medkenna ad þad se hanns Hond og Signet, sem hann er sigtadur fyrir, þaa maa hann frija sig þar fraa med sijnum Eyde. Enn vilie hann ecke sveria, þaa maa hinn sem sigtade, giora siñ Eyd, og saa Sigtade se skylldugur, ad svara til Handarinnar og Signetsinns.

## 7.

Sa sem ei kann ad lesa edur skrifa, skal setia sitt Signet under, ef hann hefur nockurt, edur sitt Bomerke, med tveimur Daanumann̄s Hondum til Vitnisburdar, sem hann hefur sialfur þar um bedid, og sem skulu vera til Stadar þegar Giørnijnguriñ er fullkomnadur, og i heyranda Hlioode upplesiñ.

## 8.

Sa sijdarste Giørnijngur og Contract giorir til einskis allt þad sem aadur hefur vered giort i somu Søk, ef þeir eru hvor aa moote odrum, annars gillda þeir baader.

## 9.

Hvor sem vill med Brefe burtu faa og afhenda sitt Goots og Fiaarmune, sem hann aa edur Eigande ad verdur, til nockurs Mañs, fyrir skickanlegt Upphellde til Matar, Fata og allrar annarar Navdþurftar um sijna Lijfstijd, hann skal fyrst logbiooda Eigner sijnar aa Þijnge, þeim sem hann erfa skulu, og ef þeir vilia ecke taka hann til sijn med somu Skilmaalum og einhvor annar, þaa maa hinn same Madur taka hann til sijn aa fyrrnefndann Haatt, epter giordum Contract, sem aa Þijnge skal avglysast.

## 10.

Sa sem giptur er, maa ei soleidis afhenda Eigner sijnar til annars, nema Konann se honum og samþyck i þvij.

## 11.

Hvor sem hefur inngenged soddañ Contract vid annann Mann, mæ hann ei apturkalla, nema þad bevijsijst, ad hinn annadhvort ecke vill, eda ecke kann veita honum tilbærelegt Upphellde.

## 12.

Sa sem þanninn tekur ad ser nockurn Mann eda Kvinnu, er skylldugur ad svara til þeirra bevijslegra Skullda, og giora þeirra Jardarfor ærlega, epter þeirra Stande, þegar þeir deya.

## 13.

Hwsboonde er ei skylldugur ad svara til þeirra Skullda edur Contracta, sem hanns Kvinna edur Barn giorir medann þav eru i Felage med honum, nema þad klærlega bevijsist, ad þvijlijkt er sked med Hwsbondañs Vilia og Vitund, edur og so til sam eiginnlegrar Nytsemdar og oumflyanlegra Navdþurftar.

# II. Cap.

# Um Arf og Skipte.

## I. Art.

Þegar einhvor vid Davdann frææfellur og lætur epter añadhvort Ominduga,*) edur Fræverande, edur Utlenda, edur avngva Erf-



*) Epter Islendskum Løgum vilia sumer reikna Omaga-Aldur til þeß 15. Ars epter N. B. H. K. Kavpab. 2. C. edur til þeß 16. epter Erfda 22. C. Enn i fyrra Stad nefner útþrickelega Fiárhaldsmann Omagans ɔ: *Tutorem*; og i hinum sidare Stad talar eginlega um Forlags-eyrer, sem skal ætla Omaganum þartil hann er 16. Vetra. þá er hann Matlavna-Madur. Enn Framf. B. 4. C. sijner ad hann er ei úr Omegd fyrr enn hann er 20. Vetra og þángad til á hann ad hafa Fiárhaldsmann ɔ: *Tutorem*; enn af *Curatore* sem vel kann kallaz Ráda edur Forrádamadur (siá nefndann Cap.) til Adgreiningar frá Fiárhaldsmanne eda *Tutore*, vita þavg Islendsku Løg ei so greinelega; því þad sem umtalar Kavpab. 10. C. um Konu sem má selia hvorium hún vill Sókn sina og Børn, þá meinaz þar eginlega Umbodsmadur ɔ: *Mandatarius*; sama er um þann, sem af Lande fer Arsat. 24. C. Og sama kyns sijnez vera

Erfijngia; þa skulu þeir, sem i þvij Hwse eru, hvar þeß Burtdavda Goods og Egur finnaz, strax gefa sama Stadar Yfervalde Andlegu edur Veraldlegu þad til Vitundar*) under tilbærelegar Sekter; og skal Yfervaldid vera strax skyldugt ad hafa Tilhlutan**) ad lœta forsigla i Erfijngia og Frænda Vidurvist, sem þa geta nærre vered, þad Goods, sem þeim Burtdavda tilheyrde, og setia þad i gooda Geymslu, fyrer utan þad, sem navdsynlega þarf til þeß Burtdauda Utfarar og til Bwsins ef hann Bw helt; hvad þo alltsaman skal uppskrifaz og virdaz og þeim sem i Hwsinu eru afhendaz, sem þar a skulu sijdann standa Skil og Reikning.

2.

Er

ra þad Fiárhald eda Fiárforræde sem umtalar Framf. B. 4. C. Hvørt Kona 20. Vetra fe úr Omegd epter Jsslendskum Løgum er aňad Spursmál. Þó sýnez þad efllavst um Eckiu, því gifta má hún sig siálf utan Frænda Ráð Kvg. 1. 2. C. og siálf utvega ser Umbodsmann epter Kavpab. 10. C. Enn med því Mær má hafa Fiárhald Bródur síns Kv.g. 3. C. og Arfat. 20. C. og má hafa Forræde Fiár síns þá hún er 20. Vetra gømul Kv.g. 2. C. so er allt þad sama um hana eins og um Karlmanninn, ad hún er þá Myndug; þó qveda ei þavg Jsslendsku Løg her frekar ad enn so, ad þad sýnez miked komed under næsta Náúnga Samþycke um Fiárforræde hennar bæde fyrer sig og adra; og ad Vísu á hún nú á Tímum ad hafa Rádamann eda *Curatorem*. Epter Norsku Løgum kallaz sá Omindugur í þessum stad sem er yngre enn 18. Vetra. 3. B. 19. C. 34., 38. A. þadan af er hann Myndugur og á ad hafa Tilsiónar eda Rádamann epter nefndum 34. A. þó kallaz einn i Norsku Løgum Omindugur í vissum Tilfellum þar til hann er 25. Ara, so sem 1. B. 21. C. 13. A. og 5. B. 3. C. 14. A. Epter sømu Laga 3. B. 19. C. 38. A. verdur Mær edur Kona, utan hún se Eckia alldrei Myndug.

*) Her vid liggia Peninga-Sekter Utanlands; her í Lande er þad ei í Veniu leidt, og er stundum óhægt vid ad koma; enn ef nockur findez ad hafa óreglulega medfared þá epterlátnu Femune hins Davda, þá straffaz hann epter Atvikum.

**) "Ved deres Middel" segia Norsku Løg, þad hafe eg útlagt: "Ad hafa Tilhlutan um." Þetta má eiginlega her í Lande skilia um Hreppstióra, sem epter Forord. af 3. Júnii 1746 kallaz Syslumannanna Medhiálparar eins og í Løgunum "Rettens Middel kallaz Rettarins Pienarar."

Er Boonde eda Hwsfreya daud og hafa epterlœted Born tilſamans, og þad Burtdauda œ einginn ser i lage Egtaborn epter, þœ mœ ſw epterlœtna Perſoonan ſitia i Bwinu til þeß þriitugaſta Dags, og þarf þœ ei ſliika Forſiglijng ad giora, nema þar finnez ſtoorar og miklar Skulder; þvij þœ ſkal Bwid ſtrax forſiglaz.

## 3.

Ad þann þriitugaſta Dag ſkal Bwid af Rettarins Þienurum og þeim Myndugu nærverande Erfijngium og þeirra Omyndugu *) og fraverande Fiarhaldsmonnum og Frændum rett uppſkrifaz, og af medfylgeslauſum Perſoonum loglega virdaz, ſo og allt Inngiald og Utgiald, ſo miked ſem vitanlegt er rettelega uppteiknaz.

## 4.

Eru Erfijngiar innann Bys þœ ſkulu þeir mæta i Sterbwinu œ þriitugaſta Dege epter Frœfall þeß Dauda. Eru þeir utann Bys **) og innann Stigtes þœ ſkulu þeir koma innann ſex Vikna. Enn eru þeir utann Stigtes, þœ kome þeir innann toolf Vikna. Eñ eru þeir utañ Rijkes, þœ hafa þeir Ars og Dags Freſt, ſem er eitt Ar og ſex Vikur. Og ſkal ſama Stadar Yfervald vera ſkyldugt ad ***) geſa ſliikum fiærverande Erfijngium þad til vitundar uppœ Sterbbwſins Koſtnad ſtrax ſem þvij af Vidkomendum er tilkynna gefed, hvorier og hvar þeir eru, ſem erfa ega.

## 5.

 Koma

o) Her af er avdſed ad þeim Omyndugu á ad ſetiaz Fiárhalldsmadur, jafnvel iñañ þeß þrítugaſta Dags, ſem þeirra Vegna gete vered vid Búſins Uppſkriſt og Virdíng.

oo) Her er nú Prentvilla, þá ad er gád í Løgunum ſem ſegia: "Ere de uden By "og Stigtet" í ſtadiñ fyrer "i Stigtet," ſem bæde ſez af því epterfylgiande hvar þad kemur aptur fyrer, "End ere de uden Stigtet," ſo og af Samburde vid þav Dønſku Løg ſem ſegia: "Ere de uden By og i Pro"vincien."

ooo) Utanlands er þad Venia ad innkalla alla Hlutadegendur til Sterbbúſins med Proclama; þó ætla Løginn ei til þeß utann um Skuldaheimtumenn 5. B. 13. C. 27. A. Enn ſama gilder her í Lande og hefur brúkad vered ad lýſa vid Løgþinges-Rettinn Andláte þeß Fráfallna og innkalla Skuldaheimtumennina; og láta þad koma út í Alþinges-Bókinne, ſem þá bæde gilder fyrer Proclama og

Koma Erfijngiar ecke i retta Tijd, þaa setur Yfervaldid Arfinn i Geymslu hiaa fullvedia Mønnum, so sem þad sialfst vill tilsvara. Enn þad af Lavsafe, sem med Tijmanum kann avdveldlega skemmaz edur koma Búinu til Kostnadar *) þad skal Yfervaldid strax laata giøra ad Penijngum Erfingiunum til besta

## 6.

Koma sumer af Erfijngium, enn sumer vegna løglegra Forfalla koma ecke, edur þeir vita þad ei innann þeß Tijma, sem þeir aattu ad mæta, þaa skal Yfervaldid faa vissum Mønnum **) Hlut þeß Fraaverande sem er i Lavsafe, til ad vijgsla hønum i Penijnga og þaa aa Rentu setia; Enn Jardagoods setiez i goodra Manna Umsioon.

## 7.

Er Erfijnge i Koongsins Erindum þaa sæke hann Arf innann þriggia Vikna epter þad hann heim kemur.

## 8.

Enn er Erfijnginn i avngvum løglegum Forføllum, og sokte ei Arfinn i Tijma annadhvort persoonulega eda skriflega, og þad bevijsaz ad hann visse ad Arfurinn var fallinn, hafe Skada sinn so buinn þo nockud af hønum tilføllnum Arfe fargez eda verde ovijst.

## 9.

Er Erfijnge so laangt burt utan Rijkes ad hann innann Ars og Dags ei getur fenged ad vita um þann tilfallna Arf og mæta aa tilteknum Tijma, þaa skal hanns næaste fullvedia Frænde, edur ef hann er ei til þaa annar fullvedia Madur af Yfervaldinu þar til skipadur vera vid Skiptin og hanns Hlut til sijn taka og þann geyma og løglega medsysla.

## 10.

Þad sama er og ef ei er uppvijst hvar Erfijnge er.

11.

og Lýsing í Avisurunum sem brúkud er Utanlands. Sømuleides er og alment her ad lýsa Arfe í Alþinges-Bókunum. Um Skuldamenn Sterbbúsins er alt annad; því vilie þeir ei góðviliuglega mæta í Sterbbúinu, tapa þeir avngu, enn ega ad sækiaz hvør á sinu Varnar-Þinge.

*) Þetta skedur Utanlands vid Auctioner, sem her í Lande eru ei algengnar, munde her því verda ad gánga epter Virdingunne, sem giørd er þá Búid er uppskrifad.

**) Þesse Articule útleggur hinn fyrre og sýner ad Yfervaldid er ei skyldugt til siláft ad snúa Arfinum í Peninga; heldur kann útnefna þar til góda Menn.

## II.

Er eingin rettur Erfijnge til innann Siøunda Mañs,*) edur og þoo rette Erfinge kemur ei i fimtoan Ar, þoa heyrer Arfurinn Kooginum til hvada Forfoll, sem hann kann ad fram-bera, so framt hann er oa Lijfe. Enn ef

*) Ætte epter Íslendskum Løgum ad gánga hec, þá er ei so þíngskiled, hvad se hiñ Siøunde Madur; því 13. Erfd kallar þad Fiórmeñíng, sem er hiñ Siøunde frá þeim Dauda [siá *Tyro Juris pag.* 103. samanbored vid pag. 91.] Eñ epter þeim Norsku Løgum er þar meire Vafe á. Einn Nafnkiendur hálærdur Madur á þessum Døgum hefur skrifad um þad hvørt sá Siøunde Madur her skule reiknaz í med edur inclusive, edur þad skule reikna allt ad hønum, sem kallaz exclusive. Enn annar ei minna Nafnkendur fyrer Vit og Lærdóm hefur munnlega kent þad ødruvís. Enn ber á mille um þad, hvørt her skule reikna Siøunda Mañ epter Civil (Borgarlegum) edur Canoniskum [Pávalegum edur gømlum Kyrkiulaga] Máta. Til þeß ad þetta verde skiled, er navdsynlegt ad þeckia hvørn Reikning fyrer sig, og so Frændsemes Líuurnar, sem epter Norsku Løgum til Arfs ná, gefur þad og góda Upplýsing í epterfylgiande Erfdum. Epter Norsku Løgum ná ei utann fiórar Sídulínur til Arfs N. L. 1.) Systkyne þeß Fráfallna og þeirra Afkomendur so lángt ofanepter sem til eru. 2) Þeß Fráfallna Fødur og Módur Systkyn og þeirra Afkomendur til Siøunda Manns. 3.) Afa og Ømu Systkyn og þeirra Afkomendur til Siøunda Mañs. 4.) Lángafa og Lángømu Systkyn og þeirra Afkomendur til Siøunda Manns. Í fiærlægre Sídulínum ná avngver til Arfs epter N. L. Til Dæmes: Hvørke Lángafa Fødur edur Módurbróder ne neiner af þeirra Afkomendum; því þeir eru í hinne fimtu Línu; þó hefur og so her útaf Mál orded. En Mismunurinn á millum Civil og Canonisks Reiknings á Skyldseme er í stuttu Mále þesse. Í Upp- og Nidur-stígande Línu er Reikninguriñ í bádum allur hinn same: "þar er hver Persóna ser uñ Lid." So sem: Sonur, 1. Lidur. Sonar Sonur, 2. Lidur. Sonar Sonar Sonur, 3. Lidur og so framveges. Enn í Sídulínunum er Mismunurinn. Epter Civil Reikninge teliaz: "Eins margar Persónur eda Menn eins og Lider eru í bádum "Línunum ad Forfødurnum ótøldum." Til Dæmes: Í ødrum og fimta, þridia

ef hanns Samerfijngiar bevijsa ad hann er daudur innann þeirra fimtan Ara, þa fellur hanns Hlutur, hanns Samerfijngiüm til.

# 12.

Seger Hwsfreya sig ad vera med Barne epter Boonda siñ daudann, þegar Bwid a þeim þrijtugasta Dege er uppskrifad, þa maa hwn sitia i þvij oskiptu i tuttugu Vikur. Sijdan skulu goodar Konur skoda og ransaka, hvort hwn er med Barne edur ecke. Finna þær ad hwn er med Barne, þa situr hwn framveges i Bwinu til þeß Barnid er fædt. Fædez Barn so laungu epter Boondans Dauda, ad vel kann proofaz og ransakaz ad had se ei þeß burtdauda Boondans Barn, þa svare og betale hwn apt ur; fyrst þad sem hwn took edur feck af Bwinu fraa þeim þrijtugasta Dege epter Hwsboondans Dauda, og take sijdan ei meir enn hennar rette Arfahlute kann ad vera. Hitt annad take Boondans rettu Erfingiar, og hwn straffez þar fyrer utan epter Løgunum. Og medan hwn þann veg situr i oskiptu Bwe, skulu Boondans rettu Erfijngiar med goodum Moñum af hennar Frændum hafa Tilsioon med, ad hwn ei oþarflega nockru wr Bwinu burtsooe, edur afhende þad sem henne

ia og fiórda Lid teliaz sio Persónur edur Menn. Enn epter Canoniskum Reikninge er ei talid utann í annarre Línunne, og alltíd í þeirre sem lengre er ef þær eru mislángar. So ad: "So marger Lider sem eru frá Forfødurnum í "lengre Línunne ad hønum óreiknudum so margar Persónur edur Menn." Til Dæmes: Ødrum og Siøunda, Þridia og Siøunda, Fiórda og Siøunda telz ei meir enn fyrer sio Menn eda Persónur. Þeir sem nú vilia láta Erfder gánga epter Civil Máta færa þad til síns Máls, ad þad se algeugnara hiá ødrum Þióðum, og þar næst ad þeir sídustu Erfíngiar sem Norsku Løg nefna Art. 51. "Lángafa Bródurs Barnabørn seu Siøunde Madur." Þetta er satt, og þar fyrer utann sez af þessum Art. ad Siøunde Madur reiknaz þar í med edur inclusive; Enn hvar fyrer skylde þá þesse Art. leggia þetta Atride til: "og so framveges ofanepter til Siøunda Manns epter þann Dauda." Þetta Atride, so vel sem hitt, ad Norsku Løg reikna þá forbodnu Lide í Egtaskap epter Canoniskum Máta, færa þeir til síns Máls sem vilia skilia þá fyrer Siøunda Mann sem eru Ødrum og Siøunda, Þridia og Siøunda, Fiórda og Siøunda. Eg vil láta þetta so vera og hvorn ráda siñe Meining.

henne siaalfre tilheyrer; þvij hwn maa eckert selia edur afhenda, utan fyrer hennar og beggia þeirra Barna Fæde og Forsorgun og so til Fædes og Lavna handa Vinnufoolkinu, hvad þo a ad ske med Yfervaldsins Vilia og Samþicke.

# 13.

Eingin Eckiumadur edur Eckia maa inngannga nyann Egtaskap, fyrr enn þar eru giord rett Skipte vid þeß Burtdavda Born edur Erfijngia.

# 14.

Þegar skipta skal, og bwed er rett ad uppskrifa og virda Bwid, sem sagt er, þaa skulu fyrst, adur nockur maa erfa, allar þær Skulder, sem rtt ega ad sögraz, og rettar finnaz, betalaz af Bwinu sameginlega; fyrst af Bw-penijngum og Lausafe, so miked sem þad tilhrockur, sijdan af Jord og Fastagoodse ef lauser Aurar ei tilhrockva, hvoria þad Epterlifande maa til Skuldabetalijngs til sijn taka, ef þad þeß beidez og samegenleger Erfijngiar taka þad til þeß trwanlegt. Anars mega Erfingiarner og þeirra Fiaarhaldsmenn med Rettarins Þienara Raade og Fulltijnge laata wte af Bwinu til serhvers Skuldaheimtumanns, sem þeß beidez fyrer þad sem hann bevijslega og sannsynlega heimter, fyrst af Lausafe og sidan af Jardagoodse. Þo skal einginn Skulda-heimtare, sijdst, sa sem hefur retta Handskrift uppa sijna Heimtu, neydaz til ad taka a moote nockru slijku Utsvare, ef hann vill laata sijna Skuld standa hia Erfijngiunum, og þeim til hennar trwa.

# 15.

Þegar Skuldirnar eru þannveg, sem sagt er, afteknar, edur Erfijngiarner taka þær ad ser, þaa skal þad sem epter er i Bwinu frodmlega skiptaz, mille Erfijngianna; og skijrer Loodsedlar gioraz um þad, sem hvor a ad hafa af Bwinu; og so er tilbwed eitt fullkomed rett Skiptabref, hvar i innfæraz skal bæde Uppskrift og Virdijng med Inngialde og Utgialde og þvij sem þaa er epter i Bwinu, so og Loodsedlarner, (Hluta-Skiolin.) Og skal Skiptabrefed af Erfijngiunum eda þeirra Frændum og Fiaarhaldsmonnum asamt med Rettarins Þienurum underskrifaz og forsiglaz.

# 16.

Yfervaldid skal hafa kostgiæfna Tilsioon med, ad i Skiptum allt Christelega og Rettvijslega framfare a allar Sijdur, nema þad vilie þar fyrer i Rette standa, ef nockud fyrer þeß Vanrækt med þeß Vitund sinnz ologlega medhondlad. Enn seu Erfijngiar aller Minduger og Nalæger, þaa a Yfervaldid ser þar eck-

ert af ad skipta nema þeß se af þvij bediz.

## 17.

Eingenn Skiptaforvaltare *) maa i Skiptabrefinu dæma nockurn til ad betala nockud nema Skuldamadurinn stande under hanns Rette og heyre under hanns Logsøgn.

## 18.

Epter þvij Skiptabrefe, sem Erfijngiar sialfer mille sijn giora, kann einginn ad sækia Skulder eda sækiaz fyrer Skulder, nema hañ sialfur, edur hanns Umbodsmadur hafe þad underskrifad, eda Skuldamadurinn sialfur edur hanns Umbodsmadur gange vid Skuldaheimtunne fyrer Skiptaforvaltaranum, **) um hvoria hann og þo ad sækiaz og sijnu Varnarþijnge.

## 19.

Ega Boonde og Hwsfreya Born saman, og annadhvort þeirra vid Davdann fræfellur, þaa, epter ad Skulder af Bwinu til samans eru betaladar sem sagt er, skiptaz allar þær Egur, sem þaa eru epter, Bwpenijngar, Lavsafe, Kavpstadargoods, Jardagoods, Kavpagoods, og Odalsgoods i tvo jafna Parta mille þeß Eptlifanda og samegenlegra Barna.***) Þo erfer þad Epterlifande af epterlaatnum Egum avk sijns Helmijngs eitm Broodurhlut.****) Enn ef þad Epterlif-

*) Her í Lande þarf ei um þad ad villaz hvør se Skiptaforvaltare. J Norege voru Amtmennirner þad til forna enn nú Sórenskrifararnir, í hvørra Stad her eru Sýsslumennirner; þó á Amtmadur ad hafa Tilsjón med þeim, Forord. af 19. Aug. 1735. Epter Geistlega og þeirra Eckiur, sem avngva verdslega Handtering brúka skipter Herads-Prófasturinn med tveimur Prestum.

**) Af þessum, sem og næst fyrerfarande Articula er avdsed, ad þad er til litels ad innkalla í eitt Sterbbú Skuldamennina (Debitores) jafnvel ad þad se almenn Venia Utanlands; því vilie þeir ei siálfkrafa og góviliuglega mæta, gilder slíkt Innkøllun eckert; heldur verda þeir ad sækiaz á sinn Varnarþinge, og eru þeir ei skylduger Dóm ad þóla af Skipta-Rettinum framar eñ þeir vilia.

***) Her um skal nockud tala vid næstfylgiande Articula.

****) Þar um hefur orded Agreiningur hvørt sú epterlifande Persónan fær þenna Bróourhlut til Egnar, edur einasta Agóda. Sumer fylgia því fyrra og segja

erlifande gifter sig aptur, þaa skal saa aptur til Barnanna. Vill þad Ept-
Bróodurhlutur sem þad so feck hvarsa erlifande behalda Hofudgardinum med

til-

ia ad þetta Atride: "þad Epterlifande NB. erfer," gefe til kynna fullañ Eg-
nar-Rett edur *Dominium plenum.* Þar fyrer utann færa þeir til Dæmes:
Ef einn Madur deyr og epterlætur 3. Børn og sídan deyr eitt þeirra ádur eñ
Móderin gifter sig aptur, ad ef Móderin hefde alleina haft Agóda-Rett til
Bródurhlutans so mætte hún heimta Arf í sama Bródurhluta epter sitt Barn
epter 36. Art. Enn med því þad burtdauda Barn hafde aldrei egnaz þenna
Bródurhlut, so getur Móderin eckert af því til erfda heimtad, og af þessu á-
lykta þeir ad hún se fullkomen Egande ad þessu Bródurlóde. Enn þar eru
adrer til sem neyta Mooduriune um fullkomen Egnar-Rett yfer þessum Bród-
urhlut, og færa eptersylgiande Tilfelle til Dæmes: Sempronius deyr og
epterlætur ser 4. Børn med sinne Konu Titia. Hún skipter med Børnum
sínum, tekur Helmínginn af Búinu enn avngvann Bródurhlut. Sídan gift-
er hún sig aptur Cajo og á med hønum ogso 4. Børn. Cajus deyr og
Titia skipter enn med Børnum sínum epter sídare Manninn, og avk Hel-
míngsins tekur hún ogso Bródurhlutinn. Loksens deyr Titia og nú ega hvør-
utvegge Børninn ad erfa hana. Børnin epter fyrra Manninn heimta Helm-
íng af Arfinum; enn Børnin epter sídare Manninn vilia fyrst hafa Bródur-
hlutinn sem hún tók af þeim, enn ecke hinum, ádur enn skipt er í Helmínga.
Eg held þavg hafe rett og ege ad fá sinn Bródurhlut, því annars være "Løg-
"inn ei eins jafnadarsøm og eins bæreleg fyrer alla ;" heldur hefdu þav fyrre
Børnin Abata enn hin sídare Skada þvert á móte því, sem stendur í Lagan-
na Formála, og so því sem 16. Art. ad framan skipar. Ef Móderin hefde nú
haft fullkomen Egnar-Rett yfer þessum Bródurhlut, so var þad under sama
Skilmála og Helmíngurinn sem hún feck; so áttu sídare Børnin samt ei mei-
ra af Arfinum heldur enn fyrre Børnin, og so þurfte hún þar avngvu aptur
af ad skila þó hún hefde gift sig í þridia Sinn, enn Bródurhlutnum átte hún
þá aptur ad skila, hvar af fylger, ad hún hafde ei so sterkann Egnar-Rett yf-
er því, sem yfer Helmínginum. Enn þar af fylger ei ad einn se Tiltale und-
erorpenn þó hañ fare illa med þann Bródurhlut sem hann hefur þannveg fen-
ged

tilliggiande Jardagoodse og Herlegheitum*) sem þad innfærde i Bwid, þaa hann og hwn komu i Egtaskap saman, þaa maa þvij ei meinaz ad leysa þad til sijn fraa Bornunum epter Sannsyne og epter Samfrænda goodu Samkomulage.

20.

Ega Boonde og Hwsfreya eingin Born saman, þaa er leyst, þegar annadhvort þeirra vid Daudann fraafellur**) þvij-Epterlifande ad gaanga til jafnra Skipta og Sundurdeil-

ged, því Egnar-Rettur eins Hlutar kann ad vera meira og minna friáls og þó ei ad øllu Leite.

*) Mer skilz ad sú epterlifande Persónan fáe ei Høfudgardinn med tilliggiande Jardagóðse og Herlegheitum, nema sú hin sama hafe þad átt þá hún Egtaskapinn inngeck; enn hafe sú burtdauda Persónan átt Høfudgardinn med Tilliggiande, þá munu Børnin ega þad ad hafa, og siálfsagt um Stiúpbørn ef þaug eru nockur, serdeiles ef þad er Odal.

**) Um þennann Articula, sem og næst undanngángande, og nockur Atride í þeim epterfylgiande verdur Spursmál; hvørt þeir kunne heima ad ega her í Lande. Med því her talar um hvørnen Arfe epter daudann Mann ege ad skipta, so mun sumum sýnaz ad þesse Articule eins og adrer, sem þar um høndla ege her fyrer Løg ad gilda epter Forordníngunne af 17. Feb. 1769. og því má ei heldur neita, ef eingin annar Giørníngur fyrerbygger þad. Enn adrer munu svara, ad þesse Articule aftake ei þá Skyldu sem flýtur af einum løglegum Samnínge eda Kaupmála, ei heldur fyrerbióde hann slíkann Samníng eda Kaupmála ad giøra. Og med því øll Kaupmálabref her í Lande áqveda víst, hvad hvørt Hiónanna ege edur egnaz skule, þá til Skipta kemur, so ege epter þeim Giørnínge ad gánga epter N. L. 5. B. 1. C. 2. A. Sú Orsøk, sem Forordníngin siálf med ser ber, hvar fyrer hún se útgefen, sýnez og ávísa ad ei náe hún til Fiárskilmála Hióna og ege þeir því framveges ad giøraz epter Íslendskum Løgum. Og med því eg merkt hefe ad aller hafe ei sama Skilníng og sumer avngvann á sumu af því, sem vor Løg þar um segia, vil eg í stuttu Máli gefa þar um Upplýsíng. 1.) Er Máli edur Heimanfylgia móte Tilgiøf, sem er hinn helste og beste Fiárskilmále mille Hióna. Málinn skal úttakaz fyrr enn adrar Skul-

deilingar vid Erfijngia ä ollu Bwsins Lausafe og Jardagoodse. Vill sw eptzerlisande Persoonan þad ecke, þa ä hwn ad svara wt til Erfijngiaña þremzur fioordu Portum, af þvij, sem sw burtdauda Persoonan hafde i Bwid innfært, hvarmed Erfijngiarner skulu laata ser nægia. Og so ad rett verde vitad, hvad sw burtdauda Persoonan hafde i Bwid innfært, þa skal þad be-



Skulder af Sterbbúinu jafnt med Kóngs Afgiftum og Omagafe. Þesse Fiárskilmále er ómissande til ad frelsa Konuse frá Bóndans Ospilun edur ödru Misfelle, ad hún ei med Börnunum ad hönum daudum, þurse ad gánga á Vonarvol. Hann er því sídur á móte Norsku Lögum, sem menn finna þar hanns fullkomnar Meniar, so sem N. L. 5. B. 3. C. 31. A. confr. N. B. E. K. Kv. G. 3. C. Item N. L. 5. B. 3. C. 44. A. 2.) Er Felag. Þad er þreñslags a) Felag serilage so kallad, þá viß Tala er á höfd hvad miked hvört leggur til. Til Dæmes: Hún telur ser 30. Hundr. enn hann 20. Hundr. "þá "skal þad Hióna meira upptaka sem meira lagde til Felags rc. Kv. G. 3. C. so ad ef hann deyr fyrr enn hún, þá tekur hún fyrst 10. Hundr. af óskiptu, sídann Helmínginn, ef Fe hefur eckert avkez edur þad hefur þverrad; enn hafe þad vaxed til Dæmes um 15. Hundr. þá fá Erfíngiar Bóndans fyrst 20. Hundr. og hún eins miked; sídann fá þeir tvo Hlute Afla, þad eru 10 Hundr. enn Eckian einn Pridiúng, þad eru 5. Hundr. Þetta Felag er hid löglegasta og náttúrlegasta, þó nú se miög so komed úr Veniu. b) Er Helmínga Felag epter N. B. E. K. Kv G. 3. C. sem nú er alment í Veniu, jafnvel þar sem ójafner ad Efnum í Hiúskap samankoma; enn þad er á avngre Sanngirne bygget þá so er, og horfer til Arfsvika vid Erfíngia. c) Lokfins er Orega Felag. Kv. G. 4. C. þad er nú ogso alment í Veniu og uppsett strax á Giftíngardege, sem þó Lög ecke tilætla; heldur hinns, ad Hión in mege giöra Felag sitt sídar. Og er því einginn Þörf ad innfæra Fiárskilmála í Egtaskapar-Contractinn á Giptíngardege ef ei er Mále. "Og þó má Málakona ei synia Bónda sínum Felags "Kv. G. 3. C." Yfer Höfud má þad segia, ad þav Norsku Lög eru meira hlynt þeirre epterlifande Persónunne; enn þav Islendsku miklu skilmerkelegre um Fiárskilmála, og greinelegre í því ad afstýra öllum Arfsvikum og Eydslu á Konuse.

beviisaz med skiiru og sonnu Brefe og Uppteiknan, sem af þeim bædum i þeirra Velmagt underskrifud og innsiglud er, og med tveggia i hid minsta næstu Samfrænda Hondum og Signetum stadfest, hvad sw burtdauda Persoonan þa hwn Egtaskapin inngeck, i Bwid innfærde, edur siidann med Arfe, Giof edur i annan Maata odlaz hefur.*) Vill þad Epterlifande halda Hofudgardinum med tilliggiande Jardagoodse og Herlegheitum, þa er þvii leyft ad wtleysa hann af Erfiingiunum epter Saunsyne og goodra Manna Samkomulage, ef þad er ei Odalsgoods, sem þeir rettu Erfiingiar annars hafa Rett til ad innleysa.

## 21.

Enn deyr bæde Boonde og Hwsfreyia strax hvort epter annad, adur enn þad sem lengur lifer hefur loked Skiptum, og giort sig lavst epter fyrrskrifudu vid Erfiingia þess sem fyrre doo, þa kemur allt Bwid til jafnra Skipta millum Erfiingia beggia, so framarlega, sem þad ei med skiiru og sonnu Brefe og Uppteiknann beviisaz, hvad hvort þeirra i Bwid innfærde; þvii þa ega serhvors Erfiingiar ad lata ser nægia med þad, sem hvort þeirra hefur i þann Maata innfært i Bwid. Finnez þad, ad annarhvor Hlutadegenda hafe moote Løgum giort Uppehald i Skiptunum, þa a sa ad svara Mederfiingium til þess Skada, sem þeim hefur hlotnaz af sliiku ologlegu Uppehalde.

## 22.

Vill Boonde eda Hwsfreyia breflega gefa annadhvort odru nockud af þeim Egum, sem þad hefur i Bwid innfært, þa skal þad ske epter þvii, sem umgetur herepter i**) fioorda Capitula um Giafer.

## 23.

Tilfellur Boonda eda Hwsfreyiu nockur Arfur, epter ad þav komu saman i Egtaskap, enn er þo ei i Bwid innkomin adur enn annadhvort þeirra vid Daudann fraafellur;***) þa skal same Arfur innfæraz, þegar allt Bwid a ad skiptaz, eda Bwsins Skul-

*) Her mun underskiliaz þad sama Atride sem, i næst fyrerfarande Articula.

**) Þar seger i 3. Art. ad hvørugt mege ødru neitt gefa án Erfingianna Sampÿckes; Liklegt er ad þesse Articule meine til: Ef þad sem burt vill gefa á ønnur Børn enn vid því sama. Enn þetta nær um sinn ecke heim her hiá oss; Því i þessu Efne á ad gánga epter Islendskum Løgum. Siá *Tyro Juris* 2. B. 10. C.

ooo) Þetta nær heim þar sem Felag er mille Hióna enn ei þar sem Mále er.

Skulder ega ad betalaz. Slijkt hid sama er, þo odrum nockur Arfur tilfalle og þeir deye fyrr enn Arfurinn er i Bwid innkominn.

## 24.

Þær Bwid skal skiptaz, og það tilhreckur og aller Skuldaheimtumenn geta fenged sitt,*) þaa tekur sjw epterlifande Persoonan fyrst af þvij, sem yfer hefur Skulder i Bwinu so miked til sinnar Jardarfarar, sem sannsynelega hefur vered kostad uppaa þeß Burtdauda Jardarfor.

## 25.

Í þessu Tilfelle heldur og Hwsfreyan sinne Festargiof**) edur Morgungiof, sem skal betalaz af þeim Hlut, sem Boondans Erfijnginn tilfellur, so framt sem hwn vill affala ser þann Broodurhlut, sem henne epter Boondann er tillagdur.

## 26.

Hveckur Bwid ei til þaa misser það Efterlifande Jafngildes fyrer Utfarar Kostnadinn og Hwsfreyian sijna Festargiof edur Morgungiof.

## 27.

Einginn Eckia maa epter Dauda Boonda sijns skipta ser af Bwsins Egnum Inngialde edur Utgialde, fyrr enn logleg Skipte eru halden.

## 28.

Arfur aa ad framgaanga medann Afkomendur eru til, og so lenge Born og Barnaborn eru til ofanepter, þaa erfa ei Foreldrar eda Forfedur uppepter.

## 29.

Manns-Persoona tekur tvo Hlute,***) enn Qvenn-Persoona þar aa moote einn i ollum Orfum.

30.

*) Þetta er sanngiarnlegt þar sem Felag er Hióna í mille enn sumer munu ei vilia láta það ná til Mála-Konu.

**) Júristarner skilia Festargiof fyrer þá Giof, sem Bidillinn gefur sinne Kiærustu.

***) Þó nær þetta ei allstadar heim; því 1.) fær Hálfbróder ei meir enn Alsyster Art. 36. 2.) Lavngetenn Sonur, sem tekenn er til Egta og Ættar (lýstur í Kúld og Kiøn) fær ei meir enn Egtafædd Dóttur. Art. 71. 3.) Konan erfer Bródurlód epter Mann sinn. Art. 19. 4.) Bródurlód epter Barn sitt ef Bróber er til Art. 36. 5.) Jafnt vid sinn Son og Stiúp-Son, Art. 52.

6.)

## 30.

Egtabarn tekur Arf epter Fodur edur Moodur, ef þad fædez lifande og verdur skijrt *) enn añars ecke.

## 31.

Verdur Agreinijngur um̃ hvort Barn var lifande Fædt og Skijrt; Item hvort Fader eda Mooder lifdu lengur enn Barnid, eda þad lengur enn þav, þaa aa slijkt med trwfostum Vitnum ad bevijsaz.

## 32.

Egtaborn eru þav, sem fædd eru af þeim Foreldrum, sem eru egtavijgd samann; jafnvel þo þav seu fædd aadur enn Foreldrarner komu samann i Egtaskap.

## 33.

Þad skal og haldaz fyrer Egtabarn, sem fædt er af Festa-Foolke, ef þad hefur vered trwlofad, og Hjoonavijgslann Dagsett og Brwdguminn deyr aadur, þo med þvij Moote ad þad bevijsez og reynez, ad Barnid se geted epter ad Foreldrarner voru af Prestinum Trwlofud.

## 34.

Barnabarn, sem elz af Syne edur Doottur, tekur Arf epter Fodurfedur, Fodurmoodur, Moodurfodur og Moodurmoodur eins og Fader þess edur Mooder, skyldu taka ef þav hefdu lifad. Somuleides tekur þess (o: Barnabarnsins) Barn medann nockurt er til Arf epter Laangafa og Laangommu.



6.) Pá Børnum samegenlega er gefed eda testamenterad nockud og ei tilteked hvad hvørt skule hafa, þá fá øll jafnt hvørt þavg eru Kallkyns eda Qveñkyns.

o) Þetta Atride: "verdur skírt," sýnez í fliótu Bragde ei hafa miked uppá sig, enn er þó vigtugt ef til vill. Til Dæmes: Ein Kona, sem einginn øñur Børn á med Manne sínum, deyr af Barnsførum og Barnid deyr einninn. Deyr hún nú fyrr enn Barnid og Barnid verde skírt og deye sídann, þá erfer Barnid Módur sína, og so erfer Faderinn aptur Barnid; enn deyr Barnid óskírt, so nær þad ei til Arfs epter Módurina og so misser Faderinn Arfinn, og verda þá Frændur Konunnar Erfíngiar. Því er þad ei einasta Himnaríkes Vegna, ad Børninn ega sem fyrst ad skíraz; heldur rídur þar og miked á í Arfaheimtum.

## 35.

Eru ei Børn ei Barnaborn og so framveges ofannepter þa erfer Fader *) alleinn.

## 36.

Er ei Fader til, þa erfer Mooder og Al- edur Hoalf-Systkyn; þo tekur Mooder ei meir enn eitt hennar Barn, Mannshlut ef Sonur er til og Konuhlut ef Sonur er ei til, og Hoalf-Systkyn taka ei utan hoalft vid Al-Systkyn.

## 37.

Eru nockur af Systkynum daud og hafa epterlåted ser Born eda Barnaborn **) þa standa þav i sinna Foreldra Stad og erfa med sinna Foreldra Systkynum þann Hlut, sem þeirra Foreldrum ætte til ad falla.

## 38.

Er ei Mooder til ei Systkyn þa erfa þeirra Born ***) eins og

L l þavg

o) Þó undanskilz epter Art. 52. ef Fader er skilin frá Móder fyrer Hórdóm af hans Hende, þá erfer Móderin allein Barn sitt. Enn Spursmál hvørt slík Móder erfer so allein ad Hálf- og Al-Systkyn þess Dauda ná ei til med henni? So vilia Júristarner hafa þad ad hún erfe allein ef Faderinn lifer; enn se Faderinn daudur, þá gánge Erfdin epter 36. Art.

oo) Her kemur nú fram þad *Jus Repræsentationis* sem *Tyro Juris* talar um 2. B. 12. C. og þar til sigtar Forordníngin af 17. Febr. 1769 ser í lage.

ooo) Her og í næstfyrerfarande Articula er nú athugande þad sem *Tyro Juris* 2. B. 12. C. nefner: *Successio in capita*, Høfdaerfd og *Successio in Stirpes* Ættqvísla edur Kne-runna-erfd. Høfda-erfd nær þar heim, þar sem Erfíngiar eru í jøfnum Lidum; enn "Kne-runna-erfd" þar sem þeir eru í ójøfnum. J Nidurstígande Línu gánga Erfder alltíd í "Kne-runna" hvørt Erfíngiar eru í jøfnum Lid edur ójøfnum Art. 34. J Sídu-Línunne gánga Erfder í "Kne-runna" þá Erfíngiar eru í ójøfnum Lidum Art. 37. Enn seu Erfíngiar í ójøfnum Lidum, þá gengur Erfdin epter "Høfdatølu," sem siá má á þessum Articula. Til Dæmes: Einn Madur á 2. Syne sem báder eru dauder og eiga báder Børn epter, annar 1. Barn, enn annar 5. Børn; so deyr

þavg oll væru Systkyn,*) og so fram-veges ofannepter.

## 39.

Eru nockur af þessum daud, og hafa láted epter sig Børn eda Barna-børn, þá gánga þav i sinna Foreldra Stad og erfa þann Hlut, sem þeirra Foreldrar stoodu til.

## 40.

Eru þesser ei til þá erfer**) Fodurfader, Moodurfader, Fodurmooder og Moodurmooder eins og þav væru Systkyn.

## 41.

Eru þesse ecke til þá erfa***) Forfedur uppepter.

## 42.

Eru Forfedur ei til þá erfer Fodurbrooder, Moodurbrooder, Fodursyster og Moodursyster, og Arfurinn skiptez mille þeirra eins og þav væru Systkyn.

## 43.

Eru nockur af þessum daud og hafa láted epter sig Børn edur Barnaborn, þá gánga þavg i sinna Foreldra Stad og erfa þann Hlut, sem þeirra Foreldrar stoodu til.

## 44.

Er ei Fodurbrooder, Moodurbrooder, Fodursyster og Moodursyster til, þá erfa þeirra Born, sem eru Systkynaborn þaug og sá Burtdaude oll

---

deyr Afe þeirra, þá fær þad eina Sonar-Barnid eins miked og hin 5. því ad Erfíngiar eru her í Nidurstígande Línu. Odruvís er þad ef eitt Madur hefur átt 2. Brædur sem báder eru dauder og á annar epter 1. Son enn annar 5. Syne, sídann deyr Fødur-Bróder þeirra; þá á Arfurinn ad skiptaz í 6. jafna Hlute mille Brædra-Sona hanns vegna þ-ß ad Erfíngiarner eru her í Sídu-Línunne.

*) Her athugaz ei "Siøunde Madur" heldur gengur Arfurinn ofanepter fyrstu Sídu-Línu medann Afkomendur eru til.

oo) Þad er athugande ad medann nockur er til í fyrstu Sídu-Línu ofanepter, þá ná hvørke Afar ne Ommur til Arfs.

ooo) Fyrer Forfedur ega her ad skiliaz Lángafar og Lángømmur og þeirra Foreldrar hvad lángt sem þeir kunna ad ná upp-epter þeir erfa epter "Høfdatølu."

oll eins og þav væru Systkyn og so framveges ofanepter alt til Siounda-Manns *) fraa hinum Dauda.

## 45.

Eru nockur af þessum daud og hafa laated epter sig Born edur Barnaborn þaa gaanga þavg i sinna Foreldra Stad, og taka þann Hlut, sem þeirra Foreldrar tilstoodu.

## 46.

Eru ei þesser til þaa erfa Fodurfodur Brædur og Systur, Fodurmoodur Brædur og Systur, Moodurfodur Brædur og Systur, og Moodurmoodur Brædur og Systur, eins og þav væru oll Systkyn.

## 47.

Eru nockur af þessum daud og hafa epterlaated sig Born edur Barnaborn, þaa gaanga þavg i Foreldranna Stad, og erfa þann Hlut, sem þeirra Foreldrar stoodu til.

## 48.

Eru þesse ei til þaa erfa þeirra Born eins og þav væru oll Systkyn og so framveges ofanepter til Siounda-Manns **) fraa þeim Dauda.

## 49.

Eru þavg ei til þaa erfa Fodurfodur Fodurbrædur og Systur, Fodurfodur Moodurbrædur og Systur, Fodurmoodur Fodurbrædur og Systur, Fodurmoodur Moodurbrædur og Systur, Moodurfodur Fodurbrædur og Systur, Moodurfodur Moodurbrædur og Systur, Moodurmoodur Fodurbrædur og Systur, Moodurmoodur Moodurbrædur og Systur, oll eins og þav væru Systkyn.

## 50.

Eru nockur af þessum daud og hafa laated epter sig Born edur Barnaborn þaa gaanga þavg i sinna Foreldra Stad og erfa þann Hlut, sem þeirra Foreldrar stoodu til.



o) Her kemur nú fyrst "Siounde-Madur" epter þañ Dauda í annare Sídu-Línunne, sem er epter Civil Reikninge Odrum og Fimta vid þann Burtdauda, eñ epter Canoniskum Reikninge Odrum og Siounda.

oo) Her er "Siounde-Madur" í þridin Sídu-Línu epter Civil Reikninge sá sem er Þridia og Fiórda vid þann Burtdauda; enn Þridia og Siounda epter Canoniskum Reikninge.

so sem hann hefde þvij sialfur stoled.

# 46.

Kavpe nockur a Ofridartijma ad Ovinanna Rytturum edur Soldatum, nockud Goots edur Kvikfenad, sem hefur vered rænt edur stoled fra Eigandanum, þa a þad ad ganga aptur til þeß retta Eignarmanns, fyrer sama Verd og bevijsad verdur ad fyrir þad hafe gefed vered; Enn bevijsist, ad sa sem keypte, hafe sialfur gefed Fiandmoñunum Raad edur Tækefære til ad taka þad fra Eigandanum, þa fær hann þad aptur an nockurs Vidurlags, þo þad se aptur burtselt af þeim sem keypte, edur fargad.

# 47.

Hafe sa sem keypte, burtselt soddañ Goots edur Kvikfe edur þad er fargad, og sa rette Eigande hefur þo adur bedist þeß tilbaka, þa skal hañ betala aptur til Eigandanns so miked sem bevijsast ad hann hafe fenged fyrer sama Goots edur Kvikfe. Þo skal þar af takast þad sem sa er keypte, getur løglega bevijsad, ad hann hafe fyrer þad gefed.

# 48.

Hvor sem tekur i Pant, kavper edur med ødrum Hætte wtvegar ser hia Koongsiñs Skipsfoolke Byssu-Skyttum, Rytturum, Dragonum edur Soldatum, þeirra Klæde, tilbwiñ eda otilbwinn, Vopn, Pwdur edur Veriur sem þeir hafa fenged fra Koonginum, þa skal soddann ecke alleinasta aptur skilast Officerunum an nockurs Vidurlags eda Betalijngs, helldur skal hann þar ad auke standa þar fyrer i Rette og straffast sem fyrer annann vitanlegann Þioofnad.

# 49.

Hafe madur a Ofridartijmum hast Skipte vid Ovinanna Ryttara edur Soldata a nockru Gootse edur Kvikfe, sem rænt edur stoled hefur vered fra rettum Eiganda, og hann bevijsar, ad hann hafe vered neyddur og þvingadur til ad giøra soddañ Skipte, og sa rette Eignarmadur þecker sitt, og leider sig løglega ad þvij, þa skal Eigandinn, og sa sem Bytin giort hefur, lijda Skadann hvor med ødrum.

# 50.

Ef funded verdur ad nockur her i Rijkinu, Innlendskur eda Utlendskur, selie, høndle edur betale nockud med annare Penijnga Myndt eñ þeirre, sem her i Rijkinu er gangbær, og af Koonginum epterlaatin, edur reke þa Myndt sem Koongurinn hefur laated mynta, edur wtgefe eda inntake hana fyrer minna edur meira Verd, eñ hwn af Kooginum sett er, þa skal hann mæta

 Til-

Tiltale af Yfervalldinu, og betala tvøfallt vid þad, sem Summan var.

## 51.

Ef tveir eda fleire eiga þaa Hlute tilsamanns, sem ecke verdur skipt aan Skada, þaa, ef einhvor þeirra vill selia sinn Part, skal hann fyrst bioodast Sameigendum. Vilie eiñ af þeim brwka þann Hlut, og Sameigenduner vilia ei selia sinn Part, ne kavpa hanns Part, þaa eige þeir under Hlutfalle, hvor þarfyrer skal raada. Saa sem Hlutur fellur til, skal vera skylldugur, añadhvort ad betala sijnum Sameigendum fullt Verd epter løglegre Virdijng, edur ad selia hvorium af Sameigendunum sem kavpa vill, edur ødrum, og þaa betalar hvor hinna annara, þeirra Hluta af þvij sem hañ feck þarfyrer. Vilie þeir ecke vidtaka, þaa hallde hann þvij i sinne Geymslu, sem sijnu eigenn Gootse, þar til þeir krefia þeß, edur hann maa setia þad nidur i Rett, ef hann vill.

# IV. Cap.

# Um Gaufur og breflegar Giafer.

## I. Art.

Trwlofadar Persoonur meiga ei gefa hvor annare meir eñ Politie-Ordnijngin leyfer.

## 2.

Gefe nockur af Adle, edur þeir sem hafa jøfn Frijheit vid Adal, hærre Morgungaafu enn til fiogur þwsund Loda Silfurs aan Leyfis og Samþyckis sinna Erfijngia, þaa skal þad avngva Magt hafa.

## 3.

Gefe og afsale Hwsboonde, sem Lijfs-Erfijngia hefur, til Hwsfreyu, edur Hwsfreya, sem hefur Lijfs-Erfijngia, til Hwsboonda, nockud til Eigenndooms, þaa stande þad ecke, nema Erfijngiar vilie þad halldist epter þeirra Davda.

## 4.

Enn afsale annadhvort þeirra nockud til annars Manns, sem er utann þeirra Felags, ad giøra þar med Svik, og hann afhender Hwsboonda Hwsfreyunnar, edur Hwsfreyu Hwsboondans Jord og Eigeñdoom aptur, þaa halldist þad ecke nema rettir Erfijngiar vilie.

## 5.

Ecke maa Fader, medann hann og Mooder lifer, gefa einu Barne sijnu nockud. Enn gefe hann einu Barninu nockud, þaa a hann ad giora hinum Børnunum Fullnuſtu þar a moot.

6.

Þo ſtendur þad einum Fødur, ſem nockurn Herragard a, frijtt fyrer, ad gefa einum ſijnum Syne, edur og, ef hann a avngvañ Son, eiñe ſinne Doottur, twofalldann Arf a moots vid hin Børnin, hvorn twofalldann Arfahluta, nefndur Sonur eda Dootter ſkal hafa i ſama Herragarde, med næſt hiaaliggiande Boonda-Gootſe. Somuleidis maa og Faderinn aanafna Syne eda Doottur Byggijnguna a ſama Garde.

7.

Hafe Hwsboonde avngva Lijfs-Erfijngia, helldur Utarfa, þo i ſama Lide og eins naaſkyllda, þaa maa hann og giøra ſømu Tilſkipan fyrer hvorn ſem hann vill af ſijnum aadurnefndu Erfijngium.

8.

Forelldrar mega ei burtgefa ſijnum Børnum ſijna Fiaarmune, medann þeir lifa, nema Børninn vilie ſvara til Skullda ſinna Forelldra epter þeirra Afgang, edur med ſvørnum Eyde innfæra aptur i Sterbwed þad ſem þav hafa fenged hia ſijnum Forelldrum.

9.

Þad ſama er og ef Fader edur Mooder under Hylmijngu gefa Børnunum meira fyrir þeirra Moodur- eda Fodur-Arf, enn Bwid getur þolad; Þvij þaa eiga Børnin ad ſvara til þeirra Skullda, ſem lwkaſt eiga, eda innfæra aptur i Bwid, þad ſem þav fenged hafa, nema þav bevijſe, ad løglega og ſanngiarnlega hafe ſkipt vered.

10.

Enn finniſt þad ad nockud af Skulldum ſem ſvaraſt aattu, hafe vered wtelukt af Skiptabrefinu, þegar Skipte voru halldinn, og þær voru þo þaa i Bwinu, þaa eiga Børnin, ſem aadur hafa fenged ſinn Fodur- eda Moodur-Arf wr Bwinu, og ſijdann, epter þann ſem ſijdarſt doo, vilia ganga fraa Arfe og Giallde, þo epter Jofnude ad ſvara til þeirra Skullda, ſem þanninn voru wtelwktar i þeim fyrſtu Skiptum.

11.

Enn gefe Fader Barne ſijnu nockud i Hendur, og þad Barn eignaſt annad Barn, og deyr Barn, og Barnabarn lifer, þaa maa hvorke Fødurfader eda adrer, taka þad fraa Bar-

Barnabarne, sem Fader gaf sijnu Barne, nema i þvij Tillfelle, sem her næst fyrer framann mælt er.

## 12.

Fodurfader og Fodurmooder mega ei gefa sijnum Barnabornum meira, enn þeirra eigenn Barne ber ad hafa i sinn retta Arfahluta.

## 13.

Nw gefa og til Eignar fꝏ adrer enn F.relldrar edur Forfedur, Systkynum tilsamanns Jord edur adra Gꝏfu, og þar er ecke skijrlega ꝏkveded i Giafabrefinu, hvorninn þad skal skiptast þeirra imille, þꝏ skal þad gioꝛast med Hlutfalle, og hvor einn fꝏ jafn mikid, hvort þad er Karl edur Kona.

## 14.

Hwsboonde sem avngva Lijfs-Erfijngia ꝏ, mꝏ burtgefa hvorium hann vill Helning sijns Arfs, og ecke meira; Somu Magt hefur og Eckia, sem ecke ꝏ Lijfs-Erfijngia.

## 15.

Enn eige Hwsboonde eda Eckia Lijfs-Erfijngia, þꝏ meiga þav þo gefa til Kyrkna, Skoola og Fꝏtækra Helnijng Arfs epter sig.

## 16.

Enn eige þav avngva Lijfs-Erfijngia, þꝏ meiga þav gefa til Kyrkna, Skoola og Fꝏtækra, hvad Gud gefur þeim i Sinne; Þo skal einginn Giof edur Testament fullgiorast, fyrr enn Skullder þeß Burtdꝏna eru ad ollu leite borgadar.

## 17.

Soddann Giafer og Testament, skulu stadfest vera med Hond og Signet þeirra sem þav giort hafa, og goodra Manna Underskriftum.

## 18.

Hwsfreya, sem ꝏ Hwsboonda og Barn vid honum, mꝏ ei gefa hꝏlfann Arf epter sig til Gudlegrar Brwkunar, og ecke nockra stoora Giof ꝏn Hwsboondanns Vilia, og ei meira enn hann samþycker, hvad bevijsast ꝏ med hanns eigenn Hende, edur og, ef hann kann ecke ad skrifa, vera stadfest med hanns Signete, og þriggia trwverdugra Manna Underskrift og Forsiglijng.

## 19.

Enn eige Hwsfreya ei Barn vid Hwsboondanum, þꝏ mꝏ hwn gefa hꝏlfann Arf epter sig til Gudlegra Brwkunar; Þo skal þar um halldast

ast, med Underskrift og Forsigling, sem ádur er sagt.

## 20.

Siore Hwsboonde, sem avngva Lijfs-Erfijngia hefur þañ skrif- legann Giörnijng vid Hwsfreyu, edur Hwsfreya, sem avngva Lijfs-Erfijngia hefur, vid Hwsboondann, ad hvort þeirra sem lengur lifer skule niootа, brwka og behallda þvij heila Felags-Bwe og Fiarmunum ofkiptum, so lenge sem þad situr i Eckiustande, þá skal sw epterlifande Persoona strax láta annadhvört Samfrændur edur Rettarinns Þienara giora rigtuga Uppskrift yfer Bwsinns Fiármune Inngialld og Utgialld, þvij næst borga sialf Skulldernar, og láta Erfijnga þeß burtdána vera ákærulausa fyrir þeim, og forstanda vel Bwsinns Fiármune, serdeilis ef þad er Jarda-Goots eda Byggijngar, ad þad halldist vel vid Magt og i goodu Stande, og ad Skoogarner seu ecke upphoggner, og yfer allt setia Erfijngiunum fullar Vordslur med Brefe og Innsigle, fyrer þvij ad eckert af Jarda-Gootsinu, sem þeim kann ad tilheyra, pantsetiest, seliest edur afhendist.

# V. Cap.
# Um Hefd.

## I. Art.

Sw Jord kallast Odalsjord, sem hefur leged under einn Ættlegg i tuttugu Vetur edur leugur. Hana má einginn Log sækia frá þeirre Ætt, sem hefur haft hana i so langre Hefd, enn hwn verdur Eigandanns og hanns Erfijngia Odal ákærulaust, nema hann hafe haft hana i Pante, Lene edur Forsvare. Ef nockur fær soddann Odals-Goots i Skiptum hiá ödrum Mañe, og gefur hönum aptur þar fyrer sitt Odals-Goots, þá verdur þad hvors þeirra Odal, sem hann feck i þeim Skiptum.

## 2.

Þegar Odals-Jordum er skipt ámille Systkyna edur annara rettra Odals-Erfijngia, þá skal þad Odal, sem hvor fær i sinn Hluta, blijfa hiá hanns Ættkvijsl, Knerunnum og Afkomendum, hvort helldur á Fodurs- edur Moodur-Sijdu, bæde til Eignar og Logbods, og ecke koma til annarar Ættkvijslar edur Greinar, allt so lenge þeir Odals-Erfijngiar eru ei burtdauder á þá Sijduna, sem annadhvört kunna ad erfa þad hvor epter annann, edur leysa þad ef þad selst. Og so lenge se þad oskilid med Erfijngiunum, á þá somu Sijdu, þar til hvor má eiga añars Dootur. Sijdann meiga nærstu Frændur i añ-

i annare Ættkvijsl fra Þad i Arf, og innleysa Þad, ef Þad selst.

## 3.

Hvort annad Goots og Eigenndoom Madur hefur haft i Hond og Hefd i tuttugu Ar okært og oklagad a Þijnge, Þvij behelldur hañ, an Þeß ad framvijsa adra Adkomst, angurlaust og oatalad nema Þad bevijsist, ad hann hafde Þad annadhvort i Pante, Lene, edur Umbode.

## 4.

Madur kann eins vel fra Hefd a Brwkun sem a Eignar-Rette.

## 5.

Hafe nockur Eigenndoom, i Hende og hafande Umbode, og annar Madur seger ad hann se sinn, Þa er sa sem hann hefur i Hefd, hvorsu fa Ar sem Þad er, ecke skylldugur til ad framkoma med sijna Adkomst, nema sa sem Eigenndoominn sæker, framfære sijnar Bevijsijngar, hvar med hann vill vinna Eigenndoominn.

## 6.

Hvor sem hefur haft nockurn Eigeñdoom til Brwkunar akærulaust, og hann verdur sijdann honum fradæmdur, Þa svarar hann ei til meire Agooda, enn hann uppber og nytur, epter Þad uppa hann var talad fyrer Rette.

## 7.

Logheft a einginn ad fa a nockrum Eigenndoome, nema hañ liooslega bevijse ad hann hafe løglega Adkomst til hanns, med Arfe, Kavpe, Eignar-Skiptum, Giøf, edur tuttugu Ara Hefd, an nockurs Atølu edur Tilkalls, og Þanninn ødlast hann akærulaust af øllum, sem Þari kunna ad hafa nockud ad segia.

# VI. Cap.

# Um Utlag og Iñfærslur.

## I. Art.

Hvad sem madur hefur fenged i Utlag i Skiptum epter davdann Mañ af Erfijngium edur Rettarinns Þenurum, edur nær Goots er uppboded, edur fra Arfe og Giallde er genged, af Commissariis (Giørdar-Moñum) edur Rettarinns Þenurum, hvort Þad er Lavsa-Fe edur Iarda-Goots, Þvij behelldur madur til Eignar, an' frekare Dooms Þar uppa, nema adrer fram-

framvijſe þar uppaa løglegre Adkomſt, edur þad ſe af ædre Rette fraadæmt, ad Odals-Lavſnar-Rette herwti o-kreinktum.

## 2.

Hafe madur med løglegre Iñfærſlu fenged nockurt Jarda-Goots, og Eigandinn innleyſer þad ecke innann Ars og Dags, þaa maa hañ taka Eignar-Doom þaruppaa aa Løgþijnge, edur og ſtefna Innfærſlunne til Stadfeſtijngar inn fyrir Yfer-Hof-Rettenn, og maa hann ecke, fyrr enn þad er ſked, afhenda þad, nema hann hafe aatt þad um þriggia Ara Tijma okært og oſtefnt, og þaa behelldur hañ þvij eins frialslega og ſijnu eigenn Arfa-Gootſe, þo ef nockur Herragards Eigande beidiſt þeß, þaa halldiſt þar um epter þeim tuttugaſta og fimta Articula hinns þridia Capitula þeſſarar Bookar.

## 3.

Sinn verde þeir ſem Utlag giort hafa, ſtrax af Eignar-Mañinum ſtefnder fyrer þeirra Adgiorder, þaa maa hann ei Gootſid burtu faa, fyrr enn endelegur Doomur er gengeñ, um þad, hvort Gootſid heyrer honum med Rettu til, edq ecke.

## 4.

Innleyſe Eignar-Maduriñ Gootſid innann fyrerſettrar Tijdar, þaa ſkal þeim ſem Innfærſlu fenged hefur, betalaſt ſw Forbetrun, ſem hañ bevijſar ad hann aamedann hafe til Þarfa og Nytſemdar, giort aa Gootſinu.

## 5.

Kaa ſem hefur fenged Kavpſtadar Jord, Hws edur Garda med løglegre Innfærſlu, ſkal ſtrax iñſtefna henne fyrer Borgmeiſtara og Raad til Stadfeſtijngar, og til ad faa Eignar-Doom þar uppaa, og þegar hañ hefur hann fenged, maa hann giora ſer þad ſo nytſamlegt, ſem beſt hann kañ og getur, nema þad ſe fraa honum dæmt fyrir hærra Rette.

## 6.

Kan þeim hræranlegum Hlutum og Lavſa-Avrum ſem madur hefur fenged med Naame og Utvirdijng, behelldur hann aan frekare Dooms og Stadfeſtijngar, ef Eigandinn innleyſer þad ecke ſtrax aa Stadnum, nema Naams-Doomurinn ſe innſtefndur og upphafinn fyrir hærre Rette, þo ſkal þad Utlag, ſem Foogetiñ aa Landinu fær i Vorum, epter Virdijngarmanna Verdlage, fyrir ſitt Omak, ef ſaa Sakgefne hefur ecke reide Penijnga ad betala med, tilbioodaſt Eigandanum til Innlavſnar, iñañ þriggia Vikna. Se þad ei giort, þaa behelldur Foogetinn þvij ſem wtlagt er, fyrer ſitt Verd, og betalar þad yfer hefur, ſo ſem ſannſynelegt er.

## 7.

Hafe madur læted innfæra sig i eins Burtdæinns Jarda-Goots, sem ecke hafde Erfijngia, edur epter hvorn ecke er genged vid Arfe og Giallde, og nockrer retter Erfijngiar, sem gænga vid Arfe, mæta þar epter, iñañ Ars og Dags epter ad Arfur var fallinn, þæ skulu sömu Erfijngiar næ Arfenum, þegar sæ, sem sig hefur læted iñfæra, er til Frids stilltur, og hönum Anægia giörd fyrir þad sem hönum epter Innfærslunne med Rette tilheyrer. Ameðann behelldur sæ sem innfærdur er, Gootsinu og þvij sem þar af gelldst, fyrer Skadabætur.

## 8.

Hafe nockur læted giöra ser Innfærslu i þad Goots, i hvort añar hefur ædur vered loglega innfærdur, þæ mæ hann wtleysa þann sem fyrr var innfærdur innann hælfs Ars, þo so ad hönum verde ænægianlega fullnægt fyrer alla sijna billega Skulldaheimtu, Kost og Tærijng. Enn beidist sæ, sem fyrr var innfærdur ad behallda Gootsinu, þæ mæ hañ wtleysa og ænægia þeim sem sijdar var innfærdur, fyrir so miked, sem hönum kann med Rettu tilheyra af Gootsinu.

## 9.

Take nockur Næm edur Iñfærslu i annars Manns Goots, sem finnast kann i Bwe hinns Skylldugа, so sem Fe, er þar kann ad vera sett i Foodur, edur Boondanum lænad, edur leigt til Framkvæmdar hañs Afla edur Atvinnu, edur nockur Vara, Mælmur, Tre, Silke, Ull, Lijn edur þeßhættar, sem Handverksfolke kann vera i Hendur fenged til ad viña, og Eigandinn bevijsar ad þad se hañs, þæ skal sæ sem Utlagid giörer, og sæ sem þad medtekur, sæ Eiganda þad aptur Skadlaust.

# VII. Cap.

# Um Pant.

## I. Art.

Handseldann Pant skal sæ, sem hann tekur, geyma sem sitt eiged Goots. Eñ kome Elldur i hauns Hws, og uppbrenne hann, edur stele Þioofur hönum burt, edur hann fargast af odrum Olucku Tilfellum, æsamt med hanns eigenn, sem Panthafandinn sökum sinnar Vanræktar edur Hyrduleysis er ei siælfur Skulld i, þæ kann sæ Skylldуge ecke ad heimta Pantinn aptur, og sæ er lænade misser þad, sem hañ þar uppæ lænad hefur.

## 2.

Leyse

Leyse Pantsetiande ecke Pant a þeim Tijma, sem hann hefur sialfur skulldbunded sig til, edur betalar ecke Rentuna, þa skal Panthafandinn tilbiooda honum ad taka einn Mann fyrir sig, og hann sialfur take annann, til ad virda Pantinn; Og þad sem hann kann metast dyrare, enn þad, sem hann er pantsettur fyrer med Rentu og Skadabootum, skal Panthafandinn strax betala til Pantsetianda, og behallda Pantinum a-kærulaust.

3.

Vilie Pantsetiande ecke nefna einn Mann fyrer sig til ad virda Pantinn, þa ma Panthafande annadhvort sialfur taka tvo Menn til ad virda hann, edur lata selia hann a opeñberre Auction (Uppbods-Kaupe.)

4.

Handseldann Pant ma einginn odrum fa fyrir meira Verd, enn hann hefur sialfur teked hañ til Pants fyrer, og þegar Pantsetiande hefur betalad Hofud-Stoolinn, sem hañ er vtsettur fyrir, med tilbærelegre Rentu an Skada, þa skal Panturinn aptur afhendast honum af þeim, sem hann feingenn var, og hañ sækia Bætur fyrer sinn Skada hia þeim, sem hafde fenged honum Pantinn.

5.

Kome Elldur i pantsett Hws, edur annar ohandseldur Pantur fær Skada, þa er þad Pantsetianda Skade, og er hann þo samt skylldugur ad betala Panthafandanum.

6.

Take Panthafande Hws edur Gard til brwkanlegs Pants, og honum tilfellur Olucka, sokum hañs edur hanns Foolks Hirduleysis og Yfersioonar, þa skal Pantsetiande ecke lijda þann Skada; Enn kome Oluckan af odru oforvarande Tilfelle þa kemur Skadinn uppa Pantsetianda.

7.

Pantsetiest Hws, Jord, Land edur Skip, sem ecke er handselt, helldur blijfur i þess Skylldunga Vordslum, þa skal Panta-Brefid upplesast og uppaskrifast fyrer Rette, sem adur er sagt um Eignar-Skiol, og þa ganga soddann Panta-Rettugheit fyrer ollum Pontum, Giofum, Affals-Brefum, Utleggium, Iñfærslum, og Sektum sem gioraſt edur tilfalla epter þad Panta-Brefid var fyrer Rette uppleſed, og Panthafande gengur fyrer ollum Skulldaheimtu monnum, og skal fyrst wtleysast epter sinns Panta-Brefs Hlioodan.

8.

Hallde Panſetiande ecke Loford ſitt i þvij ad borga Rentu i rettann Tijma, ellegar Hofud-Stoolinn epter loglega Uppſøgn, þaa maa Panthafande, jafnvel þo Panturinn hafe ſijdar vered ødrum fenginn til brwkanlegs Pants, ganga ad ſinum Pante og medtaka hann aan frekare Maals Sooknar edur Jnnfærſlu. Ofke hann og Manna, ſem afhende hønum Pantinn, þaa ſkulu hønum wtnefnaſt tveir gooder Menn fraa Rettinum, aan Uppehallds. Se oløgleg Hindrun giørd i Uttektinne, þaa miſſer þo Panthafande ecke ſijn Rettugheit.

9.

Take madur ſinn Pant til Brwkunar, og hann hefur þar af meire Agooda aarlega enn ſannſynleg Renta af hanns Høfud-Stool, og þyngſle þav er Pantinum fylgia, og hanns navdſynlegt Vidurhalld hleypur ſig til, þaa ſkal hann ſkrifa þad ſem yfer hefur af Høfud-Stoolnum, edur, ef hønum ſo ſynniſt, afhenda Panſetianda þad; Enn ef hann getur ecke aarlega fenged ſijna Rentu, og fyrer Koſtnad ſinn uppaa Gootſid, þaa ſkal Panſetiande giøra hønum Fullnægiu fyrer þad, þegar hann innleyſer Pantinn, edur Panthafande tekur hann til Eignar.

10.

Soddann Panta-Rettugheit maa Panthafande ødrum faa edur panſetia, enn ecke ſelia edur til Eignar afhenda, fyrr enn hann hefur fenged Eignar-Doom þar uppaa.

11.

Og ſkal Panthafande, þegar hann vill faa Eignar-Doom uppaa Pantinn, oſka ad ſkilrijker Menn wtnefniſt ſem ſkulu yferlijta hann og virda epter Koongſinns Taxta, ef þad er Jarda-Goots, og eckert Verdlag er ſett uppaa þad i Panta-Brefinu af Panſetianda, edur og epter Sannſyne ef þad er Hws edur Gardur; Enn hafe Panſetiande ſkulldbundid ſig til viſſ Taxta aa Pantinum, ſem Panthafande ſkal hafa hann fyrer til Eignar, þaa ſkal Taxtinn blijfa vid þaa ſømu Skulldbinding. Þegar hann er þanninn virdtur, þaa dæmiſt hann hønum til Eignar, og Panthafande take fyrſt ſijn epterſtandande Rettugheit, og hafdann Uppaakoſtnad, epter Panſetiandanns Skulldbindijng, og afhende þad yfer hefur, ef nockud er, edur þeſſ Verd edur ſetie þad nidur fyrer Rette, ef Eigande edur ſaa ſem Rett hefur til þeſſ, vill þvij ei Moottoku veita.

12.

Þo ſkal ſaa tildæmde Pantur ſtanda Panſetianda til Lavſnar Ar og Dag, epter þad Doomur er genginn.

13.

## 13.

Hafe Panthafande Pant til virkelegrar Brwkunar, og hañ gengur sijdann wr hanns Hefd, og annar Madur fær hann og behelldur honum i tuttugu Ara roolegre og fyrer Rette vætaldre Hefd, og ecke bevijsast, ad þad se annadhvort Laan edur Leiga, þaa kann þad Panta-Bref sem Panthafande kann enn þaa ad hafa under sijnum Vordslum, ecke ad hafa nockurn Krapt.

## 14.

Hafe fleire Meñ Pant i einu Gootse edur Hwse, þaa maa saa fyrste Panthafande wtleysa þad fraa hinum; En vilie hann ecke, þaa meiga þeir, sem nærst honum eru, wtleysa hann, so ad hann faae aanægelega og sanngiarnlega Borgun fyrer sijna Krøfu.

## 15.

Setie nockur odrum þad i Pant, sem hann er ecke sialfur Eigande ad, þaa maa honum þar fyrer tiltal. st uppaa sijn þriw Mork, og upprette Saksooknaranum þar fyrer utañ sinn Skada.

## 16.

Hafe nockur sett Pant fyrer Peningar, og þaradauke skulldbunded sig til ad lijda Manijng, þaa stendur þad i Laanandanns Vilia ad wtvelia hvort hann vill helldur behallda Pantinum epter Logum, edur ad sækia sinn Skulldunavt med Manijng epter hanns Skulldbindijngu.

## 17.

Vilie ecke Panthafandiñ blijfa vid sinn Pant, þaa hefur hañ Valld til ad laata innfæra sig fyrer sijna Krøfu i adrar Eigner og Goots hinns Skylduga, nema hann hafe giort Uppbod aa sijnu Gootse, edur genged se fraa Arfe og Gialde; Enn vilie saa sem Jarda-Goots hefur i Pant, taka sinn Betalijng i Jordum, þaa skal hañ fyrst taka sinn Pant, so vidt þad tilhrockur, og sijdann i odru Jarda-Gootse hinns Skylduga.

# VIII. Cap.

# Um Laan, Leigu og Geymslu-Fe.

## I. Art.

Laan maa ecke tijnast, helldur skal lytalaust heim aptur koma og eins gott, og madur vid þvij took, hvort þad er Fe, Klæde, Vopn edur annad Goots; Eñ fargist þad, so þad verdur ecke aptur feinged, þaa skal þeß Verd aanægianlega betalast.

 2.

## 2.

Enn tortijnist saa sem feck Hesta edur Bestiur til Laans, aasamt þeim, og hann siaalfur foor med þeim, þaa betalast þad ecke aptur; Þvij saa aa ecke ad skila Laane aptur, sem ecke gat frelsad sitt eiged Lijf.

## 3.

Laanar edur leiger madur ødrum nockud, og tekur ecke Bref þar fyrer, edur hefur Vitne til þess, og saa sem took þad til Laans edur Leigu, vill neita þvij, og honum verdur þad sijdann yferbevijsad, þaa svare hann þvij sem krafist er, og bæte þar fyrir utann sijn þriw Mørk til Saksookna-ra, og þriw Mørk til Koongsinns.

## 4.

Þad sama er og, hafe madur fenged ødrum nockud til Geymslu og Vøktunar.

## 5.

Laane edur leige madur þeim sem Log-felldur er, edur Naams-Doomur er yfergenginn, Fe edur adra Lausa-aura, og hann brwkar þaa so lenge og behelldur, ad væntanlegt er, ad þad se hanns eiged, og verdur med Naame hiaa honum wtteked, þaa kañ saa sem þad laanade edur leigde, ecke tiltala þeim sem wttook þad med Naame, helldur skal hann eiga Ad-gang ad þeim, sem feck þad til Laans eda Leigu.

## 6.

Enn hafe madur feinged nockud til Laans edur Leigu, og þad ver-dur bevijsad med Vottum, aadur eñ Doomur yfer honum geck, og þad wttekst med Naame, þaa maa saa sem þad laanade edur burtleigde, sækia bæde þann sem þad wtlagde, og þañ sem þad medtook, og eru þeir skylld-uger til ad faa honum sitt aptur skad-laust.

## 7.

Take madur til Laans edur Leigu nockurs Manns Hest og rijdur edur fer lengra med enn aftalad var aa mille Eigandanns, og þess er took hañ til Laans edur Leigu, þaa bæte hann fyrer hvorn Fioordwng Mijlu, sem hann foor leingra, so mikid sem epter Koongsinns Forordnijng gefst fyrer heila Mijlu Vegar, og skile Heste so goodum aptur, sem hañ medtook hañ. Allijkann Haatt skal halldast um þaa, sem hafa frij Flutnijng, ef þeir taka hann fram yfer venjuleg Skipte.

## 8.

Take madur annars Manns Hest til Laans edur Leigu, og Eigan-dinn annadhvort siaalfur, edur hañs Þenare, sem hann hefur trwad fyrir Hest-

Hestinum, fer med hann, og hann annadhvort tijnist, fordiarfast edur olldwngis tapast, þaa bæte saa ecke fyrir þad, sem Hestinn til Laans edur Leigu took, nema hann hafe, aameote Vilia þeß, er med Hestinn foor, lagt ofmikid uppaa hañ, edur reked hañ fram yfer sijna Krapta. Se hann skulldadur fyrer soddann Giorning, þaa verie sig med Eyde, edur betale Skadann.

## 9.

Leige madur odrum annadhvort Hesta, Eyke edur Uxa til Plægijngar, edur Kyr og Ær til Mioolkur, þaa maa hann ei taka osanngiarnlega Leigu epter þad, nema hann vilie hafa forbroted hana, haalfa til þeß er klagar, og haalfa til Hwsboondans.

## 10.

Þaa sem tekur soddann Fenad til Leigu, skal standa i Rette fyrir þad, ef þad fyrerferst, nema ef Ovinner taka þad burt med Ofrijke, edur Skrugga drepur þad, edur Tre, sem Stormur um koll slær, fellur aa þad, edur þad verdur Braaddaudt, edur deyr af Lwngnasoott, Bloodsoott, Elle, edur Kaalfsoott, Fylsott eda Lambsott.

## 11.

Take madur annars Fe til Foodurs, og svellter þad eda drepur, edur einhvor af hanns Foolke, þaa skal hañ svara til þeß; Somuleidis ef Hyrder finnur þad ecke fyrr enn þad er daudt, edur ef Birnir slaa þad, eda Ulfar bijta þad, so og ef þad hrapar fyrir Biorg nidur, medañ einginn Hyrdir er vid: Enn falle þad nidur fyrer Biorg og se Hyrder hiaa, og laate siaa þad sama Dag, aadur enn hann slær Hwdina af þvij, þaa svarar saa ecke til þeß, sem took þad til Foodurs. Druckne þad i Brunne, og einginn vaktar þad, edur sveltur til Dauds, edur Klafe kyrker, þaa svare hann til þeß. Festist Footur þeß i Bande, og Renne-Staur er fyrir, edur Fe gengur yfer Staur, þaa svare hann ecke til þeß.

## 12.

Goodra skal hann Kvikfe, þaangad til þad getur genged wte aa Grase, og sege þeim þaa til, sem aa, og bidie hann vakta Fe sitt, og laata hann og adra Menn, ef Þorf giorist, siaa þad, ad þad er Utegaungufært, og segia þad so wr sinne Geymslu.

## 13.

Take Madur Eyk til Beitar edur Foodurs, og Ulfar bijta hañ, þaa svare saa þar til ef annara Mañа Eyker voru ecke wte aa Morkinne. Take madur Naut til Foodurs, þaa geyme þad sem sitt eiged. Hafe madur Gradwng hiaa Nautum sijnum, þaa svare

svare hann ecke til, þo Kyr gange ecke ne hafnist.

## 14.

Deye Fenadur edur skeñist sökum Vanræktar þeß sem hafde þad til Leigu, þa betale hann þeß Verd.

## 15.

Giore nockur Fram-Laan, selie edur pantsetie þad, sem hann hefur sialfur fenged til Laans, þa maa sa sem þad laanade, sækia sitt hia hvorium hann vill, þeim sem feck þad til Laans, edur þeim sem þad finnst hia. Og hvor sem selur edur pantsetur þad, sem honum er laanad, hann skal, fyrir utann ad skila þvij laanada aptur, og so bæta þeim sem laanade, sijn þriw Mork.

## 16.

Hvoriu Hwse, sem madur tekur til Leigu, behelldur hann og brwkar sem sitt eiged, þar til Leigumaalinn er wte, og Leiga gengur fyrir Eigu, þar til Fardagur er wte, jafnvel þo Eigandinn selie ødrum Hwsid.

## 17.

Take nockur añars Mañs Goots til Geymslu og Voktunar, þa ber honum ad geyma þad sem sitt eiged Goots. Enn kome Elldur i Hws hanns og uppbrenne þad, edur Þioofar stela þvij i burtu, edur þad ferst, aasamt med hanns eiginn Gootse, þa se hann aangurlaus. Enn verde hanns eiged Goots bevarad, og þad bevijsast, ad hann hafde Tijma og Tækefære til ad biarga þvij honum tiltrwada Gootse, aasamt sijnu eigenn, þa giallde hann aptur, þad sem hann hafde teked til Geymslu.

## 18.

Take madur Hwsrwm, Kiallara, edur Lopt til Leigu handa Voru sinne, og flytur hana þar inn, og giorer þad bevijslegt, þa kann Hws-Herranns Skulldaheimtumadur ecke ad laata innfæra sig i þad, fyrer þad sem hann hefur ad heimta hia Hws-Herranum.

# IX. Cap.

# Um Funded Fe.

## I. Art.

Finne madur nockud, þa skal hañ lysa þvij aa fyrsta Kyrkiufunde, og aa Þijnge, og segia hvad hann fann, og saa sem lyser epter þvij, skal segia Kenneteikn og Merke aa þvij.

2.

## 2.

Lyse madur ecke þvij sem hann fann, þaa verdur hann Þioofur fyrer þad.

## 3.

Finne madur Fe i Jordu grafid, og lyse þvij loglega, þaa aa Koongurinn þridia Partinn af þvij, Odalsmadur þeirrar Jardar, sem þad finnst i, þridia Partinn, og sa sem finnur þridia Partinn. Enn lyse hañ þvij ecke, þaa eignast Koongur Helmijnginn, og Odalsmadur Helmijngiñ. Se einginn rettur Odalsmadur til, þaa aa sa Þridiwng, sem Jordu aa.

## 4.

Finne Odalsmadur sialfur Penijnga i sinne Odals-Jord, þaa eignast hann tvo Parta, og Koongurinn þridia Partinn.

## 5.

Finne madur Penijnga i siñe Jordu, sem hann er ecke Odalsmadur til, þaa hafe hañ Helmijngiñ, og Koongur Helmijnginn.

## 6.

Finne madur Penijnga i Almennijnge, þaa hefur sa sem finnur Þridiwngiñ, og Koonguriñ tvo Parta.

## 7.

Briote madur Havga, edur uppgrafe annars Mañs Jord, an Leyfis þeß, er Jordinñ tilheyrer, og finne þar nockud, þaa fære hañ aptur þad sem hann fann, þeim sem Jordu aa, og bæte honum þaradauke Landnaam og Jardar-Spell. Mistrwe Landsdrottinn honum, ad hann færde ecke allt aptur, þaa sanne þad med Eyde, og ef hann vill þad ecke edur kann, þaa bæte, so sem hann hefde stoled jafnmiklu.

## 8.

Saa sem finnur Hest edur Kvikfe, skal lysa þvij med Alldre, Lit og Marke, vid Kyrkiu og aa Þinge i þeirre Þijng-Sookn, sem hañ fann þad, nema hann þecke Eigandañ og gete fært honum þad, añars maa hañ ecke færa þad wr Sookninne. Bwe hann utann þeirrar Sooknar, sem hann fann þad i, þaa skal hañ afhenda þad einum bwsitiande Manne, i Sookninne, og hann skal laata lysa þvij. Prisvar skal lysa þvij vid Kyrkiu: Kome þaa ecki Eigandinn, þaa maa sa sem þad fann færa þad heim til sijn, og hallda þvij Ar og Dag; Þo so, ad hann laate fyrst meta hvors þad kunne vera verdt: Kome Eigande ecke iñañ Ars og Dags, þaa behallde sa, sem þad fann, þvij framvegis, sem sijnu eigenn: Kome Eigande innann Ars og Dags, og bevijsar ad þad se sitt, þaa skal

skal þad fylgia honum, og hañ betale Fundar- og Foodur-Lavn, og Uppœ-kostnad. Fargist þad œ medañ þad er hiœ þeim sem þad fann, œn hanns Hyrduleysis þœ vere hann œngurlavs.

# 9.

Enn brœke sœ Kvikfe, sem fañ, œdur enn hann lyser þvij, þœ bœte hann fyrer hvort Sinn er hann sødlar edur reidijngar Hest, eda leggur Ok œ Uxa, eitt Qvintin Silfurs, þœngad til þad verda þriw Lood Silfurs, hœlst til Saksooknaranns og hœlst til Hws-boondans.

# X. Cap.

# Um Dyra-veidar.

## I. Art.

Hvor madur mœ skioota Dyr œ sijnum Jordum, hvar sem þær liggia. Hirter meiga ecke skiootast nema œ einum Arsinns Tijma, sem er fiortœn Daga fyrer Bartholomei Dag, sem er sœ tuttu-gaste og fioorde Augusti, og fioortœn Daga þar epter, og mœ hvor Eigan-de einasta skioota tvo Hirte edur Hin-der. Finnist ad nockur skioote þœ fyrir eda epter þann Tijma, edur fleire enn tvo, þœ hafe hann forbroted til Koongsinus fioortœn Lood Silfurs i hvort sinn sem hanns Brestur verd-ur i þvij fundinn.

# 2.

Einginn mœ veida edur skioota Hirte eda Hindur œ þeim Sto-dum, sem hann œ ecke Part edur Hlut i Lande. Giore hann þad, þœ veide edur skioote hann þeim til handa sem Landid tilheyrer, og betale honum Landnœm epter Doome, og bœte tvo Lood Silfurs til Koongsinns i hvort sinn sem hann so brotlegur finnst. Sama er um þœ sem veida önnur Villudyr i añars Mañs Skooge med Hundum. Birne og Ulfa mœ madur slœ og skioota i hvors Manns Skooge og Mork sem hann vill, ad undanteknu þar sem Biorn liggur i Vetrar-Hyde, sem herepter umtalast.

# 3.

Reise nockur eitt Dyr œ siñe eigiñ Mørk, þœ œ sœ sem reiser, hvor sem þad veider, ef hann fer ept-er. Hlavpe Dyr af sijnu retta Hlavpe wt œ annars Jord, og annar Mad-ur skytur þad, þœ hefur sœ Skot-boog, sem skavt, og skere hañ af med Skinninu, nema sœ sem reiste þad, vilie leysa þann Part af Skiñinu frœ honum. Hlavpe Dyr wr Veide-Styu, og annar Madur veider þad, þœ hafe sœ hœlst sem skavt, og hinn hœlst, er reiste.

4.

4.

Finne madur davdt Dyr a Landiau, þa a sa hálft sem finnur, og hálft sa sem Jord tilheyrer, hvada Dyr sem er.

5.

Hvar sem Biorn liggur i Vetrar-Hyde, þa a sa Biorninn, sem sa Skoogur tilheyrer, sem hann liggur i; Og skal hann lysa þvij a Þijnge, ad sa Biorn liggur i hanns Skooge; Ef nockur annar tekur hann sijdann, þa skal hann bæta Landsdrottne Landnaam, og sa sem Skoog a, behallde Birninum.

6.

Enginn skal giora Gilldru a annars Manns Jordu, giore nockur hana, þa bæte Landsdrottne Landnaam, og hann behallde þvij, sem a hanns Jord veidist. Hafe Naagrannar Mork tilsamanns, sem þeir hafa Dyra-Gilldrur i, þa skal sa sem gilldra vill, krefia Skiptis vid Votta. Vilie þeir ecke skipta, þa gilldre hann, sem vill og hafe þad sem hann fangar. Enn gilldre hann, og hafe ecke krafist Skipta, þa eiga aller, sem Morkina hafa tilsamanns, þad sem hann veider, og skipte þvij, epter þvij sem þeir hafa Hlut i Morkinne.

7.

Gilldre nockur i sinne eigenn Mork, edur þar sem hann hefur Log til, og einhvor stelur hanns Gilldru, edur hoggur hana nidur, þa betale Skadann epter Doomarans og sex skinsamra Manna Alite og Ofundarboot epter Doome, og Koonge eitt Lood Silfurs. Stele madur Dyrum wr annars Gilldru, þa giallde hann þeim sem hann stal fra, twofallt aptur, og bæte þriw Mork fyrer Þioofnad.

8.

Gilldre nockur heima i Bwstaarhogum, þa skal hann leysa Gilldru um Daga, enn gilldra um Nætur. Gange þar Fe i um Daga, þa behallde sa þvij er Snarann tilheyrde, og gefe Eiganda annad eins goott aptur epter Doomaranns og sex Manna Urskurde.

9.

Gilldre madur i Eydemorkum, og leggur sialfur Skot fyrir Ulfa, Birne edur onnur Dyr, þa skal hann lysa þvij vid Kyrkiu edur a Þijnge, hvar þad liggur. Gange nockur uppa þad þar epter, og faae Skada af, þa svarar hann ecke til þess. Lyse hann ecke, og nockur fær þar Bana af, þa giallde hann Erfijngium þess Davda tuttugu Lood Silfurs, og bæte Koonge tuttugu Lood Silfurs. Enn hallde hann Lijfe, þa skal sa sem gilldrade, fullnægia honum fyrir hanns

hanns Saar, epter Doomaranns og sex Manna Urskurde.

## 10.

Dyragarda og Ulfagrafer maa hvor sem vill, giora i Almennijnge, þo so, ad einginn spille annars Veidegagne, so sem ædur er sagt um Gilldrur, og Dyraveidar.

## 11.

Einginn maa giora Dyragarda edur Ulfagrafer nær nockurs Bæ, edur Topt, sem Hws verdur yfer byggt, enn so, ad ecke heyrist Hogg þaangad.

## 12.

Ligge Refagardar, Dyragrafer eda Ulfastofur lengur i eyde enn tiju Vetur, þaa bygge þad upp hvor sem vill, og behallde þeim, medann hann vill hallda þeim vid Magt.

# XI. Cap.

# Um Votn, Veide-Stodur og Fiskerie.

## I. Art.

Oll Fiske-Votn, sem eru i Almeñijnge, meiga brwkast af ollum, sem þar hafa Part i, og ecke nockrum serilage burtfestast.

## 2.

Hvor Madur skal hafa Vatn og Fiskerie fyrir sinne Jordu, sem ad forngilldu vered hefur, nema þad se med Logum og Doome undañgenged.

## 3.

Falle A edur Lækur æmille Jarda edur Bæa, sem Fiskur er i, þaa hafe hvor so mikid þaraf, sem fellur uppaa hanns Jord.

## 4.

Falle A edur Lækur rett fram, og brytur uppaa hvorugt Landid, þaa hafe hvor Fiska-Veide fyrer sijnu Lande, so sem vered hefur af gamallre Tijd.

## 5.

Brioote A edur Elfa uppaa añars hvors Jord, þaa a saa Ana sem Jord ætte, er hwn bravt; Enn hinn annar a Granda edur Hoolma, þaangad sem var midt i Anne, þegar hwn rann rett fraa gamallre Tijd. Enn ef hwn brytur meira uppaa Jord annars, þaa a saa, sem Jord ætte, bæde Ana og Grandann allt til mids Farvegar þess er Ain hafde ad forngilldu runned.

6.

## 6.

Allstadar þar sem menn hafa Lax-veide tilsamanns, maa hvor eiñ giora ser Fiske-Haaf fyrer sijnu eigenn Lande, og þo skal hann giora so, ad Fiskur gete genged upp og ofann ad hvorre A.

## 7.

Madur maa ecke ødrum til Skada veita Vatne wr sijnum venjulega Farveg, sem þad af Alldødle runned hefur, og ecke fraa añars Mañs Fiske-Dyke, og ecke fraa añars Mañs Jord; Enn einginn maa hindra Fialla edur Almennijnga Votn, sem med Rennum, Grofum edur ødru Moote verda veitt til ad vøkva Akur eda Einge. Lide nockur Skada af þvij, þaa betalist hann, epter medfylgislavsra Manna Urskurde.

## 8.

Hvor sem veiter Vatne wr sijnum vanalega Farveg og Rennsle, hann skal steña þad aptur iñañ fimtaan Daga, og bæta øllum Eigendum þriw Lood Silfurs; Enn spille madur annars Milnu-Dyke edur Fiske-Dyke, og þad bevijsast loglega, þaa betale hann Skadann og bæte sextiju Lood Silfurs.

## 9.

Steme madur Milnudyke edur añad Vatn hærra upp, enn løglegt er, og þad wtbrytst sijdann og giører Skada aa annara Milnum eda Gørdum, þaa ber honum ad betala Skadann epter medfylgislavsra Maña Tilsogn.

## 10.

Einginn maa veita Vatne fraa edur uppaa annars Land, nema þad brioote sialfst; Giøre nockur þad, þaa veite þvij til baka aptur og gialldе Landsdrottne Jardar-Spell og Landnaam med.

## 11.

Einginn maa giora ødrum Hindrun aa þvij Fiskerie, sem hann hefur af Alldødle haft.

## 12.

Girde nockur þvert yfer Elfu, þaa meiga þeir, sem fyrer ofann eiga, stefna honum med Fimtar-Stefnu, og honum skal fyrersetiast ad brioota þad strax af; Giøre hañ þad ecke, þaa skulu tilnefnast so marger Bændur ad hiaalpa til þad ad afbrioota, sem Þørf giørist. Hvor sem tilsagt verdur, og ecke fer med, bæte Koonge eitt Lood Silfurs. Saa sem ologlega sette Gard i Ana, bæte Koonge tvø Lood Silfurs og betale þeim Skadann, sem fyrer ofann eiga, og hann bannade Fiskeried, epter

epter Sorenskrifaranns og sex Maña Doome.

## 13.

Einginn mæ fiska i añars Manns A edur Fiskevatne, nema hann vilie fiska fyrer þann sem A eda Fiskevatn æ. Giøre hann þad æn Eigandanns Leyfis, þæ straffist þar fyrer, sem fyrer annann Þioofnad.

## 14.

Einginn skal spilla annars Fiskeveide, edur afbrioota hanns Fiskegarda (nema þad seu Þver-Gerde, sem her ad framann er umtalad) edur skemma fyrer nockrum hanns Fiske-Brwkun; Giøre nockur þad, þæ bæte Forgangsmadurinn Koonge eitt Lood Silfurs, og eitt Lood Silfurs Boondanum i Ofundarboot; Og hvor sæ sem med hønum var, og til hiælpade, bæte Koonge hælft Lood Silfurs, og betale Boonda hælft Lood Silfurs i Ofundarboot, og þeir skulu giøra Gardinn og Fiske-Veidarfærenn so good aptur, og betala Skadañ epter Sorenskrifaranns og sex Manna Doome.

## 15.

Spille nockur annars Alaveide, Urridaveide, edur þeßhættar, bæte Koonge hælft Lood Silfurs, og betale Boonda hælft Lood Silfurs, og bæte þaradauke Skadann, epter Sorenskrifaranns og sex Manna Doome.

## 16.

Fare madur til Sildar-Fiskeries, þæ mæ þar æ Land dragast sem madur vill, og leggiast bæde æ Akur og Eing ad osekiu, og hafe burtflutt um Sumarmæl. Er þæ ecke burtu flutt, þæ æ Landsdrottinn af Sildar-Fiskaranum, hvort helldur hann vill, Landnæm, edur Siild sem þar æ liggur, ef hann hefur ædur loglega tilsagt hønum ad burtflytia. Allann Skada, sem Fiskarar giøra i Siildarfiskun, skulu þeir betala epter Doomaranns og sex Manna Urskurde, hvort helldur hann skedur Utanngards edur Innann. Enn ef þeir betala þæ ecke strax, þæ giallde þaradauke Landnæm. Brenne þeir Garda edur Hlid edur adra Hlute, þæ giallde Skada þeim sem æ Jørdu byr, og Landnæm med, hvort helldur þeir betala strax eda ecke.

## 17.

Oll þau Kærumæl, sem orsakast i Siildar-Fiskevere, skulu ske og svarast til þeirra ædur menn fara þadann. Enn fare nockur burt, sem brotlegur er, þæ skal Skipherrann standa i Rette fyrer sitt Foolk, hvar sem hañ finnst, ef þar var Søk æ gefinn, og sæke Skipherra þad siidann aptur.

## 18.

Verde

Verde Arar, Þoptur, edur Avst-urtrog edur onnur Veidfære tekenn fraa nockrum i Sijldar-Fiske-vere, edur skemd fyrer þeim, þaa be-talist Skadinn, epter Doomarans og sex Manna Tilsøgn, og Ofundarboot. Enn se nockud þvijlijkt giort, og se Eigande hiaa, þaa giallde meira epter Urskurde, og bæte þaradauke Koonge eitt Lood Silfurs.

## 19.

Take nockur Sijld wr annars Manns Nete, og seu þeir ecke af hanns eigenn Foolke, og se þad bevijsanlegt, þaa ber þeim er Netid aa, oll sw Sijld, sem: saa hefur aa Land flutt, er hana took i Oleyfe. Enn ef madur rijfur eda sker annars Net med Vilia, til ad taka Sijld wr þvij, þaa betale Net-Spioll og Sijld med, og bæte Koonge eitt Lood Silfurs, og Net-Eiganda eitt Lood Silfurs.

## 20.

Einginn skal giora ødrum Forkast i Vad-Drætte. Saa skal hafa Draatinn, sem fyrst gaf sinn Streing wt; Annars fiske þeir þeim tilhanda, sem þeir giordu Forkast. Verde þad hvorugum til Gagns, þaa betale saa Skipherra þeim sem hann giorde For-kastid, epter Doomaranns og sex Manna Urskurde; Og hvor af hanns Baatsfoolke betale fioora Skilldijnga til hinns Baatsmanna. Enn ef baad-er gefa wt Streing under eins, hvor fyrer sig, og leggur hvor aamoote ød-rum, þaa behallde hvor þvij sem hann fær, ef hvorugur leggur yfer annars Net; Enn se þad ødruvijs, þaa hafe hvor ad Helmijnge, þad sem veidist, hvor þeirra sem meira fær.

## 21.

Legge madur Langvad epter Sijld, þaa maa hvor sem vill brwka Smaa-Net innannfyrer, þar til dreg-ed verdur ad Lande, og avse ecke Sijld fyrre wr Nete. Enn se þeim ecke fraavijsad, þaa biarge hvor fyrer sig epter Forþenustu og Roodrar Selskap, og þo so, ad þeir epterlaate þeim ød-rum, sem høfdu þann stoora Vad, þeirra fullkomna Biorgun. Enn ef þesser vijsa hinum fraa, og þeir avsa Sijld leingur, þaa eiga þeir alla Sijl-dina, sem Kastid aattu. Enn ef þeir hlada sig so miked ad þeir geta aungva Hiaalp giort, fyrr enn Togid kemur til Lands, þaa eiga þeir, sem Kastid tilheyrer, þaa Sijld, sem hiner hafa flutt til Lands, enn ef nidursockur, þaa behallde hvor þvij hann feck. Enn ef nockur liggur inne fyrer, og vill aungva Hiaalp veita, helldur giorer þeim Fiske-Spioll, og var honum aadur fraavijsad, þaa betale hann Net-Spioll og Fiske-Skada, epter Doo-maranns og sex Manna Urskurde, og bæte Koonge tvo Lood Silfurs.

## 22.

Enn

Enn ef Drœttar-Net edur Veidar-fœre spillast, so ad madur kastar yfer annars Kubba, edur sker hanns Flœr af, edur hvada Garn-Spiöll-um eda Fiska-Skada sem nockur velldur ad navdsynialavsu, þœ fiske hañ þeim til handa, sem hann giörde Fiske-Spiöll, og betale Skada þañ þar af skede, og giallde þeim Ofundarboot, epter Doomaranns og sex Manna Urskurde.

## 23.

Enn reke Net samann af Stravme edur Storme, þœ skulu þav so adskiliast, ad hvorugur fœe þar Skada af, ef þeir geta þvij vidkomed. Enn kunne þad ecke ad ske, þœ betale sœ Skada sem volle, nema þeir seu bœder vid; Þvij þœ hefur hvor hœlfann Skada, nema annar þeirra hafe hönum vallded.

# XII. Cap.

# Um Hvala- og Sela-Veide.

## I. Art.

Haulldur edur Odalsmadur mœ behallda þeim Hval sem hann finnur, ef hann er œtian Alna langur edur minne. Enn hœlfu, minne mœ sœ behallda sem hann finnur.

## 2.

Hvor sem finnur einn Hval i nockrum Firde, edur œ rwm Sioo, þar sem hann ei hrœrer vid neins Mañs Land, edur giörer þar œ Skada, þœ mœ hann ad saklavsu fœra hañ burt þadann, og skal hann med Vottum skera hann upp, edur og lœta Hrigginn, samfastann vid Höfud og Spord epter liggia, og skal þad vera hönum Vitne, ef hann hefur ei Votta vid Höndina.

## 3.

Hann mœ flytia hann til hvors Lands hann vill, og skera hann þar, og bera œ Land upp. Enn ef Abwande klagar yfer, ad Akur eda Einge spillist þar af, þœ betale hañ þar fyrer epter Sorenskrifaranns og sex Manna Alyktan, og Landnœm til Landsdrottins.

## 4.

Reke Hval uppœ nockurs Manns Jörd edur Grund, hvort sem þad er Innann- edur Utann-Gards, þœ œ Koongurinn Helmijng, og Landsdrottinn Helmijng, fyrer utañ Finnanda Spik, hvort sem Hvalurinn er stoor eda lijtill. Enn ef hann rekur inni Fiord, so ad Oddar af bœdum Londum nœ þar jafnnœrre, þœ hafe bœde Löndin Rett til

til Hvalsinns. Enn ef Hvalur stendur adur menn verda varer, edur rekur uppa Hoolma eda Utgrynne, þa behallde sa Hvalnum sem Landid tilheyrer, og skipte Koonge Helmijngiñ, sem adur er sagt. Enn ef hann rekur inn a Merkium, þa a þad hvor af Hval, sem þa Jord a, sem under honum liggur.

## 5.

Hvor madur ma veida Hval, hvar sem hann getur nad honum, ad undannteknum þeim Hval sem rekur Sijld inn i Sijldar-Fiske. Hvor sem hann skytur, bæte Koonge fioortaan Lood Silfurs, og Koongurinn eignast Hvalinn.

## 6.

Skioote madur Hval, og flytur hañ eda rekur wt a Diwp, þa a sa hann, hvort hann er stoor eda lijtill. Enn hlavpe hañ edur reke a Land upp, þa a sa Helmijng, sem skavt, og Helmijng sa, er Jord a.

## 7.

Skioote madur Hval med merktum Skeytum, og annar Madur finnur hann wt a Diwpe, þa a sa Helmijng, er skavt hann, ef hann hefur Vitne til Marks sijns, og annann Helmijng sa, sem hann fañ, og biargade.

## 8.

Ef sa sem Rett hefur til eins Hvals sem er atiaan Alna edur minna, finnur þann Hval i Fiske-Maale og Fiske-Strond, sem er stærre, þa skal hann afskera eitt Merke, og fara burt, og segia Koongs Umbodsmanne til, og þa a hann ad hafa Fiñanda Spik af Hvalnum, tvo Fadma i hvort Horn fioorskored. Þad sama er um þañ sem Rett hefur til Hvals sem er niju Alner eda minne, og finnur einn, sem er stærre.

## 9.

Finne madur Hval a Lande, smaann edur stoorann, so hann ei þarf ad flytiast til Festa, þa riste hann Feste þar af, og feste Hval þar med, og skal hann þa hafa Finnanda Spik af þeim sem Rett hefur til Hvals einn Fadm i fiogur Horn. Enn þurfe hann ad flytia hann til Festa, þa hafe hann Finnanda Spik, tvo Fadma fioorskored. Enn take Hval wt, og Feste liggur a Lande, og er sundurslitinn, þa er hann saklavs, og ef Hvalur fæst aptur, þa hafe hañ Finnanda Spik sem adur. Enn se eckert af Feste epter a Lande, þa bæte hann Koonge þriw Lood Silfurs, fyrer þad hann feste hann ei vel. Eñ finne madur Hval a Lande, og fester hann ecke, helldur seger þeim til sem Jord tilheyrer, þa hafe Fiñande Spik, haalfann Fadm. Fundar Spik skal

skal skerast fraa Bakinu, og nidur ad Bæxlinu allt inn ad Beine.

## 10.

Fare madur til Hvals aa Noottu, og sker af honum, sem ecke aa Hlut þar i, bæte Koonge fioortaan Lood Silfurs, og behalde saa Hval, sem hann tilheyrer.

## 11.

Reke madur Hval inn i annars Manns Hvala-Gard, og setur Steingur fyrer, aan Leyfis þess er Hvala-Gardur tilheyrer, þaa behallde saa Hval sem Gard aa, og betale þeim sem hann þaangad rak, epter Doomaranns og sex Manna Alyktun. Reke madur Hval inn i Vijk aa annars Manns Jordu, sem ecke er Hval-Gardur, þaa hafe hvor um sig Helmijng af honum.

## 12.

Finne madur Hval wte aa Hafe, og treyster hann ser ei til ad flytia hann til Lands, þar skere hann so miked sem hann vill af honum, þo so ad hann ecke skere Gat aa hann, og laate hann so reka.

## 13.

Reke Hval upp aa Almennijng, þaa aa Koongur Helmijng, og þeir Bændur Helmijng, sem eiga Hlut i Almennijnge.

## 14.

Finne madur annars Mañs Noot i sijnum Sela-Lognum og Sel i henne, þaa hallde hann bæde Sel og Noot, edur Nootinne einasta, ef ei er Selur i henne, þaangad til þad er fraa honum leyst med Landnaame.

## 15.

Fare madur Erenda sinna med Lande fram aa Skipe edur Baat, þaa maa hann skioota Sela, ef þeir eru rett aa Leid hanns, hvort helldur þeir liggia aa Lande edur eru aa Sioo, ad undannteknum þeim Selum sem liggia aa Skerum þeim sem eru fridlyst til ad gilldra aa; Þvij þaa aa saa Sel sem Skerid tilheyrer. Enn skioote hann Sel af Lande, aa einu þvijlijku Skere, hvar þo ei er Gilldra løgd, þaa hafe saa Sel sem Skerid aa; Enn se þar Gilldra løgd, þaa hafe hann bæde Sel og Landnaam med.

## 16.

Eñ skioote madur Sel med Spioote, og annar Madur finnur hann sijdann, þaa hafe saa Helmijng af honum sem skaut, og sitt Spioot med, ef þad fylger, og saa Helmijng, sem fann.

## 17.

Finne madur Sel, Mar-Svijn, ed-

edur annann Fisk, utann Hval, a annars Manns Lande fyrir ofann Siaafarbacka og Utanngards, og ber hann til þess sem Jord a, þaa hafe Pridiwnginn fyrir sitt Omak; Enn finne hann hann Innanngards, þaa hafe fioorda Part. Enn flytie hann hann burt, þaa fære hann tilbaka aptur og betale Landnaam.

# XIII. Cap.

# Um Skullder.

## I. Art.

Allar bevijsanlegar Skullder eiga rigtuglega og a rettum Tijma epter Skulldbindijngum og Samnijngum ad betalast; Þo skal þad aalijtast fyrir goodann Betalijng, sem skedur a nærstu aatta Dogum epter tiltekinn Eindaga.

## 2.

Oll Skulldabref, sem eru elldre eñ tuttugu Ara, skulu vera dauð og magtarlaus, nema þau seu innann fyrrsagdrar Tijdar, med þess Skylldugа Uppaaskeift, edur nyu Brefe, edur Skulldaheimtumannsiñs Uppsogn, eda Skickun edur Þijngsvitne, endurnyud.

## 3.

Renta af Peñijngum, Korne edа ødru maa ei hærre takast eñ Sex af Hundrade aarlega. Finnist ad nockur take meira, hafe forbroted Hofud-Stoolinn, haalfann til Koongsinns, og haalfann til þess er uppaaklagar.

## 4.

A moote rettum og klaarum Handskriftum eiga ei obevijsadar Skullder edur oafgiørder Reiknijngar gillder ad takast; Enn Reiknijngur moote Reiknijnge a ad koma til Afreiknijngs.

## 5.

Hafe Skulldaheimtumadur epter rettre Handskrift løglega sookt sinn Skulldunaut um Betalijng, og saa Skylldugе hefur eins retta Handskrift fraa sijnum Vidurparte, enn hefur ecke løglega sookt hañ epter heñe, þaa a saa sem løglega er sooktur, ad betala Skulld sijna, sem hañ er løglega sooktur um, og sækia sinn Vidurpart aptur løglega um sinn Betalijng.

## 6.

Vexelbref skulu aalijtast so gilld, sem þær allra sterkustu Handskrifter, og skal Summan i þeim tvi Svarsinnum skrifast, einu Sinne med Bookstøfum, og einu Sinne med Ciphru

Ciphru (Tolu) so og wtþryckelega setiast, ad þad er Vexelbref, og gefast almennelega tvø, prima og secunda, (fyrsta og annad) og fleire, ef Hlutadeigendur verda um þad samþycker, og þegar i þeim er sagt, ad Verd þeß sem þav uppæhlioda, er medteked, hafa þav sinn fullann Krapt, hvort helldur þav eru betolud med reide Penijngum eda Vorum, edur þav eru wtgefinn med Reiknijnge moote ødrum Skulldum, edur Reiknejnge.

# 7.

Ef nockurt Vexelbref fraa ødrum framande Stødum er ecke eigenulega innrettad, epter þessare Tilskipun, skal þad þo hafe her i Rijkinu fullkominn Vexel-Rett, þegar alleina bevijsad verdur, ad þeß Jnehalld, er aa þeim Stødum, sem þad er wtgefed, hallded og æliteð fyrer fullkomed Vexelbref.

# 8.

Sa, uppaa hvorn Vexel dregst her i Rijkinu, er skylldugur til innann tuttugu og fiøgra Stunda ad svara skijrlega til hvort hann vill medtaka Vexel eda ecke.

# 9.

Take hann aa moote Vexel, þaa skal hann teikna þad uppaa Vexelbrefid med eigenn Hende, og skrifa sitt Nafn þar under med Dege og Dato.

# 10.

Þad sem nockur soleidis undergengst, fraa þvij maa hann sijdann ecke ganga; Enn ef hann med sinne Uppaaskrift annadhvort lenger Tijmann, edur umbreyter Myntinne, edur leggur þar nockra adra Meinijngu til, aan Vilia og Samþyckis þeß sem Vexel skal betalast til, þaa skal þad eckert gillda, enn hann se skylldugur til ad betala epter Vexelbrefsins Jnehallde.

# 11.

Vilie hann ecke moote þvij taka, þaa skal saa sem Vexel framber, ad lidnum tuttugu og fioorum Stundum protestera allann Kostnad og Skada, annadhvort fyrer Notario Publico med Vitnisburde, edur, þar sem einginn er, fyrer Bye- og Raadstofu-Skrifaranum, edur fyrer tveimur løglegum Mønnum sem skulu vera skylldugur til ad giøra strax um þad eitt Giørnijngsbref (Instrument) og skal saa sem Protest giort hefur, skylldugur til vera, ad senda þad, aa samt þvij eina Vexelbrefe, ef tvø eru wtgefinn, til þeß sem Vexelbrefid hefur wtgefed, med fyrsta Pooste, sem þadan gengur epter ad hann hefur fenged Protestid wtskrifad, edur advara hann um ad Vexel hefur ecke vered antekenn ef þvijlijkt

lijkt Skial getur ecke so fliootlega ordeð tilbwed.

## 12.

Ef sa sem Vexel skal betalast til, forsoomar þetta, kenne sialfsum ser, ad einginn Betalijngur maa heimtast epter Vexel-Rette.

## 13.

Saa sem tekur moot Vexel, er skylldugur fyrer utann nockur Undanbrogd edur Vidberiur, aa þeim, af honum fyrersetta Tijma ad betala, og ef hann betalar ecke aatta Dogum epter Forfalls-Daginn, þaa skal saa, sem Vexel skal betalast til, protestera og advara þann sem Vexel hefur wtgefed, med þeim Hætte sem umtalar i ellefta Articula.

## 14.

Finnist hann her i Forsoomunarsamur, og lætur þad i hid lengsta tiju Daga epter Forfalls-Daginn oprotesterad, hafe sinn Skada so bwinn.

## 15.

Þegar Vexelbref er medteked, þaa er bæde saa sem þad medteked hefur, so og hinn, sem þad wtgefed hefur, baader skylduger ad svara þeim sem Vexel skal betalast til, til alls Skada og Kostnadar, og maa hann sækia hvorn hann vill, edur þaa baada aasamt, so framarlega sem hann hefur giort þad sem her ad framann er fyrirskrifad.

## 16.

Saa sem fær Vexel, sem betalast skal til hanns sialfs, edur þess er hann tilsetur, hefur Magt til ad afhenda odrum Vexelbrefid, ef hann hefur fenged Fullnægiu af honum, og skal hann skrifa utann aa Vexelbrefid, ad Innehalldid af þeim Vexel skal betalast til þess Manns, og ad hañ hafe medteked af honum þess Verd, og stadfesta þad med sijns Nafns Underskrift med Dege og Dato.

## 17.

Hvor madur maa gefa til eda fraa sier sialfum Vexelbref, hvar i þess Verd er innefalid, og hefur þad sama Krapt og Rett, sem aadurskrifud Vexelbref; Þo aa þad ei lengur ad stylast, enn uppaa tvo Maanude, epter ad þad er framvijsad.

## 18.

Saa sem Vexel skal betalast til, maa ecke innganga nockra Skilmaala, nema uppaa sijna eigenn Abyrgd; Þo maa hann, þegar betalast skal, og Vexel betalast annadhvort ad Helmijnge, edur ad nockrum Parte, medtaka soddann minne Sumu uppaa goodann Reikning, og alleina protest-

testera so miked, sem obetalad er af Summunne, sem adur er sagt.

## 19.

Eckert Vexelbref maa betalast fyrr enn Forfalls-Dagurinn er umlidinn.

## 20.

Þegar Vexelbref verdur ecke medteked, edur ecke betalad til Forfalls-Dagsiñs, þaa skal Vexel og hañs Uppgialld betalast, og þar fyrer utañ fyrer Vexel og Hervexel, eiñ af Hundrade i Rentu aa Maanude, fyrer utann einn haalfann af Hundrade i allt fyrer Factorsins Provision (Upphellde) Protestsinns Umkostnad, og Brefa-Penijnga. Rentann skal reiknast fraa þeim Tijma, sem Vexelenn var forfallinn, ad hann skyllde betalast aa.

## 21.

Sa sem hefur ad heimta epter Vexelbrefe, þegar þad er ecke medteked, edur medteked og þo ei betalad, og þar uppaa er protesterad, skal strax framfylgia sinne Sok, i hid seinásta innann sex Maanada, nema hañ vilie hafa forbroted sinn Vexel-Rett.

## 22.

Eckert Arrest maa leggiast aa Vexelbref, helldur behelldur þad sijnu rettu Hlavpe; Ecke helldur meiga nockrer framande Penijngar arresterast i Danmork edur Norege, sem med Vexel eru þaangad innkomner, og þadann skulu aptur sendast, hvorre Þiood sem þeir tilheyra kuña, hvorke vegna nockurs uppaakomande Strijds, ne fyrer hvoria adra Orsok sem vera kann.

## 23.

Eckert Jaarnbref skal frija nockurn fraa ad betala Vexel.

## 24.

Byfogetar i Kaupstødunum, og Sorenskrifarar og Birkefoogetar aa Landinu skulu strax, aan þess ad aalijta nockurs Persoonu edur Virdijngu, giora Rett og Execution yfer Vexelbrefunum, epter þessare Tilskipun, og epter Klagandans Beidne, arrestera þann sem klagadur er, ef hann ecke strax giører Fullnægiu og betalar, edur og epter Sakarinnar Asigkomulage, laata setia hañ i Faangelse, hvar til Koongsinns Foogete skal veita honum Adstod ef Þørf gioriſt, og ef þeir þad ecke giora, skulu þeir sialfer bæta þann Skada, sem fyrer þeirra Uppehalld edur Forsoomun kañ øllum þeim ad orsakast, sem Hlut eiga i Vexelbrefinu.

## 25.

Og med þvij sáa sem Vexelbref wtgefed hefur, og hinn sem þad hefur medtekeð, eru so hardlega skulldbundner, þáa skal og sáa, sem Vexelbref fyrst fenged hefur, vera skylldugur ad betala Verdid þeim sem Vexelbrefid hefur wtgefed, ef ecke aftalast ødruvijse, under sama Rett og Vidløgur, sem her hefur sagt vered.

## 26.

Og skulu þvijlijk Måal strax afgiørast, nema so se, ad adrer Skulldaheimtumenn kome áasamt þeim, sem Betalijng sæker fyrer Vexel, og þáa innann Ars og Dags endelega wtkliáad verda.

## 27.

Hvor sem Skulldar hefur ad kræfia epter davdann Mañ, og hefur ecke Handskrift, Contract edur Pant fyrer Skulldinne, hann skal annadhvort siáalfur, edur med vissum Sendemanne avglysa þad i Sterbwinu innann þrijtugasta Dags, ef hañ er i sama By, enn se hann utañ Byar og i Løgdæminu, iñañ áatta Vikna; Se hann utann Løgdæmis, þáa iñañ þriggia Máanada, ad undannteknu i Nordløndunum og Finnmørkinne, þar innann sex Máanada; Enn se hann utann Rijkis, giøre þad innann Ars og Dags. Hvad vidvijkur þeim Skulldaheimtumønnum, sem Handskrifter og Vexelbref eda Pantabref hafa, þáa, þegar einhvør deyr, sem þvijlijk Bref wtgefed hefur, meiga hanns Erfijngiar eda þeirra Formyndarar, láata avglysa þeirra davdlegañ Afgang áa ollum Løgþijngum og þeim Rettarþijngum, sem hafa Løgþijngis Rett, og advara Skulldaheimtumennina, ad þeir inngefe sijnar Krøfur i Sterbwid innann Ars og Dags, epter Lysijnguna, ef þeir eru i Rijkinu, edur ef þeir eru utann Rijkis, áatta Vikum epter ad þeir eru iñkomner i Rijkid. Forsoome Skulldaheimtumenn þad, þáa hafe tapad Rette sijnum til Sterbwsinns og Erfijngianna. Hafe Skulldaheimtumeñ Borgunarmenn, og þeir ætle einhvorn Tijma, ad sækia Betalijng hiáa þeim, þáa skulu þeir somuleidis advara þáa innann sama Tijma epter Lysijnguna, um þav Lofunar-Bref sem þeir hafa fráa þeim; Þo skal allt þetta ske uppáa hinna Skulldugu og Borgunarmannanna eigenn Kostnad.

## 28.

Vilie retter Erfijngiar sem eru náalæger og Mynduger, ganga fráa Arfe og Giallde, þáa skulu þeir segia sig þar fráa i Kavpstødunum áa fyrsta Þijnge, og áa hinne fyrstu Samkomu vid Kyrkiugardana áa Landinu, sem halldinn verdur fioortáan Døgum epter Andláat hinns Burtdáana, og Bwsinns Innsiglan, þo skal Sorenskrifarinn áa Landinu epter Advorun áa Kyrk-

Kyrkiugordunum vera þar nælægur, og med tveimur hinum bestu Sookn-armonnum, gefa tilkynna under sijn-um Hondum, hvad fram hefur fared. Enn seu Erfijngiar ecke tilstadar, þaa hafa þeir Tijma ad blijfa vid edur ganga fraa Arfe og Skulldum, þar til þeim verdur tilkynnt af Yfervalldi-nu, ad Arfur se fallinn.

## 29.

Take einginn vid Arfe og Giallde, þaa skulu þeir sem fraa Arfe ganga, ef þeir eru so nærstadder, edur þeirra Forsvarsmenn, edur nærstu Frændur, edur þeir sem i Hwsinu eru, gefa Yf-ervalldinu þad strax til Vitunder, sem skal hegda ser so med Innsiglun, Uppskrift og Virdijngu; sem aadur er sagt um Arf i Ødrum Capitula, so vel sem og med ad tilsetia gooda Til-sioon i Hwsinu, so eckert af Gootsinu fargist edur fordiarfist. Og skal þessu Tilsioonar-Foolke vera tillagt til dag-legrar Brwkunar og Upphelldis, Kost-ur og Øl og navdsynleger Bwshluter oinnsiglader til Nota ad hafa og brwka, þo so ad þad se rettelega uppskrifad og virdt.

## 30.

Þar nærst skal Yfervalldid tilsetia vissann Dag og Tijma, og laata avglysa þad aa Byþijnge i Kavpstod-unum og vid Kyrkiu aa Landinu, upp-aa Bwsinns Kostnad, so Skullda-heimtumennerner kunne tijmanlega og hagkvæmlega ad mæta i Sterbwinu.

## 31.

So skal Yfervalldid med Rettarinns Þenurum edur ødrum þar til-skickudum goodum Monnum saman-bera Bwsinns Fiaarmune vid Skull-dernar sem wtsvarast eiga, og reikna hvad serhvor Skulldaheimtumadur getur fenged fyrer sijna Heimtu. Sij-dann skulu þeir giora Lood-Sedla, og tekur serhvor Skulldaheimtumadur sinn Betalijng i þvij hann vill, epter þvij sem honum hlotnast med Hlutfalle. Þo skal hvor sem byriar ad taka i Lav-safe, blijfa þar vid, medann þad til-hrockur. Somuleidis, hvor sem sæk-er sinn Betalijng i Jordum, skal blij-fa þar vid, medann þær endast; Ta-ke og aa einum Stad, og tilsamanns þar sem hann byriade, og hlavpe ei fraa einum Stad til annars, medañ nockud er þar i mille.

## 32.

Falle nockur Agreinijngur aa mille Partanna, þaa skulu þeir, sem fyrer Skiptunum eru, dæma þari, so sem þeir vilia forsvara.

## 33.

Og skulu Rettarinns Þenarar, edur þeir gooder Meñ sem þeñ-ann Giornijng framkvæma, gefa hvor-ium

üm Skulldaheimtumanne, sem þeß oskar, fyrer billegann Betalijng, under sijnum Høndum og Signetum, einn skrifadann Gienpart af Bwsinns Fiarmunum, Virdijng, Liqvidation og hvad serhvor Skulldaheimtumadur hefur fenged til Utlags

## 34.

Ef einhvor ecke mæter, hvada Skulldbindijng sem hann hefur, nema hann hafe annadhvort Pant, og vill blijfa vid hann, þar til hañ verdur wtleystur epter Pantabrefinu, edur og hann hafe Borgunarmann, og vill blijfa vid hann, og ecke sækia sinn Betalijng i Bwinu, þa skal hanns Partur epter Hlutfallinu af Rettariñs Þenurum setiast under eins gods Mañs Tilsioon, og vera þar Ar og Dag, þo uppa Skulldaheimtumannsinns Abyrgd, nema sa sem vid þvij teked hefur, se Orsök i þeß Vesnun edur Misser. Vilie Skullpaheimtumadur ei taka vid þvij epter Ar og Dag, þa er þad fallid under Koong.

## 35.

Hafe sa Burtdavde haft nockud af Koongsinns Innteckum edur Eignum under Høndum, og a ad giora þar af Reiknijngskap, edur hafe hann vered Omaga Fiarhalldsmadur, Skoola edur Fatæckra Forstandare, edur Kyrkiu-Veriare, þa skulu þær Skulldir, sem hann þanninn skylldugur finnst, wttakast af Bwsiñs Fiarmunum, an nockurrar Kortunar. Þar nærst skal Hwßleiga, Landskulld, Skattar, Laun til Bændaña Biargrædis Framkvæmdar, Abwdarfall, so og Vinnufoolks Laun um eitt Ar betalast; Enn ef nockur Foogete edur sa sem Koongsinns Skatta skal uppbera, lætur nockra Koongsiñs Skatta standa yfer halfst Ar i hid lengsta, þa kann hann þar fyrer ecke ad hafa nockurn Forgangs-Rett hvorke hia Boonda ne Jardeiganda.

## 36.

Þar epter skulu rett Skulldabref og Vexelbref fyrirtakast, og þeir Doomar, sem løglega hafa vered latner ganga yfer þeim Dauda, medañ hann lifde, edur avglyst Manijng, og loksinns þad sem heimt er epter Reikningum, og an Handskrifta edur Dooma.

## 37.

Einginn Innfærsla ne Utlag ma ske i soddann Bwe, fyrr eñ Skulldaheimtumennerner eru kallader til Bwsinns, og Liqvidation er sked a þann Hatt sem sagt er, jafnvel þo madur annadhvort fyrer eda epter Fraafall hinns Burtdauda, hafe fenged Doom uppa Betalijnginn.

## 38.

Pad skal hvorium einum, sem vegna stoorra Skullda og lijtillra Jnntekta getur ecke aarlega wtsvarad þeirre tilbærelegre Rentu, sem hann er sijnum Skulldaheimtumonnum skylldugur um, og vill þo i Tijma, medann hann hefur Fe til, retta fyrer sig, vera leyfelegt, ad uppbiooda sitt Goots til Skulldaheimtumannanna, þo so ad þar se ei under neitt svikfamlegt Aform; So skal hann og hafa Bevijsing fraa Koongsinns Rentu-Cammere fyrer þvij, ad Koongurinn hafe eckert ad heimta hiaa þeim sem uppbydur, sem Uppbodid kunne ad hindra.

# 39.

Saa sem uppbydur, skal afhenda Logmonnunum, edur þeim sem hafa Logþijngis Rett i þvij Logþijngis Umdæme edur By, sem hann er bwfastur i, retta Uppteiknan aa sijnum Skulldaheimtumonnum, þar nærst Uppskrift med Tolu, Maata, Vigt og Verde aa ollu sijnu Lausafe, hvort sem eru Skullder sem honum giallda st eiga, edur hvor annar Varnadur hvoriu Nafne sem heiter, þar fyrer utann eina rigtuga Jardabook yfer Eigendoom, Arf, Giafer, Kaup, Panta- og Jnnfærslu-Goots, og oll onnur hanns Rettugheit, og skal hañ auglysa þetta ærlega under siñe Hende og Signete, nema hann vilie betala sijnum Skulldaheimtumonnum med reide Penijngum epter sinne Skulldbindijng.

# 40.

Þar epter skulu Logmennerner edur þeir sem hafa Logþijngis Rett, kuñgiora soddann Uppbod aa Þijnge, og skriflega tilskicka tvo gooda Menn Fullvedia, sem saa er uppbydur, tilnesner, sem sex Vikum þar epter skulu stefna ollum Skulldaheimtumonnum fyrer sig loglega aa vissann Stad og Dag, so tijmanlega, ad þeir hagkvæmelega gete mætt, og þaa sex Vikum þar epter verdleggia þad Goots og Lausafe sem til var sagt, so sem þeir vilia forsvara, so og jafna þad med Skulldunum.

# 41.

Þegar þad er sked, skulu giorast Loodsedlar, og allt so framkvæmast, sem aadur er sagt um Arfs og Giallds Fraagavngu; Þo, ef nockurs Partur er nidursettur, verdur hann under Tilsioon þess er Uppbod giords.

# 42.

Gange nockud af Gootsinu, þegar aller Skulldaheimtumenn hafa fenged fullkomed Utlag fyrer sijnar Krofur, þaa kemur þad þeim er Uppbod giorde til gooda. Eñ hrocke þad ecke til, so ad Skulldaheimtumennerner faa ecke fullann Betalijng, þaa verdur saa, er uppbaud, framvegis skyldugur hvorium Skulldaheimtumaññe

umanne um þad, sem obetalad epterstendur af þeirra Krøfu, og hann er skylldugur ad betala þeim epter sinne Skulldbindijng, edur lijda Fangelse.

## 43.

Sa Kostnadur sem gengur til Uppbodsinns, a ei fyrirfram af ad takast, helldur, þegar Skulldaheimtumennerner hafa fenged Fullnægiu fyrir sijnar Krøfur, a sa er Uppbod giørde ad betala hann af þvij sem hann hefur epter, edur hafe þad med þeirra Leyfe.

## 44.

Ji Uppbode og Arfs og Gialldskiptis-Framgavngu eiga Panta-Kavpa- og Makaskipta-Bref, sem wtgefinn kunna ad vera bæde af Skulldaheimtumanne og þeim Skylldugu, ad stadfestast med dyrasta Eyde, ad þar seu einginn Svik under; og skulu avngvar Afhendijngar, sem skedar eru med Giøf, Kavpum edur ødrum Hætte mille Hioona, Forelldra, Barna edur Erfijngia, koma Skulldaheimtumønnum til Skada edur Hindrunar, þegar funded verdur, ad þad se sked epter ad þeir Skylldugu voru i þvij Tilstande, og so miklum Skulldum hladner, ad þeir gatu ecke betalad sijnar Skullder, hvad og so stadfestast skal med Eyde.

## 45.

Hvor Skulld vill heimta, serdeilis epter davdann Mann, a ad bevijsa sijna Krøfu, annadhvort med rigtugre Handskrift, edur annare anægianlegre Bevijsijng.

## 46.

Rettar Kavpmanna-Bækur a moote Kavpmønnum blijfa i sijnu Gillde, ad þvij leite sem hvørs Stadar Borgmeistare og Rad edur Yferkavpmenn kunna sannsynelega ad dæma og alykta, ad þær seu rettar.

## 47.

Hvor sa Kavpmadur, Kramare, Vijnhøndlare edur annar sem kavpslagar i Stoor-Summum med Vijn, Humal, Sallt, Fisk og Sijld, Hør og Hamp, Timbur, Kalk, Stein, Jarn og þesslags Vørur, og lanar þær nockrum, skal annadhvort taka Sedel edá Bevijsijng med Dege og Dato, hiá þeim sem hann lanar Vøru sijna, edur og lata hañ skrifa med sinne Hende under Reikníjnginn i Bookinne, og innann tveggia Ara i þad lengsta giøra Afreiknijng vid hann, so ad sa Skylldugе underskrife annadhvort hønum afhendtann Reiknijng, edur og i Bookiñe. Vilie sa Skylldugе hvørugt giøra, og Kavpmadur bevijsar, ad hann hefur afhendt Reiknijng, og bedist ad giøra Afreiknijng og Rigtugheit vid hann,

og hann hafe þad ei saa kunnad, þaa skal hinn Skylldugе betala Kavpmañenum epter hanns Book og afhendtum Reiknijnge.

## 48.

Vijntapparar, Bruggarar, Bakarar, Slaatrarar, Urtakramarar, og aller sem i Tunnum og Skeppum, Pottum og Konnum, Loodum og Qvintinum, wtlaana sijna Voru; Item aller Handverksmeñ, skulu afhenda þeim Skyllduga Reiknijng yfer þeirra laanudu Vorur hvort sem eru Matur edur Dryckur edur unnenn Verk, og innann Aars og Dags klaara vid hann Reiknijnginn. Vilie saa Skyllduge ecke klaara vid hann Reiknijnginn, og þad verdur bevijsad, ad þeß var af honum oskad, þaa betale hann epter þeirre Book edur Karfastock, sem Laanandiñ framvijsar.

## 49.

Kavpmenn sem kavpslaga vid Bændur, skulu hallda eina serdeilis retta Book yfer þad sem þeir kavpslaga vid þaa, og strax i þær innfæra þad sem þeir laana þeim, og þar fyrir utann skrifa þad i adra Book, sem Boondin skal alltijd hafa med ser, þegar hann vill saa nockud til laans, eda betalar nockud af þvij sem hann hefur teked til laans, so þad verde eiñinn innskrifad i þaa Book af Kavpmanninum; Hvore Boondans Book aa aldeilis ad vera samhlioода vid Kavpmannsinns Book, so framarlega sem hann vill sækia nockud hiaa Boondanum. Skulu þeir sem kavpslaga vid Bændur med Timbre og Triaam, og laana þeim þar til Penijnga edur Vorur, innann þriggia Ara klaara Reiknijnga sijna vid þaa. Enn þeir sem annars laana Boondanum nockud wr þeirra Bwe edur Kramvoru edur þvijlijkt, skulu, jafnvel þo hann lose þeim aptur Tioru edur odrum Vorum, giora aa hvoriu Are klaara sijna Reiknijnga vid hann. Ef nockud verdur her aa moote giort, þaa skal Skulldaheimtumannsinns Krafa vera magtarlavs, nema hann bevijse, ad hann hafe sookt þad loglega, og Boondinn hafe ei viliad koma til hans, þad ad afgiora.

## 50.

Kavpmanna Bækur skulu ei gillda moote Bændum, nema þar med finnist adrar Bevijsijngar.

## 51.

Aller Bændur, sem eru bwsitiande i einne Þijngsookn, og eru skylldugеr um nockra Restansa edur adrar Skullder, skulu einu Sinne aa hvoriu Are loglega stefnast, so þeir kunne ad mæta, og þaa skulu þeir aller sameigennlega innfærast i eitt Þijngs Vitne, hvorsu miked hvor einn medgengur af þeim Restanse edur Skulldum,

um, edur honum verdur strax yferbevijsad ef hann neitar, og skal Boondinn vera skylldugur, epter þvij og ecke meir, ad tilsvara og betala, uppa þad hvor einn kunne aarlega ad vita, um hvad hann med rettu verdur skylldugur.

## 52.

Hvor sem setur sig i stærre Skullder enn hann getur betalad, edur selur, gefur, pantsetur, edur med ødrum Hætte sviksamlega afhender nockrum sitt Goots, hvor hellst sem vera kann, til ad svijkia sijna Skulldaheimtumenn um þeirra Betalijng, edur og ecke efner þad sem hann med Brefe sijnu og Innsigle uppa sijna Æru undergengist hefur um Betalijng edur Manijng, og þad bevijsast løglega, og þar uppa verdur stefnt annadhvort af Skulldaheimtumanninum sialfum edur Borgunarmanninum, sem hefur maatt borga fyrir hiñ Skylldugа, þa skal strax aan nockurs Uppehallds Doomur ganga yfer Frelse hins Skylldugа til Faangelsis.

## 53.

Enginn er skylldugur ad betala þad sem hann i Table edur Spilum tapar og hefur skylldugur orded.

## 54.

Þegar nockud verdur betalad epter Handskrift edur Contract, annadhvort af Innstædunne edur Rentunne, edur og þad ad fullu betalad edur efnt verdur, þa skal Skulldaheimtumadur, og sa, sem somu Handskrift edur Contract med rettu i Høndum hefur, sialfur skrifa þad fraa aa Brefunum, edur gefa uppa þad aanægianlega Qvittantiu. Finnist sijdann, epter Dauda þess sem soddann Bref med rettu i Hende hafde, ad nockud se afskrifad, sem ecke er med hanns Hende, edur hanns Qvittantia framvijsast ecke uppa, þa skal þad aungva Magt hafa.



# Siøtta Book
umm
# Misgiørnijnga.

## 1. Capitule
umm
## Villu-Lærdoom, Gudløstun og Galdur.

### 1. Articule.

Lingenn, hvor hellst sem vera kann, sem yferbevijsadur verdur ad vera fraafallenn til þeirra Paapisku Trwarbragda, maa taka nockurn Arf, helldur skal hann vera fallenn til hans næstu Frænda og Erfijngia. Enn hafe hann Arf teked ædur enn hann breytte Trw sinne, þaa behelldur hann Arfinum: Þo maa hann ecke bwa i Koongsinus Rijkium.

2.

Finniz nockur ad hafa gengid i Skoola, edur lagt sig epter Lærdoome aa Jesuitiskum Stodum, þaa skal honum ecke trwaz fyrer nockru Kalle i Skoolum edur Kyrkium.

3.

Muwnkar, Jesuitar, og þeßhaattar Paapisker Andlegrar Stettarmenn meiga ecke under Lijfsstraff laata finna sig her i Koongsins Rijkium og Londum, edur ser þar uppehallda. Hvor sem þessar Persoonur vijsvitande hyser og herbergiar, edur leifer þeim Plaats til ad æfa sijnar Romversku Ceremoniur, straffiz sem sa er hyser Fridlausa.

4.

## 4.

Jſama Maata ſkulu under ſama Straffs Vidlogur vera afteknar allar adrar ſerlegar Samkonur til nockurra annara Trwarbragda Æfijngar, edur Predikana, enn þeirra ſem i hinne annare Book er umtalad.

## 5.

Þo er ecke fyrerboded framande Herra Sendemonnum edur Þienurum, ſem vid Koongſinns Hof ſer uppehallda edur Adſetur hafa, og eru annarar Trwar, ad brwka fyrer ſer og ſijnum egen Þienurum ſinna Trwarbragda Æfijngu og hvad þar tilheyrer, i ſijnum egen Hwſum. Þo ſo ad eingenn Predikun ſe halldenn nema a þeirra egenn Twngu. Enn utann þeirra Herbergia og Hwſa, edur fyrer odrum enn þeim framande Embættesmonnum og þeirra egenn Þienurum, meiga þeirra Preſtar hvorke predika, edur Sacramentin handtere, ne nockra Gudsþioonuſtu dirfaz ad fremia; miklu ſijdur meiga þeirra Preſtar edur Þienarar taka ſer nockud hneixlanlegt fyrer Hendur til Foragts vid þeſſara Landa og Rijkia Trwarbrogd. Ef nockud þvijlijkt ſkedur, og verdur ecke af þeim framande Embættesmanne tilbærelega ſtraffad, og Boot þara rædenn, þa kenne ſialfum ſer, þott Koongurinn med ødrum Medølum orſakiz ad vardveita ſinna Laga Hlydne og Virdijngu, ſem adrer Magtarherrar brwka i ſijnum Londum i ſlijkum Tilfellum. Og fyrerbydz alvarlega, ad nockur, ſem ecke er eins framande Embættesmanns egenlegur Þienare, brwke þeſſe Frijheit i ſijnum Hwſum, edur utan þeirra tijdke edur ſæke nockra framande Trwarbragda Idkun, jafnvel þott þeir hafe ſomu Trwarbrogd; og allrahellſt, fyrerbydz þeim ſem hafa þeſſara Rijkia og Landa Trwarbrogd, ad þeir, i hvoriu hellſt Skine ſem vera kann, læte finna ſig a þeim Stodum, hvar og nær ed þvijlijk framande Trwarbragda Idkun er framenn, under þad Straff, ſem Koongſinns Laga mootþrooanleger Foragtarar forþiena.

## 6.

Koongſinns Ceremoniu-Meiſtare ſkal ecke forſooma, hvared nockur framande Embættesmadur uppehelldur ſer, ſem er annarar Trwar, ad undervijſa honum i beſta Maata, ſo ad eingenn hafe Orſok til ad affſaka ſig med Okunnugleika.

## 7.

Hvør ſem yferbevijſadur verdur ad hafa laſtad Gud, edur ſpottad hanns heilaga Nafn, Ord og Sacrament, wr hanns Munne ſkal Twngañ lif-

lifande skeraz, þarnæst hans Høfud afhøggvaz og ꝍsamt Twngunne setiaz uppꝍ Stiaka.

## 8.

Hafe nockur brwkad Hønd sijna til þvijliks Guds Foragts, þꝍ skal hwn af hønum lifande høggvaz, og setiaz hiꝍ Høfdinu ꝍ Stiakan.

## 9.

Finniz nockur Galdramadur edur Galdrakona ad hafa affsvared Gud og sijna heilogu Skijrn og Christendoom, og gefed sig Diøflinum, hann skal kastaz lifande ꝍ Eld og brennaz.

## 10.

Hvør sem brwkar nockrar galdar innbirladar Konster, ad vilia med ꝍsettu Raade giora ødrum Topun og Skada, hafe forbroted sijna Høfudlood. Og se þad Kallmadur, þꝍ straffiz hann med Jꝍrnum og Erfide ꝍ Bremerholme, edur ødrum þvijlijkum Stad sijna Lijfstijd. Se þad Kvennsnift, straffiz ꝍ sama Mꝍta i Spinnhwsinu.

## 11.

Enn briootiz þeir wt edur burthlavpe, straffiz þeir ꝍ Lijfinu ef þeir nꝍz.

## 12.

Finniz ad nockur fare med Signijngar, Særijngar, Mælijngar, Afturvijsaner, vißra Daga Val, Stafa Misbrwkan, og se i þvijlijkum misþeinktum Konstum forfaren, œfe þær og brwke, þꝍ skal hann hafa forbroted sijna Bwslood og ryma Koongsinns Lond og Rijke.

## 13.

Þeir sem eru þessa Foolks Medvitendur, og brwka edur lꝍta brwka þeirra Raad og Konster fyrer sig edur adra, skulu i fyrsta Sinne standa openberar Skrifter, og gefa til næsta Hospitals twø þwsund Lood Silfurs, ef þeir eru so Efnader, annars þad þeir hafa frekaz Formegun til. Verde nockur annad Sinn ad sømu Yfersioon funden, þꝍ straffiz hann so sem þeir er þvijlijkt Gudleyse og Dꝍraskap adhafaz.

# II. Cap.

# Um Bloot og Svardaga.

## I. Art.

Hvør sem lettferduglega sver og blootar, og i þann Mꝍta

ta misbrwkar Guds Nafn, skal aflijtaz sem sa er ei ser med Sanninde, og ecke er trwanlegur, ꝃan þeß hann sverie.

## 2.

Finniz nockur i Kavpstødunum med Mootþrooa og Þvermoodsku ad framhallda i þvijlijkre Guds Moodgan epter Prestsinns og Medhiaalparanna Aminnijngar, þaa skulu þeir ei meiga uppheſiaz til neins Embættis i Bynum sem þeir kunna ad hafa Æru og Gagn af, og þoott þeir meine ser ofmiøg aaþyngt vera med Bysinns Þyngslum, Skatt og Aløgum, þaa skulu þeir ei meiga þaryfer klaga, utan þeir faae sinns Saalusorgara, Naabwa og Granna Vitnesburde, ad þeir hafe sig betrad. Duge ecke þetta Straff, skal þeim ad sijdustu aldeiles af Bynum burtvijsaz, og til þvij meire Vidurstygdar skulu Borgmeistarar og Raad i Kavpstødunum laata setia Gapastocka aa Torgunum og nockrum ødrum Stødum, hvar i Byesveinunum skal alvarlega befalad vera ad setia þaa sem openberlega verda kunner ad Bloote og Svardøgum, og sa sem þanninn verdur þar i settur skal gefa Bysveinunum fioora Skildijnga, fyrr enn hann verdur lavs laatenn.

## 3.

Aa Landsbygdinne aa Landsdrotteñ ad setia þvijlijkt ofꝼickanlegt Foolk, i Faangelse nockra Daga uppaa Vatn og Bravd, nær þad epter Prestsinns og Medhiaalparanna alvarlegar Aminnijngar vill ecke betra sig.

## 4.

Og skulu ecke einasta Hwßboonde og Hwßfreya hallda sialfum ser fraa Bloote og Svardøgum, helldur eirnenn Børnum sijnum og Þioonustufoolke. Þavg skulu og hafa Magt til ad straffa med Penijnga Utlaatum edur ødrum Hwsaga þaa sem her i moote giøra.

## 5.

Hvør sa Prestur edur annar andlegrar Stiettarmadur, sem aa ad gaanga undan sijnum Underhafande med goodum Epterdæmum, og verdur þo fundenn ad gefa af ser Hneixle med Svardøgum, og ecke hallda sinne egenn Kvinnu, Børnum og Heimilesfoolke þar fraa, skal þar fyrer tvøfolldu Straffe bæta.

# III. Cap.

# Um Helgedagsbrot.

## I. Art.

Hvør

Hvor sem ecke helldur heilaga Sunnu- og adra tilskickada Helge- og Bæna-Daga, og kemur ecke til Kirkiu, nær Gudsþioonusta a þessum Døgum er framenn, skal giallda hvørt Sinn i Helgedags-brot þriw Lood Silfurs. Og skal hvør eirn sækia sijna egenn Sooknar-Kyrkiu, sem hann heyrer til, og þar brwka Sacramentin, so og gialda þar sijn Skil, sem Kyrkiunne og Kyrkiuþenurunum tilheyra; Og maa eingenn a Landinu leggia Bændur til eirnrar Sooknar fraa annare.

## 2.

Yfervalldid skal tilhallda sijnum Underhafande og Hwßbændurner sijnum Hiwum og Þienurum, ad koma til Kyrkiu og avngvanvegeñ hallda þeim þar fraa.

## 3.

Hvør sem erfidar um Predikun skal fyrsta Sinne sekiaz tveimur Loodum Silfurs.

## 4.

Hvad sem annars kann til ad falla a Suñu- og Helge-Døgum epter Middege med oleifelegu Erfide, skal i sama Maata straffaz af Yfervalldinu. Þo skal hermed vera undanskiled, þad sem af storre og oumflyanlegre Navdsyn, serdeiles ad endadre Predikun, og einkanlega til ad hiaalpa sijnum Naawnga, ser edur sijnum, kann til ad falla, so framt Guds Ord leifer, og hvør eirn kann med christelegre Samvitsku sig ad forsvara.

## 5.

Þeir Kavpstader sem lukter eru, skulu ecke fyrr enn Haamessa er wte laata liwka upp Portunum. Hafe nockur Erinde, sem ei maa undandragaz, þaa gefe hann þad til kynna Yfervalldinu, og se wtlaatenn med þeß Leife. Enn Prestar, sem reisa skulu til eda fraa Sooknum sijnum, er liggia fyrer utan Byinn; Item Proßastarner, sem Kyrkna vilia vitja i sijnu Proofastsdæme; It. þad Foolk sem byr fyrer utan Byinn, enn a Sooknarkyrkiu inni Bynum, skulu ohindrader aan annars Leifes fra ad fara igegnum Portin. So skal ei helldur vera fyrerboded, ad þad Fe sem gengur i Haga fyrer utan Byin um Sumarid, se wt- og innlaated igegnum Portin a veniulegum Tijma.

## 6.

Koongsinns Befalningsmenn, og serhvørt Yfervalld og Landsdrottenn, skulu ei alleina med allre Kostgiæfne hafa Tilsioon her med, helldur og hlijfa Bændunum og þeirra Børnum og Þienurum fyrer Kvødum og øllu odru Erfide, hvad hellst sem vera

vera kann, a Helgumdøgum, utan soddan oumflyanleg Navdsyn tilfalle, sem avngvann Undandraatt þoler; Þo ad Gudsþioonustu oforsoomadre. Hvar a moot Forelldrar og Hwßbændur skulu laata Born sijn og Ungdoom, hvorn Helganndag ei einasta koma til Kirkiu, helldur og epter Predikun bijda i Kirkiunne til ad heyra þar og læra, sijns Barnalærdooms Utskijring, og ad hafa um Hond aññanngudrækelegann Lærdoom og Song, utan þavg seu so wng og Vegurinn so laangur og hættulegur, ad þad ei ske kunne, þvij þaa skulu þeir laata þavg samankoma i einum hentugum Stad i hvoriu Bygdarlage, so framt mogulegt er, og þar af Diaaknanum edur hanns Medhiaalpara undervijsaz.

## 7.

Hvor sem i Kavpstødunum fører nockurt Ol til Kroohwsa, edur opnar nockra Krambud edur Handverkstad edur bydur til kavps a nockrum openberum Stad Voru edur aññad fyrr enn wte er Kvoldsongur, og a veniulegum Bænadøgum, fyrr enn epter Haamessu, skal hafa fyrergiort til Faatækra þvij sem hann hefur med ad fara. Saa sem nockurs vidþarf, hann leite þeß i Hwsunum hiaa þeim sem þad hafa til Solu.

## 8.

Hvor sem bydur til Kavps edur wttappar nockurn Dryck a Sunnuedur Helgum-Døgum fyrr enn Kvoldsongur er endadur, utan einasta handa Siwkum ef þeir keß beidaz, skal hafa forbroted, þad sem hann hefur med ad fara, og saa sem Dryckinn kavper, sekiz af Yfervalldinu um tvo Lood Silfurs. Og hvort þad Yfervalld sem vid þvijlijkt ser igegnum Fijngur, laate wte fiogur Lood Silfurs til Koongsinns.

## 9.

Hvor sem a Bænadøgum wttappar edur lætur wttappa nockurn Dryck til Ohoofs og oþarflega, skal þarfyrer mæta Tiltale, og annadhvort standa openberar Skrifter, edur strafaz a sijnum Femunum til næsta Hospitals, edur a Kroppnum, med Vatne og Bravde, ef ecke eru Efne til annara Sekta. J sama Maata straffiz þeir sem uppvijser verda ad Dryckiuskap a þessum Døgum.

## 10.

Einniz Ungdoomurinn ad vanhelga Embættesgiordina med Leik, Slijmum edur ødru Osticke i Kyrkugardinum, medann Gudsþioonustañ i Kirkiunne yferstendur, þaa, skulu þeir sem hafa Tilsioon þarmed, hafa Valld til ad straffa þaa Ungu þarfyrer med Vende edur Svipu, og þaa fullordnu med Gapastockunum; Og vilie hiner fullordnu setia sig þar a

 moote

moote, þa hafe þeir sinn Skada boo-talavsann, ef þeir nockurn þaraf hreppa. Og skulu Forelldrarner edur Hwßbændurner, hvorier hellst sem eru, hallda Bornum sijnum og Foolke fraa þeßhaattar Osficke, nær þeim verdur þad til kynna gefed, utan þeir vilie sialfer straffaz þarfyrer, sem fyrer Helgedagsbrot, edur svara ødrum Sektum til Fatækra.

## II.

Aller osfickanleger og hneixlanleger Leiker um Jool edur a ødrum Tijmum, og Føstuinngangs-Hlavp, fyrerbioodaz strengelega, og eiga alvarlega ad straffaz.

# IV. Cap.

# Um Misgiørnijnga mote Koongsinns Hatign edur Crimen læsæ Majestatis.

## I. Art.

Hvør sem lastar Kooginn edur Drottnijnguna þeim til Nidrunar, edur sæker epter þeirra edur þeirra Barna Lijfe, hafe fyrergiort Æru Lijfe og Gootse; Hanns hægre Hønd verde honum lifande afhøggvenn; Likaminn sundurpartadur og lagdur a Hiool og Steglur, og Hofudid a samt med Hendenne setiaz uppa Stiaka. Komiz Sakamadurinn undann, so hann verdur ecke a Kroppnum straffadur, þa skal Straffid ske a hanns Likneske og Eptermynd. Se Sakamadurinn af Adle, edur hærra Stande, þa skal hanns Adalsmerke af Bodlinum sundurbriootaz, og aller hanns Lijfs-Erfijngiar missa sitt Adalstand.

## 2.

Hvør sem med Raadum edur Verknade verdur fundenn ad þvij ad vilia giora nockra Umbreytijng a Kongsinns absolut Arfa Rijkesstioorn straffiz a sama Haatt.

## 3.

Hvør sem giører nockurt Upphlavp, safnar edur dregur ad ser Strijdslid Innanns edur Utanlands, giører Samtok moote Kooginum vid Inn- edur Utlenda, edur styrker Koongsinns openbera Fiandmenn med Raad eda Daad, se og sama Straffe undergorpenn.

## 4.

Hvør sem wtbydur Koongsinns Strijdsmagt til Lands, edur

ødrum Koongsinns Riddurum edur Footgongulide, an Koongsins Skipunar, hafe fyrergiort Æru edur Lijfe edur Gootse, epter Misgiørnijngsins Asigkomulage.

5.

Ef Ofridur edur Upphlavp kemur uppa Rijked, og Koongurinn bydur wt Alþydu til Varnar annadhvørt til Lands eda Siooar, þa skal hvør sem heima situr, og er þo hvørke so wngur edur so gamall, edur so Veikur og Vanburda ad hann ei se Vopn fær, hafa forbroted Æru og Bwslood.

6.

Hvør sem i Strijdstijd oneyddur og oþvijngadur gefur sig i Þienustu hia Ovinunum moote Kooginum, edur gefur Ovinunum Raad, edur forræddur Koongsinns Undersaata, þeirra Gootz og Formegan, hafe forbroted sitt Lijf og Bwslood.

7.

Hvør sem i Koongsinns Rijkium, an Hanns serdeileslegs Leifes, safnar ad ser Strijdsmønnum edur Baatsfoolke, og færer þad wt af Rijkinu, hafe forbroted sitt Lijf, og þad hann medferdes hefur.

8.

Hallde nockur hia ser sijnum underhafande Strijdsmoñum til Hests edur Foots a moote Koongsins Vilia, nær Koongurinn hefur befalad ad sleppa þeim, edur og vill ecke af Hende laata sitt Embætte og Bestijlling, nær Koongurinn þad befalar, hafe forbroted Æru og Gootz.

9.

Tale nockur illa um Koongsinns Stioornan, hafe forbroted Æru og Gootz; Fylge og þvijlijku Umtale nockur Lijkinde til Uppreistar amoote Kooginum, þa er ogso Lijfinu fyrergiort.

10.

False nockur Koongsinns Bref, Hond edur Signet, straffiz a Æru og Gootse.

11.

Uppbere nockur meire Toll edur Skatt, enn af Kooginum er uppaboded, þa straffiz sem hañ være gripenn i Þioofnade.

12.

Finniz nockur ad mishondla med, edur foreyda Peniingum, Vorum, Vopnum edur ødru sem til Koongsinns Þienustu edur Stridsfoolksinns Vidurhallds a ad brwkaz, þa

 stran=

straffiz hann a Æru edur Gootse epter Maalsvexte.

## 13.

Finniz nockur ad giöra Uppreisn edur rada ödrum til Uppreisnar moote Koongsinns Befalnijngum edur Forordnijngum, nær þær a Þijnge edur annarstadar verda kunngiördar, hann hafe forbroted Æru, Lijf og Gooz.

## 14.

Hafe nockur Vitneskiu um þvijlijkar Yfersiooner, og openberar þad þo ecke strax, þaa straffiz hañ sem Medvitande, jafnvel þo hann hvorke med Radum ne Verknade se med i Giörningnum, annadhvort a Æru, Lijfe edur Gootse, epter þvij sem Yfersiooninne er hattad.

## 15.

Yferfalle nockur framande Sendeboda edur Koongsiñs haa Embættesmenn og Radgiafa i sijnum Embættes Utrettijngum, þa straffiz hann a Lijfe, Æru edur Gootse, epter Misgiörnijngsinns Asigkomulage og Stande hinns Yferfallna.

## 16.

Yferfalle nockur sitt Yfervalld, af Koonginum tilskickad i sijnu Embætte, straffiz a Æru edur Bwslood epter Malavoxtum.

## 17.

Se yferfallinn Doomare edur aññar Rettarinns Þienare med Hoggum og Slogum, nær hañ situr Koongsinns Rett, þaa se þarmed fyrergiört Lijfe og Bwslood.

## 18.

Hafnkyte nockur Doomaranum, edur ognar honum med Vopnum edur gefur honum skeñeleg Ord fyrer Rette, gialde fiörutie Lood Silfurs til Doomaranns, og hafe forbroted sijna Bwslood til Koongsinns, og se þaradavk minne Madur, ef Ordenn eru Doomaranns Æru og goodu Rygte ofnærgaangande.

# V. Cap.

# Um Barnaña Yfersioner vid Forelldrana. It. Bonda og Hwßfreyu.

## I. Art.

Finniz nockur sijnum Forelldrum Ohlydin og ad foragta þeirra christelegar Aminnijngar um Guds Otta, Radvendne, Dryckju-

iuſkapar Fræhalld, Fridſeme, Koſtgæfne, Sparneytne og þeßhættar, og verde þad ſkilvijſlega bevijſad, þaa miſſe hann ſinn Arf epter þaa.

2.

Formæle nockur ſijnum Forelldrum, edur tale Blygdunarlauſlega til þeirra edur um þaa, ſem æhrærer Æru þeirra og gott Mannord, þaa miſſe hann ſinn Arf, og ſtraffiz med Jaarnum og Erfide aa Bremerhoolme, ef þad er Kallmadur, enn i Spinnhwſinu, ſe þad Kvennmadur, ſijna Lijfstijd.

3.

Slaae nockur ſijna Forelldra, þaa er þad Dauda Søk.

4.

Slaae Kona Mann ſinn, og giøre hønum Skada, þaa ſkal þad vera ſem hwn hefde þad giort einum Framande.

5.

Hwßboonde maa refſa ſijnum Børnum og Hiwum med Kiepp edur Vende, og ei med Vopne. Enn giøre hann þeim Averka med Odde edur Egg, edur Limleſte þaug, edur ſkade aa Heilſunne, þaa ſtraffiz hann, ſoſem hañ hefde ſkadad eirn Framande.

6.

Sama Rett hefur og Konañ yfer ſijnum Børnum og Hiwum.

7.

Hondle nockur Hwsboonde tyrannalega edur ochriſtelega med ſijna Egenkonu, og verde þad hønum med Rekum yferbevijſad, þaa ſtraffiz hañ med Erfide aa Bremerhoolme edur ødru ſtooru Straffe, epter hañs Stande og Aſigkomulage.

8.

Hondle Konan ochriſtelega med Mañ ſiñ, þaa ſtraffiz hwn med Spinnhwſinu.

9.

Se Boonde og Hwsfreya bæde jafn ſek i vondre Forlikun ſijn aa mille, og hneixlanlegu Liferne, þaa eiga þaug bæde ad ſtraffaz ſem ſagt er.

10.

Hondle nockur Hwßboonde ologlega og otilbærelega med ſijna Þienara edur Landſeta, þaa ſe þad ſem ſaa Misverknadur ſkede vid framande Mañ og ſkulu þeir hafa Vallid til ad ſækia Rett ſinn aa moote Hwsboondanum, ſoſem aa moote einum Framande.

# VI. Cap.
# Um Manndrap.

## I. Art.

Hvor sem deyder annann, ef þad skedur ecke af Voda edur Navdveriu, skal læta Lijf fyrer Lijf; Og hvort sem hañ wtstendur sitt Straff, edur strykur burt, so hann verdur ei uppspurdur, gripeñ, og fridlavs dæmdur, þa skal hanns Høfudlood, ad undantekenne Fasteign vera forbrotenn, hælf til næstu Erfijngia hinns Vegna, og hælf til hañs Hwßboonda.

## 2.

Seu fleire i Verkinu, sem hafa sleged, sært, edur skadad hinn Vegna, þa eiga þeir aller ad verda Fridlavser.

## 3.

Næstu Erfijngiar hinns Drepna eru retter Eptertalsmenn, sem Maalinu skulu framfylgia. Enn ef þeir forsooma þad, og annadhvort ecke vilia edur ecke kunna Sokina ad wtfæra, og þeirra Hwßboonde vill ecke helldur takaz Maalid a Hendur, edur og eingenn rettur Eptertalsmadur er til, þa skal Yfervalldid og Landsdrottenn, a hvors Lood Mañdrapid skede, vera skyllduger til ad leida Sokina til Lykta, og taka þarfyrer hælfa Manndraparañs Bwslood, sem Eptertalsmanninum annars tilheyrde.

## 4.

Manndraparanns Hwßboonde skal vera skylldugur til, nær hann þarum advaraz, ad læta taka Manndraparann fastann, hafe hann ecke nædz a sialfum Drapstadnum, og ad læta Lijflæta hann epter Doominum; Hvar til Koongsinns Amtmeñ edur adrer, sem Koongsinns Vegna nockurt Valld hafa, skulu hañ styrkia.

## 5.

Forsoome Hwßbooñdinn þad, þa skal þad gefaz til kynna Koongsinns Amtmanne edur Fooveta, i hvors Umdæme þad er, og hann vera skylldugur ad læta straffa Manndraparann; og tekur þa Koongurinn hañs hælfa Bwslood, sem annars være Manndraparanns Hwsboonda tilfallenn.

## 6.

Ville og ecke Koongsinns Foovetar læta Rett gaanga yfer Koongsinns Þienurum, edur adrer Hwsbændur yfer sijnum Þienurum, þa maa sa sem Eigande er ad þeirre Jord, er hinn Vegne a bioo, edur uppehellt ser a, læta giora þad, og taka so hælfa Manndraparanns Bwslood,

sem annars hefde Kooginum edur Hwsboondanum tilheyrt; Og skal Koongsinns Foovete, sem ecke framqvæmde sitt Embætte, vera skylldugur til ad betala sialfur Kooginum so miked, sem Manndrapparanus hvalsa Bwslood var, og þarfyrer utan mæta Tiltale af Fiskalnum uppa sitt Embætte.

## 7.

Skierlegt Kvennfoolk, sem fyrerfer sijnu Foostre, skal hálshoggvaz, og Hofudid setiaz uppa Staka.

## 8.

Ef nockur ofsickanleg Kvennsnift verdur Barnshafande og fæder sitt Barn i Dulsmaale, enn brwkar ecke þaug regululega tilskickudu Medol, sem henne og Foostrinu kynnu i þessu Tilfelle ad þiena, so ad Barnid burthverfur, edur hwn jær þvij til, ad þad hafe fædz Andvana, edur fyrerfariz a annann Hatt, þa skal hwn aalijtaz sosem hwn hafe sijnu Foostre med Vilia fyrerfared.

## 9.

Eingenn otierlegra og lauslaatra Kvenna Born, sem geten eru fyrer utan Hioonaband og finnaz daud, meiga jardaz, fyrr enn Presturinn ad fengenne Advorun hefur gefed þad Yfervalldinu tilkynna, sem strax skal laata til Sioonarmenn, sem skulu skoda hinn Dauda. Finniz þa nockur þeckianleg Merke til Verknadar, edur rijmeleg Orsok til Misþanka, ad med Barnid hafe ei vered loglega hondlad, þa se Maalinu epter Logum framfylgt til Þijnga af Hwßboondanum sosem annare Draaps-Sok.

## 10.

Hittiz nockur edur verde noogsamlega yferbevijsadur, ad hafa annadhvort sitt edur annars Barn wtbored og eptersklled a Eydemork, hvar Menn ecke eru, edur lijklegt er ad Menn kome, þa skal hann aalijtaz sem Manndraapare, og hafa fyrergiort Lijfinu, jafnvel þo Barnid fyrer Guds Forsioon kunne ad finnaz og hallda Lijfe. Enn se þad lagt a Mork i Þioodbraut, edur so nærre Bygdum, ad þad kunne avdvelldlega ad finnaz, þa straffiz sa sem slijkt giorde, med Kaganum, og Brennemerkiz a Kinnina. Enn se Barnid lagt i Hws eda Bæ, hvar Foolk kann strax ad finna þad og koma þvij til Hiaalpar, þa straffiz sa sem þad giort hefur, med Kaganum, aan þess ad Brennemerkiaz.

## 11.

Hvor sem rædur odrum edur aasyser hann ad giora nockrum Skada, so ad hann bijdur þaraf Bana, betale full Manngiolld, þrenn aatiaan


Lood

Lood Silfurs. Enn se þad annar Skade sem giordur er, þaa betale hann hælft so miked sem saa er, Skadann giorde.

## 12.

Enn skipe madur nockrum edur gefe Kaup til ad deyda annann Mann edur skada, þaa ælijtiz þad sem hann hefde þad siælfur giort med egenn Hende.

## 13.

Hvar Misklyd og Oeinijng tilfellur millum Manna, skal serhvor sem vidstaddur er, vera skylldugur til ad hindra og koma i Veg fyrer Olucku og Manndraap. Enn ef Mañdraap skedur, þaa ad hindra Manndraaparann, ad ei undankomiz. Enn komiz hann i burtu, þaa skulu þeir aller vera skylduger til ad elta hann, ag færa tilbaka innann ætta Daga i hid seinasta. Annars skal hvor þeirra, ef þeir eru Efnader, betala full Manngiolld, þrenn ætiaan Lood Silfurs. Hafe þeir ecke Efne til ad laata wte Bæturnar, þaa straffiz þeir epter þvij sem Efne eru til, edur lijde aa Kroppnum med Fangelse ellegar Erfide.

## 14.

Hafe nockur þeirra sem vidstadder voru, vered med i Verknade Draapsinns, þaa se þarmed fared sem adur er sagt.

## 15.

Ef hinn Vegne lyser adur eñ hañ deyr medann hann er med fullre Rænu, nockurn sinn Banamann, og hinn neitar þvij, og aldeiles engenn Vitne eru til sem um Verkid kunna Vitne ad bera, þaa skal saa sem soleides er sigtadur, frija sig þarfraa med Eide.

## 16.

Se nockur skulldadur fyrer Manndraap edur annann Misgiorning, og hann bevijsar med løggilldum Vitnum, ad hann hafe so langt vered fraa þeim Stad, hvar Draapid edur Misgiorningurinn skede, þann Dag sem þad skede, ad hann hefde ecke getad fared þar aa mille tvær Reisur til eda fraa um Daginn, og ad hann hafe þañ Tijma vered vid Kirkiu, aa Þijnge, aa Skipe edur i Samqvæme, þaa skal hann vera angurlaus fyrer þeirre Sok sem hañ er aakærdur um.

## 17.

Se Manndraap framed af nockrum i Ede og Vitleise, þaa aa hañ ecke ad straffaz aa Lijfinu, helldur skal hann af þeim Femunum sem hann aa edur þarepter eignaz, betala til Erfingia hinns Davda full Manngiolld, þrenn ætiaan Lood Silfurs.

## 18.

Sama er og ad segia um Manndrap sem framed verdur af þvij Barne, sem ecke er fullra tiju Ara.

# 19.

Ef sa sem er mille tiju og fioortan Ara verdur ødrum ad Bana, þa hafe hann forbroted sijna Høfudlood til Erfijngia hinns Dauda, og sinns Hwsboonda, og straffiz a Kroppnum med Vende. Enn se Barnid annars þeckt ad Ohlydne og Skalkaporum, þa skal þad vera i Prældoome og Erfide sijna Lijfstijd, þar sem þad verdur tildæmt.

# 20.

Bætur fyrer Manndrap meiga ei festaz, edur nockur Forlijkun ske millum Manndraparanns og Erfijngia edur Vina þeß Deydda, fyrr enn Doomarinn hefur dæmt i Sokiñe. Enn verde þær fyrr festar, þa skulu somu Bætur vera forbrotnar til Hwßboonda þeß Dauda, og hann vera skylldugur Sokinne ad framfylgia. Giore hann þad ecke, þa skal Yfervalldid og Eigande þeirrar Iardar hvar Drapid skede, þad framkvæma, og take þeir so þær bætur sem ologlega voru festar edur burtlofadar.

# 21.

Sa sem fyrerfer sialfum ser, hafe forbroted Høfudlood sijna til sijns Hwsboonda, og ma hvørke grafaz i Kirkiu ne Kirkiugarde, utan hann hafe giort þad af Siwkdoome og Vitleise.

# 22.

Hvorium sem yferbevijsad verdur ad hafa viliad fyrerfara ødrum med Eitre edur a annann Haatt, sa hafe forbroted Lijfed.

# VII. Cap.

# Um Afhøgg og Saar.

## I. Art.

Ef nockur af Asetnijnge edur Forakte sker edur høggur af ødrum Manne Nef, Eyru, Twngu, Hend, Foot, Fijngur edur adra þvijlijka Lime, edur slær edur stijngur wt hanns Auga, þa a hann ad straffaz a Hoolminum i Iarnum sijna Lijfstijd, edur vera Fridlaus, og hanns Bwslood forbrotenn, half til þeß sem hann skadade, og half til hanns Hwsboonda. Enn ef þad verdur i Aflogum, ad madur misser nockurn af þessum Limum, þa betaliz fyrer hvorn þeirra full Manngiolld þrenn atian Lood Silfurs.

## 2.

Ef madur veiter ødrum Sꜳr med Høgge, Stijng edur Slage, þꜳ gialdiz fyrer hvørt Sꜳr, sem ei er beinhøggved edur holſtwnged, þriſvar þriw Lood Silfurs.

## 3.

Enn ſe Sꜳrid ꜳ Hol, edur inni Bein, ſo ad Beinid fer af, edur Øred ſitur i Beininu, og blæde bæde upp og nidur, edur ſe Sꜳrid tvijmynnt og hafe tvær Opnanir, ſoſem ſie madur ſtwngenn igegnum Lær edur Legg edur Hønd edur annarſtadar, þꜳ gialdiz þarfyrer þrenn ſex Lood Silfurs.

## 4.

Verde madur lyttur ꜳ Limum, enn hefur þo Not þeirra nockur, ſo hann kann bæde ad kreppa þꜳ og retta, þꜳ gialdiz þrenn tolf Lood Silfurs.

## 5.

Enn verde nockur Limur davdur og onytur, þꜳ gialdiz þarfyrer ſoſem hann være med øllu afhøggvenn.

## 6.

Fyrer øll þavg Sꜳr ſem ei verda hulenn med Klædum edur Hꜳre, ſem eru Sꜳr i Andlite og ꜳ Hønd- um bætiz hꜳlfu meira enn fyrer ønnur Sꜳr.

## 7.

Enn fꜳe madur Lyte, þar af, ſoſem ef Munnurinn verdur ſkackur og vidundenn, edur Avga edur Nef, þꜳ gialdiz hꜳlf Manngiølld, þrenn niju Lood Silfurs.

## 8.

Fyrer Stafshøgg og Steinshøgg, og Beinshøgg og Hnefahøgg, og Hꜳrtøgun og Jardvarpan og Klædarif bætiz þrenn ſex Lood Silfurs.

## 9.

Enn verdur madur þrælbarinn, ſo hann getur ei ſiꜳlfur burtkomiz, helldur verdur hønum ekid, edur hlytur ad beraz i burtu, og liggur þaraf Beinbrotenn og Oſær, þꜳ bætiz þarfyrer hꜳlf Manngiølld, þrenn niju Lood Silfurs.

## 10.

Hrinde madur ødrum i Vatn af reidum Huga, bætiz jafnmiked.

## 11.

J øllum þeſſum Tilfellum, ſkal ſꜳ ſem Verked giørde, auk ꜳdurſkrifadra Boota, betala Læknislaun, ſtanda þeim Særda fyrer Koſte ꜳ-

met-

medan og gefa honum sannsynelega Þockaboot fyrer Lyte og Skada, sem gooder Menn skulu æqveda epter beggia Astande og Hentuglekum.

## 12.

Hoggve madur annann Saar edur stijnge til Bloods i Koongsinns Garde, þa skal sa missa Hondina sem þad giorde.

## 13.

Slææ madur annann Kinnhest, Keppshogg edur æ aññ Hæatt i Koongsinns Garde, so ad ei blæder, þa skal hann stijngaz igegnum Hondina, og ristaz fraan wr mille Fijngranna.

## 14.

Bijte madur annann, so hañ fær þaraf Lyte, og se þad ei af Navdveriu, þa skal hann fyrst betala Skadann, og þarnæst straffaz epter fremstu Formegan, og Sakariñar Asigkomulage.

## 15.

Drage madur Knijf wt vid annañ, þott hann giore avngañ Skada þarmed, bæte þreñ fiñ Lood Silfurs.

## 16.

Giore hann þarmed Skada, þa gialde hann avk rettra Boota þrenn fiñtaan Lood Silfurs.

## 17.

Drage madur wt Sverd eda Knijf, edur spenne Byssu og legge Hanañ æ vid annann Mann af reidum Huga i Koongsinns Garde, þa skal hann stijngaz igegnum Hondina, ef hann verdur gripenn ad ferskum Giorníjnge, jafnvel þo hañ hafe þarmed avngvañ Skada giort.

## 18.

Drage madur wt Korda edur Knijf vid annann, edur yferfellur nockurn med Hoggum og Slogum i Koongsinns Nærveru edur Honum æsiææande, þa hefur hann fyrergiort Lijfinu.

## 19.

Ríke edur rijde nockur af Asetníjnge uppa annann Mann, Kvinnu eda Barn, og giore þeim Skada æ Lijfe Heilsu eda Limum, þa skal þad vera sem hann hefde giort þad med egenn Hende, og straffiz æ Lijfinu edur bæte fyrer, epter þvij sem Skadinn er til. Giore hann þad af Flase edur Oadgætne, þa straffiz hañ med Jaarnum.

## VIII. Cap.

# Um Afskoraner og Einvijg.

## I. Art.

Hvor sem ødrum bydur wt til Einvijgs annadhvørt a Heste edur Fæte hvor helst sem hann er, og hvoria helst Orsøk sem hann syniz þartil hafa; og sa sem mæter, nær hann þanninn munnlega edur skriflega verdur manadur, skulu hafa forbroted sitt Embætte asamt med øllu sijnu Gootse Føstu og Lausu, so vel sem Lijfed, epter Sakarinnar Asigkomulage.

## 2.

Þeir sem liaz fyrer Secunda, og mæta a Hoolminum, og ecke hamla Portunum ad beriaz, seu sama Straffe underorpner.

## 3.

Hvør sem lær sig til ad boda ødrum Afskoran annadhvørt munnlega edur med opnum Sedle, gialde þriw hundrud Lood Silfurs, og hafe hann ecke Penijnga wte ad laata, þa straffiz hann med Faangelse i þria Maanude. Se þad luktur Sedell, sem nockur ber, og hann syniar med dyrasta Eide, ad hann vitad hafe hvad hann hafde inne ad hallda, þa se hann siknsaka.

## 4.

Eingenn sem vegenn verdur i Einvijge, hvort helldur þad er Adile edur Adstodarmadur maa jardaz i Kirkiu edur Kirkiugarde.

## 5.

Sa sem manadur er og ecke mæter skal aldeiles vera frij fyrer allre Akiæru og skal þad ecke koma hanns Æru og Virdijngu til Nidrunar i nockurn Maata, sosem þeß er med Hlydne hefur epter Løgunum lifad. Og verde nockur sannur ad þvij ad hafa honum þarfyrer illa tiltalad, þa skal hann þarfyrer straffaz a Ærunne.

## 6.

Sa sem gefur Orsøk til Afskorunar, sosem med þvij ad hefia aan Naudsynia nockra Misklyd, og annadhvørt med Ærukrenkijngar og Illyrduin, edur og med Verknade, sosem Snoppwngum, Barsmijd og þeßhaattar, yferfellur annann og illa medhondlar, skal þarfyrer straffaz med Penijnga Utlaatum, med Faangelse, med Embættes Topun, og ødru enn hardara Straffe, epter Sakarennar Asigkomulage, og þeß Stande og Kiorum sem fyrer Orettinum vard, og þarfyrer utann giøra honum Fullnægiu med Afbeidslu og annare Þooknun epter Doomaranns Tilsøgn.

7.

## 7.

Hvør sem Vitneskiu hefur um soddan Einvijge og Aflog, hvort helldur eru Gestgiafarar i openberum Herbergium edur Kroohwsum, edur og þeir sem til stadar eru i þvijlijkum Samkvæmum, hvar Orsøk verdur gefenn til Einvijga og Slagsmaala, skulu i Tijma gefa þad til kynna þeim sem Løgsøgn hafa a þeim Stødum, ad þarmed verde fyrer Ohamijngiu i Veg komed. Enn dylie þeir þad, þa betale þeir full Manngiolld.

## 8.

Aller Koongsinns Embættesmeñ, sem nockra Løgsøgn hafa añadhvort yfer Veralldlegum edur Strijdsøkum, i Kaupstødunum og a Landsbygdinne a þeim Stødum hvar slijkar Oeinijngar tilfalla, skulu þessu, sem adur er skrifad, alvarlega framhallda under sinna Embætta og Launa Topun, og strax fyrerfrañ af øllum Kroftum hindra, ad þvijlijker Illinda slager nae ad ske, enn laata þañ sem Orett lijdur, na Rette sijnum, strax sem þad er fyrer þeim klagad.

## 9.

Se hinn Sakade af Adle edur jafn Adle ad Frijheitum, þa skal Amtmadurinn, i hvørs Amte Søkin er tilfallenn, strax kalla til tvo næstbwande Menn af Adle edur adallegra Frijheita niootande og an Undandrættar dæma med þeim i Søkinne.

## 10.

Se hiñ Sakade i virkelegre Strijdsþioonustu, skal strax halldaz yfer hønum Standrettur af hinum hærsta Strijds-Officera, sem næst er vid Høndina, hvort helldur er General, Oberst, Oberst-Leutenant, Major, Ritmeistare edur Capteinn.

## 11.

Ef hinn Sakade er annars Stands, og Misgiornijngur hefur sked a Landsbygdinne, þa skal Foovetinn vera skylldugur ad laata strax hallda Þijng, þott ecke se hinn rette Þijngdagur, og skal Sorenskrifarinn Undandrættarlaust dæma i Søkinne. A sama Hatt skal og Byfoovetinn og adrer Doomarar i Kaupstødunum hegda ser, se Misgiornijngurinn i Kaupstad tilfallenn.

## 12.

Vilie hinn Seke stefna Doomnum inn fyrer hærre Rett, þa a hønum þad ecke ad epterlaataz, utan hann setie fullnooga Borgun fyrer sig, edur cavere fyrer sig siælfur.

## 13.

Pro-

Processanna Umkostnad betale hiñ Sakade til þeß sem fyrer Orettinum vard, so hann se Skadlaus.

# IX. Cap.

## Um Hwsfrid, Kirkiufrid, þijngfrid, Vegafrid og Ploogfrid.

### I. Art.

Hvør sem af ææsettu Raade fer ad annars Manns Hwse edur Garde, hvort sem hann hefur ad Eigu edur Leigu, og hvørskonar Hybyle sem er, þar hann hefur sig og sitt Gootz islutt, edur fer hann ad annars Manns Skipe og drepur þar aãadhvort hañ, Konu hanns, Born, Hiw edur Gest, sem þaangad er bodenn edur Gistande, þaa ææ hann ad hææls hoggvaz og Hofudid setiaz ææ Stiaka, sovel sem aller þeir sem med honum eru i Flock og Foruneite, og allar þeirra Bwslooder vera forbrotnar, hææsfar til Erfijngia þeß Vegna, og hææsfar til þeirra Hwsbænda.

### 2.

Enn ef hann skadar þaug ææ aññ Hææt, hoggur af þeim Lime edur særer edur i annann Mææta misþirmer, þaa giallde hann avk annara rettra Boota, þrenn fiorutiju Lood Silfurs.

### 3.

Kome madur med Fride inni annars Manns Hws, og eru þeir sææter og sammææla hvør vid annann, og verda sijdann Osææter og beriaz, þaa er þad ecke Hwsfridur.

### 4.

Þad er ei helldur Hwsfridur, ef Hwsboonde edur Hwsfreya slaa Born sijn, sem hiaa þeim eru, edur Vinnuhiw i annars Mañs Garde.

### 5.

Verde madur yferfallenn af Ovin sijnum, og flye i annars Manns Gard edur Hws til ad forda ser, enn verdur þaangad af honum eltur, og se þar ææ hañ iññbrotiz, þaa gylder þad sem þad skied hefde i hanns egenn Garde edur Hwse.

### 6.

Ef madur hoggur edur stijngur i annars Manns Bord, Vegge,

Dyr

Dyr, Dyra Umbwnijng, Glugga, Glugga Umbwnijng edur añad Bwsgagn edur slær Glugga wt edur inn, þaa bæte hann Skadann, og þarad avk þrenn fioratiju Lood Silfurs.

# 7.

Hvor sem uppser at Koongsinns Hws innann edur utann til, sem u ngyrdt er med Mwr, Grofum edur Bordum, edur sem Port er fyrer, hann misse Lijfed.

# 8.

Hvor sem i Koongsiñs Garde slær upp Kiallaradyr edur adrar Læsijngar, edur yfersellur Kock, Kiallarasvein edur annann sem nockra Umsyslan hefur, hann misse Lijfed.

# 9.

Binde madur nockurn i sijnu egeñ Hwse aan Saka, edur take hañ, Konu hanns, Born, Hiw edur Gest og fære þavg burt med Ofrijke og Orette, þaa betale hann og hvor þeirra sem med voru i þvij Verke, þreñ fiorutiju Lood Silfurs.

# 10.

Sama er og ef madur er med Ofbellde tekenn i annars Manns Hwse, aa Gotu, Vege, Mork, edur Skooge, og moot sijnum Vilia annarstadar burtfluttur.

# 11.

Þo skal eingenn giallda fyrer Ofrijkesfærslu epter Landamerkia Tolu, helldur reiknaz þad fyrer eitt Ofrijkesverk og ecke fleire, nær eirn verdur med Ofrijke fluttur.

# 12.

Werde vart vid ad nockur ligge wte i Skooge edur Leine, þaa er oll Alþyda skylldug til ad leita hanns og taka hann fastann. Gete hañ þaa ecke giort soddann Grein og Skil fyrer ser, ad siaaz kunne, þad hañ hafe hafe ærlegt Erinde, þaa dæmiz hann epter retta Sakarinnar Ransookn fraa Lijfinu, edur til æfenlegs Faangelses og Prældooms, edur aa annann Haatt. Ligge Stigamadur wte aa Skooge edur i Leyne, edur aa almeñijngs Vege, edur briootiz nockur iñi annars Manns Hws edur Hijbyle, og myrder Mann, þaa, ef hann verdur gripinn i Verkinu, hefur hann fyrergiort Lijfinu, og skal leggiaz aa Hiool og Steglur, og hanns Hofudlood vera fallenn til Hwsboondanns og Erfijngi þess Deydda.

# 13.



Enn

Enn komiz hann undann, þa se hañ Ofridh:lgur, og strafsiz sem sagt er ef hann næz.

# 14.

Og skal annars i allann Mæta med Mordsmaal höndla, sem sagt er um Mañdræp i þeim siötta Capitula.

# 15.

Giore Stigamadur nockrum Averka, og verde strax ad ferskum G.ornijnge gripenn, edur verde þad løglega uppa hann bevijsad, þa misse h nn Lijfid. Enn se hann þarfyrer skuldadur, enn ecke gripenn ad ferskum Giornijnge, þa verie hann sig med Eide, og bevijse løglega, ad hann hafe ecke vered i þeim Stad, sem Verkid skede.

# 16.

Hvor sem i Kirkiu, Kirkiugarde, a Þijnge, edur nockrum ødrum Stad, hvar Doomur og Rettargaangur er settur, grijpur til Vopna, hootar edur ognar nockrum Mañe med reidum Huga, edur vopnadre Hende, jafnvel þott hañ giore avngvañ Skada, gialde hvørt Sinn hann ad þvijlijkum Breste v.rdur fundenn, þrenn tiju Lood Silfurs.

# 17.

Enn høggve hann edur stijnge, so ad blæde, og Saar verde af, þa bæte hann fyrer Saarid epter Løgum, og þaradauk þrenn fioretiju Lood Silfurs.

# 18.

Enn slae hann Prestur, og Hnefahøgg edur Stafshøgg, edur annad þvijlijkt, þa bæte hann og þarfyrer epter Løgum, og þarfyrer utann þrenn fimtaan Lood Silfurs fyrer Kirkiufrid edur Þijngfrid.

# 19.

Hvor sem a Þijnge yferfellur, slær, edur med Verknade forgrijpur sig a sijnum Mootparte, nær þeir hvør med ødrum standa fyrer Rette, þa skal hann ecke einasta gialda þarfyrer epter Løgum, og fyrer Þijngfrid, helldur og fyrer þvijlijka Mootþrooanlega Dirfsku og Ofrijke straffaz med Gapastock edur Faangelse, edur toluverdum Penijnga Utlatum, epter Efnum, Stande og Asigkomulage hinns Sakada.

# 20.

Ef Kalls- edur Stefnu-Menn, nær þeir byrta Kall edur Stefnu, verda fyrer Skamarordum, Hootunum edur Yferfalle af hinum stefnda, þa gialdiz þarfyrer sem fyrer Þijngfrid.

## 21.

Ef Prestur er yferfallenn med Høggum og Sløgum i Kirkiu edur Kirkiugarde, nær hann fremur sijna Pioonustugiørd, þaa er þarmed fyrergiort Lijfe og Gootse. Se hann yferfallenn i þeim Stødum fyrer edur epter Embættesgiørd, þaa gialdiz tvøfalldt so miked, sem annars, hefde ein ønnur Persoona vered yferfallenn.

## 22.

Hvor sem særer nockurn aa þeim Dege sem helgur er haldenn, gialde Helgedagsbrot, ad auk hinna rettu boota.

## 23.

Kirkiufridur og Þijngfridur reiknaz fraa þvij madur fer fraa Heimile sijnu rettann Veg til Kirkiu edur Þijngs, og sijdann fraa Kirkiu edur Þijnge rettann Veg til sijns Heimiles; Þo so ad madur kræke ecke af Veginum, edur take sier fyrer ønnur Erinde.

## 24.

Hvor sem yferfellur saklausann Mann, aa Torgvege, Torge, Gøtu edur Stræte, edur Vegfarande Mann, edur Boonda, sem fer med Ploog sinn, og slær, høggur edur stijngur hann, gialde ad auk rettra Boota þrenn fiørutiju Lood Silfurs.

# X. Cap.

# Um Skada af annars Vopnum edur Fenade.

## I. Art.

Liaae nockur ødrum Manne, sem aa i Deilu edur Argafase vid annann, Vopn sijn, Korda, Hnijf, Staf, Kepp edur nockud þvijlijkt, sem Skade verdur medgiordur, edur og verde þad bevijsad, ad saa sem lede, hafe vitad ad hinn vilde giøra þarmed Skada, og giøre saa Skada sem Vopnid i Hendur feck, þaa gialde saa sem lede, haalft so miked sem saa er Skadann giørde.

## 2.

Faae madur Skada af annars Manns Hrosse edur Navte edur ødrum Grip, edur Hunde sem gengur laus, og hafe saa sem Skadann feck ecke vered sialfur Orsøk þartil, þaa skal saa sem Grip edur Hund aatte, betala Grædslulaun. Enn faae hann Lyte þaraf, þaa bæte saa Lytenn, sem Grip edur Hund aatte epter Maalavøxtum. Saa Hundur, sem slijkann Skada hefur giørt og aa Vanda þartil, skal af sialfum Eigandanum tortijnaz. Giøre hann þad ecke, skal hann verda fyr-

fyrer stærre Utlæatum, þa Hundurinn annad Sinn giører Skada.

## 3.

Ef annars Mañs Hestar edur nockur annar Gripur, sem hann maa ad Logum eiga, drepur Mann, þa skal Eigandinn gialda þriw Lood Silfurs, og vinna Eid a ad hann ei vitad hafe ad Gripurinn hafde þann Vana. Eñ verde þad ødru Sinne medann hann hefur þann sama Grip i Sinne Abirgd þa skal hann forlijka þad epter Efnum sijnum vid Erfijngia þess Dauda.

## 4.

Ale madur upp Villudyr, sem eru Ulfar edur Byrner, þa gialde Eigandinn og sa sem þaug i Hefd hefur þañ Skada sem þaug giøra, sosem hann hefde hañ sialfur giørt.

## 5.

Ef nockurs Manns Bestia edur Fenadur bijtur edur stangar til dauds annars Manns Bestiju edur Fenad, þa skal sa sem a þa Bestiju edur Grip sem Skadann giørde, gialda hinum hælft Verd þeirrar Bestiju edur Grips sem drepenn var, so framt þad Drepna var eins gott edur betra enn þad sem drap. Enn hafe þad Drepna vered lakara enn þad sem drap, þa skal þad betalaz ad fullu. Fæe Gripurenn annann Skada, sem hann ecke deyr af, þa skal hann bætaz epter Doomaranns og sex ovidridinna Manna Alite.

## 6.

Ef Hundur rijfur til Dauds añars Manns Fenad, edur elter i Ofæru, þa bæte sa sem Hund a, i fyrsta Sinne hælfann Skadann, eñ ef þad skedur optar, þa gialde hann i hvørt Sinn allann Skadann.

# XI. Cap.

# Um Voda-Verk.

## I. Art.

Deyde madur annann af Voda, an þess hann hefde Asetnijng edur Vilia til ad skada añadhvort hinn Deydda edur nockurn añann med þvij Verke, þa gialde hañ fiorutiju Lood Silfurs til Erfijngia hins Drepna einasta, og se þarmed oakærdur.

## 2.

Sære madur annann af Voda amoote sijnum Asetnijnge og Vilia, þa giallde hann Grædslulaun og Kost hinns Særda, medann hann

er

ur í Grædslu, og se frij fyrer ødrum Bootum.

3.

Ef tveir Menn hoggva tilsamanns i Skooge, og þeß eina Oxe sleppur af Skaptinu æn hanns Vilja, og vinne hann Eid þaræ, þæ er þad Vodaverk sem þaraf hlyts, og bætis eckert fyrer.

4.

Ef nockur skytur edur kastar yfer Hws, Skip, edur Grindur, edur giører nockurt þvijlijkt oþarfa Verk, og annar fær þaraf Skada, Meidsle, Mein edur Bana, æ moote þeß Vilia sem giørde, og vinnur hann Eid þaræ, þæ gialde hann fyrer Dræpid fiorutiju Lood Silfurs til Erfijngia hinns Deydda, og til Hwßboondanns tuttugu Lood Silfurs. Enn fyrer Sær og Lyte hælfu minna, enn ef hann hefde giørt þad viliande.

5.

Ef nockur hoggur, slær edur stijngur til annars med reidum Huga, og ætlar ad skada hañ, enn rammar annann, þæ er þad ei Vodaverk.

6.

Enn ef nockrer fara i Fængbrøgd saman ad glijma, edur togaz æ med Høndunum, edur hafaz nockud vidlijkt ad med beggia vilia og ecke af reidum Huga, þæ æbyrgiz hvør sialfann sig. Fæe nockur Skada i slijku Tilfelle, og sæ eine hefur hinn annann grunsamann, ad hann hafe þad med Vilia giørt, þæ verie hann sig med Eide, ad hann hafe ei giørt þad viliande, og betale eckert utan Grædslulavn og Umkostnad.

7.

Ef nockur leggur fræ ser spenta edur steitta Byssu edur Pistoolu, og fær annar Skada þaraf, þæ gialde sæ sem hana þannig fræ ser lagde hælfu minne Bætur, enn hañ hefde ætt ad gialda, hefde hann af Voda sialfur Skadann giørt.

8.

Take nockur annars Mañs Byssu edur Pistoolu, sem steitt er, og hann veit þad ecke, enn hwn hleypur af fyrer honum, og verdur Skade ad, og sannar hann med Eide ad hañ visse þad ecke, þæ er þad Vode og bætis sem fyrer Vodaverk, hvort helldur er Dræp edur Averke.

9.

Ef Madur drucknar i annars Mañs Brunne edur Grifiu, i Garde edur æ Gøtu, sem ei er epter Løgum, edur i Leirgrøf sem ei er vel med Garde.

de umbwed, og þarfyrer utan fioora Fadma fra Almenniňgs Vege, þa gialde þeir sem Vatnid tilheyrer edur Leirgrøfina giört hafa, samegenlega fiorutiju Lood Silfurs til Erfijngia þeß Drucknada.

## 10.

Enn druckne Madur i Milnudame edur Fiskediþe, edur fellur sialfur ofan af Hwse, edur Hws fellur a hann, þa bætiz eckert þarfyrer.

## 11.

Enn reise madur Hws, nytt edur fornt, þa a þad ad festaz, so aungvum verde þar Skade ad. Giöre þeir þad ecke sem Hwsid reistu adur enn þeir ganga fra þvij, og fellur þad nockrum til Bana, þa gialde þeir fiorutiju Lood Silfurs til Erfijngia hinns Dauda.

## 12.

Ef gamalt og hrørlegt Hws hrynur a Mann honum til Bana, og verde þad bevijsad, ad Eigande Hwssinns hafe adur vered advaradur ad giæta þeß, so ei yrde Skade ad, þa gialde hann Erfijngium hiňs Dauda fiorutiju Lood Silfurs, og þarfyrer utann betale allann þaň Skada sem þaraf orsakaz.

## 13.

Ef Børn sem ei kunna ad gæta sijn sialf druckna edur faraz a aňaň Hatt, fyrer Vangætslu Foreldranna, þa stande Foreldrarner openbera Afiaosn, og gefe nockud til Fatækra efter sijnum Efnum.

## 14.

Ligge Foreldrar sijn egen Born til Dauds af Hyrduleyse, þa stande þeir i sama Mata i fyrsta Sinne openberar Skrifter og gefe nockud til Fatækra; Ef þad skedur ødru Siňe, þa straffiz þeir sem þad hafa giört a sinum Femunum edur Lijfinu, epter Malsins Vexte og Krijngumstædum.

## 15.

Ligge nockur annars Barn til Dauds, straffiz med Spiňhwsinu i fyrsta Sinne. Skedur þad ødru Sinne, þa hafe forbroted Lijfid.

# XII. Cap.

# Um Nauðveriu.

## I. Art.

Þad skal vera serhvørium leifelegt, sem yferfallenn verdur med Slögum, Høggum edur Stijng, ad veria sialfann sig, sitt Lijf edur Goots med hvørre þeirre Veriu sem hann getur. 2.

## 2.

Ef nockur yferfellur aňaň, og sæk-er epter hanns Lijfe, edur lig-gur i Vege og Fyrersaatre fyrer hon-um, til ad giora honum Skada med Aræde, og verde hann sialfur drep-enn, þa falle hann Ohelgur fyrer Verk sijň, og sa sem sig varde se Siknsaka.

## 3.

Enn verde nockur osattur vid annaň, og bidz Fridar, enn verdur þo af hinum yferfallenn, og kemz ecke fra honum, helldur fær Hogg og Averka, þa, ef hann drepur annaň til ad ver-ia Lijf sitt, þa behallde hann sijnum Fride, og gialde fiorutiju Lood Silf-urs til Erfijngia hiňs Drepna. Frem-ie nockur Manndraap af Navdverin, Voda edur ødru olucku Tilfelle moo-te Vilia sijnum, og hann rymer burt, og vill þo Maalid med Doome til Lykta leida, þa maa honum gefaz af þeim sem Koongurinn þartil skickar, Koongs-sinns Fridar- og Leide-Bref med þeim Hætte sem veniulegt er, nær haň læt-ur beida þeß, þo so ad þad se ei oft-ar enn eitt Sinn wtgefed i eirnre og somu Sok, og Manndraaparanum se tilhallded ad setia Koongsinns Foo-veta Ved og Vissu, ad hanns Bw skule ecke raskaz þartil Maalid er til Lykta leidt. Verde Manndraapariň þa dæmdur til Fridar og Boota, og Doomurinn finnz rettur, þa gefiz honum i sama Maata wt Bref uppa Landsvist, sem veniulegt er.

## 4.

Verde Madur særdur i Hoorusæng hia annars Manns Konu, og komz hann burt þadan lifande, og deyr þo af þvij sama Saare, þa se hann Ohelgur fyrer Verk sijn, og Hwßboondin se Sijknsaka. Og faae Hoorkallinn Aflausn af Prestinum a-durenn hann deyr, þa maa haň jard-az i Kyrkiugarde. Enn verde hann drepenn i Hoorusæng, þa skal Hwß-boondin færa Dynu og Reckiuvoder bloodugar, sem hinn var a drepenn, til Þijngs, og skal þa hinn Drepne vera Ohelgur fyrer Verk sijn, og grafaz utan Kirkiugards.

## 5.

Enn se hann drepenn utan Hooru-sængur, jafnvel þo Hoordooms-sokin se openber, þa skal þarmed fa-ra sosem adra Draaps-Sok.

## 6.

Þad er ei Navdveria, ef meň hafa vered i Aflogum, oz eru adskild-er, og sa, sem yferfallenn var ann-adhvort med Illyrdum edur Hootun-um gefur Orsok til þeß ad þeir slaw-gaz a ad nyu, og hann drepur sinn Mootpart.

7.

## 7.

Briootiz nockur inni annars Mañs Hws edur Hibyle um Næturtijma, til ad stela hanns Gootse edur Fenade, og verde hann drepeñ þar vid af hinum, sem veria vill Eigur sijnar, þaa falle hann Ohelgur fyrer Verk sijn.

## 8.

Drepe madur annann af Navdveriu, og rymer þo burt af Otta fyrer Maalsinns Endalykt, þaa skal hann, strax sem hann er kominn i Frelse, innann Maanudar ad lengsta Koste framfylgia Sokiñe sér til Frijunar; Enn giøre hann þad ecke, þaa halldiz hann fyrer Manndraapara.

## 9.

Verde af nockrum dæmdar Draapsbætur, þaa skal þo ecke Koongsinns Amtmadur edur Foovete, lysa Koongsinns Fride yfer hønum aa Pijnge fyrrenn Bæturnar eru goldnar, edur i Rettinum afhendtar til Geimslu, ef eingenn finnz Erfijnge hinns Deydda, sem þær vill edur aa ad uppbera.

## 10.

Ef Naawngar hinns Drepna dyrfaz ad ysa edur laata ysa Osætter vid Manndraaparann edur hanns Naawnga, epter þad hann er dæmdur til Boota, og hefur þær betalad, þaa gialde þeir þreñ fiorutiju Lood Silfurs, og skile aptur Manndraaparanum þeim Bootum sem þeir hofdu vidteked.

# XIII. Cap.

# Um Havrlifnad.

## I. Art.

Hvor sem liggur med nockre Konu, gialde til sijns Hwsboonda tuttugu og fiogur Lood Silfurs, og Konann tvolf Lood Silfurs, og stande bæde openbera Aflavsn. Hafe þavg ecke Efne til ad borga Sektina, þaa straffiz þavg epter sinne Formegan, og aa Kroppnum med Faangelse. Enn ef þavg taka hvort aññad til egta, þaa betale hann i Sekt haalft fimta Lood Silfurs, og hwn haalfu minna, og seu frij fyrer Aflavsninne.

## 2.

Ligge nockur Formyndare med sijnu Umbodsbarne, edur Logveriare med þeirre Eckiu, sem hañ er Logveriare fyrer, þaa aa hañ, ef hann er ogiftur, ad taka hana til egta, ef hwn vill. Vilie hwn þad ecke, þaa hefur hann forbroted til

hen-

hennar sijna hælfa Hosudlood, fyrer utan Bæturnar til Hwßboondanns. Gete hann ecke egtad hana fyrer þvij ad hann er giftur, þaa hefur hann forbroted alla sijna Bwslood til jafnra Skipta mille hennar og Hwßboondanns.

## 3.

Ef nockrar Persoonur verda vegna merkelegra og avdsiænanlegra Krijngumstæda misgrunadar edur rygtadar vid ad framfara i oskickanlegu og skammarlegu Lijferne sijn æ mille, þaa skulu þavg ecke einasta skylldaz til ad hallda ser hvort fraa odru, helldur og, ef þavg eru ogift, ad adskiliaz og ryma burt af Bynum, Sooknunne, og jafnvel Foovetadæminu. Og giore þavg þad ecke, skulu þavg wtstanda Kirkiunnar Aga og straffaz af sijnum Hwßboonda.

## 4.

Ef nockur annadhvort bidur edur lætur sijn vegna bidia eirnrar Dannumanns Dottur, og liggur hiaa henne ædur enn Trwlofun skedur, edur hann hefur vijst Svar fengid, þaa skal hann vafalavst taka hana til Egta, ef hennar Forelldrar og Formyndarar vilia þad samþyckia. Vilie þeir ecke, þaa æ hann ad gefa henne sæmelega Heimanfylgiu epter sinum Efnum.

## 5.

Sama er og ef nockur liggur med nockre annare Mey edur Eckiu, sem ædur hefur orygtud vered. Þræte hann fyrer Brotid, og gete hwn þad ecke uppæ hann bevijsad, þaa verie hann sig med Eide.

## 6.

Ef nockur Kona lyser uppæ Kallmann ad hann hafe hiaa ser leged, og þarmed openberar sijna egen Vanvirdu, og giorer siælfa sig ad Hooru, enn eingenn Verksmerke finnaz þartil, þaa æ hwn þad ad bevijsa, ellegar giallda sijn þriw Mork, sem Lijgare.

## 7.

Lyse og nockur Kallmadur þvij, ad hann hafe holdlegt Samræde haft med orygtadre Kvinnu, Eckiu edur Mey, og gete hann þad ei med Rokum bevijsad, gialde i sama Maata sijn þriw Mork sem Lijgare.

## 8.

Ef nockur verdur fundenn ad þvij ad hafa Blygdunarlavslega Osæmt eina orygtada Mey edur Eckiu epter adra, þriær edur fleire, þaa skal hañ ei einasta gialda sem ædur er skrifad, helldur og straffaz annadhvort æ Lijfinu edur æ annann Haatt med hardasta Straffe, odrum til Vidvorunar og Skelfijngar.

## 9.

Enn se þad rygtud Kvennpersoona, sem hann hefur brotlegur med orded, þaa straffiz hann aa siinum Femunum og aa Kroppnum med Faangelse, og hun i þridia Sinne aa alltrar Vægdar med Kaganum.

## 10.

Laate nockur meirehaattar Manns Eckia edur Dotter med Vanæru hiaa ser liggia, af hvörin helst Stande sem eru, Andlegu edur Veralldlegu, þaa maa hennar Lögveriare, so framt hann og hennar naanustu Frændur vilia ecke naada hana, laata strax taka hana, og setia i Faangelse siina Liifstiid, og allt hennar Goots til siin taka, þess niota og þvij behallda, solenge sem hann helldur henne þannig i Faangelse. Þo samt, þegar hun deyr, skulu hennar Eigur strax falla under hennar naanustu og rettu Erfiingia edur Egtaborn. Og saa sem aa þennann Haatt liggur hiaa einnre meire Manns Eckiu, edur Dottur, skal aalijtaz sem miune Madur, utan hann egte hana med hennar Lögveriara og Frænda Vilia og Samþycke.

## 11.

Hvör sem i Koongsinns Garde krenker nockra Kvinnu edur Mey, og hafe hann svared þar siina holla Þioonustu, þaa skal hann missa siina tvo Fiingur.

## 12.

Se Kvennmañinum trwad til nockra Lykla ad Ole, Mat, Klædum, Peniingum edur ödru sem geimaz aa, þaa straffiz saa sem hiaa henne liggur, sosem op.uber Þioofur, ef hann þienar i sama Garde sem hun.

## 13.

Ef nockrar Persoonur, sem siin aa mille eru skylldar i ödrum edur ödrum og þridia Lid edur retter Þrimenniingar, edur vegna Mægda jafnnaakomnar, verda fundnar ad þvij ad hallda saman i osæmelegum Lifnade og geta Born siin aa mille, þaa skulu þavg laata wte epter fremstu Efnum, og setiaz i tvo, þriw edur fiogur Ar epter þvij sem Broted er stoort til, i Fiskeverin Nordanfialls, og Bergverkin Sunnanfialls til ad erfida. Þo skal adgiætaz, ad þavg sen dæmd so laangt hvört fraa ödru, ad eckert Hneixle kunne þaraf framar ad orsakaz. Og skulu þavg fyrst standa openbera Aflavsn þar sem Brotid er sked, og taka þarum Prestsinns Vitnesburd. Og þegar þavg koma aptur med Yfervalldsiñs og Prestsiñs Vitnesburde fraa þeim Stödum, hvar þavg erfidad hafa, þaa meiga þavg med Frelse vera hvar þeim lijkar; Eñ ef nockur helldur i Hylmiingu þvijlijkar

lijkar wtreknar Persoonur, þa skal hann þarfyrer standa til Retta, og framselia þær, ef þær enn eru hia honum, so Doomurinn verde a þeim framkvæmdur. Verde þaug a þvijslijkan Hatt brotleg i annad Sinn, þa eiga þaug vægdarlaust ad straffaz a Lijfinu.

# 14.

Þær Persoonur sem brotlegar verda med Barneign i forbodnum Lidum a mooti Guds Løgum añadhvört vegna Frændseme edur Mægda, skulu straffaz a Lijfinu, og so framt sem Bloodskom̃ hefur drygd vered bæde med Fødurnum og Syninum, edur bæde med Moodur og Doottur, edur af Fødurnum med Doottur sinne, edur af Syninum med Moodur sinne þa skulu þaradavke Lijkamerner, nær þaug halshoggvenn eru, kastaz a Eld og uppbrennaz.

# 15.

Samræde, sem er a moote Naatturunne, straffiz med Baale og Bruna.

# 16.

Ef nockur navdgar eirnre ærlegre Mey edur Eckiu, og þad verdur bevijsad, þa misse hann Lijfid, edur se Fridlavs, ef hann næz ecke. Enn verde hann frijadur fra Lijflaate, þa take hann hana til Egta, se þad heñar og hennar Formyndara og Frænda Vilie. Enn vilie þeir þad ecke, þa skal hann laata wte vid hana af sijnum Eignum og Penijngum epter beggia þeirra Vina Raade og Samþycke.

# 17.

Verde nockur ad þvij fundenn, ad hann hafe navdgad eirnre epter adra, enn vill avngva þeirra egta, hann skal vægdarlaust straffaz med Lijflaate.

# 18.

Sa sem ætlar ad navdga eirnre Konu, enn verdur hyndradur fyrer þvij ad hennar Hroop og Kall um Hialp heyriz, og siaiz blaatt Hörund og rifin Klæde, hañ skal missa Lijfid, jafnvel þott hann fenge ecke siñ Vilia framkvæmt.

# 19.

Hvør sw Kona, sem seger ser hafe navdgad vered, skal, strax sem hwn er sloppenn, kvarta um þad Ofrijke, sem hana sked hefur, fyrer Naabwum sijnum og Naakonum, og a Kyrkiustefnum og sijdan a Þijnge, og þa er trwlegt ad henne hafe navdgad vered; Enn ef Konann þeger, epter þad ad þad er openberad, og Foolk veit, bæde Naabwar og Naabwakonur, ad sa Madur hafe med hana hast, edur ad hwn se Barnshafande ord-

ordenn, og hwn klagar ecke fyrre þar-yfer, þaa er lijklegt ad henne hafe ecke navdgad vered.

## 20.

Ef Kvennmadur skulldar Mann fyrer Navdgun, og hañ verdur med Doome þarfraa frijkendur, þaa hefur hwn, sem þvij lyste tapad øllum sijnum Rette fyrer Legorded.

## 21.

Se nockre Konu navdgad, þaa skal þad ecke koma henne til Hindrunar edur Ærukrenkijnggr i nockurn Maata.

## 22.

Hvør sem med Þvijngun og Ofrijke flytur burt nockurs Manns Egennkvinnu, edur Dottur, jafnvel þott hann faae ecke sijnum Vilia med henne framkomed, skal missa Lijfed. Ef nockur hleypur burt med annars Manns Konu ad hennar Vilia, þaa eiga þavg bæde ad missa Lijfid.

## 23.

Hvør sem trwlofaz eirnre, og sijdan giftiz annare, aa ad ryma Koongsinns Lønd og Rijke.

## 24.

Hvør sa Egtamadur edur Egtakvinna, sem gefur sig i Hiwonaband med annare Persoonu, skal missa Hofudid.

## 25.

Hvør sa Egtamadur, sem aa Konu aa Lijfe, edur hvør sw Egtakviña, sem aa Mann sinn aa Lijfe, og verdur fundenn ad openberum Hoordoome, so þad verdur bevijsad, skulu i fyrsta Sinne sem þavg brotleg verda med þeim Hætte, straffaz aa sijnum Eignum og Penijngum epter fremstu Formegan. Ef þad skedur ødru Sinne, þaa skulu þavg i sama Maata straffaz med Fiaarwtlaatum, og gioraz wtlæg af Landinu. Falle þavg i þridia Siñe, so þad verde bevijsanlegt, þaa skal sa Egtamadur, sem þannig misbrytur, missa Hofudid, og sw Egtakvinna, sem so verdur brotleg, dreckiaz. Og nær Hoordoomur verdur þannig uppaa nockurn bevijsadur fyrer tilbærelegum Doomara, þaa skal Doomariñ gefa þad til Vitundar Amtmanninum, edur Hwsboondanum edur ødrum, sem þad aa ad straffa.

## 26.

Verde nockur Egtamadur ad þvij fundenn, ad hafa openberlega obliwga Umgengne vid annars Mañs Konu, og þavg vilia ecke ad giordre Advørun hallda sier hvort fraa ødru, helldur framfara i sijnum skammarlega

og

og hneixlesfulla Lifnade, þaa skal hañ missa Høfudid, og hwn laataz i Seck og dreckiaz.

## 27.

So framt sem nockur oskickanlega stendúr openbera Aflávsn vegna logennar Medkennijngar, og Kona lyser eirn Fodur ad Barne; edur og Kallmadur gengz under Barnsfaderne, enn sijdann verdur funded ad eirn annar se rettur Fader ad þvij Barne, þaa, so framt nockur þannig falsklega tekur Aflavsn, innann hraalfs Missceris, og sijdann medkenner Sannleikann, skal honum ad þvij leite vægiaz, ad hann stande openbera Aflavsn fyrer Hneixlid. Enn ef þad skedur ecke, helldur verdur løglega bevijsad ad hañ hafe falsklega Aflavsn teked, edur Lysijngunne loged, skal hann vægdarlavst straffaz med Kaganum, og vijsaz burt af Landinu. Sw Persoona, sem þvijlijkañ eirn, hefur tælt til hiñar fyrre lognu Medkenningar, aa ad aalijtaz fyrer Ligara og minne Mann, og hafa forbroted sijna Bwslood til Hwsboondans.

## 28.

Enn hafe hann avnga Bwslood, þaa dæmiz hann i Iaarn.

## 29.

Se þad Kveñmañs Persoona, sem lygur uppaa sig ad hwn se Barnsmooder, og þaruppaa stendur openberar Skrifter, þaa skal hwn dæmaz i Spinnhwsid.

## 30.

Oskickanlegt Kvennfoolk, sem gefur sig i framande Plaatz, þar þad er okunnugt, þegar lijdur ad þeß Barnsfædijngar Tijma, meiga þeir sem þad hysa, ecke fraa ser laata epter Barnburdinn, fyrr enn þeir hafa þad Stadarinns Yfervallde til Vitundar gefed, uppaa þad grandgæfelega ransakad verde, hvad ad Mønnum slijkar oterlegar Konur seu, hvor ad se Barnsfader þeirra, samt adrar þvijlijkar Krijngumstædur, sem til Maalsinns Þeckijngar og Upplysijngar wtheimtaz, so framt þeir vilia ecke þarfyrer aa Eignum sijnum i fremsta Maata straffaz. Finniz þad, ad Sooknarpresturinn hafe þad ecke til kynna gefed Yfervalldinu og Herads-Proofastinum, strax þegar Barnid er af honum christnad, þaa misse hañ aan allrar Vægdar sitt Kall.

## 31.

Hver saa Kallmadur, sem lætur finna sig i Hooruhwse til ad fremia Savrlifnad, og hittiz þar, straffiz i fyrsta Sinn med Faangelse i aatta Daga, i ødru Sinne tvøfalldt lengur. Þad Kvennfoolk sem ser uppehelldur i þvijlijkum Hwsum til Savrlifnadar, straffiz med Kaganum, edur setiz i Spiñhwsid.

# XIV. Cap.
# Um Ofrijke og Herverk.

## I. Art.

Hvor sem giorer Ofrijke og Herverk, skal betala Skadann og gialda þarfyrer utan þreñ fiorutiju Lood Silfurs.

## 2.

Gange madur af asettu Raade i añars Mañs Gard edur Hws, og brytur Hws, og tekur þar wt añadhvort Fe edur Klæde edur Vopn, edur adra Koste sem Boondiñ a, fra Boondanum sialfum edur hañs Hiwum, sem hann helldur, þa er þad Hervirke.

## 3.

Enn seu þar wttekner Hestar þeß Gests sem hia Boondanum er til Herbergis, edur adrer Koster, sem Gesturinn a, þa er þar med giort Hervirke Boondanum, enn Raan Gestinum.

## 4.

Brioote nockur upp aan Þijngdoms þad Hws, sem annar Madur a, hvort helldur þad er bygt a hañs egenn edur annars Eiganda Jord, þa er þad Herverk a moote þeim sem Hwsid a.

## 5.

Sama er og um allar þær Byggijngar edur Byrge, sem eirn hefur giort handa Fenade sijnum. It. Gerde og þeßhattar.

## 6.

Vilie eirn ecke flytia sig burt wr Leigu Hwse i rettum Fardogum nær honum er loglega wtbygt, edur hefur sitt Adsetur i þvij Hwse, sem hann hefur avngvann Rett til, edur er eitt Sinn fradæmdur, moote Eigandanns Vilia, þa gialde hann Ofrijkesbætur, og Eigandinn hafe Valld til an frekare Dooms ad giora Hwsid lidugt fyrer Rettarinns Þienara Adgiorder.

## 7.

Hoggve madur edur upprijse nockra Almeñijngsbrw edur Þijngstock, þa er þad Herverk.

## 8.

Hvor sem hoggur upp añars Mañs loglega lagda Tymburfeste edur Landfeste, Tymburflota, Bord edur Bialka, Flota edur þeßhattar med Vilia og Asetnijnge ad giora Skada þarmed, bæte aptur Skadañ og gialde epter Doome og Urskurde, sosem

fyrer

fyrer Ofrijke. Gete hann ecke golded og bætt, þaa dæmiz hann til Erfides aa Bremerhoolme edur annarstadar, langa edur skamma Stund epter Maalsinus Asigkomulage.

## 9.

Spille madur aññars Mañs Plooge, Akur=Korrum, Kefle edur høggve sundur Tavger, Tavma, Vagnstengur edur þeßhattar fyrer Boondanum, nær hann er ad sijnu Erfijde, þaa gialde hann sem fyrer Herverk.

## 10.

Rijde madur uppaa annars Mañs Korn med Ofrijke, edur fer i annars Akur med Hiörd, edur med Stood, edur med Svijnaflock og lætur Fenad rijsa upp Korn hañs med Ofryke, þad er Herverk. Sama er og ef madur lætur Fenad fordiarfa aññars Manns Enge med Ofbelde.

## 11.

Enn kome Fenadur i aññars Mañs Akur eda Enge af Voda, vegna Hyrdersins Vangætslu edur Forsoomunar, þaa væte sa Skadann sem Fed aa, og vinne Eid aa, ad þad vard ad hanns Ovilia og hønum ovitande ad Fed kom þari.

## 12.

Færra enn toolf Navt eru ei Hiörd. Toolf Hestar edur Hryssur, Stood. Toolf Svijn, Svijna=Hiörd (Vraad.)

## 13.

Eidiz annars Manns Koorn edur Enge af færre Penijnge enn Hiördu, Stoode, edur toolf Svijnum, þaa er þad ei Herverk; Enn Skadinn skal betalaz epter goodra Manna Alite, og gialdiz þaradauk haalfu minna enn fyrer Herverk.

## 14.

Enn vinne hann Eid ad þad sked hafe aan hanns Vilia edur Vitundar, þaa betale hann ad eins Skadann.

## 15.

Hvør sem aa Hlut i Haga, og tioodrar Fe sitt i aññars Manns Akre edur Enge, aa ad betala Skadann og þaradauke haalfu minna enn fyrer Herverk.

## 16.

Enn fare madur yfer Land rijdande edur akande, edur rekur Penijng undan ser til Bys edur annarstadar, þaa maa hann liggia i Uthaga og beita, hvørt helldur er aa Noott edur Dege. Þar sem bued er ad yrkia maa hann og beita.

## 17.

Reke madur Fe igegnum úmgirdt-ann Akur, þaa maa hañ ei beita þvij þar. Enn giøre Fed Skada, þaa þad er reked yfer Akuriñ ad þeß Ovilia sem rekur, þaa skal saa sem Fed rak, betala Skadann, og gialda ecke framar fyrer. Enn ef Skadinn verdur af Asetnijnge, þaa se betalad ad auk Skadañs haalfu minna enn fyrer Herverk.

## 18.

Siwke madur upp Grind edur Hlide, og fer Fe þarigegnum i Akur edur Enge, þaa betale hañ Skadann sem þaraf verdur, og svare þeim Landnaame, sem Hey edur Korn aatte. Enn høggve madur Hlid nidur, edur velte Steinum þar fraa, sem hiaa liggia, so Hlidid stendur oped, og fer Fe inn, þaa er þad Herverk.

## 19.

Take madur annars Manns Fe i Korne sijnu edur Enge, og kemur saa til, sem Fe aa, añadhvort þar sem yrkt er edur aa fornum Vege, þaa maa hann ei taka þad fraa þeim sem þad took i Korne sijnu edur Enge, aan hanns Vilia. Enn take hann þad fraa hønum, þaa maa hañ verda þarfyrer Raansmadur. Enn kome þad heim ad Hwse þeß sem þad took i Korne sijnu edur Enge, og tekur Egande þad þar wt, þaa er þad Herverk, og skal ei ødrum tiltala enn þeim sem þad wttook.

# XV. Cap.

# Um Raan.

## I. Art.

Hvør sem fremur Raan, betale Igiald og Tvijgiald, þad er fyrst so miked sem Raanid er, og þarnæst twøfalt so mikid, og þar fyrer utan betale sijn þriw Mørk.

## 2.

Take madur fraa ødrum Hatt, Kaapu, Handska edur nockud annad sem hann i Høndum hefur edur aa ser, þaa bæte hann Handraan.

## 3.

Gaange madur i annars Manns Gard, og tekur þadan burt nockud af hanns Fe, edur Klædum edur Vopnum, edur nockra adra Koste, þaa bæte hann fyrer Bwraan.

## 4.

Take

Take madur annars Manns Skip, stoort edur lijtid, edur fare i annars Manns Land wte i haga og tekur badan burt Fe, edur Hey, edur Korn, eda Tymbur edur adra Hlute, þa bæte han fyrer Raan.

5.

Take madur Faalka edur Havk bundenn i Hreidre, og leiner þvi, ad giordu þara løglegu Forbode, þa verdur hann Raansmadur þarfyrer.

6.

Slaae madur annars Mañs Enge upp Enda a millum (mille Eggiar og Enda) edur sker hanns Korn upp a Akre mille Eggiar og Enda, og tekur þad upp, þa bæte hann fyrer Akurraan.

7.

Eu fleire med ad færa burt Hey edur Korn, og verdur þad aalited fyrer Raan, þa er ecke noog, ad einn þeirra vill nockru apturskila, og seger ad hann hafe ei meira burtfært, helldur stuln þeir aller sækiaz fyrer Raan, þartil ollu er apturskilad sem burt var flutt.

8.

Enn sege sa sem Engid sloog edur Kornid uppskar, ad hañ hugde þad vera sitt eged, og vinnur Eid þar a, þa betale hann Heyid edur Kornid, og bæte avngvu.

9.

Enn se honum giort þara løglegt Forbod ad undangengnu til hañs løglegu Fyrerkalle, adur enn, edur medan hann slær Engid edur sker Kornid, þa verdur hann Raansmadur, ef þad verdur honum frádæmt.

10.

Hyrde madur annars Mañs Korn, sem hann plægde og saade, óuppaatalad og oakært, og hafe þad ei vered af honum fyrer Midsumar med Þijngdoome sookt og unned, jafnvel þoott hann ætte siálfur Akurinn, sem hann hyrdte af, þa er þad Akurraan.

11.

Hvij verde þad ecke unned fyrer Midsumar med Doome, þa uppskere sa sem plægde og saade, og gialde þeim sem Jord atte fulla Skulld af Akrinum. Enn se þad med Doome unned fyrer Midsumar, og Jordin verdur þeim fradæmd sem plægde og saade, og uppsker hann Saadid, þa er hann Raansmadur.

12.

Hvor sem plæger og saaer fyrer utan Akerur, og sa þeger sem Jord a,

aa, hann skal løglega bevijsa, ad hañ hafde þann Akur med Løgum og Vilia. Gete hann þad ei løglega bevijsad, þaa hefur hann fyrergiort Sædinu og Erfidinu. Enn sege hann og sverie, ad hann saade þann Akur af Voda og Ofyrersyniu, og hann hugde hann sinn vera, þaa aa hann ad faa so miked Korn aptur i Frægiald sem hann saade, enn hafa tapad Erfide sijnu.

# 13.

Plæge madur af annars Manns Akre yfer Rein, epter þad giörd eru løgleg Skipte, þaa er þad Raan; Enn seu ei giörd løgleg Skipte, þaa verdur hann ei þarfyrer Raansmadur; Skal ei helldur þarfyrer bæta, ef hañ vinnur Eid aa, ad hann hafe ei framar plægt, enn hann sann fyrer ser ad hafa aadur plægt vered. Giete hann ei þaraa Eid unned, þaa betale hann jafnmiked og sw Jord kann af ser ad gefa epter goodra Manna Alite, sem hann plægde framyfer þad honum med Rettu tilheyrde, og gialde Hwsboondanum þriw Lood Silfurs.

# 14.

Plæge madur upp aptur annars Manns Sæde, þaa skal hann betala sijn þriw Mörk, jafnvel þo hann ege sialfur Jordina.

# 15.

Flytie nockur burt af Mörk edur Skooge nockurn Agooda, Korn, Hey, Tymbur, Vid, edur þesskonar, þaa þaraa er giört loglegt Forbod af Koongsinns Fooveta, aadur enn Doomur er gengenn, edur hann hefur fengid Leife sijns Mootparts þartil, þaa verdur hann þarfyrer Raansmadur.

# 16.

Fare nockur i añars Mañs Skoog, og hoggur þar nockud sem hann aa ecke sialfur Hlut i, og byr til Klyfjar edur bindur til ad fara burt med, og saa rette Eigande kemur ad honum vid Stofnana edur aadur hann er komenn aa Almennijngs Veg, og tekur þad af honum, þaa verdur hañ ei þarfyrer Raansmadur. Enn kome hann aa Almennijngs Veg, og sege, hiaa hvorium hann hafe þad fengid, med rettum Skilum, þaa maa ecke hyndra hann, helldur fara heim med honum og laata Alijta þad hañ flutte med Vitnum. Og gete hann ei vijsad retta Heimild þarfyrer, þaa tiltalaz honum fyrer Raan edur Þioofnad.

# 17.

Sama er og ef nockur aa þennann Haatt hittiz med Korn edur Hey.

# 18.

Bygge

Bygge madur a annars Manns Jordu annadhvort Hialm edur nockur onnur Hws, edur Svijnastiju, edur Gerde, edur nockud þvijlijkt, og verdur þarfyrer sooktur fyrer Rette, og reter hann fyrer sig a fyrsta Þijnge, og flytur burt þad hañ bygt edur þar uppsett hafde, og vinnur Eid a, ad hann meinte þad være sijn Jord, þa se hann angurlaus. Enn take hann ei burt þad hañ bygt edur uppsett hefur innann fyrersettrar Tijdar edur fyrer annad Þijng, helldur þoler Doom, þa gialde hañ sijn þriw Mork.

## 19.

Enn setie nockur Hws sitt a þa Jord, sem er i annars Manns Hefd, jafnvel þo hun se hanns egeñ, og hafe hann ecke unned hana ad Logum, og fae hann sijdan Jordiña til sijn med Logum, þa gialde hañ þeim sem Jord i Hefd hafde þriw Mork, fyrer þad hann rænte hann Hefd siñe, enn til Hwßboondanns gialde hann eckert.

## 20.

Vinne madur annann a fornum Vege, og giorer honum Oskunda, annadhvort ad hann tekur hanns Hesta, edur Eik fra honum, edur hindrar hann, so hann keñz ei burt med Flutnijng sinn, helldur hlytur hann þarepter ad skilia, þa er sa Raansmadur sem Verkid giorde, hvort helldur hann færer Farangurinn burt, edur lætur hann þar epter liggia.

## 21.

Enn kenniz hann sialfur vid Flutnijnz sinn, og tekur hann aptur i sijna Hefd, sem fyrr, þa ma hañ ei sækia hinn annann um Raan fyrer þad sem hann sialfur hefur aptur teked.

## 22.

Enn ef nockur færer heim til sijn Hest edur adra Hlut, sem hañ rænt hefur, og sa sem þvij ræntur var, fer epter honum, og þeck.r sitt i Garde hanns med goodra Manna Vitne, jafnvel þo sa sem rænte late þad af Hende, og Eigandinn finnur þad med Vitne goodra Manna, sem vissu, ad hann var ræntur, þa ma hann þad Verk sem Raan atelia.

## 23.

Sa er ei Raansmadur, sem meinar edur hamlar odrum ad aka edur rijda yfer Akur sinn og Enge, hvar ei a Vegur ad vera, þott hiñ annar skilie nockud epter af þvij sem hann medferdes hefur.

# XVI. Cap.
# Um Reifaraskap.

## I. Art.

Hvor sem liggur i Leine og ræ-ner Vegfarande Mann, og fer med þad i Filsne, og dy-lur Verkid, hann er Stigamadur. Verde hann tekenn ad ferskum Giör-nijnge, edur hittiz sijdan, og þad ver-dur med Rokum uppa hann bevijsad, hafe forbroted Lijf sitt til Hiools og Stegla og sijna Høfudlood til Hwß-boondanns, þa sa hefur fengid Rett sinn sem fyrer Orette vard.

## 2.

Sa sem ræner Skipbrotsmann straffiz sem Stigamadur.

## 3.

Sa sem ræner af drepnum Manne Klædum, Vopnum, Silfre, Gulle edur Penijngum, sem hann a ser hafde, bæte fyrer Valraan þrenn fiorutiju Lood Silfurs, og þaradauk gialde aptur twofalldt meira enn rænt var.

## 4.

Hvor sem i Kirkiu brytur upp Ork, Kistu edur Skaap, sem i eru annadhvort Fatækra- edur Kir-kiu-Penijngar, edur Kirkiunnar Ker edur Ornamenta (Pryde) og tekur burt nockud þaraf, straffiz sem Stig-amadur med Steglum og Hioolum. Enn ræne hann nockru wr Kirkiuñe, sem ei er under Laas og Loku, sosem Altaresklædum, Lioosastikum, Hiaal-mum edur þeßkonar, straffiz hann med Gaalganum. Se þad minna, sosem Lioosapijpa, Stoolalaasar, Hiör-ur edur þeßhattar, straffiz hañ med Kaganum og Erfide i Jarnum sijna Lijfstijd.

# XVII. Cap.

# Um Þioofnad.

## I. Art.

Take madur Þioof med Þyfe i Hende, sem hann hefur ei Heimild fyrer, hvar hann feck, edur og hann skytur til Heimild-ar, enn brestur Heimild, þa ma binda hañ.

## 2.

Skioote hann til Heimildar, þa ma hann ei skioota lengra enn til þridia Manns. Gange Heimild-armadur vid Hlutunum, þa svare hann þartil, og sa sem þa feck hia honum, hafe tapad Verdiñu, og bæte ei, utan uppa hann verde bevij-sad ad hann hafe vered Þioofs Med-vitare.

## 3.

So

Ho marger sem finnaz med i Þioofnade og gripner verda, skulu aller mæta Tiltále og straffaz sem Þioofar.

4.

Take madur Þioof med Þyfe i Hondum, þaa bindiz þad aa Bak honum og se hann forvaradur edur færdur Hwßboondanum edur Koongsinns Fooveta aa Landinu, og i Kavpstodunum Byfoovetanum, og skal hann med Þyfinu færaz til fyrsta Þijnzs, og þar dæmt verda, hvoriu hann med soddan Stulde og Misgiørnijnge skule fyrergiort hafa.

5.

Kavpe madur aa Torge stolna Gripe, og kemur Eigande og kannaz vid þaa, þaa aa saa sem keypte, løglega med Vitnum ad bevijsa, ad hann keypte þaa aa Torge, og sanna med Eide, ad hann hvorke se Þioofur ne Þioofs Medvitare, og hañ vite ei hvor hanns Kavpanavtur var, og hafe þo tapad Verde sijnu. Gete hañ spurt upp Kavpanavt sinn, þaa take hann hiaa honum Bætur Skada sijns.

6.

Ber madur kannaz vid nockurt Fe i annars Hefd, þaa aa saa sem þad hefur i Vorslum, og seger þad se hiaa ser heima alid, ad sañа þad med Vitne Naabwa sinna, og Eide sijnum, ad þad se hanns uppalid Fe.

7.

Enn sege hann ad hann hafe keypt þad, þaa aa hann ad koma med Kavpanavt sinn, sem honum kunne þad ad heimila.

8.

Gete hann ei komed med Heimildarmann sinn, og saa seger sem vid Fe kañaz, ad þad se sitt heima alid Fe, þaa aa saa sem vid Fe kannaz ad færa til Fiaarmark sitt, og bevijsa med Naabwum sijnum, ad þad se hiaa ser heima alid, og vinne Eid aa, ad þad se ad Ovilia sijnum burtkomed.

9.

Enn sege hann ad hann hafe keypt þad, þaa aa hann þad løglega ad bevijsa, og sveria þarmed ad þad se moote sijnum Vilia fraa ser komed.

10.

Kanniz madur vid adra Hlute i añars Mañs Hefd, þaa aa saa sem vid Koste kannaz, ad bevijsa med Løggilldum Vitnum, ad þad seu hañs Griper, og sanna med Eide, ad þeir seu ser ad Ovilia horfner.

11.

 Em

Sa sem so varid Maal gengur a, verdur Þioofur, hvort helldur er sa sem vid Fe edur Koste kannaz, edur hinn, sem þad i Hefd hefur.

# 12.

Finne madur Fe sitt hia ødrum edur adra Hlute, sem fra hønum hefur stoled vered, og tekur hañ þad burt leinelega, edur ad Ovilia þeß sem þa i Hefd hefur, an Dooms, þa verdur hann sialfur Þioofur þarfyrer.

# 13.

Take Þioofur annars Manns Fe, edur adra Hlute, annadhvort i Hwse edur wte a Morkinne, og Eigande saknar þeirra strax, og elter Þioofinn, hvar sem hann nær hønum med Þyfid, þa maa hann taka hann fastann. Enn lijde tveir Dagar a mille eda meir, og hitter hann Þioofinn med Foolanum, og Þioofurenn skytur til Heimildar, annadhvort i þeim By edur Bygd sem hann fra kom, edur fer til, þa skal Eigande fylgia hønum i þann By eda Bygd, sem hann vijsar til Heimildar i. Skorte hann Heimild, þa take Eigande Þioofinn, og hafe hann i Halde.

# 14.

Se nockurs Eignum burtstoled, og rekur hann Spor þadan, þa skal hann ganga til Granna sinna, og klaga þad fyrer þeim, og kvedia þa til Leitar, og rekia Forenn ad Garde þeß Manns sem þavg liggia til. Þeir skulu sitia fyrer utan Gard, og senda Mann til Bæar, ad segia Erinde sitt, og beidaz Ransooknar. Vilie hann leifa Leitina, þa skal hann ganga epter Grønnum sijnum, og þeir adrer, sem Leitar beidaz, skulu ganga til Bæar i Skyrtum einum obundnum. Se þa ransakad og finnz ecke Þyfe hia hønum, þa verie hann sig med Eide, ef þeir gefa hønum Sok. Kunne hann ei edur vilie med Eide finia, þa bæte hann sijn þriw Mork.

# 15.

Finniz þar Þyfe, og sa seger, sem Þyfe finnz hia, af hvorium hann hafe þa Hlute fengid, þa verdur hann ecke Þioofur þarfyrer, gete hann framvijsad Heimild sijna. Enn sege hann, ad Vegfarande Madur, sem hann þeckte ecke, legde þa Gripe i Hws hanns, edur bad hann geima, þa a hann ad kalla Heimilesfoolk sitt edur adra til Vitnes þarum, og þarmed vinna Eid ad hann ei se Þioofur edur Þioofs Medvitare, og aldrei lagde hann Hilmijngu a þa Gripe. Þo skal sa sem Griperner finnaz hia standa fyrer þeirra Abyrgd og Borgun til næsta Þijngdags, og þa færa þa a Þijng. Og skulu gooder Logrettumenn tilnefnaz ad sia, ad hann afhender fra ser Gripina, og hinn tekur

tekur vid, sem seger þa sijna ad vera, og maa hann ei sijdar fyrer Sok hafaz, sem Griperner hiaa funduz. Enn kome saa sijdar sem Gripina færde til Géimslu, og krefur þeirra aftur, þa skal saa sem vid Gripum took, i þeirra sonnu Logrettumanna Vidurvist, afhenda þa i Hwsid aptur, hvar þeir aadur funduz, og sijdan kunna þeir tveir ad framfylgia Sok sinne, sem rett er.

# 16.

Finniz þeir Hluter, sem eirn hefur epterlyst, under Boondans Læsijngu, þa maa hann ei skioota til annars Manns, þar hann leinde þvij aadur, og þa er hann siaalfur Þioofur ad þeim Hlutum.

# 17.

Finniz Griperner under Hwsfreyu, Barna, edur Þioonustufoolks serdeiles Læsijngu, edur verde beviisad ad þavg hafe þa foolgid og dulid þioofslega, þa verda þavg Þioofar.

# 18.

Finniz þeir Hluter, sem eirn leitar epter, i Boondanns Hlødu, edur annarstadar i Hwsinu, sem eingenn Laas er fyrer, þa aa Boondinn ad giora sinn Eid, ad hann ei se Þioofur, edur Þioofs Medvitare, og ei vite hann, hvornig þeir Hluter seu i hanns Hws komner, helldur hlioote þeir ad vera af vondum Monnum þangad færder, og aa hann þa ad vera aangurlaus.

# 19.

Se Boonde ei heima, þa ransokud eru Hws hanns, og finnaz þar hiner stolnu Griper, þa maa ei binda Hwsfreyu, edur bundna burtfæra, helldur skulu Naabwar ganga i Borgun fyrer Fiaarhlutina, þar til Boonde kemur heim, ad þeir ei burtfæriz. Enn þa Boonde kemur heim, skal medfara sem aadur er sagt.

# 20.

Fare madur i annars Mannz Akur aa Næturtijma, og sker upp Korn hanns, edur tekur burt hanns uppskored Korn, þa er hann Þioofur ad þvij.

# 21.

Take vegfarande Madur edur annar nockurt Korn edur Hey burt af Akre edur Enge, þa maa sáa sem Akur aa edur Enge, sækia hann er took, fyrer Raan edur Þioofnad, hvort hann vill helldur.

# 22.

Take nockur annars Manns Sogunartymbur, sem hanns Merke stendur aa, fraa hanns Sogunarvelltu, edur þeim Stad, hvar hann hefur

ur Tymbur sitt i Geimslu, og lætur med Vilia og Vitund færa þad a sijna Sagveltu, edur þar nærre, so hann getur ei svared fyrer ad þad hafe sked ad hanns Vilia, þa verdur hann þarfyrer Þioofur. Hafe þad giørt vered af hanns Sogunarmoñum, edur med þeirra Vitund, þa stande þeir sialfer fyrer Søkinne.

## 23.

Brioote madur upp añars Mañs Eplagard edur Kaalgard, edur annad sem umgirdt er, og stelur Avoxtum edur Kaale, edur ødru, þa verdur hann Þioofur þarfyrer, sosem hann hefde stoled ødrum Hlutum i hanns Hwse.

## 24.

Enn misse madur Klæde sijn i annars Manns Epla- edur Kaalgarde, sem hann hefur oløglega inni fared, þa ma hann ei sækia þarepter med Rane.

## 25.

Flaae madur annars Manns Tre, sem standa i Skooge, og verdur tekenn þar vid, þa sækiz hañ sem Þioofur, ad so miklu leite sem hañ hefur Skada giort. Verde hañ ei tekenn vid Tred, þa se epter honum latad sem Þioof.

## 26.

Sama er og ef einhvors Tymbur er burtteked, annadhvort i Skooge edur a Morkinne.

## 27.

Hvor sem hoggur i añars Mañs Skooge, og hittiz annadhvort vid Stofninn, edur a Veginum, edur heima med þad sem han hoggved hefur, þa er hann Þioofur. Þo ef reisande Mann vantar til Skips Navdsynia edur Sleda, og Þorf þrenger honum þartil, med þvij hann fær þad ei til Kavps, edur og ef Gongumadur liggur wte um Nott i Skooge, og vantar Eldevid þa Nott, þa ma þeim leifaz ad hoggva so miked, sem þeir med þurfa, og betale þeir Skadañ an Landnaams, ef uppa er kært. Til Skips ma eingenn meire Vid hoggva, enn hann brwkar þann Dag, utann Navdsyn reke epter i annann Maata, sem sagt er.

## 28.

Finniz nockur i Skooge ad hafa teked Klifiar annadhvort af nidurblaasnum Greinum, edur feller þad sem honum ei er tilvijsad, þa hefur hañ fyrergiort þvij sem hañ hefur medferdes, og gialde þaradavk sijn þriw Mork.

29.

Hoggve madur i Felags edur oskiptum Skooge, meira enn hanns Partur kann ad þola, þaa svare hañ þeim sem þar eiga Hlut i, bæde Skadabootum og Landnaame, sem saa aa ad svara er hoggur i þeim Skooge, sem hann aa avngvann Hlut i.

30.

Hvar hellst sem Skoogfinnar hittaz, sem hallda sig annadhvort aa almenijngs edur odrum Skoogum til ad hoggva þaa, edur giora Skada Underssaatanna Veidum og Fiskerie, og ad setia sig nidur i Bygd, og gialda Skatt og Skylldur, sem adrer Underssaatar, þaa skulu þeir grijpaz, og hafa forbroted Lijfid, og allt hvad þeir medferdes hafa.

31.

Vikar- og Beike-Nytum maa eingenn samanjafna i añars Manns Skooge under þriggia Looda Silfurs Bætur, i hvört Sinn sem han hittiz þarmed.

32.

Enn Nytur maa hann plocka so margar sem hann þar eyder, og ei framar.

33.

Verde nockur fundenn ad Smaaþioofnade, sem ei er fyrre þar ad fundenn, þaa aa hann ad missa sijna Hwd i Faangelse.

34.

Enn finniz hann annad Sinn i Smaaþioofnade, þaa misse hañ Hwdina vid Kaga og Breunemerkiz aa Bakinu.

35.

Finniz hann þarmed i þridia Sinne, þaa strafsiz hann vid Kagann og brenniz aa Ennid.

36.

Stele hann fiorda Sinn, þaa aa hann ad Kagstrykiaz og brennaz med Þioofsmarke, og sendaz til Bremerhoolms edur annarstadar til ad gaanga i Jaarnum og erfide sijna Lijfstijd.

37.

Finniz nockur med Stoorþioofnade, sosem ad stela Heste, Hryssu, Navte, Kw edur odru, sem kañ ad kosta tuttugu Lood Silfurs, og se hann ei adur þar ad fundenn, þaa aa hann ad Kagstrykiaz, og hafa Þioofsmerke aa Ennid.

38.

Finniz hann odru Sinne ad Stoorþioofnade, þaa aa hann aptur ad strykiaz vid Kagann, og breñaz med

Þioofsmerke, og sendaz til Bremerholms edur annarstadar ad gannga i Jaarnum sijna Lijfstijd.

39.

Briootiz nockur wr Jaarnum edur Faangelse, og verdur sijdan fundenn ad Þioofnade, þaa a hann ad straffaz med Gaalganum.

40.

Saa sem Þioofsdoomur yfergengur, skal betala þeim sem hann stal fraa Igialld og Tvijgialld, þad er fyrst so miked sem hann stal, og þarnæst twofalldt, og hafa forbroted sijna Hofudlood til sijns Hwßboonda, og straffaz þaradauk sem aadur er sagt.

41.

Rijde madur annars Maññs Heste aan Eigandanns Vilia haalfañ Fioorðwng Vegar edur lengra, þaa gialde hann þarfyrer þriw Lood Silfurs, og giøre Hestinn jafngoodañ og hann var þaa hann took hañ. Skoriz hann undann þad ad giora og laate sækia sig med Rette, þaa hefur hann forbroted sijn þriw Mørk.

42.

Mioolke madur annars Manns Kw, Fe, edur Geitur, straffiz sem fyrer Smaaþioofnad.

43.

Stele Barn sem er yngra eñ fioortaan Vetra, nockru, þaa skal þad gialdaz aptur, og avngvar Bætur þarfyrer betalaz, enn Barnid skal strykiaz med Vende.

# XVIII. Cap.

# Um Fals.

## I. Art.

Hvør sem upptekur, flytur edur setur Landamerkiastein, edur Þoll aan løglegrar Medferdar, edur smeltter svikid Gull edur Silfur, edur høndlar med Penijnga sem hann veit svikna ad vera, edur med falskt Silfur eda Gull, hann fremur Svik, og a Koongur Hønd hanns, og saa sem feck hiaa hønum falsada Vøru, a ad hafa af hønum Skadagiald.

2.

Dyrfiz nockur ad slaa nockra Mynt aan Koongs Leifes, edur i nockurn Maata ad falsa Koongsins Mynt, þaa a hann ad straffaz a Æru, Lyfe og Gootse.

3.

Enn verde annar Madur svikenn edur a taalar dregenn, og fær yvit=

